Herra Cand. theol. Fryde
vinsamlegt. Sigurðr Vigfús[son]

# SKÝRSLA

UM

# FORNGRIPASAFN ÍSLANDS

Í REYKJAVÍK.

I.

1863—1866.

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTUÐ HJÁ S. L. MÖLLER.

# SKÝRSLA

UM

# FORNGRIPASAFN ÍSLANDS

Í REYKJAVÍK.

I.

1863—1866.

---

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

---

KAUPMANNAHÖFN.

Prentuð hjá S. L. Möller.

1868.

# SKÝRSLA

UM

# FORNGRIPASAFN ÍSLANDS Í REYKJAVÍK.

## 1863—1866.

SIGURÐUR GUÐMUNDSSON

SAMDI.

---

Eptir að hin danska fornleifanefnd var stofnuð, snemma á þessari öld, og vísir til forngripasafns var kominn hjá Dönum, þá tók nefnd þessi brátt að hyggja til forngripa hèðan af Íslandi. Einkum hafði hún augastað á kirkjum, og útvegaði jafnvel stjórnarbrèf um að friða forngripi í kirkjum hèr á landi, svo að þeim yrði eigi glatað nè fargað nema til forngripasafnsins í Kaupmannahöfn[1], og var jafnframt skorað á Íslendínga, einkum klerka, að selja af hendi fornar leifar. Einstakir hinna greindari og betri manna þá á Íslandi gátu skilið það, að í forngripunum mundi vera andlegur fjársjóður fólginn, en þeir sáu þó engi önnur ráð til að bjarga þeim en að láta þá fara sömu leiðina, sem svo mörg ágæt handrit voru komin á undan, það er að segja til Kaupmannahafnar, og eigi allfáar fornleifar voru sendar til forngripasafnsins þar. Með því móti hafa eflaust margir ágætir gripir frelsazt frá eyðileggíngu, sem eru nú vel geymdir

---

[1]) Þrjú kansellibrèf 19. April 1817, prentuð í Lagasafni Íslands VII, 669—671; — umburðarbrèf fornleifanefndarinnar í Kaupmannahöfn sent stiptsyfirvöldunum á Íslandi 5. April 1817, sst. bls. 658—661.

í opinberu safni, sem menn eiga aðgáng að, en þó verða þeir eigi Íslendíngum eins að notum og æskilegt væri, vegna þess að vèr höfum enn enga skýrslu um, hversu margir eða hverir hlutir eru komnir frá Íslandi, eða hver tala er á þeim í safninu, eða hvernig á þeim stendur. Þar að auki voru helzt sendir þángað þeir gripir, er sízt var hætta búin, nefnilega frá kirkjunum. Færri voru þeir þó hèr á landi, er kunnu að meta fornmenjarnar, og þóttu þær of auðvirðilegar til að „forframast" með því að fara úr landi. Þessi andlega deyfð hefir orðið til að glata mörgum ágætum gripum[1], en eigi að síður eigum vèr þó henni að nokkru leyti að þakka, að enn eru eptir talsverðar fornleifar í landinu. Nokkru síðar fór mjög að fara í vöxt tala erlendra manna, er ferðuðust hèr um land, og ymsir þeirra hafa orðið fengsamari á fornleifunum en forngripasafnið í Kaupmannahöfn; hafa þeir margir hverir með ymsu móti snapað saman mörgum ágætum gripum, haft á burt með sèr, og látið þá í prívatsöfn eða einkasöfn sín, þar sem þeir liggja grafnir, og eru að eins einstökum mönnum til augnagamans, en vísindunum og Íslandi til einkis gagns. Mèr gat eigi annað en gramizt að sjá, hvernig fornmenjar vorar fækkuðu og hurfu árlega, bæði á þenna hátt og fyrir hirðuleysi einstakra manna, því öll sú aðferð, er menn almennt híngað til hafa haft með fornmenjar, miðar í raun og veru til hins sama, hvort heldur menn safna saman fornmenjum til að selja þær útlendum hverjum sem hafa vilja, sèr í hag, og það opt fyrir hálfvirði, eða menn smíða úr þeim, eða láta þær fúna og grotna niður í hirðuleysi, eða þá að menn hafa sömu aðferð og með bækurnar, að menn safna þeim einn og einn maður hèr og hvar út um landið, og þykjast hafa

---

[1]) Eg hefi t. a. m. skýrslur um hèrumbil tuttugu tjöld og undir 60 vopn, er glatazt hafa í minni þeirra manna, er nú lifa, eða litlu áður.

mætur á þeim, en sjá ekki um að þeim sè borgið; bera síðan erfíngjarnir þær optast á hauginn, eða selja þær útlendum, þegar hinir eru dauðir. En að safna því öllu á einn stað, og að láta þeim þar verða borgið, sú alþjóðlega hugmynd er enn ekki vöknuð nema hjá einstökum mönnum[1].

Til þess að koma í veg fyrir, að landið yrði þannig gjörrúið gersemum sínum, sá eg engin önnur ráð, en ef stofnsett yrði á ÍSLANDI sjálfu ÍSLENZKT FORNGRIPASAFN; en auðsèð var, að það var enginn hægðarleikur að koma slíku á. Íslendíngar eru optast tregir til að trúa fyr en þeir taka á, og það er varla ofsagt, að þeir vantreysta margir hverir alltof mjög kröptum sínum, svo að þó eg, eða einhver annar, hefði farið að boða evangelium slíks forngripasafns, mundu fáir hafa orðið til að ljá því eyru, meðan það hefði eigi orðið staðfest með sýnilegum stórmerkjum. Til þess því að geta komið slíku safni á þurfti fyrst að fá einhvern álitlegan vísi, er væri svo markverður, að allir skynsamir menn hlyti að sjá og skilja, að hugmyndin um íslenzkt forngripasafn væri eigi eintómur hugarburður. Nú bar svo vel í veiðar, að nálægt Baldursheimi við Mývatn fannst um sama leyti merkilegt dys frá heiðni. Fyrir meðalgaungu Jóns Sigurðssonar á Gautlöndum, alþíngismanns, fèkk eg skýrslu um fund þenna eptir Arngrím Gíslason bókbindara á Grænavatni, og fylgdu uppdrættir. Skýrslu þessa gaf eg með nokkrum athugasemdum út í þjóðólfi, (14. árs nr. 17—18 10/4 62), og í næsta blaði (s. á. nr. 19–20 24/4 62), kom eg fram með „Hugvekju til Íslendínga" útaf fundi þessum, og reyndi í henni til að leiða mönnum fyrir sjónir nauðsyn og nytsemi forngripasafns á Íslandi. Enn fremur brýndi eg þetta bæði munnlega og skriflega fyrir kunníngjum mínum og

[1]) Sjá nr. 245.

öðrum, sem eg hafði færi á. Til þess að leggja hyrníngarsteininn í þvílíkt safn varð fyrstur kandidat Helgi Sigurðsson á Jörva, núverandi sóknarprestur að Setbergi. Hann ritaði stiptsyfirvöldum Íslands til bréf 8. Januar 1863, og bauðst til að gefa fimtán gripi sem stofn til íslenzks forngripasafns, með því aðalskilyrði, að Stiptsyfirvöldin tæki að sèr umsjón safnsins. Þetta brèf er þannig látandi:

„Allir góðir Íslendíngar, sem hafa þekkíngu og ást á fornfræði og fornmenjum, munu vera á mínu máli um, að nauðsynlegt sè og fagurt að viðhalda þeim fáu fornmenjum, er enn kynnu að finnast í landinu, og munu þeir vera auðhvattir til að láta það ásannast í verkinu. En jafnframt má og gjöra ráð fyrir þeim mönnum, er skortir greinda þekkíngu, þótt þeir annars opt hafi góðan vilja. Margir þeirra eru meðal almúgamanna, og hafa opt, fremur en hinir, einstaka gamla hluti handa á millum, finna þá eða eignast við yms tækifæri. Um þá er nokkuð öðru máli að skipta, því hjá þeim geta opt gamlir hlutir liðið undir lok, sökum þekkíngarleysis, og veit eg þartil of mörg dæmi. Sökum þessa mundi máske ekki þykja úr vegi, að drepið væri lítið eitt á allsherjar-þýðíngu fornmenja, áður en ítarlegar yrði vakið máls á viðhaldi íslenzkra fornmenja.

Fornmenjarnar lýsa á sinn hátt, eins og fornsögurnar á sinn, fornöldunum, og leiða þær sem sýnilegar og áþreifanlegar fram fyrir sjónir manna; lýsa þær þannig, hver um sig, öld þeirri, er þær eiga að rekja aldur sinn og kyn til (t. d. steinvopn steinöldinni, koparvopn koparöldinni, járnvopn járnöldinni, og svo er um hverjar aðrar fornmenjar: allar þær lýsa aldar sinnar kunnáttu, smekk, hugsunarhætti o. s. frv.). Þær eru í svipuðu sambandi eða hlutfalli við fornsögurnar, sem mannamyndir eru við æfisögurnar, að því leyti þær ná til: bezti túlkur sagnanna, lýsa opt betur, en nokkur

saga getur, fornöldinni, eru hinar beztu, já stundum hinar einustu leiðarstjörnur sagnaritara, fræðimanna og listamanna, þar sem sögur og sagnir eru óljósari, ófullkomnari, óáreiðanlegri eða með öllu tapaðar, svo fornöldin er hulin sögulegri dimmu.

Sökum þessa og þvílíks, er eg ekki vil orðlengja í þetta sinn, hafa allar mentaðar þjóðir hinar mestu mætur á fornmenjunum, safna þeim hvaðan sem þær geta, raða þeim niður hjá sèr, samkvæmt aldri þeirra og öðrum einkennum, geyma þær svo mjög vandlega, og leggja opt og óspart mikið fè og fyrirhöfn í sölurnar. Jafnframt láta þær sèr annt um, með ritgjörðum og fleiru, að útbreiða meðal alþýðu sem greinilegasta þekkíngu á fornöld og fornmenjum. Fá þær þannig alla alþýðu í fylgi með sèr, og launa mönnum fornmenjar og önnur fornfræðastörf. Landstjórnin og heldri menn leggja og sitt fram. þetta sýna fornmenjasöfnin í öllum hinum heldri borgum Norðurálfunnar. þetta sýna fornfræðafèlögin, fornfræðaritin og störfin í hinum mentuðu ríkjunum. þannig geta þjóðirnar sjálfar sèð og sýnt öðrum fjarlægar og horfnar aldir (líkt og leikurinn hið mannlega líf), og einsog leidt þær fram úr gröfinni. Skapa þær sèr þannig mikið gagn og gaman, mikla frægð og aðsókn lista og vísindamanna; því fornmenjarnar eru hið sama fyrir listamanninn sem vísindamanninn, og sèrílagi sagnaritarann, því báðir þeir leiða í ljós fornaldirnar, hver á sinn hátt.

þó að allar fornmenjar hafi sitt gildi, hvaðan sem þær eru ættaðar, eru þó hverri þjóð gagnlegastar og kærastar þær hinar sömu, sem ættaðar eru fra fornöld hennar og gömlu þjóðerni; og því kærari eru, eða ættu þær að vera þjóðinni, sem hún hefir varðveitt meira af þessu gamla þjóðerni, og hvílir fremur við fornöldina, eins og t. d. Íslendíngar. Henni, þ. e. hverjum einum af henni, er og jafnskylt að gæta fornmenja sinna (er

hún á með fyllsta rètti) sem fornaldarsagna sinna og þjóðernis. Því sè þeirra ekki gætt, er að því vísu að gánga, að þjóðerni það, sem á þeim er byggt, verður á völtum fæti.

Að vísu er nú aðeins á styzta hátt drepið á ágæti fornmenjanna (er annars væri nóg efni í heila bók), og þær mætur, er mentaðar þjóðir hafa á þeim og eiga að hafa, ef þær vilja vera í tölu mentaðra þjóða; en eg hygg þó að það, sem þegar er á drepið, nægi þó til að sýna þeim, er lítils eða einkis meta fornmenjar, eða eru hirðulausir með þær, sökum þekkíngarleysis á ágæti þeirra, að verðugt sè, nauðsynlegt og fagurt, að sýna fornmenjunum hina mestu alúð með eptirtekt, hirðusemi og geymslu á þeim, og að enginn sè verðugri til að eignast þær hjá manni en föðurlandið; því eg gjöri ráð fyrir, að það hafi öflugan vilja til að eignast þær, vit og getu til að geyma þær og nota.

Af því eg hefi nú farið svo stuttlega yfir, að eg hefi orðið að sleppa mörgu — þótt eg voni, að slíkt þurfi ekki að valda misskilníngi — hefi eg og sleppt að geta þess, hverir hlutir að væru fornmenjar; því eg þóttist gánga að því vísu, að flestir vissu hvað almennt skilst við fornmenjar. Hirðuleysi á þeim áleit eg sjaldnast vera sprottið af þesskyns þekkíngarleysi, heldur einkum og optast af vanvizku á þýðíngu þeirra, þ. e. að hvaða gagni o. s. frv. þær væru. En væru nokkrir þeir, er ekki vissu hverir hlutir teldust til fornmenja, skal þess aðeins getið, að í þrengri merkíngu eru til fornmenja taldir allir talsvert eða mjög gamlir hlutir (svo sem einnar eða fleiri alda gamlir), hvers kyns sem vera kynnu, og úr hverju helzt sem þeir eru (járni, kopar, trè, steini, silfri, gulli o. s. frv.), einkum þeir, sem mannaverk eru á og hafa haft einhverja þýðíngu, eða verið hafðir til einhvers á sínum tíma. En einkum eru það hlutir þeir, sem fundizt hafa, eða geymzt, í jörð

eða á, frá fornöldinni, t. a. m. vopn, smíðar, föt eða vefnaður, skurðir, rúnir, rúnasteinar, forneskja og galdur o. s. frv. Hlutir þessir eru því fremur fornmenjar, sem þeir eru eldri og markverðari.

Eg vakti upphaflega máls á íslenzkum fornmenjum. En hvað er þá í stuttu máli um þær að segja? — Lítið, og að nokkru leyti ógeðfelt. þær eru nú fáar orðnar til í landinu, að því menn vita til, og veldur það því, að ymsar þeirra hafa verið látnar fara út úr landinu á ymsum tímum, til Dana eða annara útlendínga, fyrir lítið eða ekkert; sem og einnig það, að sumar af fornmenjunum hafa fyr eða síðar verið teknar til úrsmíðis, eða með annari ummyndun verið gjörðar óþekkjanlegar, og sem fornmenjar þýðíngarlausar, af sjálfum landsmönnum; í stuttu máli: þeim hefir verið tortýnt[1]. Og þá má nærri geta, að þeim hefir aldrei verið safnað í sjálfu landinu, nema, ef vera skyldi, lítið eitt hjá einstöku manni, og hefir það þá, að honum liðnum, optast tortýnzt eða farið víðs vegar, af því eigandinn ekki bar umhyggju fyrir viðhaldi þeirra eptir sinn dag, og þeir, sem þá hlutu þær, sýndu þeim litla eða enga alúð. Aptur eru dæmi til, að þó mörgum hafi verið laust í hendi með fornmenjar, af því þeim ekki gat hugkvæmzt hvað bezt væri að gjöra við þær, eða og möttu þær minna en vert var, þá hefir stöku manni þókt mjög vænt um þær, sem menjagripi frá fornöldinni, og því ekki viljað farga þeim, enda til þeirra manna, er líklegri voru, en hann, til þess að sjá þeim farborða. þó hefir sá hinn sami ekki hugsað um, að sjá þeim framvegis borgið, svo allt hefir borið að sama brunni. Á seinni tímum hafa að vísu margir metið

[1] Svona fór um spjót, er fannst í Grettisodda (þar sem Grettir barðist við Mýramenn); svona um klótið af sverði Snorra goða, og mart fleira.

mikils fornmenjar, og ekki viljað þær glötuðust, en þeir hafa ekki sèð neinn betri veg til að viðhalda þeim, en, eins og fyr var drepið á, að senda þær Dönum. þeir áttu að eiga þær og sjá um þær, eins og fleira. Nefndum mönnum, er þannig hafa þókzt sjá fornmenjunum bezt borgið, hefir þókt vanta góðan geymslustað fyrir þær í landinu; og þótt sumum ekki hafi þókt öll vandkvæði á því, hafa þeir haldið, að til lítils væri að fara að safna fáeinum fornmenjum, annaðhvort af því þeir hafa örvænt um, að fleiri mundu svo gjöra, eða þeir hafa ekki gætt þess, að mart smátt gjörir eitt stórt. Í stuttu máli: gamla skoðunin sýnist alltaf hafa verið ríkust sú, að íslenzkum fornmenjum væri bezt borgið hjá Dönum, og að hún hafi haldizt við, síðan Árni Magnússon safnaði og færði Dönum allar þær fornsögur og handrit, bæði á pappír og kálfskinni, er hann gat fest hendr á, um allt landið. En þó þessi skoðun væri rètt á dögum Árna Magnússonar, þegar mikið þekkíngar- og hirðuleysi á fornmenjum drottnaði, gat hún, að rèttu lagi, ekki átt við á seinni tímum, þegar margir í landinu voru farnir að hafa mætur á íslenzkum fornmenjum; því þá sýndist sem menn hefðu átt að fara að safna þessum fornmenjum fyrir í landinu, eptir því sem kraptarnir þartil uxu, þó það, eins og kunnugt er, ekki væri gjört.

því þótt mart af fornmenjum hafi glatazt, hefir þó til þessa nokkuð verið til af þeim í landinu. Og utan að þessu, sem til var eða er, var vegur að halda. En það hefir eins farið í þessu falli sem fleiru, að gamli vaninn er ríkur, og á opt lángt í land að breytast til batnaðar. Á þetta sèr ekki fremur stað í Íslandi en mörgum öðrum löndum. Og hafi nú þessu þannig verið varið á seinni tímum, eins og nú er vikið á, hvað íslenzkar fornmenjar áhrærir, er ekki að furða, þó minni alúð væri lögð við þær á fyrri tímum, og mart

af þeim hafi þá glatazt, eins og fyr er minnzt á. Því geta allir nærri, sem þeim tímum eru kunnugir. Og er mönnum það, einsog fleira á þeim tímum, virðandi til vorkunar, sökum þess að þá var þjóðarandinn orðinn svo mjög niðurkæfður og úrkynjaður, af öllum þeim hörmúngum, er dunið höfðu yfir landið öld eptir öld, vegna óheppilegrar stjórnar á landinu og annara landplága. Og þegar svona stóð á, var naumast ætlandi til að öðruvísi færi, eða að fornmenjarnar hefðu betri afdrif en svo mart annað ágætt. Hèr er að vísu stuttlega yfir sögu farið um afdrif íslenzkra fornmenja híngaðtil, en þó, að ætlan minni, svo mikið sem nauðsyn ber til; enda er það, sem hèr er sagt, meðfram og einkum sagt í því skyni, að ókunnugir menn, einkum útlendir ferðamenn, ekki þurfi að bregðast ókunnuglega við, þótt þeim bregðist von sín um, að sjá fjársjóð eða safn af fornmenjum í landinu, þótt þeir annars (þ. e. ef öðruvísi hefði verið ástatt), hefðu haft ástæður til að vænta þess í fornsögulandinu mikla.

Eins og það er geðfelt, að eiga fræga fornöld, eins er það ógeðfelt, að eiga ekkert fornmenjasafn, nè geta sýnt útlendum mönnum, er koma til að skoða okkar nafnkunna land, neitt þvílíkt. En eins er varið með þetta, einsog annað, er vèr ekki höfum getað öðlazt, að ekki tjáir þar um að fást, og ekki verður það aptur fengið, sem mist er til fulls. En úr mörgu má bæta, og svo má segja um þetta. Hèr og hvar á landinu eru enn til fornmenjar, ef vel er leitað, þó þær sèu, eins og við er að búast, mjög á sundrúngu. En enginn getur sagt, hvað þær sèu margar, eða hve markverðar, fyr en þeirra er leitað með alúð og þær geymdar vel og notaðar. Látum því ekki ásannast, að vèr lengur sèum hirðulausir með þær fáu fornmenjar, er sumir af oss enn kynnum hafa handa á milli, vita af eða finna. Höldum þeim saman og munum eptir

því, að mart smátt gjörir eitt stórt, að þetta fáa, ef saman kæmi í eitt, getur orðið mart, getur orðið að safni, er bæði væri þjóðlegt og í marga staði markvert. Hlynnum því af alefli að þessum dýrmæta fèsjóði. Reynum til að safna fornmenjum og koma saman á einn stað. Leggjumst á eitt í þessu, og hver leggi sitt til, af þeim er það geta, og láti í tè, þó ekki sè það nema einn forngripur eða fáir. Höfum því betri von um hluttekníng annara og aðstoð, sem áform þetta er nauðsynlegt og fagurt, og margir ágætismenn eru í landinu. Vitum og, að margir af alþýðu eru farnir að skilja í ágæti fornmenjanna, og meta þær, ef til vill, á við fornsögurnar, eins og þær líka eiga skilið, og væntum því, að þessir menn geti á sinn hátt, engu síður en mentuðu mennirnir á sinn, orðið hinir beztu aðstoðarmenn fyrirtækisins. Þess vegna er ósk mín og von til allra Íslendínga, er eg veit að sjá nauðsyn á íslenzku forngripasafni engu síður en eg, og óska þess af heilum hug: 1) að þeir komi inn hjá sem flestum, þar sem þess þarf, verðskuldaðri virðíng, þekkíng og ást á fornmenjum landsins; — 2) að þeir sèu í fyrirspurn um fornmenjar þessar, og nái til sín því af þeim, sem unnt er, til þess að frelsa allt þvílíkt frá mögulegri glötun. — 3) að þeir verði samtaka í og samráða um, að safna öllum þessum fornu hlutum (eða myndum, uppdráttum og lýsíngum af þeim hlutum, er ekki yrði safnað) svo fljótt, sem auðið er, saman á einn stað í landinu, og þannig leitast við að landið geti eignazt íslenzkt fornmenjasafn. Þetta safn, svo lítið eða mikið sem það yrði, ætti að vera á helzta stað í landinu og í einu lagi. Og staður þessi er, að ætlun minni, sjálfsagt Reykjavík, og ber einkum tvennt til þess: 1. Þángað koma flestir, bæði inn- og útlendir menn, til þess að sjá safnið eða hafa gagn af því. — 2. Þar fæst að líkindum bezti geymslustaður fyrir þvílíkt safn, einkum

þegar hið nýja bókhlöðuhús yrði þar fullgjört. Ættu þá stiptsyfirvöldin og bókavörður stiptsbókasafnsins (eða, ef betur þætti við eiga, annaðhvort í bráð, eða vegna breyttra kríngumstæða, 2—3 af skólakennurunum) að hafa jafnt umsjón yfir þeim sem bókunum. En það segir sig sjálft, að ekki mætti ljá út neitt af fornmenjunum, enda mun það hvergi gjört, þar sem slík söfn eru. En þetta á heima meðal ákvarðana um geymslu á safninu.

Nýnefnd ósk mín er sprottin af laungun minni og vilja að hlynna að fornmenjum okkar. Og af því eg hefi jafnan haft mætur á þeim, og verið í fyrirspurn um þær, hefir mèr tekizt að eignast fáeina þesskyns hluti, er eg, samkvæmt tilgángi greina þessara, skal nánara skýra frá, svo þeir sýni, hvaða árángur orðið hefir af viðleitni minni. En ekki getur verið ætlan mín, að þessu sinni, að skipta hlutum þessum í flokka, eptir aldri þeirra eða gildi — því til þess þurfti ítarlegri rannsókn, en hèr er rúm eða tími til — heldur ætla eg fyrst að geta þeirra, sem eru úr trè eða horni, og því næst þeirra, sem eru úr málmi, og seinast tveggja (pergamenta eða) kálfskinnsblaða, og loksins kvers með forneskju á. Hlutirnir eru þá þessir:

1. Stokkur, skorinn með svo kölluðu höfðaletri; og er á hliðum hans nafnið: Steinvör Sveinsdóttir; á botninum ártalið með rómversku letri: ANNO MDCXCIV, og í línu þar undir: ÞANN XXXI MARTI. Á lokinu er bara forn skurður. Stokkur þessi er einn af gömlu spónastokkunum og smíðaður handa nefndri konu (óvíst hverri)[1]. Eru því endar hans kringlóttir útskotnir (fyrir spónablöðin). Útúr endum þessum er með skurði myndað fyrir drekahöfðum (uppáhaldsmyndum fornaldar-

[1]) Steinvör dóttir sira Sveins á Barði átti Ólaf sýslumann Einarsson í Skaptafells sýslu; hún andaðist 1716. Espól. Árb. IX, 32. J. S.

innar), og sèst þar mótað fyrir tönnum og augum. Stokknum hefir verið skipt sundur í miðju að innan, og er því lokið í tvennu lagi, og leikur hvert þeirra fyrir sig á ási úr bólu til beggja enda. Þegar eg eignaðist stokkinn, er mun verið hafa eign forfeðra minna í Vogi, var annar endinn og annað lokið fúið af honum. En eg setti þetta hvorttveggja á, í líking hins endans. Gamla fólkið, helzt ríkisfólk, hafði þvílíka stokka til að geyma í spæni sína, er það átti mikið af og hafði handa gestum. En spónaeignin hefir mjög staðið í hlutfalli við nautafjölda í landinu, sem miklu meiri var á fyrri öldum en seinna.

2. Lítill kistill, allur með gömlum skurði, og ártalinu 1771 innanvert á lokinu. Fyrir honum er trèfluga með fornum svip. Hjörur hans og læsíng er sjálfsagt ýngra en kistillinn. Slíkir kistlar, allir útskornir, voru pallkistlar gamla kvennfólksins, á þeim tímum, sem venja var að skera út allt, sem fagurt átti að vera.

3. Trafakefli. Er skurðurinn á því með allt öðrum svip, og líkum þeim, er sjá hefir mátt á öðru, einkum gömlum lárum. Kefli þetta eignaðist eg eptir móður mína, Guðrúnu Þorkelsdóttur, og hún eptir móður sína, Guðrúnu Þórðardóttur frá Stóra Kálfalæk. Slíkum keflum fylgdi sívalt kefli, nálega eins lángt, og var það haft til að vefja uppá nýþvegin tröf, sem síðan voru slèttuð á þann hátt, að velta sívala keflinu, með trafinu um, á slèttu borði, með flata keflinu, er optast hafði handfáng (stundum þó eins og trèhöldu upp úr sèr) á endanum, eins og það sem hèr ræðir um.

4. Leifar af mjög gömlu sverði. Blaðið er nú að lengd 11 þumlúngar. En þá er það fannst, loddi framanvert við það hèrum 6 þumlúnga lángur partur, ryðbrunninn, og vart samanhángandi. Var partur sá ekki hirtur (þó það hefði átt að vera). Skaptið er laungu fúið af,

svo ekki er annað eptir en sverðtánginn, er verið hefir furðu gildur, eins og blaðið hefir líka verið ærið þykkt. Um hjöltun er járnlykkja, mjög eydd af ryði. Framan af sverðinu vantar auðsjáanlega meira en blóðrefilinn. Af litlu broti í sverðinu hefi eg komizt að, að í því er stórgert, bjart bitjárn. Sverð þetta fannst hèrumbil fyrir 20 árum fram undan bænum á Álptanesi á Mýrum, niður við sjó. Hafði vogurinn, er þángað gengur inn, veturinn á undan brotið úr bakkanum fram undan bænum, svo þar sást á sverðið. Á þessum bakka fremst, og enda þar sem hann nú er brotinn af, hefir bærinn fyrrum staðið, en seinna verið smáfærður upp frá vognum, eptir sem hann hefir brotið framan úr bakkanum. Þetta sanna sagnir og minni gamalla manna. Eptir þessum málavöxtum hefir sverðið, er verið hefir mikið vopn, líklega fallið niður í gamlar bæjarmoldir, eða máske verið falið þar, fyrir mörgum öldum. Af sterkleika sverðsins má og ráða, að það muni vera mjög gamalt, líklega ekki ýngra en frá landnámstíð, eða landsins gullöld.

5. Tigilknífur; og er skaptið úr kopar, með gati á fyrir tigilinn. Á því eru upphleyptar myndir karls og konu, talsvert máðar; þó sèst glöggt til hjálms á höfði hans, sverðs, er hann hefir í beltinu, og til fatanna á báðum þeim; er limaburður þeirra og staða ekki ólík því, sem þau væri að stíga vikivaka. Blaðið á knífi þessum er frá seinni tímum. Skaptið fannst fjarri mannabygðum; var því síðan komið til Konráðs, bróður Gísla fornfræðings Konráðssonar. Konráð var vinur sira Brynjúlfs Bjarnasonar, er fyrrum var prestur í Miklaholti, og gaf honum skaptið, af því hann vissi að hann unni fornmenjum. Á seinustu árum sínum gaf sira Brynjúlfur mèr greint skapt. Það er geymt í stokk þeim, er fyrst var talinn. Þar er og geymt:

6. Koparlykill, er átt hefir að svo kallaðri trölla-

læsíngu; er hann því skegglaus, eins og slíkir lyklar voru, og hefir pípan, sem að utan er sívöl, en að innan með þríhyrndu holi, gengið utan um þrístrendan stand, sem hak hefir verið á neðan til, til að hræra læsíngarjárnið. Sökum þess, hvað læsíng þessi var einföld, en ekki hægt að komast í hana, nema með lykli, er átti við standinn, hefir hún, að líkindum, verið kölluð tröllalæsíng; sèst slík læsíng nú óvíða.

7. Lyklahríngur, eða sylgja, er gamla fólkið hnýtti lyklum sínum við, af því ekkert op er á honum. Innan í honum eru stafirnir Jhs (= Jesus). Munu því sylgjur þessar, er ekki sjást nú víða, vera frá kristnum tímum. Móðir mín gaf mèr sylgjuna, og

8. Stíl úr kopar. Er hann frammjór, en ofantil áttstrendur með gati á, til að festa hann við sig eða við sylgjuna. Stíll þessi var hafður til að benda á stafi, þegar börn voru látin stafa. Stílar þessir eru víðast hvar undir lok liðnir.

9. Leifar af litlum tigilkníf, sem verið hefir einjárnúngur, með snúnum röndum á skaptinu, og eru þær mjög ryðbrunnar. Framan af blaðinu brotnaði af slysum, þá knífurinn fannst; sá eg þá í brotið, og sá, að í knífnum er smágert stál.

10. Kopardoppa aptan af knífskapti. Hinir aðrir partar knífsins, sem verið höfðu úr járni, duttu sundur af ryði, þegar við knífnum var hrært. Þetta hvorttveggja (9. og 10.) fannst, þá eg lèt ryðja til jarðeplagarðs hjá mèr vorið 1862.

11. Reiðgjarðarhríngjur, sem kallaðar hafa verið Bollahríngjur eptir gömlum munnmælum, og kenndar eru við Bolla, er drap Kjartan Ólafsson. Er mælt þær hafi verið reiðgjarðarhríngjur Bolla. Þetta er og ekki ósennilegt, og víst sýnist það, að hríngjurnar sèu frá eldri tímum, eptir því sem ráða má af smíði og lögun þeirra, og einkum af því, hvað þær eru kopar-

miklar, því þær jafnast, að því til, á við tvennar samkyns hríngjur nú á dögum, þótt orðnar sèu talsvert máðar. þær eru komnar sunnan úr Borgarfirði með Árna Jónssyni, er varð mjög gamall maður og bjó á Borg í Miklaholtshrepp, og voru þær lengi söðulhríngjur Guðríðar konu hans. Hann vísaði mèr að þeim hjá tengdasyni sínum Jóni, og hjá honum fèkk eg þær. Árni var margfróður maður, og sagði mèr hvað gamlir menn hefðu sagt um uppruna hríngjanna. Hann sagði mèr og, að til hefðu verið á ýngri árum sínum í Borgarfirði aðrar svipaðar hríngjur, er kenndar hefðu verið við Kjartan Ólafsson, en vissi ekki hvað af væri orðið; enda hefi eg ekki getað til þeirra spurt.

12. Gamalt drykkjarhorn, allt út grafið, með trèbotni og tinstút. Á því er mynd af tóu og flattri örn, og utanum það í hríng er lína með höfðaletri og í henni orð þessi: „drekktu varleg(a)". Aldraður maður, er lengi hafði átt það, gaf mèr það, og kvaðst ekki vita aldur þess, en sá, er sèr hefði fengið, hefði sagt sèr, að sá botn, er fyrr hefði verið í því, hefði verið orðinn fúinn af elli, svo nýr hefði verið í látinn, og þá hefði færzt upp á hornið. Af þessu, og einkum því, hvað máð hornið er, sem að líkindum ekki hefir opt mætt sliti, má ráða, að það sè allgamalt.

13. Kálfskinnsblað, með pápiskum latínusaung á annars vegar, og saungnótum yfir hverri línu. Línurnar með mjög vönduðu letri, en daufu og lítt læsilegu, eru þrettán, og nóturnar, sem sumar hverjar eru að mestu burt máðar, jafnmargar. þegar eg eignaðist það voru inn í það fest ómarkverð blöð. Gat eg þá ekkert frètt um uppruna þess, nema að það áður hefði verið á flækíngi.

14. Partur af kálfskinnsblaði, er sýnist hafa verið kaupmála- eða samníngsbrèf, dags. 22. Novemberm. 1594, að Skálholti í Biskupstúngum. Blaðið er dauft aflestrar, einkum seinni hlutinn.

15. Forneskja og galdur á 19 blöðum í 8 blaða broti. Eru þar, á meðal annars, ymsar stefnur og særíngar (tóustefnur o. fl.), eignaðar Sæmundi fróða, Gísla lærða í Melrakkadal og Þórði á Strjúgi. Þar á eru og: syrpuvers, lásavers, ýmisleg galdradæmi (og eru aðalatriðin þar með villuletri), og sum þeirra með tilheyrandi stöfum, mjög margbrotnum, er heita ymsum nöfnum. Seinast koma svo nefndir varnarstafir (verndar- og heillastafir) allra stafa mestir og margbrotnastir, með ymsum nöfnum, svo sem: Himinsbarnahjálmur, Drottníngarsignet, Gimsteinn Jónasar, Móisesstafur, Orionsauga, Prófetaprýði, Sólarvagn, Veldisvagn, Karlamagnúsarinnsigli, Móisesinnsigli, Salómonsinnsigli, Baldursinnsigli. Kver þetta er sýnishorn af galdri og forneskju fornaldarinnar, bæði á Íslandi og í öðrum löndum. Það er svo undir komið, að maður nokkur lèði mèr nokkur lausablöð, með forneskju þeirri á, er nú var nefnd; áskildi hann, að eg dyldi nafn sitt í því tilliti. Hafði hann skrifað upp nefnd blöð á ýngri árum, þá er hann rèri fyrir vestan Jökul. Af blöðum þessum skrifaði eg upp það sem er í kverinu.

Um leið og eg hefi talið upp hluti þessa, hefir mèr þótt eiga við að drepa á hið helzta, er eg vissi um uppruna þeirra, sögu, tilgáng og ásigkomulag; geng eg að því vísu, að þeir, sem unna fornmenjum, muni taka það vel upp fyrir mèr.

Þess skal og getið, að nefnda hluti hefi eg eignazt smátt og smátt, á þremur fyrstu árunum eptir að eg kom frá Kaupmannahöfn, nema hlutina 9. og 10. Síðan hefi eg ekki getað spurt til eða eignazt neitt af slíkum hlutum, þótt eg jafnan haldi spurnum þar um, og sýnir það, að hèr nærlendis ekki er orðið um auðugan garð að gresja.

Sökum þess, að eg hèr að framan hefi hvatt landa mína — og það með gildum rökum, að ætlan minni,

— til að hlynna að íslenzkum fornmenjum og safna þeim á einn stað í landinu, mætti með sanngirni ætlast til, að eg lèti ekki lenda við orðin tóm, heldur leggi minn skerf til þvílíks safns. En af mèr, eins og hverjum einstökum, verður ekki með sanngirni ætlazt til mikils í þessu efni, heldur að eg leggi mitt fram, eins og allir eiga að gjöra, er vilja ávinna landinu nokkurt gagn og sóma með ymsum fornmenjum. Sökum þessa gef eg Íslandi framantalda hluti, fimtán að tölu, og ætlast til og óska, að þeir verði fyrsti vísir til safns íslenzkra fornmenja. Vona eg jafnframt, að margir verði fúsir á að styrkja þenna vísi, og sèu þess minnugir, að kornið fyllir mælirinn.

Á þessari litlu gjöf skal eg standa svo fljót skil, sem unnt er, eptir að eg hefi fengið vissu frá þeim ágætismönnum, er eg fel gjöfina á hendur til beztu umsjónar, um, að þeir vili um gjöfina annast, samkvæmt þeim ákvörðunum, er eg nú gjöri um hana, eða máske seinna gjöri eptir nánara samkomulagi við hina heiðruðu hlutaðeigendur. Þær ákvarðanir, er eg nú gjöri fyrir gjöfinni, eru þessar:

1. Gjöfin (íslenzkar fornmenjar fimtán að tölu) skal vera undir umsjón stiptsyfirvalda Íslands, og geymast útaf sèr (helzt í skáp með loki fyrir) í sama húsi sem stiptsbókasafnið, og vera undir geymslu bókavarðarins.

2. Geymlumaður (bókavörður) skal rita hina gefnu hluti í kver, sem umsjónarmenn (stiptsyfirvöldin) ákvarða þar til með áskript sinni á það. Þar skal og getið, hvernig gjöfin sè til komin.

3. Nefnda hluti skal ekki ljá neinum manni, í neinu skyni, burt af geymslustaðnum, og því síður farga, heldur skal geyma þá þar sem vandlegast.

4. En öllum skal gefast kostur á að sjá nefnda hluti, jafnt útlendum mönnum sem innlendum, á þeim

tímum, er umsjónarmönnum og geymslumanni þykir bezt henta. Þeim sem vilja draga upp hlutina, mæla þá eða nota, án þess þeir þar við skemmist, skal þar til gefast kostur á sjálfum geymslustaðnum.

5. Samkvæmt tilgángi gjafarinnar skal bæta við hana gjöfum þeim, er koma kynnu frá öðrum, og fara með á sama eða líkan hátt.

Þær og nöfn gjafaranna skyldi auglýsa á prenti, og jafnframt mælast til af mönnum slíkra gjafa.[1]

Jörva, 8. d. Januarmánaðar 1863.

*Helgi Sigurðsson.*"

Stiptsyfirvöldin gjörðu góðan róm að þessu máli, og skipuðu Jón Árnason, bókavörð stiptsbókasafnsins, forstöðumann fyrir fornmenjasafni þessu, eptir fyrirmælum Helga; rituðu þeir Jóni brèf um þetta 24. Februar 1863, þannig látanda:

„Þèr hafið í brèfi af dags dato skýrt oss frá, að Candid. philosophiæ Helgi Sigurðsson á Jörva hafi sent yður ritgjörð, sem hann ætlist til að prentuð verði í blöðunum, um þá nauðsyn, sem á því sè að safna íslenzkum fornmenjum saman á einn stað í landinu, helzt í Reykjavík, og skori hann í tèðri ritgjörð á landsmenn í því skyni; en næst því, að lýsa nauðsyn þessari, teli hann nokkrar fornmenjar, fimtán að tölu, sem hann eigi, og gefi þær jafnframt Íslandi, sem fyrsta vísi til safns af íslenzkum fornmenjum í landinu sjálfu, er geymist undir yfirumsjón stiptsyfirvaldanna í húsrúmi stiptsbókasafnsins, undir tilsjón bókavarðarins, eptir þeim ákvörðunum, sem hann hefir til bráðabirgðar tiltekið fyrir geymslu þeirra í niðurlagi ritgjörðarinnar; tjáið þèr, hann hafi lofað að standa skil á ofangreindum fimtán gripum hið fyrsta, eptir það hann hafi

[1]) Brèf þetta er prentað í „Íslendíngi" III, nr. 20 (3/3 1863).

fengið vissu fyrir því frá stiptsyfirvöldunum, að þau vili taka að sèr að annast gjöfina, samkvæmt þeim af honum tilteknu ákvörðunum. Loksins hafið þèr vænzt þess, að gjöfin muni, þegar fram líða stundir og safnið eflist, verða landinu bæði til sóma og gagns, og þess vegna vonast eptir, að stiptsyfirvöldin mundu taka vel boði þessu.

þar sem vèr nú hljótum að vera á einu máli með gjafaranum, herra Cand. Helga Sigurðssyni, um nauðsyn þá, sem á því er, að halda saman þeim fáu forngripum, sem eptir eru hèr á landi, og teljum það auðsætt, að sá einasti vegur til þessa sè, að safna þeim saman á einn stað í landinu sjálfu, og að Reykjavík, margra hluta vegna, sè staður sá, er bezt sè til þess kjörinn, skulum vèr, með því herra Helgi Sigurðsson hefir snúið sèr til yðar um þetta mál, er einnig varðar yður sem bókavörð stiptsbókasafnsins, biðja yður að votta honum virðíngu vora og viðurkenníngu um þá ættjarðar- og fornaldar-ást, sem lætur sig í ljósi hjá honum í þessu hans hrósverða fyrirtæki, og viljum vèr enganveginn skorast undan að takast á hendur þá yfirumsjón með safni þessu, sem hann hefir ætlazt til af oss, eins og vèr líka vonum þess af yður, að þèr góðfúslega vilið taka að yður tilsjónina með safninu og hlynna að því með yðar alþekktu alúð og nákvæmni.

Íslands stiptamtshúsi og skrifstofu biskups,
24. Februarmán. 1863.

*Th. Jonasson* *H. G. Thordersen*".
cst.

Sá dagur, sem brèf stiptsyfirvaldanna er ritað og þegar var getið, 24. Februar 1863, má heita afmælisdagur hins íslenzka forngripasafns, því að samkvæmt gjafabrèfi Helga urðu þessir fimtán gripir þá

landsins eign, um leið og stiptsyfirvöldin tókust á hendur yfirumsjón safnsins. — Jón Árnason vildi þó eigi einn takast á hendur forstjórn og umönnun safnsins, og beiddi þess í brèfi til stiptsyfirvaldanna 15. Juli s. á., er hinir fyrstu gripir komu til safnsins, að eg væri einnig skipaður umsjónarmaður þess, jafnframt og hann beiddi um, að veittir yrði 20 rd. til bráðabirgða til skápa handa safninu. Í brèfi 24. Juli til Jóns Árnasonar samþykktu stiptsyfirvöldin báðar þessar uppástúngur hans, og í brèfi sama dag fálu þau mèr á hendur umsjón safnsins með honum; tókst eg það á hendur með brèfi til þeirra 5. August 1863[1], og síðan hefi eg haft þá arðlitlu sýslu á hendi. Það fyrsta, sem kom híngað til forngripasafnsins, var Baldursheimsfundurinn, er Jón á Gautlöndum útvegaði því, og afhendi hann gjöfina 15. Juli 1863. Frumgjöf Helga á Jörva kom eigi til safnsins fyr en í Augustmánuði s. á.

Það fór sem mig varði (sbr. Hugvekju mína í Þjóðólfi XIV, nr. 19—20), að þegar vísir væri kominn til safnsins, mundi það sannast, að hvorki væri landið enn

---

1) Brèf stiptsyfirvaldanna (Th. Jónasson — H. G. Thordersen) 24. Juli 1863 til málara Sigurðar Guðmundssonar, að þeir biðja hann, eptir tilmælum Jóns Árnasonar amanuensis, „að takast á hendur ásamt honum (Jóni Árnasyni) umsjón með forngripasafni því, sem nú er að stofnast hèr í bænum, með gjöfum Cand. Helga Sigurðssonar á Jörva og alþíngismanns Jóns Sigurðssonar á Gautlöndum". Stiptsyfirvöldin segjast snúa sèr til Sigurðar, „þar sem þèr (Sigurður) manna bezt vitið deili á, hvernig slíkum forngripum bezt sè komið fyrir", og segjast vænta „yðar (Sigurðar) góðfúslegu undirtekta, því fremur, sem oss er kunnur sá áhugi, sem þèr hafið á því, að slíkt forngripasafn, sem hèr ræðir um, geti komizt upp hèr í landi". — Í svari sínu 5. August 1863 til stiptsyfirvaldanna segir Sigurður: „eg tjái mig fúsan til að takast á hendur meðumsjón þessa safns, og hlynna að því eptir mætti". J. S.

orðið fornmenjalaust, enda mundi safninu vekjast upp styrktarmenn eigi allfáir, og sèst það bezt á gjafaskýrslunni. Árið 1863 gáfust 42 gripir, og gefendur voru 9. Árið 1864 gáfust 152 gripir, og gefendurnir voru 62; höfðu 3 þeirra gefið áður. Árið 1865 gáfust 110 gripir, og voru þeir 62 er gáfu, meðal þeirra 49, er eigi höfðu áður gefið. Árið 1866 gáfust að eins 56 gripir, voru þá 25 gefendur, og höfðu 5 þeirra áður gefið. Þetta árið (1867) hafa þegar (til 28. Juli) gefizt 52 gripir, en gefendur eru 27 að tölu og 23 þeirra nýir. Alls hafa gefizt eða safnazt (að eins 5 gripir hafa verið keyptir) 412 gripir, en gefendur eru alls 158, og þeir allir á Íslandi nema einn (nr. 37—38). Skýrsla þessi sýnir alls eigi tölu þeirra manna, er hafa unnað og unna safninu, því að þeir eru miklu fleiri. Sumir hafa heitið gjöfum, sem enn hefir eigi náðzt til, og ymsir hafa reynt til að styðja það á annan veg, enda eru eigi forngripir í hvers manns höndum, þó að talsvert sè enn til af þeim út um landið, og það eru eflaust mjög margir fleiri, en eg get vitað af, sem farnir eru að skilja, hversu dýrmætar fornleifarnar eru til að upplýsa sögu lands vors í mörgum greinum, og kannast við, að þær sè betur komnar í safni sèr en víðs vegar út um landið, þar sem nær því allt hjálpast til að spilla þeim og glata. Menn hafa því mestu ástæðu til að vona, að safnið muni framvegis eflast og auðgast af góðum gripum, enda eru öll líkindi til, að mart muni enn finnast í jörðu, því að fá dys hafa enn verið könnuð, og þó að engi fornmenjavon sè í allmörgum hólum, er sögur hafa skapazt um í þjóðtrúnni (nr. 83), þá veit eg af hèrumbil 70—80 dysjum víðs vegar, sem líklegt er að sè áreiðanlega forndys. Forngripasafnið mun engu síður eiga sèr vini meðal kvenna en karla. Reyndar sjást fá kvennanöfn á gefendaskránni, eða einúngis 20 (5 árið 1864, 7 árið 1865, 4 árið 1866 og 4 það sem af er árinu 1867), en þess

fleiri kvennanöfn. eða fángamörk þeirra standa á gripunum, sem gefizt hafa, og mjög margir þeirra eru einmitt úr vörzlum og eigu kvennfólksins, svo sem allt, er að kvennbúnaði lýtur, útsaumar, öskjur, kistlar, trafakefli, brauðstílar, o. s. frv., enda hafa konur hèr á landi frá því í fornöld og fram á þenna dag jafnan unnað fornum fróðleik og við haldið honum. Vèr höfum sögur um ymsar fræðikonur frá eldri tímum, og margur verður enn að játa, að hann hafi margan þesskonar fróðleik numið af konum, enda sýnir safnið það ljóslega, að konur nú standa eigi á baki ættmæðrum sínum, hvað það snertir, og fyrir safnsins hönd eiga þær í raun og veru engu síður þakkir skilið en karlmennirnir.

Safn þetta hefir ýmist verið kallað fornmenjasafn, forngripasafn, eða fornmenja og þjóðgripasafn. Nafnið FORNGRIPASAFN er hið algengasta bæði í ræðu og riti, og svo má það einnig vel heita, því þó að sumir munir þess sè eigi mjög gamlir að áratölu, nefnilega frá átjándu öldinni, þá mega þeir þó heita forngripir, með því þeir eru úreltir og farnir að verða sjaldgæfir og hafa meira eða minna fornaldarsvip á sèr. Þó að hin eiginlega fornöld hèr á landi eigi geti talizt lengur en fram að 1400, þá má þó með sanni segja, að fornöld vor í mörgum greinum nái fram undir 1800. Þá var umturnað hinum fornu stofnunum, er bundu menn með helgum böndum við fornöldina: alþíngi, stólunum, skólunum o. s. fr., og fjarskaleg breytíng varð á öllu hinu borgaralega, kirkjulega, heimilislega og andlega lífi; hin nýja öld, er þá rann upp, er svo ólík hinni fyrri, að gamlir menn, sem þá lifðu og enn lifa, þekkja varla af öðru en náttúrunni, sem ávallt er sjálfri sèr lík, að þetta sè sama landið. Forngripasafnið hefi eg, eptir því sem faung eru á og rúm hefir leyft, flokkað í fernt, eptir þeim fjórum aðaltímabilum, er mèr virðist þjóðháttasaga Íslands helzt falla eptir. Fyrsta tímabilið tel eg frá

byggíngu Íslands og þar til er kristni er orðin rótgróin í landinu og biskupsstóll settur, eða **frá 874 til 1060.** Þó að landið kristnaðist um 1000, og þá hafi eflaust lagzt af að heygja menn að fornum sið, svo að heiðin dys, sem finnast, megi teljast fyrir þann tíma, þá hafa þó eflaust verið talsverðar menjar heiðninnar fram eptir elleftu öldinni, meðan þeir menn lifðu, er skírðust roskuir, og meðan yfirstjórn kirkjunnar eigi var í landinu sjálfu, enda hafði kristnin þá lítið aðhald frá Noregi, nema að eins á dögum Ólafs helga (1014—30), og þykir mèr því rèttast að miða síðara takmark hins heiðínglega tímabils við hèrumbil 1060. Annað tímabilið tel eg **frá 1060 til 1400.** Framan af því tímabili, til 1264 eða 1300, er kristnin ávallt að magnast. Katólsk hindurvitni taka og smásaman að smeygja sèr inn, einkum með Guðmundi góða, en þau verða íþróttinni til eflíngar, og kirknaskraut fer vaxandi. Múnkaletrið burtrýmir algjörlega að kalla hinum fornu rúnum. Suðurgaungur, sem hafizt höfðu skömmu eptir 1000, sem t. a. m. má sjá á því, að Brennu-Flosi gekk suður, voru nú alltíðar; Rómferlarnir og aðrir suðurgaungumenn fluttu aptur heim með sèr suðræna mentun; þá tók hinn heiðni útskurða andi, með orma og dreka hnútum, að víkja fyrir hinu býsanzka lagi, eða stíl, sem síðan varð hèr nærþví eingaungu drottnandi í öllum innlendum útskurðum. Íslendíngar stóðu þannig í fjörugu sambandi við allan hinn mentaða heim, og gátu því svo vel fylgt tímanum, eða urðu enda að sumu leyti undan sínum tíma. Verzlan þeirra var þá og óbundin. Að líkindum hefir háttbreytíng sú, er varð í Noregi á dögum Ólafs kyrra, lítið náð til Íslands um þær mundir, því að það sjá menn á Sturlúngu, að hin gamla öndvegisskipan hefir verið vanaleg hèr fram undir 1300, og til verulegrar nýbreytni í búníngum þekkja menn eigi heldur fyrir þann tíma. Á síðara bluta þessa tímabils verður talsverð breytíng á ymsum háttum

manna. þegar landið var komið undir vald Noregs konúngs, þá kemur upp riddaraöldin; skjaldarmerki taka að tíðkast og fleira, sem heyrði til riddara siðum, sem sjá má af riddarasögunum, því eflaust eru margir partar í þeim al-íslenzkir, sem sýna, að Íslendíngar hafa borið fullt skyn á þesshåttar hluti. Eldaskálar leggjast af, en ofnstofur og ofnbaðstofur taka að koma í þeirra stað. Húsin á bæjum fjölga, en mínka. Verzlun Íslendínga, sem þá varð að mestu einskorðuð við Björgyn, þar sem Hansakaupmenn einkum ráku verzlun, hefir eflaust haft talsverð áhrif á háttu manna á Íslandi, og greidt fyrir breytíngu þeirri, er varð á um aldamótin 1400. Um þau aldamót var Ísland fyrir stundu komið undir Dana konúng, en þá tóku þjóðverjar og Englendíngar að reka hèr verzlan nær því eingaungu, og varð þá algjör breytíng á klæðabúnaði karlmanna, vopnabúnaði og ymsum öðrum heimilisháttum. Svarti dauði, er geysaði hèr í byrjun fimtándu aldarinnar, hefir eflaust gjört þeim nýjúngum greiðari inngaungu, því gamla fólkið, sem jafnast er fastheldnast við hið gamla, hefir þá mart fallið. — þá tel eg byrja hið þriðja tímabil í þjóðháttasögu Íslands, og nær það fram að siðabótinni, eða **frá 1400 til 1550**; þá lagast að mörgu hættir landsmanna eptir því, sem tíðkaðist fyrir vestan haf og á þjóðverjalandi, og allt kirknaskraut er þá í blóma sínum. þá ruddi sèr nokkuð til rúms hið gotneska útskurðarlag, en aldrei varð það hèr þjóðlegt nè almennt. Siðabótin, sem Danir ruddu hèr veg fyrir með ofbeldi, varð að mörgu leyti að hinu mesta siðaspelli hèr á landi. Við hana kom kyrkíngur í allt hið þjóðlega líf. Íþróttin, er áður hafði töluvert blómgazt í skauti katólsku kirkjunnar, lagðist að mestu leyti í dá. Danir umturnuðu og rændu mörgu mesta og bezta skrauti kirknanna, og sýndu frábæra atorku í að afmá menjar íþróttarinnar. þessum siðabótar ránskap og kirknaspelli, og öðru aldarfaraldri, sem því var samfara,

er mjögsvo hreinskilnislega lýst í „Aldasaung", er Bjarni Jónsson skáldi kvað nær sjötugur, hèrumbil 1616. Lýsíng hans mun vera nokkurnveginn sönn, því þó að hann kunni að vera nokkuð katólskur í anda, þá dregur hann engar dulur á, að „mart ljótt" hafi átt sèr stað í hinum gamla sið, og eins kannast hann við „fagra kenníngu" í hinum nýja sið. þessi fjögur erindi eru í kvæði hans:

„Allt hafði annan róm
áður í páfadóm:
kærleikur manna' á milli —
mart fór þá vel með snilli —
Ísland fèkk lofið lengi
ljótt þó hèr mart fram gengi.

Kirkjur og heilög hús
hver vildi byggja fús
gáfu til gózið hreina,
grafnar bríkur og steina;
klerkar saltara súngu,
sveinar og piltar úngu.

Allt skrif og ornament
er nú hið gamla brennt,
bílæti Kristí brotin,
blöð og líkneski rotin,
klukkur kólflausar standa,
kenníng þó fögur að vanda.

Hækkuð er tolla tekt,
tvöföld þar lögð við sekt;
hús drottins hrörna og falla,
hrein þó sum standi varla;
klauftroðnar kúa beitir
kristinna manna reitir".

þessar fáu en gagnorðu vísur sýna, að næg ástæða er til að telja tímabila skipti í sögu íþróttarinnar frá siðabótinni, og eins er það í öðrum greinum þjóðháttasögunnar. Fyrir 1550 voru byssur og fallbyssur farnar að flytjast inn í landið, og þess er getið um Jón biskup Arason, að hann gjörði „skanz" eða vígi á Hólum og hafði þar „byssur og stykki"[1], en nú tók vopnaburður að leggjast niður, og öll vopn, önnur en byssurnar, hverfa smásaman.[2] Danir boluðu hèðan þjóðverja og hinar vestrænu þjóðir, og stíuðu landsmönnum þannig frá öllum samgaungum við þær; þeir einokuðu alla verzlun hèr, svo að Íslendíngar urðu í öllu tilliti að láta sèr nægja það, sem þeir skömtuðu úr hnefa. Velmegun landsins fór við þetta síhnignandi, og er engi furða þótt mart breyttist til verra við þetta atferli. þetta vanþrifa tímabil, eða fjórða tímabilið, nær **frá 1550 til 1800**. þá varð síðast stórkostleg breytíng á híbýlum manna og húsgögnum, búníngi karla og kvenna o. s. fr., sem áður er á vikið. þessu tímabili mætti auðveldlega skipta í undirdeildir eptir öldunum, því að ártöl standa á svo mörgum gripum frá þeim öldum, en þess virðist varla þörf í þjóðháttasögu Íslands, því að á því tímabili urðu engar stórkostlegar breytíngar. Vèr höfum þegar fengið allmarga gripi frá hverju þessara tímabila, sem margir hverir eru mjög merkir, eins og skýrslan ber vott um. þó eru þeir, sem von er, misjafnlega merkir, og einstakir þeirra ættu fremur heima í öðrum söfnum; en það þótti

---

[1]) Samanber Sigurðar registur um Hólastað; þar er getið um „tvær fallbyssur, er keyptar voru fyrir sextán hundruð, níu hakabyssur fyrir níu hundruð og hálfhaka sjö".

[2]) Magnús Jónsson gamli, sýslumaður fyrir vestan, vildi halda fram vopnaburði; ágrip af vopnadómi hans frá 1581 er í Annálum Björns á Skarðsá I, 270—80, en það bar lítinn árángur til frambúðar. J. S.

varhuga vert að neita þeim viðtöku til safnsins, er þeir buðust, með því að þeir eru merkir í aðra stefnu, enda vantar þau söfn að nokkru leyti hèr á landi, sem þessir hlutir ætti eiginlega heima í.

þó að forngripasafnið hafi nú fengið svo marga styrktarmenn hèr á landi, er hafa auðgað það að góðum gripum, þá má svo að orði kveða, að það hafi alltaf verið og sè enn að berjast við öndina, því það hefir alltaf skort fè til viðurhalds, og fáir hafa orðið til að liðsinna safninu í því efni. Stiptsyfirvöldin hafa veitt því tvívegis lítilfjörlegan styrk, eptir áskoran okkar umsjónarmannanna, til skápakaupa og annars (nr. 187—189), samtals 24 rd. 40 sk., af fè því, sem ætlað er til óvissra útgjalda Íslands, enda fengu þau litlar þakkir fyrir það örlæti sitt hjá stjórninni (brèf dómsmálastjórnarinnar 1. Juli 1865).[1] það er þó auðvitað, að slík stofnan, er felur í sèr andlegan fróðleik, hlýtur að hafa talsverðan kostnað í för með sèr, og það getur enganveginn verið sanngjarnt, að allur sá kostnaður liggi á einstökum manni, heldur á hann auðsjáanlega að liggja á öllu landinu, sem er eigandi safnsins og hefir af því gagn og sóma. Af þessum ástæðum höfum við forstöðumennirnir þrívegis knúð á náðardyr stjórnarinnar, og beðið um 300 rd. árlegan styrk handa safninu úr ríkissjóði, sem okkur virðist vera hið allra minnsta, er það geti komizt af með. Fyrst stiptsyfirvöldin (1863), þá konferenzráð Thomsen, forstjóri forngripasafnsins í Kaupmannahöfn (1864), og

---

1) Tíðindi um stjórnarmál. Íslands II, 191; þar segir dómsmálastjórnin, að hún „lætur útborgun þessa standa óraskaða, en framvegis má ekki greiða nein þesskonar gjöld úr ríkissjóðnum". það kann að vera vafi á, hvort dómsmálastjórnin hafi með þessum orðum viljað banna, að greiða framvegis nokkurn styrk til forngripasafnsins, eða þá heldur að greiða útgjöld „í von um samþykki stjórnarráðsins" eptirá. J. S.

síðast alþíng (1865), mæltu kröptuglega fram með bænarskrám vorum. Kirkju- og kennslumálastjórnin gat heldur eigi annað en kannast við, að fyrirtækið væri gott og nytsamlegt, og var bæn okkar heldur meðmælt (sbr. brèf hennar 15. Februar 1864 og 3. Februar 1865[1], en dyrnar upp lukust eigi að heldur, því að fjármálastjórnin stóð föst fyrir. Jafnframt þessum tilraunum okkar við stjórnina leituðum við bæði brèflega og munnlega til einstakra manna hèr á landi um einhverja bráðabirgðarhjálp, og varð árángurinn lítill. Þó má geta þess, að stúdent Páll Pálsson í Reykjavík gaf safninu auða bók eða prótokoll, og Jónas Jonassen faktor í Reykjavík gaf því glerrúður yfir skápa, er kostuðu 3 rd. 64 sk. Enn fremur gekkst Helgi Sigurðsson á Jörva fyrir samskotum fyrir vestan (1865), og urðu þau að upphæð 2 rd. 64 sk. Til hlunninda safnsins má telja það, að það hefir híngað til haft ókeypis húsnæði á stiptsbóka hlöðunni á dómkirkjuloptinu í Reykjavík, en hvorki er sá staður allskostar hentugur, sökum rúmleysis, enda getur það skjól brugðizt, þegar minnst varir, og lítur út fyrir að innan skamms muni verða. En þó að menn teldi eigi húsnæði með bráðustu þörfum þess, þá eru þær þó ærið margar, svo sem opt hefir verið tekið fram. Þegar við sáum, að munnlegar eða skriflegar áskoranir fyrir safnsins hönd voru eigi einhlítar, þá fengum við í vetur sem leið í Decembermánuði nokkra Reykvíkínga með okkur, til að annast um og senda með okkur prentaða „Áskoran til Íslendínga" um bráðabirgðarsamskot handa safninu, og er hún þannig hljóðandi:

„Áskoran til Íslendínga.

Einhver hin nytsamasta og nauðsynlegasta stofnan hèr á landi er FORNMENJA- OG ÞJÓÐGRIPASAFN ÍSLANDS

---

[1]) Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands II, 9. 143.

í Reykjavík. það er sannnefnt safn til sögu Íslands, og er eða getur orðið engu síður fróðlegt fyrir sögu vora en íslenzk handritasöfn, t. a. m. safn Árna Magnússonar, og felur enda ljósari og áreiðanlegri þekkíngu á fornöldinni í sèr, það sem það nær, en nokkurt bókrit. Safn þetta var stofnsett árið 1863 með gjafabrèfum þeirra Helga Sigurðssonar á Jörva (nú prests á Setbergi), 8. Januar, og Jóns Sigurðssonar á Gautlöndum, 15. August. Síðan hafa allmargir orðið til að senda því ókeypis góða gripi. Nú eru samtals komnir híngað til þess um 360 gripir, og loforð hafa fengizt fyrir nær því eins mörgum gripum, sem enn eru ókomnir. Hagur safnsins stendur enn mjög völtum fótum: gjafir til þess, er lofað hefir verið úti um landið, geta eigi náðzt, hinar nauðsynlegustu hirzlur fyrir það verða eigi fengnar og skýrslur um muni þess verða eigi prentaðar svo fljótt, sem þörf gjörist, — allt sökum peníngaleysis. því verður þó eigi um kennt, að eigi hafi verið leitað um styrk til stjórnarinnar handa því, því að þrívegis hefir verið farið að henni bónarveg: fyrst haustið 1863 með röggsamlegum meðmælum stiptsyfirvaldanna, þá haustið 1864 með öflugri meðmælíngu konferenzráðs Thomsen, forstöðumanns fornmenjasafnsins í Kaupmannahöfn, og síðan 1865 með tilstyrk alþíngis, en híngað til hefir stjórnin daufheyrzt við öllum þeim bænum. Vèr sjáum því engin önnur úrræði, ef safninu á að verða borgið, en að vèr Íslendíngar sjálfir skjótum saman nokkru fè handa því, að minnsta kosti til hinna bráðustu nauðsynja þess, og sýnum stjórninni þannig í verkinu, að oss sè full alvara að vilja hafa safnið og hlynna að því, enda er eigi ólíklegt, að stjórnin þá fari að gefa því meiri gaum en híngað til.

Af því, að svo brýna nauðsyn ber til að styrkja safnið nú þegar, og með því að vèr finnum oss skylt málið, þareð safnið er sameiginleg eign allra vor Íslendínga, þá höfum vèr, er ritum nöfn vor hèr undir, komið oss saman um að gángast fyrir samskotum handa því. Vèr vitum reyndar, landar góðir! að margir yðar eru lítt aflagsfærir, en vèr vitum það og, að „mikið má, ef vel vill", og það hafið þèr margopt sýnt með samskotum til annara fyrirtækja. Því viljum vèr leyfa oss að skora FASTLEGA á yður, æðri og lægri, að styðja þetta þjóðlega fyrirtæki með nokkru fjárframlagi; og þèr, sem hafið af litlu að miðla! blygðizt yðar eigi að gefa lítið, en gætið þess, að „mart smátt gjörir eitt stórt" (— gæfist, t. a. m., einn skildíngur fyrir nef hvert á Íslandi, yrði það yfir 600 ríkisdali —). Vèr vonum fastlega, að þèr kunnið að meta safnið rèttilega og vilið eigi, að fornmenjar þær, er enn eru eptir úti um landið eða síðar kunnu að finnast, glatist sökum áhugaleysis eða samtakaleysis sjálfra vor, og vèr treystum því, að þèr því ALMENNT verðið vel og drengilega við þessari áskoran vorri, eins og sæmir mentaðri þjóð, er ber virðíngu fyrir þjóðlegum fróðleik, og vèr berum því fremur traust til yðar í þessu efni, sem Íslendíngar ávallt hafa haft mætur á fornöldinni, og margir yðar hafa þegar sýnt mikinn áhuga á að bjarga fornmenjum, með því að senda þær að gjöf til safnsins. Látið eigi þetta traust vort til yðar bregðast, landar góðir! og skorizt eigi undan að vinna sjálfum yður og ættjörðu vorri sóma og gagn á þenna hátt.

Hver, sem áskoranarbrèf þetta er sent, er beðinn að senda það aptur og gjafir þær, er hann getur safnað, annaðhvort til einhvers af oss, er ritum þetta,

eða til þess, er fyrir vora hönd sendir það, og gefendurnir eru beðnir að rita sem greinilegast á það nöfn sín og upphæð gjafanna.

Reykjavík, 12. dag Decembermánaðar 1866.

*Eggert Ólafsson Brím. Jón Árnason. Jón Þorkelsson. Lárus Þ. Blöndal. Ólafur Finsen. Páll Melsteð. Sigurður Guðmundsson*".

Þessi áskoran vor hefir þegar haft nokkurn árángur, og vèr höfum fulla vissu fyrir, að hún ber meira árángur hèr eptir, því að ymsir hafa lofað gjöfum, sem enn eigi hafa sent þær til safnsins, og mega undirtektir manna heita góðar í eigi betra árferði. Slík samskot geta þó aldrei orðið nema til bráðabirgða, og höfum við því enn farið þess á leit við alþíng, að það reyndi til að útvega safninu árlegan styrk, helzt úr ríkissjóði. Þíngið kannaðist við brýna nauðsyn þess, eins og 1865, og var það samþykkt með miklum atkvæðafjölda að rita konúngi bænaskrá þess efnis, hver sem nú árángurinn verður.

Eitt það, sem brýna nauðsyn ber til að gjöra, er að auglýsa sem fyrst skýrslur um gripi þá, er gefast safninu, til þess bæði að koma í veg fyrir, að gefendurnir tortryggi umsjónarmenn safnsins, eins og eigi hefir verið laust við, og til þess, að menn geti lært að þekkja það og meta, og verði því fúsari á að fulltíngja því, enda er skylt og maklegt að halda á lopti minníngu og nafni þeirra manna, er styrkja þetta þjóðsafn vort og eigi skirrast við að leggja í sölurnar það gagn eða skemtan, sem þeir kunna sjálfir að geta haft af að eiga hina einstöku gripi, heldur sýna, að þeir kunna að meta sóma og gagn þjóðarinnar meira en augnagaman sjálfra sín. Ritstjóri Þjóðólfs hefir að þessu leyti talsvert hlaupið undir bagga með safninu, og auglýst á sinn kostnað

mikið af gripum þess, alls 161 grip árin 1863—65, hefir safnið eflaust unnið sèr hylli margra fyrir þær skýrslur og þannig haft mikinn hag af því. Þó gat safninu eigi verið þetta einhlítt, því að skýrslur fengust eigi prentaðar svo fljótt, sem þörf gjörðist, svo að í Decembermánuði 1866 var allt óauglýst fyrir tvö hin síðustu árin, og engar líkur til að fá meira prentað að svo komnu; þá var hálfarkar skýrsla prentuð sem viðaukablað Þjóðólfs (22. December) á kostnað einstakra manna, og voru þar auglýstir 70 gripir, er gefizt höfðu 1865, en þetta var í eitt skipti fyrir öll, svo safnið var litlu nær. Úr þessum kröggum höfum vèr nú þá von að Bókmentafèlagið bæti, og að það annist prentan skýrslna þessara fyrst um sinn, enda kemur það vel heim við ætlunarverk fèlagsins, að útbreiða bæði erlendis og hèr á landi fróðleik þann, er felst í fornmenjum vorum, að svo miklu leyti sem honum verður lýst í jafnstuttum skýrslum og þessum, sem engar myndir fylgja. Það þótti bezt við eiga, með því að þess var kostur, að byrja frá upphafi, bæði af því, að erfitt er að fá glöggt yfirlit eða geta borið samkynja gripi saman í hinum sundurlausu skýrslum í Þjóðólfi, er margir munu hafa þegar glatað, og sömuleiðis af því, að þörf þótti á að gefa ítarlegri skýrslur um sumt, einkanlega um Baldursheims fundinn, enda eru eigi allfáar stafvillur, töluvillur og jafnvel orðavillur í skýrslunum í Þjóðólfi, og áletranir eigi svo nákvæmar, sem skyldi, en nú hefir verið leitazt við að hafa þær svo nákvæmar að allri rèttritan, sem unnt er, þegar þær eru eigi prentaðar með sama letri, en færðar til venjulegs bókleturs.

Reykjavík, 5. August 1867.

Höfundurinn.

---

# 1863.

1. 15/7 63. Jón Illugason, bóndi í Baldursheimi við Mývatn[1]: TENÍNGUR og 24 TAFLTÖFLUR. Töflurnar eru sumar af tönn og sumar af beini. Svo er að sjá, sem helmíngurinn af þeim hafi verið rauður, en hinn hvítur. Hola er neðan í þær allar, en að ofan eru sumar hnöttóttar, en sumar með háfan og hvassan odd. Það getur verið nokkuð vafasamt, hvaða tafl þetta sè. Kotrutafl getur það naumast verið, nema því að eins, að það hafi verið teflt allt öðruvísi en nú, því bæði eiga töflurnar í því að vera flatar, svo hverja megi leggja ofaná aðra, ella eru þær dræpar, og svo eiga þær að vera 30 að tölu, þar sem þessar eru að eins 24. Þó munu sumir erlendir nú tefla hana með 12(?) töflum, því að kotra með 12 töflum er farin að flytjast híngað í búðir. Enn fremur er það mjög óvíst, að kotra hafi verið kunn orðin á Norðurlöndum á 9. og 10. öld, sem þetta tafl er frá, en hún mun vera frakkneskur leikur, eins og tölunöfnin á teníngunum og eins nöfnin mor eða mar og jan benda til. Að vísu er

---

[1]) Fremsta talan við hvern grip í skýrslu þessari merkir þá tölu, eða númer það, sem gripurinn er einkenndur með. Þá er viðtökudagurinn talinn í brotaformi (t. a. m. 15/7 = 15. Juli) eða með „s d." (= sama dag), og við þá fáu gripi, sem láðzt hefir eptir að rita viðtöku daginn (fyrsta árið), er það táknað með „/". Þá stendur nafn gefandanna í nefnifalli, og er stètt þeirra og heimili talin, sem þá er þeir gáfu, en eigi tekið tillit til þeirra breytínga, er síðan hafa á því orðið. Við þá fáu gripi, er keyptir hafa verið, er þess getið sèrstaklega. Síðan er skýrt frá gripunum sjálfum.

teninga snemma getið, t. a. m. í Ólafs sögu hins helga, kap. 89 (um 1019), en það sannar eigi að kotra hafi verið þekkt. Í Grágás er minnzt á verpla, sem kunnu að vera sama sem teníngar, en þó gæti vel hugsazt, að verplakast væri sama og keilukast, og hefði verið hafðir til þess smáir tunnulagaðir knettir (sbr. orðin bjórverplar og ölverplar). Í Sturlúngu (v, kap. 31) er getið um teninga í sambandi við tölurnar daus og ás (um 1234), og s. st. (III, kap. 26) er getið um tafl (skáktafl) og kotru (um 1198), og s. st. (v, kap. 48) er og nefnd kvotra (um 1237). Í Biskupa sögum (I, bls. 596) er enn getið kvotru á dögum Þórðar Sturlusonar (1165—1237). Eg ætla því, að kotru muni eigi getið í áreiðanlegum sögum fyrr en á 12. öld, en þó að hún (kvotra) sè nefnd í Karlamagnúsar sögu (bls. 470 og 486), þá sannar það eigi, að hún hafi fyr flutzt til Norðurlanda en hèr er talið. Talan á þessum töflum frá Baldursheimi stæði heima, ef þær hefði verið hafðar í ofanfellíngartafl, en á því er hinn sami annmarki, að í því á að leggja hverja töflu ofaná aðra, sem nafnið sýnir, og væri þetta ofanfellíngartafls töflur, hefði fornmenn orðið að tefla það allt öðruvísi, sem þó er varla hægt. Í fornritum vorum er talað um tvennskonar töfl, er hèr geta komið til greina, hnottafl eða hnettafl, og hnefatafl eða hneftafl. Í Gullþóris sögu (kap. 14) og Flateyjarbók (I, bls. 463) er getið um hnettafl, og í Krókarefs sögu (kap. 10) er getið um hnettafl af tönn. Af Grettis sögu (kap. 70) má sjá, að hnottaflstöflur hafa haft odd upp úr sèr, eins og þessar 24 töflur, sem hèr eru, því að þar segir, að Þorbjörn aungull tefldi eitt sinn „hnettafl; það var stórt halatafl". Stjúpmóðir hans gekk þar hjá og yrtist við hann, unz þau reiddust bæði. Þá greip hún eina töfluna og kastaði að Þorbirni, og er svo að sjá, sem töfluhalinn hafi komið í augað, því að það lá úti á kinn. Í sögunni

af Vilmundi viðutan (kap. 8) er talað um hala á hnefatöflu, er höfð var fyrir skotspón, og sýnir það, að þær töflur hafa og haft líkt lag, og hala eða odd uppúr. Nafnið hneftafl kemur fyrir í Ragnars sögu loðbrókar (kap. 16) og í Fornmanna sögum (IV, bls. 29, og II, bls. 271 — á þeim stað er og nefnt hneitafl neðanmáls). Í Friðþjófs sögu (kap. 3) er ýmist nefnt hnefatafl eða hnottafl, en þar á sjálfsagt að vera hnefatafl, sem síðar mun getið. Í gátum Gests hins blinda í Hervarar sögu er getið um bæði töflin. Þar er fyrst gáta um skáktafl, síðan um hnefatafl (25—26. er.) og síðast um hnottafl (31—32. er.). Í flestum útgáfum Hervarar sögu er nafnið hnefatafl tekið upp í textann í síðustu gátunni (31—32. er.), en útgáfa Stepháns Björnssonar tilfærir neðanmáls lestrarháttinn hnottafl, sem vafalaust er hinn eini rètti[1], því að það er auðsætt af gátunni, að í henni er talað um allt annað tafl, en í gátunni um hnefann. — Í hnefataflsgátunni er talað um „brúðir" eða „drósir" (töflur), er vegi „drottinn" sinn „vopnlausar" (eða „vopnlausan"), og áttu hinar hvítu að vega gegn honum, en hinar dökkvu að verja hann. Þessi „drottinn" eða konúngur er hnefinn, sem virðist hafa verið æðstur, líkt og konúngur í skáktafli, og mun hafa verið stærri en töflurnar sjálfar og öðruvísi lagaður. Þetta styrkist af Friðþjófs sögu (kap. 3); þar talar Friðþjófur um hnefa, er sýnir að hann hefir teflt hnefatafl, og miðar þó til Hríngs konúngs, og bendir það á konúngstign hnefans. Þar er og talað um „rauðar" töflur, og kemur það vel heim við litinn á þeim, er hèr er um að ræða. Vel gæti verið, að beinmyndin (nr. 6), sem fannst með tafli þessu, sè einmitt hnefi úr hnefatafli, því að öll líkindi eru til, að mannsmynd hafi verið á hnefanum. — Í gátunni um húnann í Hervarar sögu segir, að hann sè allur

[1]) svo hefir einnig sagan í Fornaldar sögum Norðurl. I, 476.
J. S.

„járni urinn í kríng", hafi „átta horn" og ekki „höfuð", og að því „dýri" fylgi mjög margir (þ. e. nefnilega töflurnar). Að húninn sè allur í kríng „járni urinn" ætla eg að eins vera til að villa gátuna, og muni eiga að merkja, að hann sè sorfinn með þjöl að utan. Þar sem sagt er, að hann hafi ekki höfuð, en átta horn, þá virðist liggja nærri að álykta af því, að hann hafi verið í laginu sem teníngur, og að teníngur sá, sem fannst með töflum þessum, sè einmitt húni úr hnottafli, er jafnframt hafi verið hafður fyrir teníng. Teníngurinn er aflángur og mjög áþekkur ymsum, er fundizt hafa í Danmörku. Á hliðunum standa 3 og 6 andspænis og sömuleiðis 4 og 5, sem, ef það er lagt saman, hvort um sig myndar hina fornu helgitölu 9, en á endanum hafa staðið 1 og 2. Þess hefir áður verið getið, að teníngar sè nefndir nokkuð snemma hèr á landi, þó að eigi sè getið um þá í sambandi við kotru fyr en á 12. og 13. öld. Að teníngur þessi sè eigi úr kotrutafli styrkist enn fremur af því, að hann fannst að eins einn, og optar hefir einn teníngur fundizt sèr í útlöndum, enda bendir Guðmundar saga biskups (Biskupa sögur II, 177) á, að menn hafi stundum haft að eins einn teníng; af Fornmanna sögum (IV, bls. 210) má þó sjá, að menn hafa einnig haft tvo teNínga. Hefði teníngur verið notaður í hnefatafli, mundi þess vera getið í Hervarar sögu og Friðþjófs sögu, og er miklu eðlilegra að ímynda sèr, að teníngur þessi hafi verið hafður fyrir húna í hnottafli, sem Hervarar saga bendir til, og áður var á drepið. Hnottaflið eða hnettaflið mun í rauninni vera hið sama tafl og vèr nú köllum refskák, sem alls eru í 13 töflur með tóunni. Það mun draga nafn af því, að það hafi upprunalega verið teflt með hnotum, líkt og refskák hjá oss er opt tefld með kvörnum, enda eru töflur þessar frá Baldursheimi allsvipaðar hnotum í laginu. Húninn mun eiga að merkja bjarndýrshúna, enda segir í gátunni um hann,

að hann drepi fè manna með fláræði. Nöfnin „húni" og „fè" hafa nú smásaman ílenzt eða breyzt, eptir því sem til hagar á Íslandi, í tóu og lömb, því hèr er það einkum tóan, er bítur fè manna og helzt lömbin, enda er tóan opt kölluð dýr á Íslandi, svo sem húninn í Hervarar sögu, og þau lömb dýrbitin, er tóan bítur. Líkt mun standa á með danska taflið „*hunden efter haren*", að það mun eiga ætt sína að rekja til hnottaflsins. — Það hefir áður verið sýnt, að bæði hnefataflstöflur og hnottaflstöflur hafi haft hala eða odd uppúr sèr, sem þessar töflur. Ymsar slíkar halatöflur hafa fundizt erlendis, og kalla Danir bæði þær, og eins hinar, sem eru flatar og slèttar að ofan eins og kotrutöflur, dammtöflur eða „*dambrikker*", en það get eg enganveginn álitið alls kostar rètt, því eins miklar líkur eru fyrir, að þær flötu og slèttu sè einmitt kotrutöflur. Það sèst heldur enginn vottur til þess í íslenzkum bókum, svo að mèr sè kunnugt, að fornmenn hafi þekkt tafl það, er Danir kalla „*dam*", að minnsta kosti eigi með því nafni. Mönnum kynni að koma til hugar, að hnefatafl væri sama og „dammur", eða svipað dammi, eða að dammur sè myndaður úr hnefatafli, með því að í dammi eru hafðar 24 töflur, svo sem virðist hafa verið í hnefatafli; en það þykir mèr þó næsta ólíklegt, því að eg veit eigi til, að í dammi sè nokkurstaðar í útlöndum hafður nokkur konúngur eða hnefi, sem hnefataflið þó er kennt við, og virðist því vera hið einkennilega í því, enda mundi hið upprunalega nafn á taflinu haldast einhverstaðar í útlöndum ef svo væri, en það hefi eg hvergi orðið var við. — Af því, sem sagt hefir verið, þykir mèr sennilegast, að hèr sè sameinað hnefatafl og hnottafl, og hafi þessar 24 töflur, 12 rauðar og 12 hvítar, verið nægilegar til að tefla með hvorttveggja, og sè þá beinmyndin (nr. 6) hnefinn og teníngurinn húnninn. Slíkar sameiníngar ymsra tafla munu hafa

verið tíðar í fornöld. Í Krókarefs sögu er þess getið um sama taflið, að „það var bæði hnottafl og skáktafl". Það er og algengt hjá oss, að töfl eru sameinuð, svo sem að hafa kotru innan í skáktaflsborði, en skákborð og refskák utaná, eða þá skákborð og mylnu (á dönsku: „*tavl og mölle*". Í henni eru 18 töflur). Ef þessi ágizkan er rètt, þá höfum vèr hèr fullkomið hnefatafl og hnottafl, og vantar að eins borðið. Þá er eptir að vita, hvernig borðin hafi verið. Hnottaflsborðið ætla eg að muni hafa verið sem refskákarborð, af þeim ástæðum, sem áður eru færðar fyrir því, að hnottafl muni vera sama og refskák, en um hnefataflsborðið er allt óglöggvara. Í Víglundar sögu kap. 21 er getið um tafl með borði, sem hefir reiti, og sem teflt er með töflum, og hefir það að líkindum verið hneftafl, en reitir eru kallaðir á skákborði, og gæti menn því ímyndað sèr, að þau hafi verið lík. Enn er að minnast á holurnar, sem eru neðan í hverri töflu, og hafa menn ímyndað sèr, að þær hafi verið til þess, að töflurnar skyldi eigi færast úr stað, er víkingar sátu að tafli á lángskipum sínum í sjáfargángi, og hafi því hlotið að vera smátittir upp úr taflborðinu, er töflurnar hafi verið settar ofan á.

2. (16/7 63. Jón Illugason í Baldursheimi): SVERÐ, mjög ryðbrunnið og ryðgað í parta. Þegar sverðið fannst, var meðalkaflinn dottinn af, svo að eigi mátti sjá lengd hans nè lag, en lengd og breidd sverðsins mátti mikiðtil sjá, og skýrt sást votta fyrir eggteinum. Þó að talsvert væri brunnið burtu framan af blóðreflinum (oddinum), mátti sjá, að brandurinn hefir upprunalega að minnsta kosti verið ein alin og sex þumlúngar upp að hjöltum, en 2 þumlúngar og 2 línur á breidd upp við þau. Hjöltun voru einn þumlúngur á breidd og 4 þumlúngar á lengd. Þau eru bein þegar horft er á hlið sverðsins, en breiðust í miðju og ávöl til endanna, þá horft er ofaná hjöltin; er það lag

eins og tíðkaðist á 10. og 11. öld[1]. Á þeim mátti glöggt sjá, að þau höfðu upprunalega verið smelt, það er að segja gullrekin eða silfurrekin, því að annars vegar á þeim sást votta fyrir grind, eða sem brugðnum knút, sem smelt hefir verið inn í hjöltun af öðrum málmi, og sást farið eptir skýrt, en sá málmur var að mestu dottinn burtu. Nú sèst eigi framar votta fyrir því, þareð sverðið hefir talsvert skemmzt í flutníngnum, af því, hve mjög það var ryðbrunnið, en þessi lýsíng er tekin eptir hinni nákvæmu skýrslu og vönduðum uppdrætti Arngríms Gíslasonar, sem alls engin ástæða getur verið til að vefengja. Eptir uppdrætti hans hefir þessi knútur eða rós, sem smelt hefir verið inn í hjöltun, verið gjör í líkum eða sama anda og á tveim skrautsverðum, er fundizt hafa: annað í Noregi og annað í Danmörku; og bera þessar ryðbrunnu leifar órækt vitni um það með sögum vorum, að Íslendíngar hafi, eigi síður en aðrar þjóðir á Norðurlöndum, borið þvílík skrautsverð. Sverð þetta hefir verið meðalsverð, eptir þeim sverðum að dæma, er eg hefi sèð frá Danmörku og Svíþjóð frá sama tíma (fyrir 1000).

3. S. d. Sami: FJAÐRASPJÓT, æði ryðbrunnið; þó sèst allt lag á því, og hefir það verið vandað að öllu og ágætlega smíðað. Lítið er ryðgað af eggjum þess; munu menn hèrumbil sjá hina upprunalegu breidd þess, og er hún einn þumlúngur og ein lína, þar sem fjöðrin er breiðust fyrir framan falinn. Aptan af falnum er nokkuð ryðgað, óvíst hvað mikið, en hann er 10 línur á þykkt, þar sem hann er digrastur. Af oddi spjótsins er að eins lítið ryðgað, og er fjöðrin 10 þumlúngar á lengd; sjást á henni skyggðir blettir hèr og hvar. Lengd alls spjótsins er nú 15 þumlúngar og 5 línur. Annað spjót samskonar hefi eg fengið að austan (sbr. nr. 44). Það er ámóta á breidd og þetta spjót, en 12 þumlúngar á lengd allt, enda er nokkuð ryðgað framan af oddinum og

[1]) sjá nr. 22.

talsvert aptan af falnum. þessi spjót eru lengri og rennilegri en flest spjót, er eg hefi sèð í Danmörku frá þeim tíma. þau munu bæði vera frá sama tíma, frá því fyrir 1016, er hin breiðu spjót tóku að tíðkast hèr á landi (Grettla, kap. 45).

4. (15/7 63. Jón Illugason í Baldursheimi): Leifar af TYGILKNÍF. Hann er brotinn í tvennt upp við skaptið, og nokkuð er brotið framan af oddinum. Hann er eineggjaður og með þykkum bakka. Á honum er trèskapt, með húfulöguðum járnhólk að framan, sem gat hefir verið í að framan fyrir tángann. Að líkindum hefir annar hólkur verið á aptanverðu skaptinu. þó er það eigi með öllu víst, því að megnið af eptra hluta skaptsins er fúið af. þó að talsvert sè brotið af oddinum, er auðsèð, að knífurinn hefir verið frammjór. Blaðið er nú 2½ þumlúngur á lengd, en mun upprunalega hafa verið rúmir 3 þumlúngar. Knífur þessi hefir verið mjög líkur að stærð og lagi knífum þeim, er Norðmenn bera enn við belti sín. þeir eru jafnan með hólkum á skaptinu bæði að aptan og framan, og svo má ætla, að verið hafi á þessum, enda er það víst, að fornmenn höfðu slíka knífa, því að í þorfinns sögu karlsefnis (kap. 3) segir, að knífur þorbjargar völvu var „tvíhólkaður af eiri", eða með tveimur eirhólkum.

5. S. d. Sami: Leifar af ÖXI eða PÁLSTAFSBLAÐI. Pálstafir eru að mestu ókunn vopn, að minnsta kosti úr járni (sbr. annars nr. 114), og er mèr næst að ætla, að þetta muni heldur vera hið þykkvasta af öxi fyrir neðan augað, enda virðist hèr móta fyrir auganu. Hvers konar öxi það hafi verið, verður eigi sèð, en mjög þunn hefir hún orðið að vera, með því að hún er meira eydd af ryði en allt annað, er með henni fannst og sjálfsagt hefir legið jafnlengi í sömu jörðu, enda er líklegt, að axir fornmanna hafi verið mjög þunnar, er þeir báru þær í annari hendi sem sverð, en skjöld í hinni. Maður sá, er þetta hefir átt, hefir því haft meira en alvæpni, er

hann hefir haft skjöld, sverð, spjót, týgilkníf og enn öxi (eða pálstaf).

6. S. d. Sami: BEINMAÐUR eða mannsmynd skorin úr beini. það er mannsmynd ofan að milli, og er í kyrtli eða ólpu, og hefir hött á höfði með eyrum á hliðunum; það bendir til, að siður hafi verið í fornöld að hafa þesskonar dýraeyru á báðum hliðum á höttum. Hettir með eyrum sjást og myndaðir á þesskonar myndum, sem til eru á forngripasafninu í Kaupmannahöfn, og má ætla, að þær sè því frá sama tíma og þessi, eða frá því fyrir 1000—1016, og eigi eldri en frá 9. öld. Eptir laginu gæti mynd þessi vel verið taflmaður eða skákmaður, en væri hún það í raun og veru, mundi fleiri þesskonar menn hafa fundizt með henni, og þó að hinir hefði verið úr trè, er líklegt, að einhverjar menjar þeirra hefði sèzt, með því að megnið af tygilknífsskaptinu (nr. 4), sem þó er úr trè, var heilt. Menn gæti og ímyndað sèr, að mynd þessi hefði verið goð eða hlutur úr pússi manns, því að fornmenn báru títt goðalíkneski í pússi sèr, er þeir kölluðu hluti, og voru þau gjör úr tönn eða silfri. þess er getið um Íngimund hinn gamla Vatnsdælagoða (Vatnsdæla, kap. 10), og Hallfreðar saga vandrædaskálds bendir á hið sama. Hluti þessa höfðu fornmenn er þeir vörpuðu hlutkesti, eða og til að segja sèr óorðna hluti, og má sjá slíkt af því, er sagt er um hluti Einars skálaglams (Jómsvíkínga saga, kap. 42). þesskonar hlutir hafa fundizt fyrr á Íslandi (sjá Ferðabók Eggerts og Bjarna bls. 1035).

Af þessum ástæðum datt mèr fyrst í hug, að beinmaður þessi kynni að vera skákmaður, eða þó öllu heldur hlutur, og því er hann tölusettur sèr í dagbók forngripasafnsins, en síðar hefir mèr komið til hugar, að það mundi vera hnefi úr hnefatafli, eins og getið er hèr að framan (bls. 39), svo að hann ætti að fylgja taflinu (nr. 1), og þykir mèr það hið líklegasta.

7. ($^{16}/_{7}$ 63. Jón Illugason i Baldursheimi): SKJALDARBÓLA eða BUKL af skildi. það er kollótt bóla, sem upprunalega hefir verið hèrumbil $3^1/_3$ þumlúngs þvert yfir, en 1 þumlúngur og 7 línur á hæð, með barði allt í kríng að neðan, og hafa í því verið naglar, sem bólan hefir verið fest með við skjöldinn. Skjöldur þessi hefir að öllum líkindum verið buklari og mun hafa verið járnrendur, því að hinir lausu naglar, er fundust hjá honum, eru fleiri en svo, að þeir geti eingaungu verið úr bólunni, og eru þá líklega úr skjaldarröndinni. Lík bóla og þessi hefir fyrir nokkru síðan fundizt í Hildishaugi (landnámamanns), sem er nálægt Kirkjubæjarklaustri á Síðu. Vèr höfum því þegar tvenn rök fyrir því, að buklarar muni hafa verið hafðir hèr í heiðnum sið, þó að hinar elztu sögur vorar geti sjaldan um þá. þeirra er optar getið á Sturlúnga öld, og virðast þeir þá hafa verið orðnir tíðari.

8. S. d. Sami: Lítið JÁRN, 3 þumlúnga lángt. það er breitt í báða enda, en mjótt í miðju, og hefir annar endinn auðsjáanlega brotnað frá einhverju. Til hvers járn þetta hafi verið haft, getur mèr eigi komið til hugar. Utan um járn þetta annars vegar og um annan enda þess hefir vafizt eitthvað af klæðum þess manns, er það var heygt með, og sèst á einum stað bæði horn og jaðar af klæðinu. Klæði þetta er alveg orðið að járni, en allir þræðirnir sjást enn eins greinilega og á hálfslitnu vaðmáli. Eigi verður sèð, hvort klæðið er ofið úr líni eða ull, en vendin á því er sem á vaðmáli, sem vel er gefið í, nú á dögum, en eigi sem á einskeptu. Bandið hefir verið viðlíka smátt og í meðalvaðmáli nú, eða öllu smærra. Í Ferðabók Eggerts og Bjarna (bls. 1035) er þess getið, að um 1720 hafi fundizt gylltar hlutaskálir eða metaskálir við Knafahóla, þar sem Gunnar á Hlíðarenda barðist við Starkað undan þríhyrníngi og sonu hans (um 987), en á botni skála þessara sást mótað far eptir smágjört lèrept, er legið hafði við botn þeirra. Á

þessum tveim fundum má með vísu ráða, að fornmenn hafi á 10. öld getað ofið tvennskonar vefnað, jafnsmáan og nú er almennt ofið, og er slíkt mikilsvert og áreiðanlegra en allar sagnir. Eigi er ólíklegt, að í útlöndum kunni að finnast þvílík slitur af steingjörvum klæðum á vopnum fornmanna, og kynni mikið að mega af því læra um vefnað þeirra, ef vandlega væri að gætt[1].

9. S. d. Sami: HEINEBRÝNI með gati í endann. það er tveir þumlúngar og 4 línur á lengd. Gat hafa menn haft á slíkum brýnum, til þess að geta fest þau við sig, enda hafa fornmenn jafnan haft heinar hángandi við belti sèr, til þess að fægja með vopn, sem hlýða þótti, og brýna þau, svo sem segir um Óðinn í Bragaræðum (Snorra edda, kap. 58), að hann tók hein af belti sèr og brýndi ljái þræla Bauga jötuns. Í Sturlúngu (IV, bls. 62) segir, að Sighvatur Sturluson þóttist hafa hein í pússi sèr, er hann þóttist núa í egg á öxi Snorra bróður síns, þesskonar brýni hafa og fundizt í útlöndum og hèr á landi, og á safnið þegar fjögur önnur með gati í endann, en þrjú af þeim eru með stærra og grófara móti, og eitt þeirra tinbúið[2].

10. S. d. Sami: BITILL eða KJAPTAMÈL úr járni. þau eru sem mèl af vanalegu bandbeizli eða hríngabeizli, enda mun mega telja víst, að menn hafi hèr einúngis haft hríngabeizli á söguöldinni. Mèl þessi eru fjórir þumlúngar á milli hrínganna, en hríngirnir eru tveir þumlúngar þvert yfir, og mega þau því kallast í minna lagi. Á háskólasafninu í Kristjaníu í Noregi eru tvennir líkir bitlar, er Norðmenn ætla að sè frá heiðni. Annar þeirra er þó nokkuð margbrotnari, og kann að hafa átt

---

[1]) Á síðustu árunum hafa í Danmörku og víðar fundizt eigi all-litlar leifar af fornum klæðnaði og fornum vefnaði. J. S.

[2]) Sjá nr. 87, 264, 324 og 333.

við tvefalt beizli, en eptir rósum, sem á honum eru, má ætla, að hann sè ýngri og varla frá heiðni.

11. ($^{16}/_{7}$ 63. Jón Illugason í Baldursheimi): Lítil JÁRNHRÍNGJA; það er hófhríngja. Hún er brotin í tvennt, en bæði brotin eru til. Hún er að eins einn þumlúngur og 8 línur á breidd, og ætla eg því fremur, að hún hafi verið sverðfetilshríngja eða beltishríngja, en af hestbúnaði. Þó gæti hugsazt, að hún væri af beizli, t. a. m. kverkólarhríngja. —

Um dys það, er allir þessir gripir (nr. 1—11) hafa fundizt í, hefir Arngrímur Gíslason bókbindari gefið skýrslu þessa: „Vorið 1860 fundust í Baldursheimi við Mývatn leifar af dysi, að öllum líkindum frá heiðni. Það er blásið upp úr holti, hèrumbil 200 faðma beint í austur frá bæjardyrum, og sást fyrst höfuðkúpa af manni, sem er 17$^{5}/_{6}$ þumlúngar að hríngmáli, og fannst þá um leið spjót (nr. 3). En vorið eptir, árið 1861, fannst sverð mjög ryðgað (nr. 2). Var þá farið að grennslast eptir meiru, en því miður af eptirtektalitlum únglíngum, og var því óreglulega mokað upp dysið, svo ekki verður sem nánast sagt frá, hvernig leifar þessar litu út. Dysið snýr frá austri til vesturs, höfuð í austur, svo beint horfði móti dyrum, og spjótið til hægri handar og tafl (taflmaður) (nr. 6) og 24 beintöflur (nr. 1). Líka lítur út fyrir, að skjöldur hafi legið til þeirrar handar, og sjást eigi aðrar leifar þess en naglar, og lítið eitt af trè í kríng. Til vinstri handar lá sverðið, og sneri oddur niður. Nokkur smástykki komu þar af járni, sem auðsjáanlega eru af umgjörð meðalkaflans, slètt, en bjúg, með lítið barð á röndinni (af skjaldarbólunni). Sverðið hafði verið í trèslíðrum, og sjást leifar þess utan á sverðinu báðumegin. Hjá því lá lítið brýni, með gati í annan enda, og lítil glertala[1] brotin, með gyllíngu auðsjáanlegri. Beinin láu

---

[1]) Glertala þessi hefir eigi komið til safnsins, og er það skaði

rètt, handleggir niður með hliðum og fætur rèttir, og má kalla, að leifar þessar horfði frá landnorðri til útsuðurs. Lærleggirnir voru 17$^{1}/_{2}$ þumlúngur, með hlössum, að lengd, og samsvarandi því að gildleika. Hèrumbil einnar álnar lángt frá fótagafli dyss þessa var annað dys, að hesti, og var það krínglótt, voru leifar hryggsins hríngbeygðar vestanfram, en fótleggir allir til samans austan fram, höfuð í norður, beygt inn að fótleggjunum. Engi merki fundust til reiðskapar, önnur en kjaptamèl (nr. 10), er var uppi í höfðinu, og ein lítil járnhríngja. Hesturinn hefir verið í meðallagi stór, og úngur, er vel má sjá af tönnunum. Hèr að auki fannst lítið ryðgað járn, er menn hèldu að væri leifar af lítilli öxi.

Það getur varla verið vafi á, að dys þetta og allir þeir gripir, er í því hafa fundizt, sè frá heiðni, eða frá því fyrir 1000, enda eru þeir mjög fornlegir. Það er kunnugt, að tíðska var í forneskju að grafa menn með hestum sínum og jafnvel hundum (nr. 87), svo sem segir í Svaða þætti (Flateyjarbók I, 436), að Svaði „var grafinn af sínum mönnum, ok þar með hundur hans og hestur at fornum sið", enda sannast þetta af ymsum dysjum, er könnuð hafa verið hèr á landi, svo sem á Gautlöndum (nr. 85—87). Hestar voru látnir í haug með mönnum, til þess að þeir gæti riðið til Valhallar og híngað í heim frá Valhöll (Sögubrot af fornkonúngum kap. 9, Helga kviða Hundíngsbana önnur, Hákonarmál 13. er.). — Eptir að kristni var lögtekin (1000), mun kristilegur gröptur fljótt hafa orðið almennur hèr á landi, sem sjá má af Njálu (bls. 146), að þeir voru grafnir að kirkju, er fèllu á alþíngi 1012, og menn vita enn sem komið

---

því að öllum líkindum hefir hún upprunalega verið úr steinasörvi. Þó getur verið, að hún hafi síðar verið höfð fyrir knapp, með því að hún fannst ein í karlmannsdysi. Síðan höfum vèr fengið fleiri þesskonar tölur til safnsins (sjá nr. 157).

er engi rök til þess, að nokkrir hafi verið heygðir með hundum og hestum eptir það, en allt bendir á hið gagnstæða, bæði fornrit og fornleifar. Þó að menn fyrst framan af, meðan kirkjur voru mjög strjálar, kunni að hafa verið grafnir úti á víða vángi, þá eru engi líkindi til að með þeim hafi verið grafnir hundar eða hestar, og hafi slíkt átt sèr stað á laun, þá hefir það eflaust lagzt af þegar Ólafur helgi fèkk hèr numið úr lögum ýmislega forneskju (um 1020, sbr. Fornmanna sögur IV, 280; Flateyjarbók II, 51. 239), eða fyr (Íslendíngabók kap. 7). Eins er það næsta ólíklegt, að hundar eða hestar hafi verið látnir fylgja í gröfina óbótamönnum, er dysjaðir voru utan kirkjugarðs. Það má því, eptir því sem enn er kunnugt, telja það sem öldúngis gilda og óræka sönnun fyrir, að eitthvert dys sè frá heiðni, ef í því finnast hundsbein eða hrossbein saman við mannabein. Hèr á landi getur það varla hafa komið fyrir, að menn og hestar hafi fallið saman og því verið dysjaðir saman, því að hèr börðust menn aldrei á hestum, eins og þó kom fyrir í Noregi, en þau tvö eða þrjú dæmi, sem í sögum vorum (Njálu og Sturlúngu) koma fyrir um vopnaviðskipti á hestbaki, verða að eins af tilviljun. Sömuleiðis mun það fljótt hafa lagzt af, að grafa með mönnum vopn þeirra eða vildargripi, sem þeir eptir heiðinni trú áttu að skemta sèr með í Valhöll, svo sem taflið, er fannst hjá Baldursheimi, og má því ætla, er slíkir gripir finnast í dysjum saman við mannabein, að þeir muni vera frá því fyrir 1000—1020. Enn er það fornleika merki, ef leirker eða þvíumlíkt finnast í dysjum með mannabeinum. Þvílíkt leirker fannst t. a. m. í Hildishaugi, er áður var nefndur (nr. 7), og mun Hildir hafa átt að hafa í því nesti sitt til Valhallar. Til þeirrar venju, að taka með sèr nesti í hauga, bendir orðtækið, að berja nestið, sem haft er enn í dag um þá, er berjast í andarslitrunum. Að allur þessi fundur

(Baldursheims-fundurinn) sè frá því úr heiðni, eða frá því fyrir 1000, ætla eg fullsannað.

Allir þessir gripir (nr. 1—11) gáfust safninu fyrir meðalgaungu alþíngismanns Jóns Sigurðssonar á Gautlöndum[1].

---

[1]) Gripir þessir frá Baldursheimi (nr. 1—11) voru nefndir og skýrt frá þeim í Þjóðólfi („Merkilegur fundur", sjá Þjóðólf xiv. ár, nr. 17—18, bls. 70—71), áður en þeir komu híngað til safnsins, þótti því nú þörf á ítarlegri skýrslu um þá, og það því fremur, sem þeir eru merkari. Brèf Jóns Sigurðssonar alþíngismanns, sem afhendir þá safninu, er þannig látanda:

„Eptir mèr gefinni heimild af Jóni bónda Illugasyni í Baldursheimi innan Þíngeyjar sýslu, sem er eigandi forngripa þeirra, er fundust í Baldursheimi árið 1861, og sem lýst er í Þjóðólfi, 14. árg. nr. 17—18, afhendi eg hèrmeð tèða forngripi þeim herrum, Jóni stúdent Árnasyni og Sigurði málara Guðmundssyni, í þeirri röð sem nú skal greina:

1. goðmynd eða taflmaður,
2. teníngur úr beini,
3. 24 töflur úr beini (líkast til úr kotrutafli),
4. leifar af sverði,
5. fjaðraspjót,
6. brot af skjaldarbólu,
7. brot af tigilhníf,
8. leifar af öxi,
9. járnhríngja, líklega af sverðfetli,
10. kjaptamèl,
11. lítið brýni með gati.

Þessa forngripi afhendi eg ofangreindum mönnum með eptirfylgjandi skilmálum:

1. að með þeim verði byrjað að stofna íslenzkt forngripasafn í Reykjavík, sem sè landsins ævarandi eign.

2. að þeir strax og fleiri forngripir safnast í sama augnamiði, og þegar stjórn og fyrirkomulag gripasafnsins er komið á fastan fót, afhendi umsjónarmönnum safnsins gripina í sama ásigkomulagi og eg nú afhendi þá.

3. að svo framarlega sem ekkert verður af stofnun forn-

12. 15/763. **Jón Sigurðsson** á Gautlöndum, alþíngismaður: Gömul KJAPTAMÈL úr kopar, grafin og forneskjuleg. Þau eru 4 þumlúngar og 3 línur milli hrínganna, og 2 þumlúngar og 2 línur hríngarnir sjálfir þvert yfir. Þau eru að því leyti óvanaleg, að sex lausir hríngar eru yfir um sjálfan bitilinn, sem ætlaður er til að vera uppi í hestinum. Kjaptamèl þessi fundust í Háls sókn í Fnjóskadal. Lík kjaptamèl, með lausum hríngum yfir bitilinn, hefir Brynjólfur hreppstjóri Brynjólfsson í Bolholti sagt mèr (1864) eptir föður sínum, að hann hafi fundið. Líkt krókaverk og á mèlum þessum er á gullhöfuðbandi, ormsmynd úr gulli og eldgömlum kíngum, sem allt hefir fundizt í Noregi og er talið frá heiðni.

13. „/". **Sigurður Helgason** á Jörva, dannebrogsmaður: Snúinn FÍNGURHRÍNGUR úr kopar eða öðrum málmi. Hann fannst seint á átjándu öld í bakka, er sjór hafði brotið af, fram undan bænum á Vogi á Mýrum, og mun því vera nokkuð gamall.

14. „/". **Jakob Bjarnarson** prestur í Gufudal: LYKLASYLGJA, sem á er ritað með stóru gamallegu latínuletri staka þessi:

„HRING. ÞÖLL. SV. SEM. HRINGINN. A.
HAFINN. SIE. FRA. PINV.
HIALPE. HENN. (= hjálpin?) DROTTINS. HENNE. ER. HIA.
(H)ANN. EIDIR. SORGAR. LINU".

15. „/". **Sami**: Önnur LYKLASYLGJA, sem á er ritað með stóru latínuletri vísubrot þetta:

„HRUNDINN SV SEM HRINGIN BER
HREPPI·AUDLEGD ALL(a).

---

gripasafns, og engin sýnileg merki sjáist til þess að liðnum tveim árum hèr frá, að slíkt fyrirtæki muni fá framgáng, þá áskil eg mèr óskertan rètt til að taka gripina aptur."

Staddur í Reykjavík 15. Júlí 1863.

Jón Sigurðsson.

— Báðar þessar sylgjur (nr. 14 og 15) eru ættaðar vestan úr Patreksfirði og eru all-forneskjulegar. Slíkar sylgjur eru nú farnar að verða sjaldgæfar, helzt með letri. Á gömlum sylgjum var títt skammstafað Jesú nafn („IHS"[1]) eða þá lukku óskir í ljóðum, opt vel kveðnar. Eg vil nefna til dæmis vísu af sylgju eða hríng, sem fannst í haug, líklega öskuhaug, suður í Njarðvíkum, og doktor Sveinbjörn Egilsson átti. Vísan er þessi:

„Læstri hirzlu ljúktu upp nú
með lyklinum, sem eg geymi;
hvort á mig maður eða frú,
auðgist ment og seimi."

Við sylgjur þessar festu konur lykla sína og brauðstíl, og kníf og skæri í skeiðum, er þær höfðu jafnan á linda sèr, sem gamlar myndir sýna.

16. „/". Sami: Lángálma af gömlum HÖKULKROSSI. Hún er öll saumuð með postulamyndum. Þar á er Pètur með lykilinn að himnaríki. Hún er úr Sauðlauksdals kirkju.

17. „/". Sami: Stór KNAPPUR. Yfir hann er haglega saumað með svörtu taglhári. Hann er að líkindum gjör á Íslandi, því að víst er um það, að konur hèr kunnu vel að gjöra líka knappa fram undir þessa daga.

---

[1]) Skammstafanin „IHS", sem opt kemur síðar fyrir í skýrslum þessum, getur lesizt ýmislega. Í katólskri tíð voru þannig skammstöfuð yms orðtæki, svo sem „in hoc salus" (í þessum er sáluhjálpin), „Jesus hominum salvator" (Jesús frelsari mannanna), „Jesum habemus socium" (vèr höfum Jesúm til fèlaga), „Jesús hortator sanctorum" (Jesús hvetjari heilagra). Líka er það opt skammstafað Jesú nafn eintómt, og ætti þá eiginlega að vera með grískum uncial-bókstöfum: „IHΣ" (= Jes.), og svo mun það optast eiga að lesast á fornmenjum vorum. Í Evangelium Palatinum er Jesú nafn ritað þannig: ihs̄. Stundum gæti hugsazt, að eitthvert algengt mannsnafn væri skammstafað svo, t. a. m. Jón H.son.

Knappur þessi kvað vera úr gamalli biskupshempu frá Hólum. Hann á að vera saumaður af Halldóru Guðbrands dóttur biskups, Þorlákssonar. Hann og fleiri eins knappar komust í eigu sira Benedikts Pálssonar á Stað á Reykjanesi, og síðan í eigu sira Gísla í Sauðlauksdal, Ólafssonar.

18. „/". Ólafur Pálsson í Reykjavík dómkirkjuprestur: Mjög stórt BRÝNI úr rauðleitu grjóti. Það er 13 þumlúngar og 3 línur á lengd. Það fannst í mýrarjaðri, skammt fyrir neðan túnið í Stafholti, þrjár páltorfur niðri í jörðu.

19. „/". Helgi Sigurðsson á Jörva kandídat: Lítill STOKKUR með tappalæsíngu eða „typplokulæsíngu". Á hann er skorið með höfðaletri:

„INGESIOMFRV INGIBIÖRG EIRIKSD."

20. „/". Sami: TRAFAKEFLI, einkennilegt í laginu. Á það er skorið með stóru latínuletri:

„LIFDU. SO. GED. GOD.
GUD. A. VALD. OG. FRID. HALD.
UM. ALLDER. ANNO 1747".

21. „/". Sami: Sívalt KEFLI samkynja hinu (undirkeflið). — Bæði þessi kefli (nr. 20 og 21) fékk Helgi hjá hjónunum Birni Gíslasyni og Íngibjörgu Jónsdóttur á Brúarhrauni[1].

22. „/". Sami: Leifar af gömlu SAXI eða SVERÐI eineggjuðu. Brandurinn er nú 11 þumlúngar; en er það fannst, loddi framan við það um 6 þumlúnga lángur partur, mjög ryðbrunninn, sem eigi var hirtur, og vantar nú auðsjáanlega meira framan af því en blóðrefilinn. Meðalkaflinn er fúinn af, svo að ekki er annað eptir en sverðtánginn, er verið hefir ærið gildur, enda er brandurinn ¾ þumlúngs á þykkt í bakkann upp við hjöltun. Af hjöltunum er eptir að eins járnlykkja ein, mjög eydd

---

[1]) Um gripina nr. 12—21 er áður auglýst skýrsla í Þjóðólfi XIV, Nr. 5, bls. 17—18.

af ryði. Af litlu broti í saxi þessu eða sverði komst Helgi að því, að í því er stórgert bjart bitjárn. Vopn þetta hafði (1863) fundizt fyrir nálægt tuttugu árum fram undan bænum Álptanesi á Mýrum, niður við sjó, og hafði voguriun þar brotið af bakkanum veturinn á undan, svo að sást á sverðið. Eptir sögn og minni gamalla manna hafði bærinn fyrrum staðið fremst á bakkanum, en síðan verið smáfærður upp frá vognum, eptir því sem brotið hefir úr bakkanum, og hefir sverðið líklega fallið niður í gamlar bæjarmoldir eða verið falið þar. Af því hvað hjöltun, sem annars vegar hafa sína fullu lengd, nefnilega 4 þumlúnga og 5 línur frá miðju og út á enda, eru laung og mjó, má ráða, að sverð þetta muni helzt vera frá tólftu eða þrettándu öld.

23. „/". Sami: Leifar af litlum TYGILKNÍF. Hann hefir verið einjárnúngur, með snúnum röndum á skaptinu, og eru þær mjög ryðbrunnar. þegar knífur þessi fannst, brotnaði framan af blaðinu, og sást þá á brotinu, að í honum er smágjört stál. Hann fannst vorið 1862, er Helgi lèt ryðja til jarðeplagarðs á Jörva.

24. „/". Sami: Lítill PALLKISTILL, allur með gömlum skurði. Innanvert á lokinu stendur:

„DISA A. 1771".

Hjörurnar eru auðsjáanlega ýngri en kistillinn.

25. „/". Sami: TRAFAKEFLI (yfirkeflið) með knútum, flèttíngum og snúníngum. Á því er handfáng, en eigi trèhalda, sem stundum er. Bæði lag og skurður lýsir óvanalegri fegurðar tilfinníng. Helgi fèkk keflið eptir móður sína, Guðrúnu þorkelsdóttur, og hún eptir móður sína, Guðrúnu þórðardóttur frá Stóra-Kálfalæk.

26. „/". Sami: SPÓNASTOKKUR skorinn, með krínglóttum endum og útskotnum fyrir spónblöðin. Á lokinu er að eins skurður. Á hliðunum eru rósahnútar og með höfðaletri:

„STEINVÖR SVEINS DOTT(ir)",

og sömuleiðis „IHS" með bundnu höfðaletri. Á botninn er skorið með rómversku letri:

„ANNO MDCXCIV. ÞANN XXX MARTI".

Á endunum er með skurði myndað fyrir drekahöfðum og mótar fyrir tönnum og augum. Stokknum hefir verið skipt í sundur í miðju að innan, og er því lokið í tvennu lagi, og leikur hvort þeirra fyrir sig á ási úr bólu til beggja enda. Þegar Helgi eignaðist stokkinn, var annar endinn og annað lokið fúið af, en það setti hann á í líkíngu við hitt. Hann ætlar, að stokkurinn hafi verið eign forfeðra sinna í Vogi[1].

27. („/". Helgi Sigurðsson á Jörva kandídat): SYLGJA eða lyklahríngur. Hún er oplaus og hefir því verið knýtt við hana lyklunum. Innan í henni eru stafirnir „IHS". Sylgjuna fèkk Helgi frá móður sinni.

28. „/". Sami: BRAUÐSTÍLL úr kopar. Hann er frammjór, en ofan til áttstrendur, með gati á til að festa hann við sig eða sylgjuna[2]. Helgi fèkk stíl þenna hjá móður sinni.

29. „/". Sami: REIÐGJARÐARHRÍNGJUR úr kopar, með laufaviðarhríslum í hinum vanalega býsanzka stíl. Þær eru svo koparmiklar, að þær að því til jafnast við tvennar samskonar hríngjur nú á dögum, þótt þær sè talsvert máðar. Þær hafa verið kallaðar Bollahríngjur, og eiga að hafa verið reiðgjarðarhríngjur Bolla Þorleikssonar, að sögn Árna Jónssonar, er bjó á Borg í Miklaholtshrepp. Hann hafði hríngjurnar með sèr sunnan úr Borgarfirði, og voru þær lengi söðulhríngjur Guðríðar konu hans, en síðan komust þær í eigu Jóns, tengdasonar hans, og hjá honum fèkk Helgi þær. Eptir sögn þessa Árna, er varð mjög gamall maður, voru aðrar svipaðar hríngjur til í Borgarfirði, er kenndar voru við Kjartan Ólafsson. Margar mjög

---

[1]) sbr. lýsingu hèr að framan, bls. 15.

[2]) sbr. nr. 41.

líkar hríngjur eru til, með ártölum frá seytjándu öld, og munu þessar hríngjur eigi vera öllu eldri.

30. „/". Sami: KÁLFSKINNSBLAÐ með latínusaung og nótum yfir hverri línu. Línurnar eru 13, með vönduðu letri, en daufu og lítt læsilegu. Nóturnar eru sumar hverjar að mestu máðar burtu.

31. „/". Sami: partur af KÁLFSKINNSBLAÐI. Þar virðist hafa verið á kaupmálabrèf eða samníngsbrèf, og er það dagsett í Skálholti í Biskupstúngum 22. Novbr. 1594. Það er dauft aflestrar, einkum síðari hlutinn.

32. „/". Sami: GALDUR OG FORNESKJA á 19 blöðum í 8 blaða broti (pappírshandrit); eru þar á meðal annars ymsar stefnur og særíngar (t. a. m. tóu-stefnur), eignaðar Sæmundi fróða, Gísla lærða í Melrakkadal og Þórði á Strjúgi. Þar á eru og syrpuvers, lásavers, ýmisleg galdradæmi, og eru aðalatriðin þar með villuletri, og sum þeirra með tilheyrandi stöfum, mjög margbrotnum, er heita ýmsum nöfnum, svo sem t. d.: Himinsbarna-hjálmur, Drottníngar-signet, Gimsteinn Jónasar, Móyses-stafur, Orions-auga, Prófeta-prýði, Sólar-vagn, Veldis-vagn, Karlamagnúsar-innsigli, Móyses-innsigli, Salómons-innsigli, Baldurs-innsigli. Kver þetta hefir Helgi sjálfur ritað upp eptir blöðum, er rituð voru af manni nokkrum, er eigi vildi láta nafngreina sig, þá er hann rèri fyrir vestan Jökul.

33. „/". Sami: DRYKKJARHORN með trèbotni og tinstút, allt grafið. Á því er mynd af mannsandliti, tóu og krufnum erni. Þar á er og karlmaður með stóran barðahatt á höfði, í stuttri treyju og á stuttvíðum brókum, með lángt hár, og kamp á efri vör. Í hríng utan um hornið er ritað með höfðaletri:

„DRECKID VARLEG(a)".

Af karlmanns búníngnum að ráða, er hornið frá seytjándu öld. Botninn er talsvert yngri en hornið, og er það

sögn þeirra, er átt hafa það fyrri, að færzt hafi upp á hornið, er botninn var settur í.

34. („/". Helgi Sigurðsson á Jörva kandídat): TYGILKNÍFUR með koparskapti og gati á fyrir tyglinum. Á skaptinu eru upphleyptar myndir karls og konu, og er limaburður þeirra og staða eigi ólík því, sem þau stigi danz. Karlmaðurinn hefir barðahatt á höfði og korða við belti sèr, í stuttvíðri treyju og stuttvíðum brókum, með uppbrotin stigvèl; má af því með vísu ráða, að skaptið sè frá seytjándu öld, og munu þá slíkir knífar hafa verið algengir. Safnið á tvo samskonar (nr. 168 og 363), og eg veit af þremur öðrum; hafa mennirnir á sköptum beggja þeirra byssur. Blaðið á kníf þessum er ýngra, en skaptið fannst fjarri mannabygðum. Það komst í eigu Konráðs, bróður Gísla Konráðssonar fornfræðíngs, en hann gaf sira Brynjólfi Bjarnasyni, er fyrrum var prestur í Miklaholti, og hjá honum fèkk Helgi það, einsog stendur í skýrslu hans.

35. „/". Sami: PÍPULYKILL úr kopar, er átt hefir að svo nefndri tröllalæsíng. Hann er skegglaus, og er pípan sívöl utan, en með þrístrendu holi innan í, er gengið hefir utan um þrístrendan stand, sem hak hefir verið neðan á, til að hræra læsíngarjárnið.

36. „/". Sami: KOPARDOPPA aptan af knífskapti, lík doppunni aptan á knífnum nr. 325. Hinir partarnir knífsins, sem voru úr járni, duttu í sundur af ryði, er við þeim var hrært. Þetta fannst með nr. 23 í jarðeplagarðs stæði á Jörva vorið 1862[1].

37. „/". Guðbrandur Vigfússon í Kaupmannahöfn: RÓÐA eða KROSSMARK, skorið á hvalbeinsspjald. Það er 6 þumlúngar og 8 línur á lengd, með ramma um

---

[1]) Gripirnir nr. 22—36 eru frumgjöf Helga Sigurðssonar, og hefir hann áður lýst þeim sjálfur i Íslendíngi (III, 20), einsog hèr að framan stendur (bls. 15—20).

og hefir verið svart skíði neglt ofan á rammann, allt sett með hvítum doppum af hvalbeini eða tönn. Undir krossinum standa Jóhannes og María, en yfirskriptin á róðunni er „INRI" (= Jesus Nazarenus Rex Judaeorum, Jesús frá Nazaret konúngur Gyðínga), og er hún með hálf-engilsaxnesku latínuletri. Verkið á mynd þessari sýnir, að hún er eflaust skorin á Íslandi, líklega á fjórtándu öld, enda var þá títt að skera þesskonar spjöld, og þóttu þau þá gripir (Laurentius saga, kap. 65). Gripur þessi gefur manni nokkra hugmynd um hagleik Íslendínga fyrrum, og er hann að því leyti merkur fyrir sögu landsins. Spjald þetta á einhvern tíma að hafa fundizt undir grundvelli kirkjunnar á Stað í Steingrímsfirði, og hjá prestinum þar, sira Sigurði Gíslasyni, fèkk Guðbrandur róðuna 1858.

38. „/". Sami: LYKLASYLGJA með krossi innan í og gamallegu letri, lítt læsilegu. Sylgju þessa gaf sira Sigurður Gíslason Guðbrandi í sama sinn og nr. 37.

39. „/". Haldór Jónsson á Hofi í Vopnafirði prófastur: Stór JÁRNHRÍNGUR, sem fyrr var í kirkjuhurð á Hofi, og er það í munnmælum, að hann sè úr hinni fornu hofhurð, sem þar er enn sýnd. Hríngurinn er mjög merkur, allur smeltur með silfurrósum. Hann er 7 þumlúngar þvert yfir. Hann er nær því alveg af sömu gjörð, og auðsjáanlega frá sama tíma og hríngur sá, sem er í hinni ágætu kirkjuhurð frá Valþjófstað, sem geymd er í forngripasafninu í Kaupmannahöfn, og sem varla er yngri en frá tólftu öld[1]. Þessir hríngar eru augljós vottur um skart fornmanna, er þeir höfðu hurðarjárn silfurrósuð. Það styrkist og af því, að á miðri seytjándu öld

---

[1]) uppdráttur af hurð þessari er í „Nordiske Oldsager i det Kongelige Museum i Kjöbenhavn, ordnede og forklarede af J. J. A. Worsaae", 1859. 8vo. Nr. 505 bls. 127. (Afbildninger fra det kgl. Museum 1854, Nr. 388). J. S.

fannst fyrir austan silfursmeltur lás, sem enn var til 1752. Vèr vitum og fyrir víst, að lamir hafa opt verið mjög skreyttar, og eru sumar þeirra enn til.

40. („/". Halldór Jónsson á Hofi í Vopnafirði prófastur): FERÐÁSKRÍN eða koffort Guðbrands biskups Þorlákssonar á Hólum. Það er slètt og einfalt, með slèttum járnböndum á hornunum. Lokið er tvöfalt, og má slá því út til beggja enda, og gjöra það að aflaungu borði. Járn eru á hjörum á göflunum, til að setja undir enda borðsins til stuðníngs.

41. „/". Sami: Gamall BRAUÐSTÍLL ferstrendur, er fannst í öskuhaug á Hofi. Á hann er ritað með vel gröfnu höfðaletri stökubrot þetta:

„GEFE. ÞIER. NAD. MED. DIRA. DAD.
DROTTEN. HIMNA. HALLA.
SÆMDAR. RAD. Þ..."

— Slíka eða líka stíla höfðu Rómverjar hinir fornu, sem kunnugt er, til að rita á vaxspjöld með, og kölluðu þá stilos (í eintölu: stilus). Á miðöldunum höfðu klerkar þá til þess að rita með á vaxspjöld, sem gjör voru til að rita á uppköst, áður en menn rituðu á bókfell, eða ef menn vildu muna eitthvað sèrlegt úr bókum (Laurentius saga, kap. 15). Á síðari öldum höfðu konur þá hángandi við belti sín, og pikkuðu með þeim brauð.

42. „/". Eiríkur Kúld á Þíngvöllum, prestur að Helgafelli: VIKIVAKABIKAR eða TVÍMENNÍNGSBIKAR kallaður, renndur úr trè. Hann er 9 þumlúnga hár, og 5 þumlúngar og 3 línur þvert yfir opið, og tekur nær því $2^1/_2$ pott. Hann er líklega ætlaður til að drekka úr öl[1].

---

[1]) Gripirnir nr. 37—42 eru áður taldir í Þjóðólfi XVI, Nr. 5, bls. 17—18.

# 1864.

43. $^{13}/_{1}$64. Sigurður Sivertsen frá Útskálum, skólapiltur: DRYKKJARHORN, sem mikið hefir verið sagað af öðrum endanum á. það sem eptir er enn, er einkennilegt og vel gjört. Tvær skrúflínur gánga upp eptir horninu, en þar á milli eru níu dýr, sem elta hvert annað: 1) refur, sem blæs út úr sèr feikna mæði, er óvart hefir orðið að rós, 2) göltur, 3) uxi, 4) leon, 5) hestur, 6) einhyrníngur, 7) hjörtur, 8) ljónynja, 9) hafur. Hvert síðasta dýrið hafi verið, læt eg ósagt, en varla er það efunarmál, að það hefir dregið rós í halanum, til að líkjast því, er fyrst gengur. þesskonar fyrirkomulag hefi eg sèð á gömlum kirkjustöfum á Skarði á Skarðsströnd[1].

44. $^{20}/_{1}$64. Sigurður Guðmundsson málari: FJAÐRASPJÓTSODDUR, mjór og í meðallagi lángur. Fjöðrin er $7^1/_2$ þumlúngur á lengd. Nokkuð er ryðbrunnið aptan af falnum, en lítið eitt af oddinum. þegar þessi spjótsoddur er borinn saman við aðra forna spjótsodda, þá virðist sem hann muni vera frá söguöldinni, eða frá því fyrir 1016. Drengur fann spjótsodd þenna í flagi í Skálhólum, sem eru lángt fyrir norðan bæinn á Fossnesi í Eystrahrepp. Leifar sáust af skaptinu, er hann fannst, en það datt allt í sundur, er á var tekið, og nokkuð fór um leið aptan af falnum. þar fannst ekki meira.

45. S. d. Sami: Slitur af HRÍNGABRYNJU. Hríng-

---

1) Gripurinn nr. 43 er auglýstur í Þjóðólfi XVI, Nr. 17—18, bls. 71.

irnir eru í meðallagi smáir, eptir því sem vant er á hríngabrynjum. Brynjuslitur þetta fannst nálægt Bessastöðum, og þar í grennd fundust tvö önnur brynjuslitur, sitt á hverjum stað, og vita menn eigi hvert þeirra þetta er.

46. ($^{20}/_{1}$64. Sigurður Guðmundsson málari): Slitur af HRÍNGABRYNJU með smærri og þèttari hríngum en hin fyrri (nr. 45). Það fannst í heiði nálægt Núpstað í Skaptafellssýslu. — Á báðum þessum slitrum (nr. 45—46) gánga fjórir hríngar í einn, og er hver hríngur negldur og kveiktur(?) saman; sýnir það, að þetta hafa verið mjög vandaðar hríngabrynjur, eptir því sem tíðkaðist í útlöndum. Slitur þessi eru líklega frá 14. eða 15. öld, en gætu þó vel verið miklu eldri, því að mjög er valt að kveða á um aldur á hríngabrynjum, og ætla eg, að margir hafi á því flaskað, sem það hafa reynt. Víst er um það, að negldar hríngabrynjur geta verið mjög gamlar. Völundar kviða (6. er.) og margar fornar vísur sanna það fyllilega. Fundir frá seinni tímum hafa og sannað, að þær geta jafnvel verið frá annari eða þriðju öld eptir Krists burð.

47. S. d. Sami: Gamalt ÍSTAÐ, forneskjulegt og mjög líkt þeim, er tíðkuðust í fornöld. Svo er að sjá, sem í því hafi verið sigurnagli, sem dottinn er úr. Það fannst í keldu fyrir neðan Stóra-Vatnsskarð í Skagafirði.

48. S. d. Sami: Gömul snúin JÁRNMÈL með óvanalega stórum hríngum og í lengsta lagi. Þau eru 4½ þumlúngur milli hrínganna, en hríngirnir eru 3 þumlúngar og 5 línur þvert yfir. Þau fundust á Þíngskála þíngstað. Nokkuð lík járnmèl, eins snúin, eru til í háskólasafninu í Kristjaníu, en þau hafa þverteina, sem þessi eigi hafa. Þau munu vera talin frá heiðni.

49. S. d. Sami: Gömul SKEIFA, sexboruð, óvanalega stór. Hún er 5 þumlúngar þvert yfir hælana. Hún fannst á alfaravegi í leirflagi í miðjum Hraundal í Mýra-

sýslu með nokkrum nöglum í, og er því auðsèð, að hún hefir farið undan hesti. Skeifuna gaf mèr þorsteinn Brandsson, bóndi í Ytra-Hraundal. Fengi menn fleiri þesskonar skeifur, og einkum ef þær fyndist með öðrum fornmenjum, er víst væri um aldur á, þá kynni það að geta sýnt mönnum, að hèr hafi verið betra eða stærra hestakyn áður, enda kunna að finnast líkur til þess í fornsögum vorum.

50. S. d. Sami: Partur af fornum STÓL eða BEKK, sem upprunalega hefir gjör verið fyrir tvo að sitja í. Hann er með tveimur drekahöfðum ofan á brúðunum, og sitja menn milli eyrna drekanna og halda í annað eyrað. Á þverslána er skorið tvífætt dýr með mannshöfði og hettu, líkt og opt sèst myndað á skinnbókum frá 14. öld. þar á er myndaður fiskur og ormur með drekahöfði, sem slær knút á sporðinn, og maður, er blæs í lúður og situr á vatnahesti, sem er hestur að framan, en hefir margbrotinn sporð að aptan. þessi stólpartur er að gjörð fullt eins forneskjulegur og hinir ágætu stólar frá Grund í Eyjafirði, sem geymdir eru í forngripasafninu í Kaupmannahöfn[1]. Stólpartur þessi er að minni hyggju

[1]) Stólarnir frá Grund komu til Kaupmannahafnar 1843. Ritgjörð um þá eptir Finn Magnússon er prentuð i Antiquar. Tidsskr. 1843—45, bls. 57—64, og fylgja henni tveir uppdrættir (Tab. I—II). Á öðrum stólnum er skorið rúnaletur, og á að lesa þannig: „Hustru Þorunn a stolin en benedistt (= Benedikt) narfa" [son risti? — eða þvíumlíkt]. Þar af er auðsætt, að hustrú Þórunn á Grund, dóttir Jóns biskups Arasonar, hafi átt stólinn á sextándu öld, en ekki nein Þórunn Benediktsdóttir. Stóll þessi er síðar myndaður í bók Worsaaes: „Afbildninger fra det kgl. Museum" Nr. 421 og i „Nordiske Oldsager" Nr. 556. — Antemensale frá Grund, sem Eiríkur Loptsson hefir átt (um 1430), og Predella, einnig frá Grund, var sent til Kaupmannahafnar i sama sinn (1843), og er nokkuð skýrt frá því í Ant. Tidsskr. 1843—45, bls. 25.

J. S.

varla ýngri en frá fjórtándu öld. Fyrri eigandi stóls þessa, Hjálmar Jónsson á Minni-Ökrum í Skagafirði, færði stólinn saman, höfðu verið á honum áður skrautlegir pílárar að aptanverðu og margar myndir, meðal annars þóttist hann hafa þekkt þar Þór með hamarinn Mjölni. Á fremri uppstöndurunum voru skorin fjögur mannsandlit, er horfdu í allar fjórar áttir, að því er mig helzt minnir að Hjálmar segði mèr 1856.

51. ($^{20}/_{1}$64. Sigurður Guðmundsson málari): ALTARISBRÚN, sem forðum var í Reykjakirkju í Túngusveit í Skagafirði. Hún er með fögrum laufavið utan með, en innaní er stór gyllt bókstafa lína, sem er þannig:

„ASSUMTA. EST. MARIA. IN. CELUM. JASP. M."

(ɔ: upp numin er María í himininn... — meira skilst eigi[1]). Þessi brún er auðsjáanlega katólsk og nokkuð gömul.

52. S. d. Sami: ALTARISBRÚN, sem eitt sinn var eign Snóksdals kirkju. Hún er að eins hálf, en með mjög einkennilegum saum. Á hana eru saumaðir ferfættir gammar með nefi, fuglsklóm og vængjum að framan, en ljónsklóm og ljónshala að aptan. Dýrum þessum er lýst í Kyrjalax sögu, og heita þau þar griffónar[2]. Þau eru alkunn í hinni grisku goðafræði, og af myndum Grikkja hinna fornu. Þar á er og gamalt skjaldarmerki með „P" í, sem er fángamark einhvers. Það er kátlegt, en jafnframt mjög merkilegt, er menn athuga hið forna kirknaskraut og enda hin helgu prócessiumerki[3], að sjá á því myndaða: gamma, dreka, margýgjar, orma, vængjaða hesta, erni, vali, varga, og allskonar heiðin

---

1) gæti verið það væri nöfn vitringanna: Jaspar (eða Caspar), Melchior, (Balthazar), og hefði klæðið verið stærra og með þessum myndum á. J. S.

2) dregið af frakknesku: *griffon*, gammur.

3) sbr. nr. 256.

landvætta-dýr. Mönnum verður þá næst að ætla, að höfundar þessara listaverka hafi verið svo forneskjulegir í skapi, að þeir hafi hugsað meira um Valhöll, eða um „sal undinn ormahryggjum", eða um ormagarða, heldur en um kirkjur eða hvað kirkjum hæfði. Fengi menn mikið safn af þesskonar, mætti eflaust margt af því læra, sem enn er hulið, því að forneskjan hefir í þessu sem mörgu öðru lengst varað á Íslandi.

53. S. d. Sami: Gamall LAUFAPRJÓNSKNAPPUR af gylltu silfri. Utan um laufið er blómhríngur, en innan í því er myndaður heilagur Georg á hesti, og er að berjast við drekann. Slíka knappa höfðu konur í faldinum ýmist 5 eða 6, og hefi eg sèð marga einstaka með samkynja laufi.

54. S. d. Sami: Rend KOTRUTAFLA úr hvalbeini. Hún er að því leyti merkileg, að hún er talsvert gömul og óvanalega stór, þrír þumlúngar þvert yfir. Hún fannst í læknum í Reykjavík. Önnur samskonar tafla af sömu stærð fannst undir grundvellinum á landfógetahúsinu í Reykjavík 1862[1].

55. S. d. Sami: Renndur SKÁKTAFLSBISKUP úr hvalbeini, grænn að lit. Þesskonar taflmenn eru, þótt undarlegt sè, farnir að verða sjaldgæfir.

56. S. d. Sami: BRAUÐSTÍLL, slèttur, en ferstrendur, nokkuð gamall.

57. S. d. Sami: BRAUÐSTÍLL, slèttur, en sívalur.

58. S. d. Sami: STÁLSIGNET, mjög haglega sorfið. Það hefir fundizt í jörðu hjá Hrólfstaðahelli á Landi í Rángárvalla sýslu, en er frá síðari tímum.

59. S. d. Sami: Hollenzkur PELI, flatur annars vegar. Hinumegin er myndaður maður, með flata húfu á höfði og í leistabrókum, með korða við hlið. Búníng-

[1]) sjá nr. 75.

urinn sýnir, að pelinn muni vera frá seytjándu öld; þesskonar pelar voru þá mest tíðkaðir hèr á landi, en taka nú að verða sjaldgæfir.

60. ($^{20}/_{1}$64. Sigurður Guðmundsson málari): Hollenzkar DÓSIR frá seytjándu öld. Á þær eru grafnir menn, sem eru að reykja og drekka og tappa öl af tunnum, og karlar og konur, sem eru að danza. Þar eru og ýmisleg heilræði á hollenzku, t. a. m. „drekktu varlega". Í þessum dósum geymdu menn bæði tóbakið og pípuna, og eru þær nú orðnar næsta sjaldgæfar, helzt svo gamlar.

61. S. d. Sami: Krínglótt SPJALD; þar er skorin á upprisa Krists, og engill, er blæs í lúður og heldur á stundaglasi. Það mun vera gjört á Íslandi, að líkindum af Guðmundi snikkara frá Bjarnastaðahlíð í Skagafirði, er reisti Skálholtskirkju á dögum Brynjólfs biskups og bjó til skírnarfontinn í Hólakirkju. Spjaldið er úr Skagafirði.

62. S. d. Sami: MYND AF einni FRÚ GÍSLA biskups ÞORLÁKSSONAR, máluð á trè af einhverjum íslenzkum manni á seytjándu öld. Hún hefir þeirrar aldar íslenzkan búníng: hempu með hempuskjöldum og pörum, hvítan kraga um hálsinn og alhvítan fald á höfði niður í gegn, sem þá var títt, og hatt þar yfir, og sýnir það vel aldarmóðinn. Spjald þetta hèkk fyrrum, að sögn Daða hins fróða Níelssonar, í bænhúsi í Gröf á Höfðaströnd, en þaðan var það flutt í Sjáfarborgarkirkju, ásamt annari mynd af annari frú herra Gísla, sem eg hefi sèð, og mjög var lík hinni, hvað búnínginn snertir.

63. S. d. Sami: KORÐI, sem Íslendíngar hafa smíðað á meðalkafla og handbjörg. Aldur hans vita menn eigi, en auðsjáanlega er hann eigi mjög gamall. Hann hefir fylgt Núpstaða ætt eystra, svo lengi sem menn muna til[1].

---

[1]) gripirnir nr. 43—63 eru áður taldir í Þjóðólfi XVI, nr. 11—12, bls. 43—45.

64. 26/1 64. Jón Árnason í Reykjavík biskupsskrifari: DYRABOGI, eða bogið dyratrè. Það er 1 alin og 10 þumlúngar á lengd, og er haglega skorið með fögrum blöðum, er beygjast upp á við til beggja enda. Eptir blöðunum að dæma, hefir sá, er skorið hefir, verið mentaðri og lærðari í íþróttalistinni, en almennt hefir verið hèr á landi. Bogi þessi var fyrrum yfir kórdyrum í Hvammi í Hvammssveit, og er það gömul sögn, að Gísli Guðbrandsson, er var prestur í Hvammi 1584—1620, hafi skorið hann, og hafi sira Gísli þessi verið kallaður bíldhöggvari og málari. Boginn er að því leyti merkur, að hann sýnir skurðarhagleik manna á þeirri tíð (sextándu öld), og jafnframt sannar hann, að menn höfðu þá bogalagaðar dyr á Íslandi, sem mönnum er nú orðið næsta ókunnugt um, og fyllir þannig mikið skarð í húsabyggínga-sögu landsins, því að menn hafa enn til hurðir, kríngdar að ofan, sem sýna, að hin fornu dyratrè hafa haft þetta lag, þó að það sjáist hvorki á sögum nè annálum, svo eg viti, en að eins á fáum myndum. Slíkir bogar voru alltíðir í fornöld, en bágt er nú orðið að sanna, hversu þeir hafi verið í hátt. Ef til vill er þessi bogi eptir af síðustu leifum þeirra.

65. S. d. Sami: Gamall PRÈDIKUNARSTÓLL, sem verið hefir, svo lengi sem menn vita til, í Staðarfellskirkju, allt þar til þángað var fenginn prèdikunarstóll úr Búðardalskirkju, er hún var lögð niður. Stóll þessi er með myndum, höggnum og máluðum. Þar á er Páll postuli, Pètur með lykilinn, Lúkas með nautsmynd fyrir neðan og Jóhannes (?) með krossstaf í hendi og kórónu á höfði, og treður dreka undir fótum. Þar á er þetta letrað:

„ÖLL RITNING. AF GUDE IN̄ GEFENN. ER NITSAMLEG TIL LÆRDOMS. TIL UMVÖNDUNAR. TIL BETRUNAR. TIL LEIDRIETTINGAR. ETC. 2. TIM. 3."

Að sögn sira Þorleifs Jónssonar í Hvammi (1862)

var málverkið á stöfunum allt eins á altarisbrík, sem var í Hvamms kirkju og nú er eigi framar til, og var sú altarisbrík eignuð sira Gísla Guðbrandssyni, er áður var nefndur (nr. 64); enda mun bæði stóll þessi og boginn vera eptir sama mann, því að hin sömu einkennilegu lauf sjást á hvorumtveggja.

66. a, b. 26/164. (Jón Árnason í Reykjavík, biskupsskrifari): TVÖ LJÓN, 2 álna og 15 þumlúnga laung, skorin úr trè. Almenníngur segir, að þau sè sæljón. Þau teygja sig, líkt og þau sè á sundi; einnig hafa þau einkennilega fætur og mjög grimmlegan einkennilegan svip. Þau hafa verið mjög haglega skorin, en eru nú mikið skemmd af elli. Ljón þessi voru sitt hvorumegin við kirkjudyr á Kálfafelli í Fljótshverfi. Sumir segja, að ljón þessi hafi verið gjör handa kirkjunni af Írum, aðrir segja af Frökkum, en engar sönnur vita menn á því.

67. S. d. Sami: LAX, skorinn úr trè, 1 álnar og 15 þumlúnga lángur. Sumir kalla hann guðlax. Hann hefir verið einkar haglega skorinn, og er mælt, að það hafi gjört Eiríkur nokkur í Holti á Síðu. Lax þessi var þversum yfir sömu kirkjudyrum og ljónin (nr. 66), og sýnir hvorttveggja skraut á byggíngum fyrri alda, enda einnig mikinn hagleik manna á þeim tímum.

68. S. d. Sami: TRAFAKEFLI, málað og skorið haglega. Það er með drekahöfði á öðrum enda, en manns hönd á hinum. Á því stendur „ANNO 1777" og höfðaleturs lína, er virðist eiga að lesast þannig:

„M(ar)G(rèt) I(óns)DOTTIR A KE(flið)."

69. S. d. Sami: Lítill STOKKUR skorinn, með engils mynd og laufavið, frá 1697.

70. S. d. Sami: Lítill PRJÓNASTOKKUR, gamall. Hann er með risi á lokinu, sem líkist húsmæni. Á honum er með höfðaletri staka þessi:

„SA SEM IFIR ÖLLÖ ER
ALLREI FRA ÞIER VIKI

ÞA LIFSTUNDIRNAR LIDA HIER
LENDI I HIMNA RIKI.
AERIKUR (= Eiríkur). T(álgaði)."

Á botninum stendur: „Anno 1818", sem auðsjáanlega er skorið miklu seinna en hitt.

71. S. d. Sami: KÁLFSKINNS OPNA úr Jónsbók (lögbókinni). Þar á eru 16., 24. og 25. kap. úr kaupabálki. Handrit þetta er að minni ætlan frá sextándu öld.

72. S. d. Sami: LYKLAHRÍNGUR, flatur og slèttur, með snúnum brúnum allt í kríng. Hann fannst fyrir hèrumbil 90 árum í túninu á Hóli í Lundareykjadal, þá er verið var að slètta það.

73. S. d. Sami: BRAUÐSTÍLL, ferstrendur og rósaður á öllum hliðum, með hríng í. Hann er gamallegur.

74. „/". Ólafur Pálsson dómkirkjuprestur: MARÍUMYND úr silfri gjör, er vegur $1^1/_8$ lóðs. María er þar í möttli, hefir laust hárið og djásn eða kórónu á höfði. Öll myndin hefir verið gyllt, nema hörundið. Mynd þessi er haglega gjör og ágætur gripur sinnar tegundar. Mèr virðist hin lága kóróna og eins búníngurinn benda á, að myndin sè varla ýngri en frá fjórtándu öld. Hún fannst í gömlum öskuhaug fyrir framan bæinn í Stafholti 1848. Þar höfðu áður fundizt leifar af krínglóttri silfurskeið, og hugðu menn, að þar hefði á verið leifar af krossmarki, og að það hefði verið upprunalega á miðju skaptinu, en þessi Maríumynd hefði verið aptan á skaptinu fyrir knapp[1].

75. „/". Árni Thorsteinson landfógeti: Rennd KOTRUTAFLA af hvalbeini (sjá nr. 54)[2].

76. $^6/_2$64. Synir doktors Hallgríms Schevings: 14 BLÖÐ úr HAUKSBÓK. Þessi ágætu skinnblöð hefir

---

[1]) gripunum, sem hèr eru taldir nr. 64—74, er lýst í skýrslu í Þjóðólfi XVI, nr. 17—18, bls. 70—71.

[2]) um þenna grip hefir ekki verið auglýst áður.

Jón Þorkelsson gefið út með formála og skýríngum á kostnað bókmentafèlagsins. Reykjavík 1865[1].

77. (6/264. Synir doktors Hallgríms Schevings): TVÖ KÁLFSKINNSBLÖÐ úr KALENDARIO eða rími. Þau munu vera frá sextándu öld eða jafnvel ýngri. Í því hefir verið mikið af hègiljum, svo sem: „í október skal maður eta soðið flesk og drekka vín, því það hreinsar lífið, og drekka geitnamjólk (geitamjólk?)", o. s. frv.

78. S. d. Sömu: Lítið SKINNBLAÐ, sem óvíst er hvað á er ritað. Þó hafa menn þókzt geta lesið einstöku latínu-orð hèr og þar á stángli.

79. 16/264. Jónas Jónassen faktor í Reykjavík: TVEIR FÍLAGRANS HNAPPAR af silfri, af sömu stærð og gjörð og menn opt sjá gamla ermahnappa. Þeir voru hafðir fyrir hálsknappa.

80. 22/264. Gísli Magnússon skólakennari: RÚNASTEINN gamall. Rúnirnar á honum hefi eg lesið þannig:

„HER. HVILER. IVAR. VALGARDS. SON. SVEIN. OK. ANÞAR. AIR. SEM. GUÐ. ÞEIRA. SAL HAFI."

(SVEIN = sveinn, ANÞAR = annar(?), AIR = airekr, skammstafað, þ. e. eiríkr). Óvíst er, hvaðan steinn þessi er upprunalega, en sira Þorsteinn Helgason í Reykholti († 1839) kom með hann að Bessastöðum og skildi hann eptir hjá doktor Hallgrími Scheving, sem flutti hann til Reykjavíkur. Vera kann, að hann hafi áður verið í Reykholti, því að þar hefi eg heyrt sagt að steinn hafi verið með nafninu „Ívar", sem eigi kvað vera þar framar[2].

---

[1]) gjöf þessari hefir verið lýst í Þjóðólfi XVI, nr. 17—18, bls. 71.

[2]) eldri lýsing steins þessa með uppdrætti skýrir svo frá: „Steinn þessi er frá Húsafelli, og hefir sira Þorsteinn Helgason gefið skólabókhlöðunni hann. Hann er fimmstrendur, sjálfiagaður";

81. 3/364. Stephán Helgason Thordersen kandídat: TVÆR KVENNMYNDIR samfastar, skornar í tönn. Myndirnar munu báðar hafa verið hafðar sem vörn gegn illum öndum, því að báðar eru mjög máðar, sem þær hafi verið bornar á sèr. Önnur myndin er af Maríu guðsmóður með barnið, og er hún með kórónu á höfði og slegið hár. Hin myndin hefir bók í hendi og höfuðdúk á höfði, og á það líklega að vera María Magdalena, sem opt sèst mynduð með bók, heldur en Elísabet. Af klæða fellíngunum, búníngunum og skurðarlaginu má ráða, að mynd þessi muni vera frá fjórtándu öld. Hún fannst á víðavángi í Skorradal.

82. S. d. Sami: BRAUÐSTÍLL letraður. Á honum stendur með latínuletri:

„ALLT. MITT. RAD. TIL. GUDS. (eg set).
GUDMUNDUR. SUMARLIDAR (!). SON."[1]

83. 6/364. Páll Sigurðsson í Árkvörn alþíngismaður: FJAÐRASPJÓTSODDUR. Nokkuð er ryðgað framan af oddinum og aptan af falnum. Gat sèst gegnum falinn fyrir geirnagla. Falurinn á að hafa verið allt að því hálfu lengri, er það fannst. Spjót þetta fannst uppblásið í jörðu hèrumbil 100 faðma frá hól þeim, er Gunnarshóll heitir, og nú er upp blásinn, skamt frá Gunnarsholti hinu forna. Hóll þessi er kenndur við Gunnar Baugsson í Gunnarsholti, afa Gunnars á Hlíðarenda (Landnámab. bls. 286). Getur því vel verið, að hann hafi átt spjót þetta, og að sá rètti haugur hafi verið þar, sem spjótið fannst, en eigi hinn fyrr nefndi hóll. Að minnsta kosti eru mörg dæmi til þess, að

— á uppdrætti þeim sýnist standa „oþþar", þar sem hèr er lesið „anþar". J. S.

[1]) gjöfum þessum nr. 77—82 hefir áður verið lýst í Þjóðólfi XVI, nr. 20, bls. 79.

fornir haugar hafa eigi verið þar, sem almenníngur hefir sagt þá, heldur hafa þeir opt færzt um set til álitlegri hóla (sbr. Ferðabók Eggerts og Bjarna II, 292). Hvað sem þessu líður, mun spjótsoddur þessi vera frá söguöldinni, því að hann er mjög svipaður þeim spjótsoddum, sem áður eru nefndir[1], og um annan þeirra er öldúngis víst, að hann er frá því fyrir 1016.

84. 6/364. (Páll Sigurðsson í Árkvörn alþíngismaður): Gömul KOTRUTAFLA úr hvalbeini.

85. 12/364. Jón Borgfirðíngur bókbindari: VÍGTÖNN úr hundi. Hún er 1 þumlúngur og 1 lína, og hefir því hundurinn, sem hún er úr, verið ærið stór.

86. S. d. Sami: Lítið KNÍFSBLAÐ, með sívölum bakka og oddbrotið. Það er 3 þumlúngar upp að tánga og hefir verið hèrumbil 3½ þumlúngur upprunalega. Breiddin er ½ þumlúngur. Hann hefir verið líkur tygilknífum Norðmanna (sbr. nr. 4).

87. S. d. Sami: HEINBRÝNI með gati í endann, mjórra, en jafnlengra en heinin, sem fannst hjá Baldursheimi, og eigi nema 4 línur á breidd, en 3 þumlúngar á lengd. — Þessir þrír síðast töldu gripir (nr. 85—87) fundust á Gautlöndum við Mývatn (Gautlandafundurinn) 9. Juni 1855, er verið var að taka þar undirstöðu fyrir fjárhúshlöðu á ávölum hól í túninu austur af bænum. Þegar komið var hálfa aðra alin ofan í hólinn, sást á mannsbein, og urðu fyrst fyrir fótleggir af manni, og er grafið var nær, fundust öll beinin. Þau lágu frá útsuðri til landnorðurs. Beinin lágu á styttra sviði, en svaraði mannslengd, og virtist sem maðurinn hefði legið krepptur eða verið sitjandi. Bein úr hundi lágu undir knè honum. Á beinunum mátti sjá, að maðurinn hafði verið meðalmaður á vöxt, í hærra og gildara lagi. Fótleggurinn var 15 þumlúngar, lærleggurinn 18½ þuml-

---

[1]) sjá nr. 3 og 44.

úngur, hauskúpan að ummáli 21 þumlúngar. Hún hèlt sèr vel og var með flestum tönnum, og sýndi, að maðurinn hafði verið breiðleitur og brúnabeina-mikill, og hafði haft lítið skarð í hökuna. Öll mannsbeinin voru látin niður aptur. Auk knífsblaðsins (nr. 86) og heinarinnar (nr. 87) fundust engar fornar menjar með beinum þessum. — Það er eigi efunarmál, að maður þessi, er hèr var grafinn, hafi verið heiðinn. Hundsbeinin (sbr. nr. 11) og allt fyrirkomulagið á dysinu sýna það ljóslega. Öll líkindi eru til, að þetta sè bein Gauts, er fyrstur reisti bæ á Gautlöndum, og bjó þar um 970—980. Reykdæla saga (kap. 24) getur þess, að hann hafi átt góðan hund, er Flóki hèt, sem gó upp í fjallið, er þeir Víga-Glúmur og Eyjólfur Valgerðarson vildu veita Mývetníngum heimsókn með tveim hundruðum manna; vissu þá Mývetníngar, að fjandmanna var von af fjöllum ofan, og söfnuðu saman tveim hundruðum manna. Dys þetta getur eigi verið eldra en frá því, er Gautlönd voru byggð, og eigi ýngra en frá því, er kristni kom á Ísland, og leikur hèr því í mesta lagi á 50—60 árum. Á þessu stutta tímabili er fremur ólíklegt, að fleiri en einn hafi búið eða verið á sama bæ (Gautlöndum), er hafi átt þá uppáhaldshunda eða merkishunda, að þeir hafi verið heygðir með þeim. Sè getgáta þessi rètt, og tönnin (nr. 85) sè úr Flóka, þá má sjá, að þessi ferfætti bjargvættur Mývetnínga hefir engu síður haft tennur til að bíta með en kjapt til að gelta með.

88. S. d. Sami: Lítið KNÍFSBLAÐ. Fylgdu því hálfar skeiðar úr trè, sem höfðu verið með tinhólkum að aptan og framan og í miðju, og með spaungum eptir endilaungu. Á hólkunum hefir verið höfðaletur, en á spaungunum múnkaletur. Á því má lesa:

„S . . . NDE AF SUTAFULLU . . . .“

og á öðru broti standa orðin: „OG ÞIODA“. Stafirnir, einkum ain, benda á, að skeiðarnar muni vera frá fimtándu

öld. Grip þenna fann Jón sjálfur veturinn 1854 á alfara vegi undir Fagraskógarfjalli[1].

89. ($^{12}/_{3}$64. Jón Borgfirðíngur bókbindari): SESSUVER. Á því stendur: „ANNO 1763" og fángamarkið „S.S.S."

90. $^{14}/_{4}$64. Sigurður Guðmundsson málari: Spjaldofið STYTTUBAND. Á því stendur með bandaletri:

„SIGRIDUR PALS DOTTIR A B(andið)".

91. $^{23}/_{4}$64. Sami: KISTILL með nafnknút: „S. M. D." á lokinu, og haglegum blaðakrossi utanum, og rósaskurðverki á hliðum og göflum.

92. S. d. Sami: HEMPUFLOS eða hempuborði með rós, í tveim pörlum[2].

93. $^{30}/_{4}$64. Jón Thóroddsen sýslumaður: Svartur TENÍNGUR úr einhverjum hörðum steini. Hann er með 24 flötum. Á sumum þeirra er einföld tala, sem nú er títt, en sumum tveföld. Á sex flötunum eru bókstafir þessir með stóru latínuletri:

„ZS. ND. TA. LS. HN. NG."

Til hvers þessi teníngur hafi verið hafður, skal eg láta ósagt. Menn skyldi ætla, að það hefði verið einhver töfrateníngur eða lukkuteníngur. Hann á að vera úr búi Magnúsar sýslumanns Ketilssonar.

94. $^{22}/_{5}$64. Frú Sigríður Stephensen í Viðey: Vænn KIRKJUHURÐAR HRÍNGUR úr kopar, með einkennilegum flèttíngum yfirum. Á hann er ritað með höfðaletri:

„LOFID. GUD. I. HANS. HELGIDÓM.
HANS. KRISTNIR. MEN. A. JORDU".

og með latínuletri:

„SINGID. LOF. ÞOCK. DIRD. SÆMD. OG. ROM.

---

[1]) þessum gripum, sem hèr eru taldir í nr. 83—88, hefir verið lýst í Þjóðólfi XVI, nr. 33—34, bls. 130—131.

[2]) gripum þeim, sem hèr eru taldir nr. 89—92, hefir ekki verið áður lýst.

SO. ORD. HANS. VIDFRÆ(g. yrðu).
ARTAL. DROTTINS. 1625"[1].

95. $^{31}/_{5}$64. Arnkell Scheving snikkari í Reykjavík: SJÁLFSKEIÐÍNGUR frá átjándu öld. Hann er íslenzkur, og er smelt inn í skaptið kopar, og svörtum og rauðum litum[2].

96. $^{2}/_{6}$64. Sigurður Sverrisson sýslumaður: TVÖ NISTI eða spennur (möttulskildir) úr bronzi (kopar blendíng). þau eru sporöskjulöguð og hvelfd. Í þeim báðum innanverðum hefir verið járnþorn, til þess menn gæti nælt saman með öðrum þeirra klæði sín, ef vildi, eða haft þau fyrir feldardálka. Sextán göt eru boruð gegnum röndina á þeim, til þess hægt væri að sauma þau á klæði sín til skarts, ef vildi; má af því sjá, að það eru möttulskildir, er festir voru á möttulinn, þar sem tygillinn var festur í. þegar skildir þessir fundust, loddi enn grænt klæði (af möttli?) innan í öðrum þeirra eða báðum. Í Danmörku og Svíþjóð hafa margir slíkir skildir fundizt og jafnan tveir saman eins og hèr; bendir það á hið sama, að þeir hafi verið hafðir á möttli. Ofan á skjöldunum er laus grind, sem negld er á með fjórum járnnöglum. Grindin er öll gagnskorin með drekamyndum og auk þess með tveim mannshöfðum með stórum kömpum. Grindin hefir verið með gyllíngu og platan undir fögur og gyllt. Í „Worsaae's Nordiske Oldsager 1859", nr. 420 og 421, eru sýndar spennur með samskonar verki, og drekamyndir þessar líkjast mjög þeim, sem eru á spennunni nr. 414 s. st. Á hliðunum eru 8 ferhyrníngar silfraðir(?), og eru á milli drekamyndir gylltar, og nokkur drekahöfuð silfruð eða

---

[1]) gripum þeim, sem hèr eru taldir nr. 93 og 94, hefir verið lýst í Þjóðólfi XVI, nr. 37—38, bls. 156.

[2]) þessum grip, sem hèr er talinn nr. 95, hefir verið lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 14—15, bls. 58.

með silfurlit neðst á röndinni. Skildirnir eru 4 þumlúngar og 2 línur á lengd, en 3½ þumlúngur á breidd. Samskonar spennur eru sýndar í „Annaler for nordisk Oldkyndighed 1844—45", og segir þar á bls 313, að slíkar spennur hafi opt fundizt í haugum á Íslandi, og á bls. 315 er þess getið, að þær hafi fundizt á Íslandi með kúfiskum peníngum frá tíundu öld. Í „Nordisk Tidsskrift for Oldkyndighed" II, 312 segir, að á Kálfárbökkum hjá Flögu í Skaptártúngu hafi fundizt tvær samskonar spennur með tölum, er sendar hafi verið forngripasafninu í Kaupmannahöfn. Í „Antiqvariske Annaler" IV, 389—90 er þess enn fremur getið, að slíkar spennur hafi fundizt á Íslandi með glertölum. Tölur þessar hafa eflaust verið úr steinasörvi, sem kunnugt er að heyrði til kvennbúnaðar, því til þess eru konur einar kenndar; af því má ráða, að spennur þessar hafi verið af kvennbúnaði, og þó að ein slík tala finnist í karlmanns dysi, svo sem hjá Baldursheimi[1], þá sannar það ekkert, því að ein tala gat vel verið höfð sem knappur. Eigi er ólíklegt, að nisti þessi eða möttulskildir sè sama og brjóstkrínglur, sem getur um í Völundarkviðu, og bendir fleirtalan á, að svo muni fremur vera en að þær sè kíngur, því kíngur höfðu konur tíðast eina senn, en þó er það vafasamt (sbr. ritgjörð mína um kvennbúnínga í Nýjum Fèlagsritum, XVII, 26—27).

97. (²/₆64. Sigurður Sverrisson sýslumaður): SYLGJA úr bronzi, eða ein tegund af feldardálk. Það var stór hríngur með tveim hnúðum og opinn á einn veg, en hann var brotinn er hann fannst. Yfir um hrínginn lá stórt þorn með stórum hnúð, og typpi aptur úr að ofanverðu, þar sem hríngurinn lèk í þorninu. Nú er hríngurinn týndur og þornið brotið, og er að eins eptir helmíngurinn, sem er efri parturinn, og er hann 2 þuml-

---

[1]) sjá neðanmáls grein við nr. 11.

úngar og 7 línur. Far hafði verið í þornið, slitið eptir hrínginn, og um það hafði brotnað, og muna menn, að þornið var nær hálfu lengra en það er nú. Margar slíkar sylgjur hafa fundizt í Noregi, flestar úr látúni (kopar) eða járni, en nokkuð litlar. Árið 1862 fannst þar ein úr silfri gjör, 7 þumlúngar þvert yfir, og önnur þornlaus af líkri stærð fannst þar árið 1860 ásamt hálsbríngum og armhríngum af gulli („Illustreret Nyhedsblad", 11. ár, nr. 41). Þessi sylgja, er hèr segir frá, hefir verið mjög svipuð þeim í lagi, og sylgjan nr. 410 í „Worsaae's: Nordiske Oldsager 1859" er sömuleiðis lík þeim, nema hvað hún er smelt og krotuð, og nálaroddurinn nokkuð frábrugðinn. Sylgjan eða dálkurinn nr. 411 s. st. er af mjög líkri stærð og þessi sylgja hefir verið. Þesskonar munu hafa verið gullsylgjur þær, er fornmenn „sprettu frá sèr" og gáfu vinum sínum eða öðrum höfðíngjum, svo sem Mörður Skarphèðni, og Kári Guðmundi hinum ríka (Njála, bls. 122 og 154, sbr. Sturl. 8. þátt., bls. 122. 154 og víðar). Í „Annaler for nordisk Oldkyndighed 1844—45" (bls. 315) er getið um, að þríblaðaðar smáralagaðar spennur hafi fundizt á Íslandi með kúfiskum peníngum frá tíundu öld (hvað er orðið um þær?), og margar slíkar hafa fundizt í Danmörku og Svíþjóð; þær eru ein tegund af feldardálkunum, og þesskonar mun sú hafa verið, sem Víga-Glúmur hafði, því að sá dálkur var saumaður í feldinn, en svo er og að sjá, sem hann hafi verið nældur í feldinn með nál (sbr. nr. 190). — Af þessu sjáum vèr, að snemma á söguöldinni hafa Íslendíngar haft þrjár tegundir feldardálka, enda höfum vèr sýnishorn af þeim öllum í safninu (nr. 96, 97 og 190). Þá er það að eins ein aðal-feldardálkstegund, sem enn er hèr óþekkt, sumsè hinir laungu og mjóu feldardálkar, er hafa beygíngu um miðjuna; sjá „Worsaae: Nordiske Oldsager 1859", nr. 425—429. Slíkir feldardálkar eru eflaust úr

heiðni og ef til vill frá því áður en Ísland bygðist. Auk þess, sem þetta er merkilegt fyrir oss að vita, þá er það og merkilegt fyrir útlenda, því af þeim geta þeir meðal annars betur ráðið aldur feldardálka þeirra, er hjá þeim finnast.

98. (²/₆ 64. Sigurður Sverrisson sýslumaður): Renndur SKÁKMAÐUR úr beini. Hann sýnir, hvað skákin er gömul hèr á landi.

99. S. d. Sami: Aflángur steinn, útlendur, er Danir kalla „*fidtsten*", og er hann í tveim pörtum. Nú er hann einkum hafður til að bræða í gull, en til hvers fornmenn hafi haft hann, læt eg ósagt. — þessir síðast töldu gripir (nr. 96—99) fundust austur í þjórsárdal (þjórsárdalsfundur) fyrir 20—30 árum, og var Finni Magnússyni send lýsíng á fundinum, en eigi hefi eg sèð neina skýrslu um hann prentaða[1]. Talið er, að þjórsárdalur hafi lagzt í eyði af eldi úr Rauðukömbum 1344 (Espól. Árb. I, 78), og kemur það heim við annála Jóns Egilssonar (Safn til sögu Íslands I, 32), að það hafi verið í tíð Jóns biskups Sigurðarsonar (1343—48), en hvort sem þessir gripir hafa fólgizt í jörðu við þann atburð eða eigi, þá eru þeir eflaust úr heiðni eða frá söguöldinni. — Nistin (nr. 96), sem munu vera af kvennmannsbúníngi, og sylgjan (nr. 97), sem mun vera af karlmannsbúníngi, benda á, að hèr muni hafa verið grafin saman karl og kona[2].

100. ⁶/₆64. Jón Jakobsson prestur á Ásum: BRONZIPÍPA með ferstrendu gati að endilaungu. Yfir um hana eru tvö bönd með krákustigskroti, og fjögur bönd með innslegnum púnktum. Í miðjunni er gagnskorinn

---

[1]) fróðlegt og nauðsynlegt væri að sjá þá lýsíngu, ef hún er ennþá til.

[2]) gripum þeim, sem hèr eru taldir nr. 96—99, hefir verið lýst í Þjóðólfi XVI, Nr. 37—38, bls. 155—156.

hnúður, líkt og hann væri brugðinn úr bandi með gröfnum tenníngum. Hún fannst í gömlum rústum milli Staðarholts og Feðga í Meðallandi, en það voru hjáleigur frá Skarði í Meðallandi, er lögðust í eyði við Skaptáreldinn 1783. Járn stóð eptir í pípunni endilángri, er hún fannst. Aldurinn er illt að ákveða, en af því er ráða má af hnúðnum í miðjunni og verkinu á henni, krákustigsböndunum og púnktaböndunum, er hún varla ýngri en frá tólftu eða þrettándu öld, en gæti jafnvel verið frá elleftu öld[1].

101. 11/664. Ólafur Pálsson prófastur: SIGNET af tönn með stöfunum „S. A." og rós yfir[2].

102. 15/664. Björn Björnsson bóndi á Bessastöðum: SKINNBLAÐ með nótum.

103. S. d. Sami: SKINNOPNA með latínu á.

104. S. d. Sami: SKINNBLAÐ með latínu á.

105. S. d. Þorleifur Jónsson í Hvammi prófastur: KNÍFUR og GAFFALL, ágætir gripir. Þeir eru með sívölum silfursköptum með víravirki ofaná og gati í aptanvert skaptið. Þar í var hríngur úr silfri, sem nú er slitnaður úr, og var áður mjög slitinn, er síra Þorleifur mundi fyrst til, hefir sá hríngur líklega verið til þess, að festa gripina við belti sèr. Bæði sköptin hafa verið gyllt, og lagið sýnir, að gripirnir muni vera frá sextándu öld, enda er það sögn, að Björn Guðnason í Ögri hafi átt þá, en nær væri mèr þó að halda, að Magnús Jónsson í Ögri hafi átt þá, því að tvö stór „M" eru á hverju skapti, og er stórt bil á milli. Sköptin vega um 4 lóð. Síra Þorleifur hefir sagt, að eptir því sem hann minni til hafi verið gjört við blöðin og þeim breytt.

106. 24/664. Sveinn Þórarinsson á Möðru-

1) þessum grip (nr. 100) hefir ekki verið lýst áður.

2) grip þessum (nr. 101) er lýst í Þjóðólfi XVII, Nr. 12—13, bls. 51.

völlum, amtmannsskrifari: TRAFAKEFLI. Það er allt haglega gagnskorið að ofan, en á hliðarnar er skorið með höfðaletri:

„HILLI SOMA HAMINGIU ÞIDA
HELST ER KIÆTI
ÖLDŪ LIOMA EIKIN FRIDA
YNDI MÆTI".

Enn fremur er skorið á það nafnið:

„HOLMFRIDUR STEFANSD".

107. 26/6 64. Jón Árnason biskupsskrifari: Stór KERTASTIKA úr járni, sem eitt sinn var höfð í kirkjubita hjá prèdikunarstól á Kálfafelli í Fljótshverfi, og hèkk hún í tveim lykkjum í bitanum. Hún er öll með einkennilegum rósum, sem slegnar eru úr járni.

108. 30/6 64. Þorkell Bjarnason stúdent: KIRKJUHURÐARHRÍNGUR frá Fagranesi í Skagafirði. Hann er með rósum og á honum eru tvö drekahöfuð, nokkuð forneskjuleg. Á honum stendur ártalið „1673". Þrátt fyrir ártalið, sem á honum er, hefir sú saga myndazt um hann, að hann sè grafinn úr hól eða haug frá heiðni, er Kjölur heitir, og stendur í túninu á Fagranesi; sýnir þetta meðal annars, hvað munnmælin eru opt völt og viðsjál[1].

109. 31/6 64. Jóhann Briem í Hruna prófastur: HORNÍSTÖÐ, haglega skorin. Á þau, hvort um sig, er grafið með höfðaletri:

„STEINUNN SVEINSDOTTER Á IS(taðið)."

Slík ístöð munu vera orðin mjög sjaldgæf hèr á landi, og enda óþekkt með öllu, nema sumstaðar fyrir austan[2].

---

[1]) Þessir gripir, sem hèr eru nr. 102—108, eru áður taldir í Þjóðólfi XVI, nr. 37—38, bls. 156; XVII, nr. 14—15, bls. 58 (nr. 106) og nr. 27—28, bls. 112 (nr. 107).

[2]) sbr. bls. 15 athgr. — Um hornístöð sira Hallgríms Pèturssonar sjá Gest Vestfirð. V, 81. J. S.

110. S. d. Sami: Stór BRÓKARHALDSKNAPPUR úr prinzmetal með rósum.

111. 1/7 64. Sæmundur Guðmundsson á Hrólfstaðahelli í Rángárvalla sýslu. Stór SKAFLASKEIFA fimmboruð. Það er dragstappa fornleg. Hún fannst þar vestur undan bænum í uppblásinni jörð.

112. S. d. Brynjólfur Brynjólfsson í Bolholti, hreppstjóri: Stór SKAFLASKEIFA fimmboruð, eigi mjög fornleg. Hún fannst fyrir 25 árum síðan, á sandi nálægt Bolholti eldra, norður af þíngskálum.

113. 4/7 64. Gísli Thórarensen prestur að Felli: GLERTALA með gati, er fannst á Ketilstöðum fyrir fám árum síðan, er grafið var til kálgarðs. Í gatinu sást hörspotti, er að var gætt, og ætluðu menn því, að fleiri hefði verið saman, og kynni talan að vera úr gömlu „paternoster"-talnabandi, er menn höfðu í pápisku til að lesa eptir bænir sínar.

114. S. d. Sami: PÁLSTAFUR(?). Verkfæri þetta fannst árið 1846 í Pètursey, 1½ alin niður í jörð, er verið var að grafa til heyhlöðu á slèttri grund. Eigi er þess getið, að þar hafi fundizt manna bein eða önnur mannaverk. Blaðið á verkfæri þessu eða vopni er að ofanverðu holt, og er klofið á fjóra vegu ofan í það, svo að upp úr blaðinu hafa gengið fjórir tángar upp á skaptið, sem enn sjást leifar af, en gegnum þá hafa verið settir 4 hnoðnaglar til að festa þá við skaptið. Blaðið er 6½ þumlúngur á lengd, og vantar lítið á það, en 5 þumlúngar og 3 línur á breidd og 8 línur á þykkt. Skaptholið efst. Blaðið hefir líkast lag sem axar feti, eða neðri hluti af pálblaði. Menn hafa ætlað, að þetta mundi vera öxi. Það getur þó varla verið, því að skaptið hefir verið rekið lángsetis ofan í blaðið, sem títt var á fornum páli, en eigi legið þversum, sem á öxi. Varla getur þetta heldur verið páll, því að bæði blaðið sjálft og skaptholið eru allt of þunn og efnislítil, til þess að þau geti

verið af verkfæri, sem ætlað er til annarar eins áreynslu. Enn er það næsta ólíklegt, að það hafi verið smíðatól, því að til þess hefir það alltof óhentugt lag, enda er það mjög bogið til eggjarinnar. Mèr hefir því helzt komið til hugar, og þykir það eigi ólíklegt, að þetta muni vera leifar af vopni því, er fornmenn kölluðu pálstaf, og einkum var haft í sjóorustum. Pálstafs er getið í Konúngs-skuggsjá, Sverris sögu, og víðar.

115. (4/7 64. Gísli Thórarensen prestur að Felli): STEINN í axarlíking. Hann fannst á slèttri grund austan undir Fellsfjalli. Hann mundi víst vera allgott vopn eins og hann er, en enga verulega orsök hefi eg til að halda, að manna verk sè á honum. Hann getur þó vel hafa verið hafður fyrir vopn, og eigi er mèr grunlaust um, að Íslendíngar á söguöldinni hafi við yms tækifæri notað steinvopn, t. a. m. slaungur, og er það alls athuga vert, ef slíkir steinar finnast.

116. S. d. Sami: BOLLASTEINN, er fannst í rústum á Svaðbæli undir Eyjafjöllum. Þar[1] var áður kirkja, og ætla menn að þetta sè gamalt vígsluvatnsker úr henni.

117. S. d. Sami: STEINN, er saman er settur af steingjörvum sjóarormum. Hann var dreginn á fertugu djúpi úti á Eyjafjallahraunum.

118. 5/7 64. Egill Pálsson á Múla í Biskupstúngum hreppstjóri: Slètt TRAFAKEFLI með rósum. Á það er skorið með höfðaletri:

„VEITE ÞIER GIÆFU GUD
GRANDE VID VÆRDE (= varði)
AF SION ALLA TID".

---

1) er þó efi á, hvort kirkja hafi nokkurntíma verið í Svaðbæli, en í Miðbæli hefir verið kirkja (sbr. Íslenzkt Fornbrèfasafn I, 252—55). J. S.

og með latínuletri:

„ANNO 1743 DAG 22. APR A S."

119. S. d. Sami: Sívalt TRAFAKEFLI sams konar (undirkeflið)[1].

120. 7/7 64. Vigfús Ófeigsson bóndi á Húsatóptum á Skeiðum: Gamalt SVERÐ. Vigfús fann það í fjallgaungum haustið 1863 á slèttum mel á víðavángi nálægt Bergólfsstöðum (eyðijörð) í Þjórsárdal, og sást þar engi vottur fyrir mannvirkjum, dysi eða beinaleifum. Sverð þetta var alveg heilt, er það fannst, en oddurinn hefir brotnað af því af slysum. Þó má sjá allt lag þess, er oddurinn er lagður við. Meðalkaflinn er 4 þumlúnga lángur, og hefir breitt járn eða tángi gengið eptir meðalkaflanum endilaungum, og þar utaná á báða vegu hafa verið negldar kinnar, líkt og á borðkníf, hafa þær verið negldar með þremur eirnöglum, og standa tveir eptir. Kinnarnar eru að mestu leyti fúnaðar burt. Hnúðurinn aptaná er nokkuð flatur, og breiðari að aptan. Hjöltun eru 5½ þumlúngs laung, ferstrend í miðju, en sívöl til beggja enda. Þvers í gegnum hjöltun gengur lángur nagli, og er hann spaðalagaður handarbaks megin, þá haldið er um sverðið. Blaðið er eineggjað, 2 þumlúngar og 1 lína á breidd við hjöltun, en 28½ þumlúngur á lengd. Eptir því endilaungu gengur hryggur. Sverðið er þunnt og lipurt; það er að mestu beint í bakkann, en þó heldur lítið eitt falt og sniðiloddað. Brandurinn á sverði þessu er líkur því, er tíðkaðist í heiðni, en hjöltun eru frábrugðin, og eins löguð hjölt sjást á þjóðverskum og frakkneskum sverðamyndum frá

---

[1]) gripum þessum, sem hèr eru taldir nr. 109—119 hefir verið lýst áður í Þjóðólfi: XVII, nr. 12—13, bls. 51 (nr. 109—112); og nr. 14—15, bls. 57—58 (nr. 118—119); XVIII, nr. 35, bls. 138—139 (nr. 113—117).

1123—1400. Þegar á allt lag sverðsins er litið, er mèr næst að halda, að sverðið sè frá því síðast á Sturlúnga öld.

121. 7/7 64. Brynjólfur Jónsson á Minnanúpi í Eystra hrepp: Leifar af fornu stóru FJAÐRASPJÓTI. Er það oddurinn og nokkuð af falnum (pípunni fyrir skaptið), en miðhlutann vantar. Spjótsodd þenna fann Guðný Jónsdóttir, kona Guðmundar bónda Ófeigssonar á Hraukshlöðu (hjáleigu frá Traðarholti í Flóa), nálægt Barnanesvaði, um vorið 1862. Fyrir vestan vaðið er sagt að sè litlir hólar, sem eiga að vera haugar eða dys fornmanna, og liggi vegurinn á milli þeirra, en gatan hafi sökum bleytu verið færð upp í einn hólinn. Höfðu hesta fætur troðið þar upp jörðina, unz sást á spjótið: oddinn í öðrum bakkanum, en falinn í hinum. Miðjan á spjótinu, er lá yfir um sjálfa götuna þvera, var öll orðin að einni ryðmöl. Af þessu ályktuðu menn, að spjótið mundi upprunalega hafa verið um 1 alin á lengd eða rúm götubreidd, og víst er það, að það hefir verið ærið stórt og þykkt. Það er með hrygg beggja vegna að framan, en annars vegar flatt, er frá oddinum dregur, og þykir mèr næst sanni, að hryggurinn sè þar ryðgaður af. Það er varla efunar mál, að Barnanesvað, sem nú er kallað, er sama, sem Landnáma (bls. 305) kallar Haugavað, og segir, að sè „skammt frá Traðarholti", en sem Flóamannasaga (kap. 9) segir, að sè „ofan frá Traðarholti". Þar er sagt að Hrafn Þorviðarson hafi fallið, og um þrjá hauga aðra frá sama tíma er þar getið. Það má því telja nokkurnveginn víst, að spjót þetta sè frá heiðni, og sýnir það, að Íslendíngar hafa þá haft stór spjót, þó að þau muni eigi hafa verið algeng fyr en eptir 1016 (Grettla, kap. 4—5). Líkindi eru til, að hèr mundi fleiri gripir finnast, ef leitað væri.

122. S. d. Sami: Stór FLEINN eða NAGLI, er fannst í Þjórsárdal.

123. S. d. Sami: TRAFAKEFLI með skornum rósum. Á það er skorið með höfðaletri:

„LUCKUNA. LINDINN. BIDÆ.
OG. LÆYST. MÆINUM. FRA.
MARGRIET. GUD. ANNO. 1731".

124. S. d. Sami: Annað TRAFAKEFLI með haglegum rósum, mannsmynd, lykilsmynd og ljónsmynd. Á því er höfðaletur, sem að miklu leyti verður lesið, en illt er að fá vit úr. Enn stendur á því „ANNO 1739".

125. S. d. Sami: Krínglóttar TRAFAÖSKJUR. Á þeim eru báðir botnarnir haglega skornir með rósum, og á eskinu stendur með höfðaletri:

„MINN IESUS MÆTI
MIN IAFNANN GIÆTI
HURS KINS BÖL BÆTI
BURT SINDIR (ræti)
ANNO 17(0)4"[1].

126. 25/7 64. Helgi Sigurðsson á Jörva: HURÐARHRÍNGUR frá Krossholtskirkju, með upphleyptum rósum á.

127. S. d. Tómas Eggertsson á Íngjaldshóli hreppstjóri: Neðri hluti af gamalli BEIZLISSTAUNG úr kopar. Á hana vantar augað að ofan. Hún hefir einkennilegt lag og er öll grafin. Hún fannst í gömlum götubakka milli Rifs og Íngjaldshóls.

128. S. d. Sami: Stutt knífskapt(?) úr tómu járni. Við það sèst lítið eitt af efra hluta blaðsins. Aldur þess er óviss.

129. S. d. Sami: BLÝSTÈTT eða TINSTÈTT með gati, óvíst frá hverju. Verið gæti og, að það væri plata, sem notuð hafi verið við kertasteypu til að stínga raki í

---

[1]) gripum þessum, sem hèr eru taldir nr. 120—125, er lýst í Þjóðólfi: XVII, nr. 42—43, bls. 172—173 (nr. 120—121), og XVIII, nr. 35, bls. 138 (nr. 122—125).

gegnum þá steypt er í forma; slíkra platna hefi eg heyrt getið. — Í máldaga Auðunnar rauða fyrir Áskirkju í Kelduhverfi er getið um kertagrind, sem sýnir, að menn hafa þá steypt kerti í strokk, en ekki í forma; í máldaga Ólafs Rögnvaldssonar fyrir Hrafnagili er getið um kertaforma, en hefir þar líklega aðra merkíng, sama sem kertaborð eða stóll (sjá bókaforma); þess vegna er óvíst um aldur á kertaformum. Báða þessa gripi (128 og 129), fann Elías Jónsson Kjernesteð á Munaðarhóli djúpt í jörðu, er hann gróf undirstöðu til baðstofu sinnar.

130. ($^{25}/_{7}$ 64. Tómas Eggertsson á Ingjaldshóli hreppstjóri): TVEIR KOPARKNAPPAR hvelfdir, mjög stórir, með víravirki, líklega gamlir brókarhaldsknappar, er tíðkuðust á átjándu öld, en nú eru farnir að verða mjög sjaldgæfir. Þá fann Guðmundur bóndi Árnason á Gufuskálum í gömlum öskuhaug.

131. S. d. Sami: LYKLAHRÍNGUR úr kopar með rósum útúr. Hann fann fólk af Skarðströnd á grasafjalli.

132. S. d. Sami: TRAFAKEFLI, allt skorið með rósaknútum. Á það er rist með höfðaletri:

„AVDGRUND SV SEM EIGNAST KIE(f)LID ÞETTA
HLIOTE GIÆFV F (= & ?, og) LAN MED LAG
OG LUCKU...",

og enn fremur fángamarkið „S E D."

133. S. d. Sami: RÚMFJÖL, haglega gjör, öll skorin í miðju með gagnskornum rósum. Á hana er skorið allt í kríng með höfðaletri:

"FRODÆR PRVDÆR PRÆSTAR ALLÆR.
ER PLAGA AD GISTA HIÆR.
MIG I (hvi)LU MÆNTA SNIALLÆR.
HAFÆ HVÖR HIA SIER.
ANNO 1740. I P S."

— Gripirnir nr. 127—133 hafa gefizt fyrir milligaungu

Helga á Jörva, sem hafði fengið Tómas hreppstjóra til að takast á hendur að safna ymsum fornmenjum þar vestra. Gripirnir nr. 132—133 eru úr eigu Stepháns Eiríkssonar, er lengi var í Ólafsvík, bróður Sigurðar Breiðfjörðs.

134. S. d. Helga húsfreyja á Rauðkollstöðum í Eyjahrepp: FÍNGURHRÍNGUR úr kopar, gamallegur. Hann er með áttstrendri stétt ofan á; er þar á grafið innsigli, manns höfuðskel og tveir lærleggir, lagðir í kross, og, að mèr virðist, bandrúnir þar upp af; gæti menn því hugsað sèr, að læknir hafi átt innsiglið. Hríngur þessi fannst í Miklaholts kirkjugarði á mjög fúinni manns kjúku, er grafið var til undirstöðu kirkjunnar.

135. S. d. Teitur Bachmann, bóndi Helgu húsfreyju (sjá nr. 134): Stór SKEIFA fimmboruð. Það er dragstappa fornleg. Þegar grafið var fyrir undirstöðu kirkjunnar í Miklaholti fyrir nokkrum árum, fannst hún ofan á líkkistuloki, mjög fúnu, og var viðarkola hrúga utanum. Víðar fyrir vestan hafa fundizt skeifur á kistulokum. Að minni ætlan hafa menn látið skeifur á líkkistulok til þess að verja hina önduðu fyrir aðsókn illra anda, og einkum gamla kölska, er menn ætluðu að sækti að líkum; mun orsökin meðfram sú, að málarar hafa af einhverri meinsemis glettni sýnt kölska með hrosshófum, og hafa menn því ímyndað sèr hann hrossbæfðan og ætlað, að hann fældist öfugar skeifur og hófa. Af samskonar hjátrú er það víst runnið, að öfugar skeifur sjást opt negldar við útidyr á gömlum húsum í Kaupmannahöfn, eða reknar á siglutrè á hafskipum erlendra.

136. S. d. Geir Bachmann í Miklaholti prestur: MÁLMKLUMPUR, krínglóttur og uppmjór. Hann fannst á líkkistuloki í Miklaholts kirkjugarði, sveipaður viðarkolum. Menn ætla, að hann muni hafa verið innsigli, er hafi haft verið, þá er innsiglað var með vaxi. — Gripirnir

nr. 134—136 hafa gefizt safninu fyrir meðalgaungu Sigurðar Helgasonar dannebrogsmanns[1].

137. $^{30}/_{7}$64. Pètur Bjarnason bóndi á Hákoti í Njarðvík: PELI frá því snemma á átjándu öld.

138. S. d. Páll Pálsson stúdent í Reykjavík: Stór OPNA á skinni með latínusaung[2], ágætlega rituð.

139. S. d. Sami: Hálf SKINNOPNA með latínusaung og nótum á.

140. S. d. Sami: TVÖ SKINNBLÖÐ samkynja með nótum og latínusaung.

141. S. d. Sami: Hálf OPNA á skinni með nótum og latínusaung á.

142. S. d. Sami: Partur af SKINNBLAÐI með nótum og latínusaung.

143. S. d. Sami: Stórt SKINNBLAÐ með únglegri skript.

144. S. d. Sami: FJÓRIR BLAÐSNEPLAR á skinni, sem íslenzka er rituð á, líklega úr bænabók. Allir upphafsstafirnir hafa verið gylltir.

145. $^{31}/_{7}$64. Pètur Guðmundsson á Bergstöðum: Gömul BEIZLISSTAUNG einkennileg. Hún er úr járni, með svipt að ofan í staðinn fyrir auga. Hún fannst í gömlum vegg á Mælifelli í Skagafirði.

146. S. d. Sami: TRAFAKEFLI með gapanda drekahöfði á endanum, og hefir stóran bita í kjaptinum. Á það er ritað nafn með bandrúnum. Sömuleiðis stendur á því með latínuletri:

„OLAFVR SIGVS SON HEFVR S(korið)"

og enn fremur: „I H S" og „1693 P G S".

147. $^{8}/_{8}$64. Eyjólfur Einarsson í Svefneyjum

---

[1]) frá þessum gripum, sem hèr eru taldir nr. 126—136, hefir verið skýrt í Þjóðólfi XVII, nr. 12—13, bls. 50—51.

[2]) úr kirkjusögu á latínu, Þjóðólf. XVII, 113.

dannebrogsmaður: Ágæt ÖLKANNA, gjör af steini eða óvanalegri leirtegund. Hún er með tinloki og öll skreytt með haglegum rósum. Á henni er ártalið „1577". Á henni eru myndaðir: Julius Caesar herklæddur, með krufinn örn á skildinum, Judas Makkabaeus og Alexander hinn mikli, báðir með ljón á skjöldum sínum, og í herklæðum, er tíðkuðust á fimtándu og sextándu öld. Kanna þessi er hollenzk eða þjóðversk, sem nafnið „DER GROS ALEXANDR" sýnir.

148. $^{30}/_{8}$64. Þórunn Jónsdóttir húsfrú á Ísafirði: Vandaður REIÐI óvanalega stór. Hann er með stórri kúlu eða skildi á. Þar á eru tvær látúnsbúnar blöðkur. Útúr báðum hliðum reiðans eru þrír sprotar, og sameinast tveir af þeim á hestlendinni. Allar ólar reiðans eru alklæddar með koparstokkum, gröfnum ýmist með rósum, knútum eða dýra myndum, og er sumt af því gagnskorið. Skrautið á reiðanum virðist vera misgamalt. Sumar rósirnar eru gjörvar alveg í sama anda og rósir á skinnbókum frá fjórtándu og fimtándu öld, og ætla eg, að sumir stokkarnir og skjöldurinn sè frá þeim tíma, eða þá að minnsta kosti gjörðir eptir gripum frá þeim tíma.

149. $^{3}/_{9}$64. Jón Árnason biskupsskrifari: TVEIR HEMPUSKILDIR gylltir, úr silfri. Þeir eru með loptverki og vega $1^{1}/_{2}$ lóð. Eg hefi sèð tvo mjög líka að gjörð, en nokkuð stærri og betri, sem báðir eru komnir út úr landinu.

150. S. d. Sigurður Vigfússon gullsmiður í Reykjavík: Hollenzkar eða þjóðverskar DÓSIR. Þar á er tvennskonar kalendarium eða almanak, mynd af biskupi með mítur, o. fl. Þær eru hèrumbil einsog nr. 232, með sömu ártölum og líkum myndum: mann með globus, biskup með mítur á höfði, og mann eða konu með kórónu.

151. $^{5}/_{9}$64. Jón Högnason í Hrepphólum prestur:

HURÐARHRÍNGUR úr Hrepphóla kirkju; hann hefir gjöra látið sira Jón Egilsson, er annálinn reit. Á hann er grafið með latínuletri:

„S(ira). ION. EIELS. S(on). HEFVR. LATID. SMIDA. KIRKIVNA. A(nno) 1598."

152. 17/9 64. Jón Melsteð á Klausturhólum prestur: Partur af BEINSPJALDI, er fannst undir bænum á Klausturhólum, er hann fyrir fám árum var reistur á ný. það er með gagnskornum knút að ofan og mannþyrpíng neðan undir. Á einum manninum sèst votta fyrir pípukraga, er hann hefir um hálsinn, sem sýnir, að spjaldið varla muni vera eldra en seint úr pápiskri öld, eða seint frá fimtándu öld. Hèr hefir verið myndað eitthvað úr biblíunni, óvíst hvað.

153. 24/9 64. Eldjárn þórarinsson frá Prestbakka í Hrútafirði, skólapiltur: LYKLASYLGJA með „I H S" innan í, og snúníngum á röndunum.

154. S. d. Sami: LYKLASYLGJA með gröfnum krossi innan í.

155. S. d. Sami: KOPARHRÍNGUR með 8 rákum allt í kríng. Hann hefir líklega verið hafður fyrir lyklahríng.

156. S. d. Sami: TRAFAKEFLI með rósum. Á það er ritað með höfðaletri, latínuletri og rúnum, öllu í samblandi:

„SV. SEM. KIÆFLED. ÆIGNAST. A.
EILIFA. BLESSAN. HREPÆ.
ANNIST. GUD. ÞA. AVDAR. NA.
SO. ALLDRE GODI SLEPÆ.
ANNO. 1685"

Enn fremur er þar á latínumáli:

„SION. LAUDA. DOMINUM. SALVATOREM. HOMINUM. PURGATOREM. CRIMINUM."

(ɔ: Síon! lofa drottinn, frelsara mannanna, hreinsara lastanna)[1].

157. $^{24}/_{9}$64. Sigurður Sverrisson sýslumaður: ÞRJÁR GLERTÖLUR. Inn í hina stærstu, sem er óreglulega löguð, hvorki hnöttót, köntuð nè kvarnarsteinslöguð, heldur þar mitt á milli, er smelt rauðum, bláum, hvítum og svörtum litum. Önnur talan, sem er sívöl og brotin til annars endans, því hún hefir verið laung, er með blám, rauðum, gulum og grænum litum. Þriðja er tvöföld eða samsett af tveim hnöttóttum tölum samföstum, gulum að lit. Tölur þessar hafa, eptir því sem menn komast næst, fyrir laungu síðan fundizt í bæjar rúst, þar sem kallað er á Jarlángstöðum, Jarðlaugstöðum eða Arlaugstöðum (eyðijörð) á Landi í Rángárvallasýslu. Þetta munu vera tölur úr fornu steinasörvi, er konur báru á hálsi sèr í heiðni, og munu vera samskonar og talan er fannst hjá Baldursheimi (sbr. nr. 11), þó að hún kunni að hafa verið höfð í knapps stað. Eptir árið 1000 verður eigi vart við, að aðrar konur beri steinasörvi en forneskjulegar kerlíngar, svo sem fóstra Barða Guðmundarsonar (um 1015 — sjá Heiðarvíga sögu, kap. 23), er lèt það um háls honum til varnar, og enda má ætla, að seint í heiðni hafi hjátrú og forneskja verið farin að festast við steinasörvi, þviað um seiðkonuna í Þorfinns sögu karlsefnis (um 1000) er það tekið fram, að hún hafi haft glertölur á hálsi sèr, og á það vafalaust að skiljast sem eitthvað óvanalegt og forneskjumerki. Á öndverðri þrettándu öld sjá menn, að steinasörvi hafa

---

[1]) gripir þeir, sem hèr er skýrt frá og taldir nr. 137—156, eru áður taldir í Þjóðólfi XVII, nr. 14—15, bls. 58 (nr. 137, 152) og bls. 57 (nr. 146—147, 153—156); — nr. 27—28, bls. 113 (nr. 138—144) og bls. 112 (nr. 148—149); — nr. 12—13, bls. 51 (nr. 145, 151); — nr. 42—43, bls. 172 (nr. 150).

verið algjörlega úrelt og einúngis þekkzt af sögusögn, því að í Snorra eddu (II, 319) segir: „fyrir því er kona kennd til gimsteina eða glersteina, að það var í forneskju kvenna búnaður, er kallað er steinasörvi, er þær höfðu á hálsi sèr." Hèrumbil eins tölur hafa fundizt í útlöndum með gripum, sem menn ætla að sè frá annari og þriðju öld eptir Krists burð[1].

158. $^{25}/_{9}$64. Kristinn Magnússon í Engey hreppstjóri: TRAFAKEFLI, haglega skorið. Á það eru myndaðir tveir ferfættir vargar, og ber annar rós í kjaptinum, er liðast allt í kríngum hann, en hinn smýgur gegnum hríslu, haglega skorna. Þar á eru og myndaðir tveir drekar, er vinda saman sporðana, og er allt mjög forneskjulega skorið. Á það er skorið með höfðaletri:

„CHRICTVR. BLECCE. KIÆRV. ÞA.
SEM. KIEFLENU. ÞESSV. HELLDVR. A.
I. VÖKU. OG. SVEFNE. VERE. HJA.
VOLLDVGVR. DROTTINN. HIMNVM. A.",

og enn fremur:

„HLIOTI. HIRLEG. SÆTA.
HLIOTE. GUDC. HILLE. FLIOTA.
G. G. ANNO. 1705."

Kefli þetta, sem er svo forneskjulegt, og þó eigi eldra, sýnir hve fastir Íslendíngar hafa verið á fornum venjum. Dýramyndirnar og drekamyndirnar á kefli þessu eru í sama anda og tíðkaðist á skjöldum á elleftu og tólftu öld, og rósirnar hafa líkan keim og rósir frá tólftu og þrettándu öld. Það má telja víst, og mun sannast betur með tímanum, er fleira safnast, að Íslendíngar hafa skorið flestar myndir sínar fram undir 1800 í sama anda, og tíðkaðist í útlöndum á elleftu, tólftu og þrettándu öld[2].

---

[1]) þessari gjöf er áður lýst í Þjóðólfi XVIII, nr. 35, bls. 138.
[2]) um gripi þessa er getið í Þjóðólfi XVII, nr. 14—15, bls. 58.

159. 26/9 64. **Þórður Runólfsson** í Saurbæ á Kjalarnesi: Stór SAXKNÍFUR(?). Blaðið er átta þumlúnga lángt, frammjótt og tvíeggjað meir en upp til miðs. Skaptið er samsett af 47 beinhríngum og járnhríngum, er alltaf skiptast á, er hnoðuð ró aptan á, og engi eru hjöltu á honum. Hann er lítið sem ekkert skemmdur. Kníf þenna fann Gísli bóndi á Vífilstöðum árið 1855 í jarðfalli í Vífilstaðafelli[1], og ætla menn, að þar hafi verið slètt til forna, er nú er jarðfallið. Skaptið stóð út úr bakkanum og var manni í mitti frá graseverði og niður þángað, er knífurinn var. Þar fannst ekki annað, og engar eru sagnir um stað þenna. Knífurinn er auðsjáanlega vopnknífur eða hefir verið hafður fyrir vopn, og mun að líkindum vera sú tegund, er fornmenn kölluðu saxkníf eða stikkhníf. Ætla má, að knífurinn sè gamall, bæði af laginu og af því, hve djúpt hann fannst í jörðu[2].

160. S. d. L. J. C. **Schou** verzlunarstjóri í Húsavík: REKKJUREFILL eða rúmtjald. Refill þessi er haglega saumaður með rósum, og á hann er saumað með haglegu útsaumsletri eða bandaletri:

„GVDE. SIE. LOF. AD. NOTTINN. DIMM. NV. ENDUD. ER.
ENN. GODVR. DAGVR. GIEFENN. MIER[3].
TIL. HVILV. MED. MIER. HEF. EG. GVD.
HIL. AUGVNN. I. HANS. NAD. OG. FRID.
ENN. HANN. IFER. MIER. VAKE.
I. VOKV. OG. BLVND.
A. ALLRE. STVND.
SO. EINGE. (kvöl mig saki)."

161. S. d. **Björg Guttormsdóttir** frá Hofi, prestsekkja í Húsavík: REKKJUREFILL úr hvítu lèrepti,

---

[1]) „Vífilstaðahlíð", segir í skýrslunni í Þjóðólfi.
[2]) um grip þenna er getið í Þjóðólfi XVIII, nr. 35, bls. 139.
[3]) Morgun sálmur. Sálmabók íslenzk. Khöfn 1746. 8., bls. 529.

svipaður hinum fyrra (nr. 60), allur saumaður með hríngum, og innan í hríslur og dúfnamyndir, allt saumað með mislitu. Á jöðrunum er saumað með haglegu bandaletri:

VERTV. NV. MINNE. HVILV. HIA.
MED. HEILOGVM. ENGLA. SKARA.
OVINE. DRIF. ÞV. ALLA. FRA.
ENN. MIG. HEILANN. BEVARA.
LIKAMAN. LATTV. SOFA. SÆTT.
ENN. SALENA. I. ÞIER. VAKA.
OG. TILSION. TAKA.
DRAU [móra ógn og illa vætt
aldrei láttu mig saka][1].

162. 26/9 64. Sama: STOKKUR málaður og skorinn, með rósum. Þar á stendur:

„ESPRICHOLMIUS 1771."

163. S. d. Sigurður Helgason smiður á Auðúlfstöðum í Lángadal: Hvelfdur SKJÖLDUR, áþekkur reiðaskildi. Á hann miðjan er grafin hagleg rós, í sama lagi og hèr tíðkaðist fyrrum, en utanmeð á barðinu allt í kríng eru rituð með gamallegu latínuletri þessi þjóðversku orð:

„GADES[2] FRIEDE UND BARMHIERTIGHEIT WESE MIT JUR" (ɔ: guðs friður og myskun sè með yður). Verkið á skildi þessum er mjög líkt því, sem það væri íslenzkt.

---

[1]) vers úr hinum ágæta kvöldsálmi sira Sigurðar Jónssonar í Presthólum (1625—1661): „Lof sè þèr guð fyrir liðinn dag", sem er prentaður i grallaranum, að minnsta kosti síðan i tíð Steins biskups, og í hinum gömlu íslenzku sálmabókum í „Sálmum á kvöld og morgna", t. d. í grallaranum 1732 (12tu útg. bls. 249) og síðan; einnig í sálmabókinni á Hólum 1742, bls. 266; í Khöfn s. á., bls. 526—27. Hólum 1751, bls. 653. Hólum 1772 (Höfuðgreinabók II. Part.) bls. 480—481.

J. S.

[2]) gades = gottes; að setja þetta orð síðast og láta merkja „dyr" eða „hlið" (Þjóðólf. XVII, 112) mun varla vera rètt.

J. S.

164. S. d. Kristján Árnason í Ærlækjarseli í Axarfirði hreppstjóri: EIRHRÍNGUR, er fyr var í skemmmuhurð eða kirkjuhurð á Svalbarði í þistilfirði. Kristján fèkk hrínginn til að steypa úr með öðru koparrusli. Á hann er grafið með engilsaxnesku latínuletri:

„(i)N NOMINE PATRIS ET FILI."

(ɔ: í nafni föður og sonar), og er því sjálfsagt upprunalega úr kirkjuhurð. Að því er letrið snertir, gæti hann verið frá tólftu eða þrettándu öld, og mun vart vera ýngri en frá fjórtándu öld. Letrið er líkt og á Rannveigar nafninu á nr. 198 og Jesúnöfnunum á nr. 230 og 247. Líkt letur, en þó eigi eins fornlegt, er á gömlu biskups-innsigli frá Grænlandi í byrjun fimtándu aldar[1].

165. 27/9 64. Kristján Jónsson skáld (skólapiltur), frá Grímstöðum á Fjöllum: LYKLAHRÍNGUR, er læsa má og ljúka upp.

166. S. d. Jón Ólafsson frá Kolfreyjustað, skólapiltur: SKINNBLAÐ með latínskum nótnasaung[2].

167. 29/9 64. Bjarni Sigvaldason prestur á Lundi: Einhver SMÍÐISGRIPUR úr tönn, grafinn. Helzt er að ráða af laginu sem það hafi átt að verða innsigli, en verið óbúið. þessi hlutur fannst í Alviðru í Dýrafirði[3].

168. 30/9 64. Jakob Pálsson frá Gaulverjabæ, skólapiltur: Koparskeptur KNÍFUR. Á skaptið er myndaður veiðimaður í seytjándu aldar búníngi með byssu og hund. Annan kníf alveg eins hefi eg sèð, og safnið hefir áður fengið líkan kníf (nr. 34) með karlmanns og kvennmanns myndum á, og munu þeir vera frá seytjándu öld. það var forn siður, að hafa manna myndir á knífa

---

[1]) skýrsla um gripina nr. 160—164 er í Þjóðólfi XVII, nr. 27—28, bls. 112—113.

[2]) gripunum sem hèr eru taldir nr. 165—166 er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 14—15, bls. 58.

[3]) þessum grip er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 12—13, bls. 51.

sköptum, sem sjá má af Landnámu, því að þar er sagt, að Tjörvi hinn háðsami hafði karls mynd og konu á knífshepti sínu. Fyrir austan kvað og fyrir skömmu hafa fundizt beinskeptur knífur með skornum myndum, ásamt öðrum fornmenjum.

169. (30/9 64. Jakob Pálsson frá Gaulverjabæ, skólapiltur): BRAUÐSTÍLL, sem á er ritað með latínuletri:

„SIGRIDVR ASBIORNS DOTTIR A S(tílinn) ANNO 1676."

Sama ártal er á stílnum nr. 268. Í sama lagi eru og stílarnir nr. 56, 82 og 238, og munu þeir því mega teljast til sama tíma, þótt þeir sè ártalslausir. Stílinn nr. 28 er og gjör í sama lagi, en únglegastur, enda er hann lítið slitinn. Stílarnir nr. 41 og 73 eru nokkuð öðruvís að lagi og munu vera eldri[1].

170. S. d. Jón Jónsson frá Steinnesi skólapiltur: Lengja af KOPARSTOKKUM, 5 þumlúnga laung. Stokkarnir eru festir saman með völtum, og allir grafnir með rósum og höfðaletri, sem er orðið lítt læsilegt. Þeir eru 1/3 þumlúngs á breidd. Lengja þessi fannst milli Alviðru og Gerðhamra í Dýrafirði í gamalli rúst, er stekkur var gjör uppúr, og var þá um 18 þumlúnga laung, fylgdi henni lítill silfurknappur með gröfnum rósum, sem eg ætla að sè í anda fimtándu aldar. Óvíst er til hvers þetta hefir verið haft, en eigi er ólíklegt, að það sè leifar af höfuðbandi (koffri), þótt úr kopar sè, því að kvennskraut úr kopar var áður títt meðal fátæklínga. Væri þá sennilegt, að bandið hafi verið kneppt saman með silfurknappi þeim, er fannst þar hjá[2].

171. 7/10 64. Íngunn Jónsdóttir húsfreyja (frá Þíngeyrum) á Stóruborg í Húnavatns sýslu: STOKKUR með

---

1) gripunum sem hèr eru taldir nr. 168—169 er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 14—15, bls. 58.

2) þessum grip (nr. 170) er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 12—13, bls. 51 (með skakkri tölu: 180).

húslagi. Á hann eru skornir knútar og rósir, og ennfremur með höfðaletri vísa þessi:

„BÆTA MEIGA UM BRAGNAR Þ(a)
RATT NUB (= brátt nú) SKODA DROTTER
A MED HUSED AUDARNA
INGEBIÖRG IONS DOTTER."

172. S. d. Sama: TRAFAKEFLI með hjartarmynd, rósum og knútum. Þar á er ritað með latínuletri:

„EIOLFVR THORSTEINZ(son). MDC61".

173. S. d. Sama: REIZLULÓÐ með kroti og ártali „1693".

174. S. d. Jónas Björnsson frá Snæríngsstöðum, stúdent: SKINNBLAÐ með latínu á, ritað á fjórtándu öld(?). Þar á er Lúk. 3, 1—6, einnig um þá þrjá menn í eldinum, og fleira úr ritníngunni.

175. S. d. Sami: SKINNBLAÐ með latínskum nótnasaung[1].

176. S. d. Pètur Guðmundsson frá Bergstöðum: SKINNBLAÐ í arkarbroti úr Guðmundar sögu biskups eptir Arngrím ábóta; það fannst í blöðum eptir Björn Illhugason á Hofstöðum í Skagafirði og er vandað handrit með rauðum og bláum upphafsstöfum, líklega ritað seint á fjórtándu öld. Brot þetta hefir Jón Þorkelsson gefið út aptan við Hauksbókarblöðin, Reykjavík 1865 (sbr. nr. 76).

177. S. d. Sami: Stór KOPARKÚLA með barði út úr miðjunni allt í kríng. Hún fannst í túninu á Hofstöðum í Skagafirði, þá er verið var að slètta það.

178. S. d. Sami: KOPARPENÍNGUR[2].

---

[1]) þessu, sem hèr er talið nr. 171—175, er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 14—15, bls. 58.

[2]) gripum þeim, sem hèr eru taldir nr. 176—177, er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 12—13, bls. 51; um nr. 178 hefir hvergi verið áður getið.

179. $^{12}/_{10}$64. Oddur Jónsson í Dúkskoti við Reykjavík, ýngispiltur: Stór BRÓKARHALDSKNAPPUR úr kopar. Á hann er grafinn haglegur knútur að ofanverðu[1].

180. $^{15}/_{10}$64. Erlendur Pálmason bóndi í Túngunesi: VOPNKNÍFUR með látúnsskapti. Blaðið er 6 þumlúnga lángt, frammjótt og alveg tvíeggjað. Það er slètt öðrumegin, en hinumegin er hryggur á því miðju. Annars vegar út úr blaðinu upp við skaptið er stór járnlykkja í staðinn fyrir hjöltu, svo sem tíðkaðist á korðum á sextándu öld, og mun upprunalega hafa verið báðumegin. Knífur þessi er að eins til að leggja með, og er samskonar og Danir kalla „*dolk*", eða „*daggert*". Lagið á hjöltunum sýnir, að hann er varla eldri en frá því um 1500, en kann að vera nokkuð ýngri. Hann fannst í Túnguness landi sumarið 1864, og sást odduriun standa upp á milli steina. Þar fannst ekki fleira[2].

181. $^{22}/_{10}$64. Sigurður Árnason í Höfnum, hreppstjóri: SILFURSKEIÐ, haglega gjör, er vegur $3^1/_4$ lóðs. Hún er með snúníngum og rósum ofan á skaptinu, kórónu aptast á endanum og með fángamarkinu „S. M. D." þar fyrir neðan. Á henni er ártalið „**1698**". Blaðið hefir verið grafið með haglegum rósum bæði utan og innan. Hún hefir öll verið gyllt[3].

182. $^{24}/_{10}$64. Þorvarður Ólafsson á Kalastöðum, hreppstjóri: Lítill LÁTÚNSKROSS, sem auðsjáanlega er úr pápiskri öld og líklega gamall. Á honum er annarsvegar myndaður Krists kross með patríarkakross lagi, og við hlið krossins hvorumegin spjót og staung með njarðarvetti. Þar á eru og þrjár leturslínur mjög máðar. Hins vegar eru 17 leturslínur ólæsilegar. Á þeim virðist

---

1) þessum grip er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 14—15, bls. 58.

2) grip þessum er lýst í Þjóðólfi XVIII, nr. 38—39, bls. 153.

3) þessum grip er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 14—15, bls. 58; í fángamarkinu segir þar sè stafirnir „M. S. D." J. S.

helzt vera slafneskt eða rússneskt letur. Alstaðar milli stafanna hefir krossinn verið kolmeltur eða „emaleraður" með blásvörtum lit. Líkur kross og þessi fannst hèr í Reykjavík í korni, og hefir hann eflaust fallið í kornið í Rússlandi og flutzt með því híngað. Hann var ekki „emaleraður.".

183. S. d. Sami: Stór TALA úr brúnum jaspis með grænum dröfnum. — Báðir þessir gripir (nr. 182 og 183) fundust í eigum Þorbjarnar Ólafssonar gullsmiðs á Lundum. Mèr þykir allíklegt, að þeir eigi saman og sè úr gömlu talnabandi eða „paternoster"-bandi, er jafnan var samsett af mörgum tölum og optast hèkk kross neðan í[1].

184. $^{25}/_{10}$64. Stephán Thordersen prestur í Kálfholti: Sexboruð SKAFLASKEIFA. Það er dragstappa stór, og miklu þykkvari og járnmeiri, en nú tíðkast. Hún fannst manni í mjaðmarhöfuð niður í jörðu, nálægt Kálfholti. Skeifna aldur er eigi unnt að ákveða að svo komnu, meðan þær eigi finnast í dysjum með öðrum fornmenjum, en þær munu hafa verið mjög líkar hèr í fornöld sem nú, svo sem annarstaðar á Norðurlöndum[2].

185. $^{28}/_{10}$64. Sigurður Helgason á Jörfa: Saxneskur PENÍNGUR, er hèr á landi hefir verið kallaður bræðradalur, því að á hann eru myndaðir þrír bræður í sextándu aldar búníngi. Á honum er ártalið „**1594**". Hann vegur 3 lóð 1 kvint og 2 ort[3].

186. $^{30}/_{10}$64. Guðmundur Jónassen snikkari í Reykjavík: BRYNKNÍFUR(?). Hann fannst haustið 1864 á Botnastaðafjalli austan til við Svartárdal í Húnavatnssýslu,

---

¹) Þessu sem hèr er talið nr. 182 og 183 er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 27–28, bls. 112.

²) Þessum hlut er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 12—13, bls. 51, en með skakkri tölu (nr. 148).

³) lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 27—28, bls. 112.

og ekki annað. Blaðið er 7 þumlúngar á lengd og 10 línur á breidd. Það er eineggjað með þykkum bakka og mjög frammjótt. Oddurinn er sleginn ferstrendur, og sýnir það, að knífurinn hefir verið gjör til að sprengja með brynjuhrínga. Skaptið er úr beini, eða öllu fremur úr hjartarhorni. Það er 4½ þumlúngur á lengd, með koparhúfu aptan á, og þar aptan á er hnoðuð ró. Fremst á blaðið við skaptið hafa verið tálgaðir tveir hnúðar, er mynda nokkurskonar hjöltu. Hann er nú brotinn um hjöltun. Líkan kníf hefi eg sèð í forngripasafninu í Kaupmannahöfn, og ætla eg, að hann sè frá tólftu eða þrettándu öld. Þetta hygg eg vera munu samskonar kníf og fornmenn kölluðu brynkníf eða dálk(?)[1].

187. 16/12 64. Keypt: Gyllt SILFURPÖR með mannamyndum. Á þeim er allgott verk frá sextándu eða seytjándu öld.

188. S. d. (Sömuleiðis): Stór HEMPUSKJÖLDUR með víravirki og krossmarki á. Hann er vafalaust frá seytjándu öld, því að til eru alveg eins skildir, sem á er fángamark Elínar Þorláks dóttur biskups, er dó 1726, og skorti þá tvo vetur á nírætt. — Báðir þessir gripir (nr. 187—188) vega fyrir 8 rd.

189. S. d. (Sömuleiðis): SILFURPÖR með skildi á milli, krínglóttum. Hann vegur 3 lóð og 3 kvint. Bæði stokkarnir og skjöldurinn er gagnskorið. Þar á eru myndaðir vargar eða dýr, sem smjúga gegnum hríslur. Allur sá andi, er lýsir sèr í þessu verki, er nú orðinn mjög sjaldgæfur hèr á landi, sem von er til. Hinn heiðni andi (stíll) í skurðum er hinn elzti, og er hann alkunnur af ormaknútum og drekaknútum. Næstur honum er sá skurðarstíll, er lýsir sèr á pörum þessum, og kallaður er hinn „býsanzki stíll", tíðkaðist hann einkum

---

[1]) grip þessum er lýst í Þjóðólfi XVIII, nr. 35, bls. 139.

á Norðurlöndum 1030—1300. það mun því mega fullyrða, að mótið, sem pör þessi eru gjör eptir, sè eigi ýngra en frá fjórtándu öld, og annar stokkurinn kann að vera frá þeim tíma, en annar stokkurinn og skjöldurinn sjálfur eru auðsjáanlega smíðaðir eptir einhverju gömlu. — Stiptsyfirvöldin veittu safninu fjárstyrk til að kaupa þessa þrjá síðast nefndu gripi (nr. 187—189)[1].

190. 22/12 64. Sigurður Vigfússon gullsmiður í Reykjavík: NISTI eða DÁLKUR úr bronzi. Eiginlega er það grind ofan af þríblöðuðu nisti, því að sjálfa umgjörðina vantar og undirhlutann, sem sèst á því, að naglagötin eru í tveimur blöðunum, en naglinn stendur eptir í hinu þriðja. Nisti þetta er allt gagnskorið, með orma myndum, er vinda saman sporðana á miðju nistinu, en fjórir ormahausar standa út af enda hvers blaðs á alla þrjá vegu. Allur sá andi, er lýsir sèr í smíðinu á nisti þessu, sýnir ljóslega, að það er frá heiðni, eða að minnsta kosti frá fyrra hluta elleftu aldar. Eg hefi áður minnzt á slík nisti (nr. 97) og getið þess, að slíkur muni hafa verið dálkur Víga-Glúms. Nisti þetta fannst milli Glerárskóga og Ljáskóga upp blásið á mel hjá alfaravegi.

191. S. d. Sami: HRÍNGJUSTOKKUR og BELTISSPROTA ENDI úr gylltu silfri, er vegur 3 lóð. Á því er loptverk, upphafið í miðju, með einkar haglegum rósum og blöðum, sem allt er í hinum svo nefnda „gotneska stíl", er kom næst á eptir hinum „býsanzka stíl" og helzt tíðkaðist á fjórtándu og fimtándu öld. Báðir þessir gripir, hríngjustokkurinn og beltissprotaendinn, eru eitthvað hið fegursta af kvennskrauti og öðrum gripum, er vèr höfum sèð á Íslandi. Að öllum líkindum eru þeir frá því um 1500, og styrkist það af því, að myndir af

---

[1]) gripir þessir eru taldir áður í Þjóðólfi XVII, nr. 27—28, bls. 113.

brúðar skarti, sem drottníng Kristjáns konúngs hins þriðja gaf, eru gjörvar alveg í sama anda („Illustreret Tidende 1865")[1].

192. 23/12 64. Sigurður Ólafsson smiður á Busthúsum við Hvalsnes: TRAFAKEFLI, allt skorið. Þar á er Jesú nafn („IHS") og ártal („AN(n)O 1721"). Þar á er og skorið með höfðaletri versbrot þetta:

„ENGLVM SINVM HANN SETTE BOD
AD SIA TIL ÞIN OG LEIDA
A VEGVM ÞINVM ÞIER VEITA STOD"[2].

Ennfremur stendur á því með fraktúru prentletri:

„G(uðrun?) S(igurðar?) D(óttir) A Þ(etta) K(efli)",

og

„M(ar)G(ret) I(ons?) D(óttir) A KE(flið)".

193. S. d. Eyvindur Pálsson bóndi á Stafnesi í Hvalsnessókn: LYKLAHRÍNGUR, allur með snúníngum, er fannst í jörðu með sjó fram í bæjarrústum, þar sem Refakot hèt. Á hann er ritað með gamallegu latínuletri:

"ÞENNAN. HRING. A. RAINGHILDVR(!). HALS. DOTTER."

Sbr. rúnastein á Borg; þar er á Halur fyrir Hallur[3].

194. 26/9 64. Björn Björnsson bóndi á Breiðabólstað á Álptanesi: SKINNBLAÐ með latínskum nótnasaung. — Grip þenna gleymdist að bóksetja í rèttri röð[4].

---

[1]) gripum þessum, sem hèr eru merktir með nr. 190 og 191, er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 42—43, bls. 172.

[2]) úr sálminum: „Hver sem að reisir hæga bygð", þ. e. 91. sálmur Davíðs, íslenzkaður af sira Einari í Heydölum. Hann er heill í sálmabókum Guðbrands biskups, Höfuðgreina-bókinni og víðar, en í Nýju sálmabókinni er hann limlestur, og sleppt þessu versi og fleirum. J. S.

[3]) gripum þessum (nr. 192 og 193) er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 27—28, bls. 112.

[4]) þessu er lýst í Þjóðólfi XVII, nr. 14—15, bls. 58.

## 1865.

195. 7/1 65. Sverrir Runólfsson steinhöggvari í Reykjavík: VÍRAVIRKISKNAPPUR úr kopar. Hann fannst undir skólavörðu grundvellinum 1864[1].

196. S. d. Sami: PÍPULYKILL gamall.

197. 14/2 65. Sigurður Sivertsen frá Útskálum, lærisveinn á prestaskólanum: Lítið AKKERI úr silfri. það fannst í jörðu nálægt Útskálum[2].

198. 21/2 65. þorsteinn Eggertsson bóndi í Grímstúngum: SYLGJA úr kopar. Hún er löguð sem hríngur, en með þorni yfirum (sjá nr. 97 og nr. 246). Helmíngurinn er brotinn af þorninu. Svo er að sjá, sem á sylgjuna ofanverða hafi verið lóðaðar fjórar aflángar plötur. þar á milli hefir verið letur allt um kríng, en er nú orðið mjög máð, og verður eigi annað af því lesið en nafnið „RANVEIG". það er með gamallegu múnkaletri, og má af því ráða, að sylgja þessi sè frá fjórtándu öld eða litlu yngri. Sylgja þessi fannst í fjallinu nálægt Mjóvadal í Húnavatns sýslu árið 1852.

199. 24/2 65. Aldís Guðmundsdóttir húsfreyja

---

[1]) gripir þessir, sem hèr eru taldir nr. 195—264, eru auglýstir í Viðaukablaði við þjóðólf XIX. ár, nr. 9—10, bls. 41—44.

[2]) á katólsku öldunum var títt, að sjómenn hètu á kirkjur eða helga menn í sjáfarháska, og gáfu þá gripi til kirkna þegar þeir náðu landi; akkeri þetta virðist gæti verið þesskonar heitgjöf. J. S.

á Kiðjabergi í Grímsnesi: Bót af gömlu SPARLAKI eða SPARLAKSBRÚN, sem öll er perlusett.

200. 25/2 65. Íngimundur Sigurðsson bóndi á Bakka við Reykjavík: Allgóður KNAPPUR af hvalbeini. Á hann er skorið allt í kríng með höfðaletri:

„OLAFUR ASMUNDSSON."

Hann sýnir viðhöfn og starfsemi fyrri aldar manna, þótt lítill sè.

201. S. d. Sami: ÖSKJUR með vönduðum skurði. Öskjurnar hafa verið færðar saman og mínkaðar, og sinn botninn virðist vera frá hverri öld. Á neðra eskinu stendur með höfðaletri:

„... FRA LAUSTUM...
... LAN. MED. SOMA.

og á botninum með villuletri:

„... FYRER. LAUSNARANS...
LILIAN. VERDI. HIN. FROMA.
ANO. 1630.

Meira verður eigi lesið, enda hafa sum orðin fallið burt við samfærsluna.

202. S. d. Sami: TRAFAKEFLI. Á það er skorið með höfðaletri:

GUD MISKVNE NV OLLVM OSS
OG GIEFE BLESS(an sína).

203. a. 27/2 65. Ragnheiður Stephensen biskupsfrú í Reykjavík: Útskorið TRAFAKEFLI.

203. b. S. d. Sama: Sívalt TRAFAKEFLI samkynja hinu.

204. 1/3 65. Sigurður Guðmundsson málari: PRJÓNASTOKKUR skorinn. Hann er með laufavið á hliðum, keðjurós á loki og fángamarki á botni með miðaldar rúnaletri. Á endanum er hestmynd.

205. 2/3 65. Árni Thorsteinson landfógeti: NÁLHÚS rennt af beini.

206. 10/3 65. Magnús Kolbeinsson í Dúkskoti

í Reykjavík: SVUNTUKNAPPUR úr prinzmetal. Hann fannst í rústum af Götuhúsum við Reykjavík.

207. 13/3 65. **Guðmundur Jónassen** snikkari í Reykjavík: KRÓKASPJÓT. Spjótsoddur þessi er 13½ þumlúngur á lengd og nærri 1 þumlúngur á breidd. Spjót þetta er með mjóum fal, og brotnaði aptan af honum, eptir að það fannst. það hefir tvo hryggi beggja vegna á fjöðrinni, líkt og tíðkaðist á sverðum. því er allíklegt, að það sè smíðað upp úr gömlu sverði, sem opt var títt (sjá Gísla sögu Súrssonar, bls. 18), enda hefi eg aldri sèð spjót smíðað á þann hátt, heldur með einum hrygg í miðju. Á því eru misstórir **krókar**, sinn hvorumegin, og standast þeir eigi alveg á. þeir eru líkir sem agnhöld á aungli eða heynál, og af þeim hefir spjótið nafn. þetta er hið fyrsta krókaspjót, er eg veit til að fundizt hafi á Íslandi, og er því mjög merkilegt. það fannst í fjallgaungum haustið 1864 framarlega á Eyvindarstaðaheiði, og var það ofan jarðar í flagi. þar fannst ekki annað.

208. S. d. **Helgi Thordersen** biskup: Saxneskur SILFURPENÍNGUR frá 1623.

209. 18/3 65. **Hannes Árnason** á Geldíngsá í Melasveit: Grafinn BRÓKARHALDSKNAPPUR úr prinzmetal. Hann fannst þar í kálgarði.

210. 20/3 65. **Torfi Auðunnarson** á Refstöðum í Borgarfirði: LYKLASYLGJA úr kopar. Á henni stendur „IHS." Hún fannst á hálsinum milli Iðunnarstaða og Englands í Borgarfirði fyrir nær 100 árum síðan.

211. S. d. **Sami**: Lítill SVUNTUKNAPPUR úr prinzmetal.

212. 26/3 65. **Magnús Sigurðsson** á Ósi á Skógarströnd, ýngismaður: DRYKKJARHORN gamallegt. Á því er rós og tvær leturlínur, sem eru blendíngur af höfðaletri og múnkaletri, sem eigi verður lesið. Á því

vottar fyrir ártali með síffrutölum, nefnilega „143.". Síðasta síffran verður eigi lesin.

213. 3/4 65. Oddur Sigurðsson á Álptanesi kirkjueigandi: KOPARHRÍNGUR, sem var þar í kirkjuhurðinni. Þar á eru tvö drekahöfuð. Á hann er ritað með höfðaletri:

„DROTTIN. VARDVEITE. ÞINN. INN. GANG. OG. UT. GANG. H(èðan í frá og að eilífu, amen).

og með latínuletri og síffrum: „ANNO. 1665.

214. 28/4 65. Páll Pálsson stúdent í Reykjavík: SKINNBLAÐ með latínusaung og nótum á.

215. S. d. Sami: FIMM SKINNBLÖÐ samkynja. Á þau er rituð eða prentuð latína með ágætlega fögru letri. Þau voru úr köppum á hollenzkri eða þjóðverskri bók, sem var í gömlu útlendu bandi.

216. 10/5 65. Sigurður Pálsson bóndi í Haukadal: FJAÐRASPJÓTSODDUR. Hann fannst haustið 1864 fyrir vestan túnið á Hólum í Biskupstúngum. Þar fundust engi mannabein, en hellur voru þar lagðar hrínginn í kríng, eins og þar hefði verið dys til forna. Mèr hefir sagt verið (þó eigi af gefandanum), að leifar hafi þar fundizt af spjótskaptinu. Þetta spjót er að því leyti merkara en öll önnur spjót, er send hafa verið til safnsins, að það er nær því heilt; að eins er lítið skarð í það, því að brotnað hefir út úr geirnaglagatinu annars vegar. Menn geta því áreiðanlega mælt það á alla vegu. Það er 9 þumlúngar og 2 línur á lengd, en 1½ þumlúngur á breidd yfir fjöðrina, þar sem hún er breiðust. Utanmál yfir falinn aptast, þar sem hann er digrastur, er 1 þumlúngur, en innanmál 7 línur. Þetta sýnir áreiðanlega digurðina á skaptinu fremst, og hefir það verið óvanalega digurt eptir hinum spjótsoddunum að dæma. Það hefir verið á digurð á við hrífuskapt í digrara lagi. Það er áreiðanlegt, að þetta hefir verið skrautspjót, er menn hafa látið hendi fylgja, en eigi kastað.

það hefir verið ofmikill gripur til þess. Allur falurinn hefir verið smelltur með smágjörvu silfurneti (silfurrekinn), og það með þeirri list, að mönnum nú á dögum mundi verða mjög erfitt að leika það eptir. þessi gripur sýnir því bæði skraut og hagleik fornmanna hèr á landi(?), samkvæmt sögum vorum.

217. 22/6 65. Jón Árnason biskupsskrifari: Lítil bót af ALTARISKLÆÐI(?). það á að hafa verið úr hinu nafnfræga altarisklæði á Hvalsnesi, er álfkonan gaf (Íslenzkar þjóðsögur I, 84—86). það hefir verið úr gulu(?) skinni, saumað með gylltum vír og gulu silki.

218. S. d. þorsteinn Oddsson bóndi á Reykjum í Syðra Reykjadal: FÍNGURHRÍNGUR úr kopar, gamallegur. Á honum ofanverðum er far eptir stein. Hann fannst þar í öskuhaugi.

219. S. d. Sami: Stór SKÁPUR útskorinn. Á honum ofanverðum á skúrnum er skorinn laufaviður með tveimur dýrum í, og fángamarkinu: „B P(?) S". Á hliðunum báðumegin við hurðina er og laufaviðarstrengur með dýramyndum. Að neðanverðu eru fimm hríngar og þar innan í: „A(nno) 1672". Á hurðinni eru þrjár rósir og „IHS". Efst er skorið með latínuletri:

„SI. DEUS. NOBISCUM. QUIS. CONT(ra). N(os)".

(ɔ: ef guð er með oss, hver getur þá verið á móti oss), og enn fremur stendur á honum:

„H(erra). SIGURDUR. IONSSON. A. S(kápinn).

Nafn þetta er með latínuletri, en upphafsstafirnir með gotnesku letri. Sigurður þessi Jónsson mun vera Sigurður lögmaður, er bjó í Einarsnesi í Borgarfirði (1653—1676, † 1677); að sá sè maðurinn styrkist af efni latínuklausunnar.

220. 23/6 65. Guðný Guðmundardóttir húsfreyja á Mýrum í Dýrafirði: INNSIGLI(?) úr steini. Á það er grafið: „A D G Q".

221. S. d. Sama: INNSIGLI úr tönn. Á annan

enda þess er grafið „E O S", og á hinum er nafndráttur. Það fannst í öskuhaugi í Alviðru.

222. $^{23}/_{6}$ 65. Stephán Bjarnarson sýslumaður á Ísafirði: EIN OPNA úr alþíngissamþykkta eða dómabók á skinni, sem virðist vera frá fjórtándu öld[1].

223. S. d. Eggert Ólafsson Brím, stúdent í prestaskólanum: Stór BRÓKARHALDSKNAPPUR úr prinzmetal, útgrafinn, ættaður að vestan.

224. S. d. Julius Andersen, verzlunarþjónn í Reykjavík: Gyllt SILFURLAUF úr laufaprjónsknappi(?). Þar á er María guðsmóðir og stendur á mána. Það hefi eg áður sèð á þremur laufaprjónsknappa laufum samkynja.

225. $^{29}/_{6}$ 65. Sigurður Árnason í Höfnum í Húnavatns sýslu, hreppstjóri: Stórar kringlóttar TÓBAKSDÓSIR úr látúni, með vel gjörri rós á lokinu. Á þær er grafið með latínuletri:

„FINNVR. IONSSON. A. ÞESSAR. DOSER. 1730".

226. S. d. Sami: Stórt HANDRIT á pappír um helga staði í biblíunni.

227. S. d. Jón Hávarðsson í Heydölum prestur: Kringlótt SILFURSKEIÐ. Hún er grafin og með flötu skapti að aptan. Á það er grafið „S I S. 1640".

228. $^{30}/_{6}$ 65. Jón Sigurðsson á Gautlöndum: Stór KOPARHRÍNGUR forneskjulegur. Hann er allt í kríng með einsog perlusettum hálfmánamyndum, líkt og opt má sjá á hinum elztu hlutum frá fornöld hèr á Norðurlöndum (sjá „Worsaae's: Afbildninger fra det kongelige Museum for nordiske Oldsager 1854, 339. 341; Nord. Oldsag. nr. 430. 443"). Hríngurinn fannst uppblásinn í haug þeim, er Einbúi heitir á Tjörnesi, og sáust þar

---

1) Í Þjóðólfi er sagt „frá seytjándu öld".

J. S.

engi merki þess, að þar væri dys, að sögn þess, er Jón fékk hrínginn hjá.

229. S. d. Arngrímur Gíslason á Grænavatni, bókbindari: Leifar af JÁRNBÓLU, er upp hafði blásið úr jörðu í Garði í Fnjóskadal. Barð hefir verið á allt í kríng, en þar fyrir neðan hólkur með fimm ferhyrndum götum allt í kríng. Eigi get eg sèð, til hvers hún hafi verið höfð. Samt er eigi óhugsandi, að hún hafi verið aptan af axarskapti.

230. 1/7 65. Guðmundur Bjarnason í Höfnum á Skaga, trèsmiður: Tvær hliðar af BRONZIKÍNGU. Hún hefir verið hol innan og gjör til að geyma í helga dóma(?), og hefir verið borin um hálsinn. Hliða-umgjörðin er úng, og gjör í líkíngu við þá, er var á kíngunni, er hún fannst, en datt í sundur er við var hrært. Annars vegar á kíngu þessa (á aðra hliðina) er markað „I H S" (mark trúarinnar), en hins vegar hjörtur, sem á riddaraöldinni var mjög algengt einkenni kvenna ástar, eins og hindin var einkenni karlmanna ástar, og má nokkuð ráða af því um aldur kíngu þessarar, enda eru rósirnar á henni í sama lagi og á skinnbókum frá fjórtándu -öld. Þar sem hirtir koma fyrir sem ástareinkenni í eddukvæðunum, þá er það að minnsta kosti íhugunarmál, hvort þau muni vera mjög forn. Helzt mun það og koma fyrir í þeim fornsögum vorum, sem hafa riddaralegan blæ, svo sem í Hrólfs sögu Gautrekssonar. Kínga þessi fannst fyrir nokkrum árum síðan við grasatekju á eyðidal, er nefnist Brunnárdalur, sem er upp frá Hafstöðum á Skagaströnd.

231. 3/7 65. Sumarliði Sumarliðason í Vigur, gullsmiður: GRALLARI (sextánda útgáfa, ártalslaus). Á honum er gamallegt band með spennum og vönduðum látúnsbúníngi á hornum og miðjum spjöldum. Bandið virðist vera eldra en sjálfur grallarinn.

232. S. d. Sami: Aflángar DÓSIR með ártölunum

„1482" og „1497". þar á eru tvær rímtöflur og myndir. þær eru úr eigu Páls Hjálmarssonar, síðasta skólameistara á Hólum (1788—1801), er síðan var prestur á Stað á Reykjanesi (1814—1830).

233. 3/7 65. Tómas Hallgrímsson frá Steinstöðum, skólapiltur: Sænskar TÓBAKSDÓSIR úr látúni, aflángar, frá 1787. þær eru með almanaki og allskonar tíma og mánaða einkennum (merkjum).

234. 5/7 65. Hafliði Jónsson á þverspyrnu í Rosmhvalaneshreppi: SKINNBLAÐ með nótum á.

235. 6/7 65. Guðmundur þorkelsson á Brekkum í Hvolhrepp: BELTISHRÍNGJA úr kopar með rósum og engilsmynd. þar til heyrandi stokkur er úr gylltum kopar. Á honum er konumynd. Konan faðmar barn, og tvö smábörn vilja komast upp í kjöltu hennar. Hún á líklega að tákna ástina. þessi stokkur er ósamkynja hríngjunni og auðsjáanlega smíðaður úr beltissprota-enda, sem sèst á rósinni, er grafin er á bakatil.

236. 9/7 65. Sæmundur Guðmundsson í Hrólfstaðahelli: SKÓSPENNA eða KNÈSPENNA úr kopar. Hún fannst þar, sem gamli Hrólfstaðahellir var.

237. S. d. Guðmundur Guðmundsson í Hrólfstaðahelli: Blað af VOPNKNÍF eða TYGILKNÍF. það er með koparbúnum „öxlum", en oddbrotið. það fannst á sama stað og nr. 236. Áður hafði þar fundizt koparskapt af knífi, er beindoppur voru greyptar inn í, og er eigi ólíklegt, að það skapt hafi heyrt til þessu blaði.

238. S. d. Sami: Slèttur BRAUÐSTÍLL. Hann fannst við brú á keldu nokkurri austur í Holtum (í Rángárvalla sýslu).

239. S. d. Sæmundur Guðmundsson í Hrólfstaðahelli: SÍÐHEMPUPÖR(?) úr kopar.

240. 10/7 65. Jón Melsteð í Klausturhólum, prestur: KROSSMARK úr bronzi. það hefir verið málað. Um miðjuna er breiddur breiður dúkur, og fæturnir eru

samsíða, en eigi krosslagðir, og bendir það meðal annars á, að það sè gamalt, líklega frá þrettándu öld. Krossmark mjög líkt þessu fannst í Hróarskeldu dómkirkju með letri á, sem mest tíðkaðist í Danmörku á tólftu og þrettándu öld, og sem er einnig á nr. 247 hèr á eptir, er eg hygg að sè frá því tímabili, og sama er að segja um nr. 164 og 198. Krossmarkið fannst í Bygðarholti á Breiðumýri í Flóa.

241. 15/7 65. Jón Borgfirðíngur bókbindari: SKINNBLAÐ. Annars vegar er ritin latína ofan til, en er lítt læsilegt. Þó má lesa þar nafnið „Veronica", og er þetta líklega inngángur og titilblað til Veroniku sögu, því að annars vegar er máluð mynd konu, er situr á stóli, og er það að líkindum mynd hinnar heilögu Veroniku. Eptir letri og mynd að dæma, er það líklega frá fjórtándu öld.

242. S. d. Sami: KÁLFSKINNSBLAÐ með saung og nótum.

243. S. d. Sami: KÁLFSKINNSOPNA með latínu á.

244. 19/7 65. Sigurður Helgason frá Auðúlfstöðum, bóndi: Lítill STOKKUR, haglega gjör. Hann er með snúníngum á röndunum. Á hliðunum eru allskonar vargamyndir: ljón, björn, hjörtur, og fl. Á öðrum gaflinum eru tvö ljón, og halda þau með kjöptunum sitt í hvorn fót á barni, svo höfuðið hángir niður. Á lokið eru skornir hanar og ljón. Öll dýrin eru innan um smágjörvar rósir.

245. 29/7 65. Kristján Kristjánsson á Geitaskarði, sýslumaður: MÖTTULSNISTI eða MOTTULSKJOLDUR úr bronzi. Hann hefir upphaflega verið sterkgylltur. Nistið er að neðanverðu mjög líkt nr. 96, og hefir verið með þorni á bakatil. Ofan á það hefir verið negld með fjórum eirnöglum gagnskorin grind. Á henni eru fjögur drekahöfuð eða varga. Það getur varla verið ýngra en frá byrjun elleftu aldar, því að það er gjört í mjög heiðíng-

legum anda. það er töluvert lángt síðan þessi gripur fannst, og vita menn því óglöggt, hvar eða hvernig hann hafi fundizt. Mælt er, að úng stúlka hafi fundið hann í melbarði nálægt Mælifelli í Skagafirði, en eigi vita menn, hvort þar hafi sèzt vottur fyrir haugi eða dysi. Pètur Sigurðarson, prests á Mælifelli, sagði mèr, að skjöldur líkur þessum hefði fundizt hjá Reykjavöllum í Reykja sókn, skammt frá Mælifelli, og er það líklega sá sami.

Eins og að framan er bent á, þá sjá menn hèr afleiðíngarnar af því, þegar að einstakir menn safna fornmenjum eða láta þær gánga mann frá manni; sá sem síðast fær þær veit ekkert, og getur opt ekki vitað hvar þær eru fundnar eða hvernig á þeim stendur, en það einmitt tvöfaldar opt gildi fornmenjanna að vita það; menn geta varla buizt við að almenníngur hafi vit á slíku, en dæmin eru hèr deginum ljósari (sjá nr. 44, 45, 97—99, 157, 246, 290, 294, 322).

246. S. d. Helgi Sigurðsson á Jörva kandídat: Lítil BRONZI-SYLGJA. Hún er alveg slètt, en þornið er brotið. Hún virðist mjög forn, og er samskonar og nr. 334 í „Worsaae's: Afbildninger fra det kongelige Museum for nordiske Oldsager 1854" (Nord. Oldsag. nr. 412). Konur höfðu slíkar sylgjur sem þessa og nr. 198 til að næla að sèr föt, t. a. m. kyrtilinn um hálsinn, eða hálsgjarðir. Má sjá það á Rannveigar nafninu á nr. 198, og sömuleiðis á enskum myndum frá tólftu öld á legsteinum, t. a. m. legsteini drottníngar Ríkarðs ljónshjarta, og víðar.

247. S. d. Sami: Kringlótt PLATA, líklega af kíngu, sem mun hafa verið mjög lík og nr. 230. Á hana miðja er grafið „I H S", og þar utanum í kríng með letri, sem hefir engilsaxneskt lag:

„GUÐ SE MED".

Bæði stafalagið og rithátturinn („SE" fyrir sie og Ðið í guð?) benda á, að hlutur þessi muni eigi vera ýngri en frá fjórtándu öld, en hann getur vel verið eldri.

248. S. d. Sami: TRAFAKEFLI, mjög máð og gamallegt. Annars vegar ofan á því hefir verið skorin með góðu höfðaletri hamíngjuósk, er byrjar þannig:

„GIEFE. ÞIER. SIALFUR. G(uð) ...".

Á annari röndinni eru læsileg þessi orð:

„... GODA. DAGANA. ALLA."

Hinumegin ofaná því standa orðin:

„SIJDAST. ÞEGAR. LIFE ...".

249. S. d. Sami: Stór KJAPTAMÉL úr járni, fornleg.

250. S. d. Jóhanna Steindórsdóttir í Hítardal: Lítill STOKKUR. Á hann er skorið með höfðaletri:

„STOCKINN EIGDU STULKAN GOD.
ÞIG STIDIE HEILLA GNOTTER.
DIGÐ OG SOMA REIFUD RIOD
RAGNHEIDUR IONS DOTTER.
ANNO 1781".

251.a. 10/8 65. Guðmundur Stephánsson á Ferjukoti bóndi: TRAFAKEFLI með rósastreng ofaná. Á það er ritað, bæði með latínuletri og rèttum og öfugum rúnum:

„KARETAS ÞORVARDS DOTTER A KIEFLINN. ANNO.
1734. KIEFLADV FAST."

251.b. S. d. Sami: Sívalt TRAFAKEFLI rennt, samkynja hinu.

252. S. d. Sami: TRAFAKEFLI gamallegt, með snúníngum og smekklega skorið. Á það er skorið vísubrot[1] þetta með höfðaletri:

---

[1]) Vísubrot þetta er úr upphafi á Geiplum (rímum af geiplu þætti í Karlamagnús sögu), sem eru með elztu rímum íslenzkum, og er vísan öll þannig (skinnb. A. Magn 603. 4to. bls. 29:

„Hver sem þar vill koma í kast
kvinnum dikt at vanda:
þat kann verða áfengt jast,
ekki vil ek þat blanda". J. S.

„HVOR. SEM. ÞAR. VILL. KOMA. I. KAST. KONU ....".

253. 14/8 65. Ólafur Einarsson Johnsen á Stað á Reykjanesi, prófastur: SKÁL úr fílabeini. Hún er allsmekklega skorin, og öll með sirkluðum og gröfnum hríngum. Hún er annars vegar með kringlóttum snúnum hánka, en hins vegar með sporði til að halda í. Hann er gagnskorinn, sem bandi væri brugðið í knút. Skálin er 3 þumlúngar á breidd, en tæpar 6 línur á dýpt. Engi stètt er að neðan. Skál þessi eða staup á að hafa verið hin daglega brennivínsskál Guðbrands biskups, og á hann að hafa smíðað hana; þykir mèr það eigi ólíklegt, enda er hún úr eign ættmanna hans, og á að hafa gengið í erfðir mann frá manni þannig, sem ættartafla þessi (eptir Brynjólf Benediktsen í Flatey) sýnir:

Guðbrandur biskup Þorláksson.
|
Kristín Guðbrandsdóttir ◡ Ari sýslumaður í Ögri, Magnússon.
|
Magnús sýslumaður Arason ◡ Þórunn ríka á Reykhólum.
|
Jón sýslumaður Magnússon á Reykhólum og Miðhúsum ◡ Jórunn Magnúsdóttir.
|
Ragnheiður Jónsdóttir ◡ Einar prestur Torfason á Stað.
|
Einar (yngri) Einarsson lögrèttumaður á Svínanesi ◡ Guðrún Þorsteinsdóttir.
|
Einar Einarsson lögrèttumaður á Svínanesi ◡ Sesselja Finnsdóttir.
|
Einar Einarsson á Svínanesi ◡ Karítas Þorláksdóttir frá Látrum.
|
Einar Einarsson á Svínanesi ◡ Guðrún Gunnarsdóttir.

Hjá Guðrúnu húsfreyju, ekkju hins síðast nefnda Einars á Svínanesi, er dó rúmlega sjötugur í Juli 1860, fèkk sira Ólafur skál þessa. Líkt lag var á drykkjarkerum Forn-Grikkja, og opt hefir tíðkazt hèr á landi að hafa silfurskálar (eða silfurstaup) með þessu flata lagi,

og hafa þær verið til hèr og þar, enda sèst á Háttatali Snorra Sturlusonar, að skálar hafa verið til á öndverðri þrettándu öld í Noregi, er hann segir:

„greipum mætir gullin skál,
gumnum sendir rínar bál"[1], o. s. frv.,

og laungu fyrr hafa þær tíðkazt (Atlakviða 10, Atlamál 79, Hamdismál 24, Völundarkviða 23, 33). Af þessu lagi drykkjarkeranna (skálarlagi) munu hafa myndazt orðtækin: að drekka hjónaskál, mæla fyrir skálum, o. s. frv.

254. 16/8 65. Magnús Eyjólfsson á Grjótá í Fljótshlíð: Hnöttótt BJALLA úr kopar. Hún er með fæti, líkt og knappsfæti, að ofan, og hefir tvö göt kringlótt á báðum hliðum og rifu að neðan. Laus járnknöttur var innan í henni, er hún fannst. Það er ætlan manna, að bjalla þessi sè af beizli. Máltækið: „fiskurinn ríður eigi við bjöllubeizli" sýnir, að bjöllur muni hafa tíðkazt við beizli. Eg hefi og heyrt sagt, að siður hafi verið að hafa slíkar bjöllur við söðla, sem og er austurlenzkur siður, eptir því sem eg hefi lesið í útlendum þjóðfræðisritum.

255. S. d. Ólafur Einarsson Johnsen á Stað á Reykjanesi, prófastur: Skorinn KISTILL. Kríngum skráargatið eru haglega skornar rósir, og tveir hríngar til beggja hliða, sem mynd af strútsfugli og birni eru innan í. Að aptanverðu eru fjórir hríngar, sem myndir af birni, fugli, ormi og leðurblöku (?) eru innaní. Á endunum eru skornir haglegir knútar. Á hríngana er skorið með latínuletri:

„HIÖRTIN. MATTV. HITTA. HIER.
OG. HVITA. MIND. HAN(n. ber).
STRVT. FVGL. STENDVR. HIER.
STIIFIN. A. FOTVM. ER.

---

[1]) Háttatal Snorra, í Snorra-Eddu I., 708.

MINDER. ÞESSAR. MATTV. SIA.
MADVR. HVÖR. HIER. LIJTVR. A.
SKORNAR. ILLA. SKOTNUM. HIA.
SKAL. EG. ÞAR. ECKI. LJVGA. FRA.
HIER. ER. ORMVR. EIRN."

Framhaldið af þessu á göflunum verður eigi lesið. Á randirnar og lokið er skorið með höfðaletri:

„MEST. VIT. ER.[1] EN. MIOG. FATT. SEIGER[1].
MARGT. HEIRANDE. VM. ÞAD. ÞEIGER[1].
HIALPA. ÞEIM. I. HASKA. EIGER[1].
HEF(nd). OG. URSKURD. LEINGE. DEIGER.
VIELVM SIST. I. VINSKAP. SMEIER.[1]
VID. ÞIER. HOLLVM. EI. ÞIG. REIGER.
LIVFVR. MEIRA. MAN(n)E. HNE(iger).
minna. liter.[1] ei. nie. sveiger."

Framhaldið á endunum á lokinu og okunum, sem er með latínuletri, er mjög máð og verður eigi lesið í samanhengi. Á lokið er enn fremur skorið:

„IHESUSNAFNI."

Kistil þenna er mælt að Guðbrandur biskup hafi skorið handa Kristínu dóttur sinni, og á hann að hafa gengið í arf frá henni á sama hátt og nr. 263, og fèkk sira Ólafur hann hjá húsfrú Guðrúnu Gunnarsdóttur á Svínanesi. Eg vil eigi beinlínis rengja sögu þessa, að Guðbrandur biskup hafi skorið út kistilinn. Þó eru hvorki fyrri samstæðurnar svo smekklegar, að menn skyldi ætla þær væri eptir hann, eða valdar af honum, og síðari samstæðurnar eru eptir sira Ólaf Guðmundsson á Sauðanesi (1579—1609); eru þær prentaðar fyrst aptanvið formálann fyrir sálmabókum Guðbrands biskups 1589 og 1619: («enn önnur Heilræði Dr. Mart. Luthers») og síðan aptan við sumar útgáfur af Eintali (Umþenkíngum) Hallgríms Pèturssonar, t. a. m. Skálholtsútgafuna 1693 (1692?).

---

[1]) þ. e. vitir — segir — þegir — eygir — smeygir — lýtir.

256. S. d. Jóhanna Friðrika Eyjólfsdóttir, húsfrú í Flatey, ekkja sira Ólafs prófasts Sivertsens: PROCESSIUMERKI. það er almenn sögn, að það hafi verið eign Flateyjarkirkju, síðan klaustrið var þar (1172—1189). Kirkjumerki þetta hángir á mjóu þverkefli, sem bundið var vanalega með tveim taugum um endann á merkisstaunginni. Upp af staunginni var opt kross, sem gamlar myndir sýna, samanber máldaga Ólafs Rögnvaldssonar um Möðruvelli í Eyjafirði: „látúnskrossar tveir á merkistaungum og eitt merki lítið." þessi merki tíðkuðust mjög á riddaraöldinni, einkum í processium (eða helgigaungum). Merkið er 17½ þumlúngur á breidd, eða (nákvæmlega) forn íslenzk alin, sem sjá má á hinu áreiðanlegasta marki á álnarmálssteininum á þíngvelli. Á lengd er það 1 alin og 13 þumlúngar. það er tvíklofið að neðan, og er grænn og gylltur borði, með laufum niður úr, neðan á hverjum oddi. Merkið er gjört af þykku silki, og er nú orðið gult að lit, en mun áður hafa verið rautt, því að það hefir enn talsvert rauðleitan lit undir krossinum, sem hefir verið saumaður á úr hvítu lèrepti. Breidd merkisins er ein silkibreidd, og eru jaðrarnir alveg ófaldaðir. Silkið hefir verið ofið með smáum hríngum, sem gánga í röðum yfirum þvert merkið, og er sín mynd í hverri hríngaröð, sem alltaf skiptast á. Í efstu hríngaröðinni er hjörtur. þar fyrir neðan er fljúgandi fugl (líklega haukur), sem steypir sèr niður úr loptinu, eins og hann ætli að hremma eitthvað með nefi og klóm. þar á eptir kemur mannsmynd, sem er óglögg, og síðan rós eða sóley með fimm blöðum. Allar myndir þessar, og hvernig þær eru valdar, minnir menn á riddaraöldina (nr. 230), og bendir einnig til þess, að það sè mjög gamalt, en hvort það er svo gamalt, sem sagt er, læt eg að svo stöddu ósagt. þesskonar merki átti fyrrum hver kirkja hèr á landi, og sumar áttu mörg, og jafnvel líka gunnfána eða hermerki. En nú er svo

komið, að þetta er hið einasta þesskonar merki, sem eg veit að til sè í Danaveldi, og þau munu víst sjaldgæf, þó víðar sè leitað.

257. S. d. Guðmundur Sigurðsson á Stað í Steingrímsfirði, aðstoðarprestur: TRAFAKEFLI frá 1755. það er skorið að ofan með knútum og rósum. Á því er og höfðaletur, sem er illt aflestrar.

258. S. d. Sami: TRAFAKEFLI. Á það er skorið með höfðaletri, grisku letri og villtum rúnum:

„(t)HORGIERDUR. ARNADOTTER. A. KIEFLED."

og enn fremur:

„KIEFLEÞ. ILLA. KRAFSAD. ER.
KNIJFURINN. ....
ANNO. 1720."

— Bæði þessi kefli (nr. 257 og 258) fèkk sira Guðmundur hjá Sæmundi bónda á Gautshamri, Bjarnarsyni prófasts Hjálmarssonar.

259. S. d. Sami: STOKKUR með gamallegri læsíngu og hrosshárshjörum. Hann er skorinn með knútum og rósum, og einni höfðaleturs línu, er sýnist vera villuletur. Hann er úr eigu Guðrúnar Jónsdóttur í Bæ á Selströnd.

260. S. d. Sami: PARAKER eða BAUKUR úr trè. Á lokið eru skornar skiparósir. Paraker þetta gaf sira Guðmundi margfróð kona, Svanhildur Helgadóttir († 1843).

261. S. d. Sami: DRYKKJARHORN, vel gjört. Á það ofanvert er skorið Adam og Eva, er standa sitt hvorumegin við skilníngstrèð, sem höggormurinn vefur sig utan um. Hjá þeim liggur hèri og hafur; þar er og fugl á flugi myndaður. þar fyrir neðan er gjörð, með höfðaletri, mjög máðu. þar fyrir neðan er Kristur á krossinum, og Johannes og Maria þar hjá, en hins vegar agnus dei, eða lamb guðs í skýjahríng. þar fyrir neðan er leturlína máð, og snúníngur neðst á stiklinum. Letrið virðist eiga að lesa þannig:

„GUD. VEL. (ko)MNER. GODER. VINE(r). GLEDIED(. yður)." Auðsèð er, að drukkið hefir verið úr víðara endanum á horni þessu. Myndirnar á því líkjast mjög myndunum á elztu bókaútgáfum frá dögum Guðbrands biskups, og ætla eg, að hornið sè frá þeim tíma. Horn þetta fannst fyrir rúmum 30 árum síðan á Glámu, og komst í eigu Jóns Einarssonar, bróður þeirra Ásgeirs og Torfa, alþíngismanna; þá eignaðist það Björn bóndi Bjarnarson í Bjarnarnesi, og af honum þág sira Guðmundur það. Þegar hornið fannst, var það lengra en nú og tinstútur á.

262. S. d. Sami: KROSSMARK úr trè. Það hefir verið málað, og er með gylltum dúk um miðjuna og gylltri þyrnikórónu. Það er frá fimtándu eða sextándu öld. Það hefir, að því er sira Guðmund minnir, fundizt undir gólfþiljum Staðarkirkju, er hún var gjör upp síðast.

263. S. d. Sami: Blárósuð LEIRKANNA. Hún er með hnöttóttri bumbu að neðan, en bein að ofan, með handarhaldi, og pípu eða stút fram úr barminum, í staðinn fyrir nef eða vör (túðu). Á efri blutanum eru 32 stór göt, svo að eigi verður drukkið úr henni, nema menn þekki á henni lagið, því að ef henni er hallað streymir allt út um götin. Hún hefir verið kölluð vítabikar. Könnu þessa er mælt að átt hafi sira Halldór Einarsson, faðir Bjarnar prófasts Halldórssonar í Sauðlauksdal, og hafi hann gefið hana Sigríði dóttur sinni, en frá henni á kannan að hafa gengið í erfðir til Guðbrands hreppstjóra Hjaltasonar á Kálfanesi, og hjá honum fèkk sira Guðmundur könnuna.

264. S. d. Sami: Lítið BRÝNI með gati í endann. Það fannst í flagi hjá Bæ á Selströnd, og gaf Sigurður Gíslason í Bæ sira Guðmundi brýnið.

265. 17/8 65. Sigurður Guðmundsson málari:

Tvær litlar bætur úr gömlum HÖKULKROSS, eða MESSUSKRÚÐA, ofnar með gullvír og silfurvír, mjög vandaðar[1].

266. 29/8 65. Símon Bech á þíngvöllum prófastur: Stór KOPARHRÍNGUR úr þíngvalla kirkjuhurð. Hann hefir í fyrstu verið steyptur utan um járnbaug, og varð hann því víða brostinn og bilaður, og því óhæfur til að vera lengur í kirkjuhurðinni. Ofan á honum eru þrjár áttkantaðar doppur, og letur grafið á milli. Fyrst er með latínuletri:

„HONORANTEM ME HONORABO 1 SA 2"

(ɔ: eg mun heiðra þann, er heiðrar mig. 1. Sam. 2, 30). Á hinum helmíngnum stendur með gotnesku letri:

„SIGURDUR BIORNSSON L(ög)M(aður) GAF 1701."

267. 3/9 65. Guðmundur Einarsson bóndi í Mýdal í Mosfellssveit: SPÓNASTOKKUR loklaus, með drekahöfði á öðrum endanum. Á hliðarnar er skorið með höfðaletri:

„VERDI FROMUM VIRDUM KATT
VIFUM LIJKA SNIOLLUM
(g)IORDI EG SO E...".

það, sem vantar, hefir líklega verið á lokinu.

268. S. d. Sami: BRAUÐSTÍLL, grafinn með flèttíngum, og ártalinu „1676".

269. 19/9 65. Keyptur gripur: þunnur BORÐDÚKUR, úr hvítu lèrepti. Á hann er prentaður með rauðu stór nafndráttur Friðriks hins fimta Danakonúngs (1746—1766) og króna yfir. Beggja vegna standa blásvört ljón, og styðja nafndráttinn með klónum. þau ná að mestu yfir þveran dúkinn. Á neðanverðum dúknum er nafndráttur með kórónu yfir, sem sýnir, að dúkurinn er gjör handa einstökum manni. Í nafndrætti þeim eru

---

[1]) þetta sem hèr er talið, og það sem eptir fylgir, hefir ekki fyr verið auglýst á prenti.

stafirnir A og C og D, en óvíst er, í hverri röð þeir eiga að lesast. Á annan veginn er dúkurinn 2 álnir og 19 þumlúngar, en á hinn veginn 2 álnir og 13 þumlúngar. Sá fyrsti, er menn hafa sögur af að ætti dúk þenna, er Stephán Scheving á Íngjaldshóli. — Dúkurinn var keyptur fyrir 1 rd.

270. 16/9 65. Frú Íngibjörg Gunnlaugsdóttir (Johnsen) í Húsavík: AUGNASAUMS ÁBREIÐA með hèrumbil 52,250 augum. Augnafjöldinn sýnir, hve fjarskalegt ómak það hefir verið að sauma svo mörg göt, sem öll eru í líkíngu við hnezlugöt. Á henni stendur:

„M(att)HILDUR EYR(iks) DOTTIR MDC."

Hún er með haglegum knúta uppdrætti.

271. 29/9 65. Indriði Þorsteinsson á Víðivöllum í Fnjóskadal, gullsmiður: PALSTAFSBLAÐ(?), eða þvíumlíkt vopn eða verkfæri. Það er með einskonar fal eða skaptholi að ofan, á þann hátt, að báðar hliðabrúnirnar að ofan hafa verið beygðar hvor á móti annari (og mynda þannig einskonar skapthol); en þótt brúnirnar sè ryðgaðar, virðast þær aldrei hafa náð alveg saman, heldur mun hafa verið allt að því tveggja þumlúnga bil á milli. Það er 3 þumlúngar og 1 lína yfir um falinn, 4 þumlúngar og 4 línur fyrir eggina, og 5 þumlúngar á lengd. Það er auðsèð, að þetta getur eigi fremur en nr. 114 verið pálblað, en að svo komnu er örðugt að ákveða, hvort það er pálstafsblað eða eitthvert annað ókunnugt verkfæri eða vopn, (sbr. það er áður hefir verið sagt um nr. 114, og sömuleiðis um nr. 284 hèr á eptir, sem er einhver tegund af fornum pál eða grefi, með slíku lagi, er tíðkazt hefir í útlöndum um 1066—70, en nú er ókunnugt hèr á landi, að því er mèr er kunnugt). Mèr gæti helzt komið til hugar sporrekur þær, sem sagt er að Austfirðíngar hafi haft, og enda hafi, til að gánga við á hjarni, spora sig í jökla(?) með, og grafa sig í fönn með. Eyfirðíngar kalla þær gaungurekur eða gaungu-

spaða. Á Jökuldal kváðu þær vera kallaðar veðrarekur, og af öðrum sporrekur. Talið er, að þær sè með mjög litlum skákum, en að öðru leyti líkar öðrum rekum. Þó eru mèr þær eigi svo kunnar, að eg viti, hvort þessir tveir hlutir (114 og 271) sè þeim líkir, eða eigi nokkuð skylt við þær. Á háskólasafninu í Kristjaníu er til mjög líkt verkfæri eða vopn, og er kallað „pálstafur"; hann er 2 þumlúngar og 8 línur á breidd fyrir eggina, og með fal, svipuðum og á þessum hlut.

272. (29/9 65. Indriði Þorsteinsson á Víðivöllum í Fnjóskadal, gullsmiður): Kollótt JÁRNBÓLA eða kúla með stóru gati í miðju, og barði eða barmi allt í kríng, líkt og á skjaldarbólu. Á barðinu hafa verið 10 göt, og bólan er 1 þumlúngur og 5 línur þvert yfir. Hún hefir líklega(?) verið á þessu sama verkfæri, og verið negld aptan á skaptið, því að hún fannst hèrumbil 1½ alin frá blaðinu. — Báða þessa hluti (nr. 271 og 272) fann Indriði sjálfur vorið 1865 í leirflagi austanvert við Fnjóská, skammt frá Leiðarnesi, sem svo er kallað, sunnan við Jónshöfða, og á þar að hafa verið leiðar-þíngstaður til forna; kváðu þar enn sjást merki til tópta. Meira fannst þar eigi af neinu, og leitaði hann þó vandlega.

273. S. d. Jón Þorsteinsson frá Hálsi í Fnjóskadal, skólapiltur: SKEGGKNÍFSSTOKKUR, allur skorinn.

274. S. d. Sami: JÁRNÍSTAÐ, mjög einfalt, og að því leyti einkennilegt. Það fannst á Stórhöfða í Fnjóskadal sumarið 1865.

275. 30/9 65. Eldjárn Þórarinsson frá Prestbakka í Stranda sýslu, skólapiltur: TVEIR BRÓKARHALDSKNAPPAR samkynja, úr klukkukopar, allstórir.

276. S. d. Sami: REIÐAKÚLA eða bóla úr kopar. Hún er með 4 hríngum, með forneskjulega gjörvum fuglum innan í, líkt og fyrrum tíðkaðist á tjöldum, og utan með á barðinu er með gotnesku letri vísa þessi:

„HIGST. AD. RYDA. HEYLLM̄. BUNDIN̄. HESTI. FRYDM̄. KEIDAN. ÞYDA. KEFLA. GRUNDIN. REYNI. TIDUM̄.

277. S. d. Helgi Thordersen biskup: Svartblár HÖKULL úr ullarefni með hríngofnu fóðri. Hann er með krossmarki, sem saumað er úr silkiþræði og hörþræði. Krossinn er úr silki, sem orðið er gult, en sem auðsjáanlega hefir upprunalega verið með fögrum rauðum lit, sem sèst, þegar lypt er upp krossmarkinu. Þetta sannar fyllilega litinn á processiumerkinu nr. 256. Hökull þessi er úr Þaunglabakka kirkju, og er víst mjög gamall.

278. S. d. Sami: Gamall PATÍNUDÚKUR úr Þaunglabakkakirkju, gulur að lit. Hann er með krossmarki, saumuðu með gylltum vír, og standa Johannes og Maria undir krossinum.

279. 2/10 65. Jómfrú Margrèt Þorláksdóttir í Reykjavík: GARÐAHÚFA, sem svo er nefnd, af heldri konu að vestan. Slíkar húfur hafa konur borið fyrir vestan, jafnvel heldri konur, en eigi er mèr ljóst, hve almennt það hafi verið. Þó að það hafi ekki nokkurn tíma verið almennur höfuðbúníngur á landi hèr, þá sýnir þó þessi húfa lagið á garðahúfum, er svo voru nefndar. Þær eru ef til vill af íslenzkum uppruna, líkt og hið svo nefnda mítur, þótt hvorugt sè þjóðlegt, fornt nè fagurt. Sumum kann að virðast húfa þessi lítt merk, en hún kann síðar að geta skorið úr þrætu, og þótti því ástæða til að þiggja hana fyrir safnsins hönd.

280. 3/10 65. Jón Ólafsson frá Kolfreyjustað, skólapiltur: SKINNBLAÐ úr Karlamagnúsar sögu. Það svarar til IV, 64: 229,28 í hinni prentuðu sögu. Það er gott handrit frá því seint á fjórtándu öld(?).

281. S. d. Sami: Lítill PARASTOKKUR(?) með risi, líkt og á húsi (sbr. nr. 171). Hann er haglega skorinn, með rós á risinu og hliðunum.

282. S. d. Árni Hallgrímsson á Garðsá í Eyjafirði, hreppstjóri: TVÖ SKINNBLÖÐ með latínu á, líklega

úr bænabók. Á efra horninu á öðru blaðinu stendur með rómverskum tölum blaðsíðutalið(?): „CLXXXI".

283. S. d. Friðfinnur Þorláksson á Akureyri, gullsmiður: Einhver lítill SMÍÐISGRIPUR úr tönn, með skrúfu.

284. 12/10 65. Jón Daníelsson á Ásbúð, smiður: Fornlegur PÁLL eða GREF, eða PÁLREKA(?). Að því er lagið snertir, er verkfæri þetta mitt á milli reku og gamals páls. Skaptið er 1 alin og 2½ þumlúngur á lengd, með hækjuhún að ofan, eins og á páli. Að neðan eru skákar, eins og á reku, en báðar eru eintrjáníngar við skaptið og tálgaðar úr sömu spítu. Yfir skákarnar efst er verkfæri þetta 5½ þumlúngur. Lengd skákanna með varinu er 12½ þumlúngur. Eggin á varinu gengur í odd, og gengur varið 8½ þumlúng upp á skaptið, en nær því hálfu styttra í miðju. Naglar gánga gegnum varið allra efst, einn hvorumegin, til að halda því föstu við skákarnar. Varið er 6 þumlúngar og 2 línur á breidd, þar sem það er breiðast, allra neðst. Það er heldur þunnt. Skaptið með skákunum er úr bækitrè, og er alveg ófúið. Verkfæri þetta fann gefandinn sjálfur árið 1865 í mýrinni fyrir ofan Flensborg (við Hafnarfjörð), rúmlega manni í öxl niður í jörðu, er verið var að taka þar mó, og voru 3 páltorfur af mó yfir og 3 undir. Aðrir menn hafa sagt mèr svo frá, að engin merki hafi til þess sèzt, að þar hafi áður verið tekinn mór, og enginn veit til þess, að nokkurn tíma hafi verið hreyfð jörð til mótaks í þessum sama mýrarjaðri. Þetta er ásamt öðru vottur um töluverðan aldur þessa verkfæris, enda er almenn reynsla fyrir því í útlöndum, að trè og jafnvel járn getur legið í mójörðu óskemmt að mestu allt að 2000 árum eða lengur, og getur því verkfæri þetta verið mjög gamalt, þó að það sè lítið eða ekkert skemmt. Í fornum bókum er getið um pála og grjótpála, rekur og gref. Grágás (í Kristinna laga

þætti, kap. 3) nefnir saman pál og reku og sömuleiðis Bragða-Mágus saga (bls. 138). Reka er nefnd í Frostuþíngslögum (x, 47) og í Gunnlaugs sögu ormstúngu (kap. 2), og í Fornmanna sögum kemur fyrir máltækið: „stikktu mèr í, kvað reka". Í Finnboga sögu hins ramma (kap. 32) er nefnd mykjureka. Páll er nefndur í Svarfdælu (kap. 12). Í Landnámu (bls. 293) segir, er bera átti út sveininn Þorstein Ásgrímsson, Úlfs sonar hersis á Fíflavöllum: „þræll hvatti gref, sá er honum skyldi gröf grafa". Hvað gref er á þessum stað, er óljóst, en auðsèð er þó á sambandinu og eins nafninu, að það er graftól, hvort sem það kann að vera líkt páli eða reku, eða mitt á milli páls og reku, svo sem þetta verkfæri. Í Ferðabók Eggerts og Bjarna (bls. 35) er myndaður páll, sem sýnir, að um miðja átjándu öld hafa pálar tíðkazt á Íslandi líkari verkfæri þessu, sem hèr segir frá, en pálum þeim, sem alstaðar tíðkast hèr á landi á þessari öld, að því er eg þekki til. Nú er blaðið rekið upp í skaptið á öllum pálum, en á þessu verkfæri, og eins í Ferðabók Eggerts, má kalla, að skaptið gángi ofan í blaðið, sem neglt er fast á skaptið með tveim nöglum, sínum hvorumegin, og gánga túngur, sem neglt er í, upp á skaptið báðumegin. Svipað þessu er sömuleiðis fyrirkomulagið á nr. 114 og 271, sem líkur eru til að sè pálstafsleifar; en ef það er eigi, þá eru þó líkindi til, að hinir fornu pálstafir hafi verið líkari hinum elztu pálategundum. Á hinu nafnfræga tjaldi frá „Bayeux", er saumað var 1066—70, sjást menn, sem eru að grafa til virkis eða kastala, og heldur einn þeirra á tóli, sem mjög er líkt því, er hèr fannst, með alveg eins oddmynduðu vari, en í því er það frá brugðið, að á því er hak annars vegar, sem á pál. Höndin á manninum skýlir þar búninum, svo hann sèst eigi. Væri blaðið á pálnum í Ferðabók Eggerts og Bjarna oddmyndað, væri það allt eins og blaðið á þessu verkfæri, sem mèr er næst að

halda að sè gref, eða forn páll, eða ef til vill það, sem kölluð er pálreka.

285. $^{21}/_{10}$65. Pètur Friðriksson Eggerz, kaupmaður á Borðeyri: Gamall SÖÐULREIÐI með bólu í miðju, úr kopar, með 10 stórum kopardoppum og 26 minni.

286. S. d. Sami: Lítill KOPARKNAPPUR tvöfaldur með gleri að ofan, þar undir er mynd Karls hins tólfta Svíakonúngs (1697—1718), með letrinu:

„CAR(l). XII. K. I. S."

Knappur þessi fannst rekinn af sjó norður í Bitru fyrir rúmum 20 árum.

287. S. d. Sami: KNÍFSKAPT(?) úr kopar, með upphleyptum rósum á og trè innaní að framan.

288.a. S. d. Sami: Lítill SVUNTUKNAPPUR, vel gjör, með víravirki, gylltur og með gröfnu laufi.

288.b. S. d. Sami: Samkynja SVUNTUKNAPPUR.

289. S. d. Sami: KARLMANNS(?)-KNAPPUR úr kopar, gagnskorinn. Hann hefir fundizt.

290. S. d. Sami: Grind ofan af fornu MÖTTULSNISTI(?) úr gylltu bronzi. Hún er gagnskorin og að öllu af líkri stærð og gjörð sem nr. 96 og 245; samskonar er og nr. 371 hèr á eptir. Allan neðra hluta nistisins vantar. Þess má geta, að ekkert af þessum þremur nistum (nr. 245, 290 og 381) hefir nein göt allt í kríng, eins og bæði nistin nr. 96 hafa, og sem greinilega bendir á, að þau hafi verið saumuð á föt, eins og síðari alda möttlaskildir og hempuskildir. Eg veit og eigi betur, en að hin þrjú nistin hafi fundizt ein sèr, og getur það komið af því, að þau hafi týnzt, eða þá af því, að þau hafi verið borin sem dálkar. Menn hafa enn eigi fundið nógu mart af þeim, til þess að geta skorið úr því. Nisti þetta fannst uppi á fjalli nálægt Norðurárdal í Borgarfirði, en hvenær það hafi fundizt, vita menn eigi.

291. $^{25}/_{10}$65. Sigurður Sivertsen frá Útskálum stúdent: KNAPPUR úr gylltu silfri, haglega og einkennilega

gjör, með góðu víravirki. Knappurinn er eggmyndaður, og er eigi gott að greina, hvort það er ermaknappur eða tala úr hálsfesti (meni), er opt var samsett af einskonar eða tvennskonar tölum, sem skiptust á. Nokkrar þeirra hefi eg sèð.

292. S. d. Sami: Lítill TENÍNGUR úr tönn, fundinn í jörðu.

293. ²/₁₁ 65. Árni Jónsson silfursmiður í Reykjavík: Lítill STEINSNÚÐUR með auga, allur ávalur annars vegar og með hríng í kríng um augað, en hins vegar flatari, en þó með ávölum brúnum. Hann er úr útlendum steini (*fidtsten?*). Hann er 1 þumlúngur og 2 línur á breidd. Árni fann snúð þenna í bæjarrústum á eyðijörð fyrir austan Kaldárholt, ásamt brotum af fleiri samskonar snúðum (sbr. nr. 306).

294. S. d. Sami: Stór GLERTALA með innsmeltum litum: svörtu, hvítu, rauðu og grænu („mosaik"-verki). Hún er og með hríngum og að mestu hnöttótt. Hún er alveg samskonar og nr. 157, og auðsjáanlega frá sama tíma. Hun fannst í flagi austur í Álptaveri fyrir nálægt 40 árum.

295. S. d. Sami: Lítil TALA úr grjóti (*fidtsten?*), í laginu sem mylnusteinn. Hana fann Árni á sama stað og nr. 293.

296. S. d. Sami: ÞRJÁR GLERTÖLUR mjög litlar, hnöttóttar að mestu, með rákum, sem allar liggja eins. Ein þeirra er rauð og tvær eru samfastar (sjá nr. 157). Þær hafa mjög fagran lit, líkastan lit á skygðu silfri. Þær fann Árni alveg á sama stað og nr. 293 og 295.

297. S. d. Sami: Hálf RAFURTALA eða GLERTALA, að stærð og gjörð lík nr. 294, en mylnusteinslöguð. Hún er með hvítum og rauðum flètting utanum á einn veg. Sjálf talan hefir verið gul, en jörðin hefir getað verkað á hana og einsog feygt hana. Hana fann Árni á sama stað og hinar (nr. 293, 295 og 296) með nokkru

millibili. — Allar þessar tölur (nr. 294—297) eru eflaust mjög gamlar og líklega úr steinasörvi upphaflega. Þær eru nær því eða alveg eins og tölur, er finnast í jörðu erlendis með peníngum frá annari og þriðju öld eptir Krists burð. Þetta bendir á og sannar með öllu, að tölur þessar, er hèr hafa fundizt, geta verið lángtum eldri en bygging Íslands, og hafa getað geymzt mann frá manni, áður en forfeður vorir tóku að byggja þetta land. Tíminn einn verður að skera úr, hvernig á því stendur, að Íslendíngar, eigi eldri þjóð, hafa haft svo fornlega og forna hluti. Af því, hve margar slíkar tölur finnast og hve víða þær finnast, má sjá, að þær hafa verið mjög algengar hèr í fornöld. Í Noregi hafa opt fundizt líkar tölur og þessar, með sama lagi: mylnusteinslagaðar, hnöttóttar, margkantaðar og sívalar (eða „cylinder"-myndaðar), og úr samskonar efni: marglitu gleri, sem er hið skrautlegasta, röf (rafri), kristalli (sbr. nr. 328) brendum leiri og þunnu gulli. Háskólasafnið í Noregi hefir margar, sem fundizt hafa ein og ein á stángli, og þar að auki heilt steinasörvi, sem fannst í haugi í „Ramdal".

298. $^{11}/_{11}$ 65. Guðmundur Lambertsen kaupmaður í Reykjavík: CALENDARIUM PERPETUUM eða rím, prentað í Skálholti 1692.

299. $^{15}/_{11}$ 65. Sigurður Sivertsen frá Útskálum stúdent: Gamall SKRIFSTOKKUR, vel gjör, með snúníngum, rós og fángamarkinu „G S D" á lokinu.

300. $^{16}/_{11}$ 65. Jón Ólafsson frá Kolfreyjustað skólapiltur: Lítið KROSSMARK úr silfri. Það hefir að öllum líkindum verið neglt á eitthvert kvennsilfur.

301. $^{27}/_{11}$ 65. Helgi Sigurðsson á Jörva kandídat: Blárósuð hvít LEIRKANNA, hálsmjó, með hnöttóttri bumbu og tinloki. Óvíst er, til hvers hún hefir verið höfð. Það gæti vel verið vínkanna eða mjaðar-

kanna, sem getið er um frá elztu tímum (sbr. Rígsmál 29. er.).

302. S. d. Sami: Velgjört TANNSTAUP. Utan um miðju þess er hríngur af dýrum, og eru þar úlfaldi, einhyrníngur, leon og hjörtur. Staupið hefir tvo fætur, og mynda tveir mannsfætur með snúníng á milli hvorn fót. Að neðanverðu yfir um staupið má lesa með upphleyptu latínuletri:

„...ADE. GVDSSON. MERKVR. OSS. H..."

Önnur leturlína hefir verið grafin að ofanverðu kríngum barm staupsins, en hún er því miður söguð af og sèst að eins móta fyrir „(a)NNO."

303. a. 30/11 65. Jón Bjarnason frá Stafafelli í Lóni, skólapiltur: TRAFAKEFLI skorið. Á því má lesa með höfðaletri áminníngu þessa:

„KIEBLEN TALA KVENDED VID
KAM SO FORDAST MEIGE
VEFDU I DUKE VEL ÞANN SID
AD VELKIUM LINED EIGE.
CHRISTIN THORLAKSDO(ttir). A° 1729."

Á því er og skáldskapur með latínuletri, sem vel má lesa, en mèr hefir eigi tekizt að smala pörtum vísunnar saman í heild, og mun það eigi auðvelt.

303. b. S. d. Sami: Sívalt TRAFAKEFLI, samkynja hinu.

---

## 1866.

304. $^{11}/_{3}$66. **Árni Gíslason** lögregluþjónn í Reykjavík: STEINSNÚÐUR. Hann er mjög líkur nr. 293, en lítið eitt stærri og alveg ávalur báðumegin.

305. S. d. **Sami**: Annar STEINSNÚÐUR líkur að stærð og gjörð.

306. S. d. **Sami**: Tvö brot af samskonar SNÚÐ. — Alla þessa snúða (nr. 304—306) fann Árni í gömlum uppblásnum bæjarrústum í ási fyrir austan Kaldárholt, þar sem Kaldárholts bær á að hafa staðið áður (á sama stað og nr. 293 og 295—297). Þar fundust fleiri snúðar smátt og smátt, alls nálægt 10, auk þeirra, sem fyrr er getið (nr. 293 og 295—297).

307. S. d. **Magnús Bjarnason**, bóndi á Hallstöðum við Ísafjarðardjúp: KOMPÁSUMGJÖRÐ af fílabeini(?), mjög haglega gjör. Hún er gjör í bókarlíkíng, með koparspennum, koparrósum á hornum og köppum á kjöl. Á spjaldinu annarsvegar eru rósir, en hinsvegar er grafin einhver dýrlíngsmynd með hríng (**gloriu**) kríngum höfuð, hann hefir lángan staf í hendi og barðahatt hánganda á baki. Mynd þessi mun eiga að merkja **Andreas** postula. Þegar upp er lokið, er annarsvegar innan í **sólskífa** eða **sólúr**, en hinumegin kompás, er að eins vantar glerið og nálina á. Þar á eru áttanöfnin á latínu:

SEPT(entrio). MERI(dies). OCC(idens). ORIE(ns).

Grip þenna fann Guðmundur sonur Magnúsar bónda í gömlum smiðjuhaug. Líklegast þykir mèr, að hann sè eptir Spánverja á fimtándu eða sextándu öld.

308. $^{17}/_{3}66$. Gunnar Gunnarsson (á Hálsi í Fnjóskadal) aðstoðarprestur að Sauðanesi á Lánganesi: Gamall HJÓLSPORI úr járni með feryddu hjóli. Hann má spenna á sig, hvern fótabúnað sem maður hefir, sem þá var títt. Hann er mjög líkur sporum þeim, er tíðkuðust í útlöndum á tólftu, þrettándu og fjórtándu öld, og mun hann vera frá þeim tíma. Elztu sporar, sem hafðir voru, voru eigi hjólsporar, heldur broddsporar eða oddar, sem svo eru nefndir í kveðskap, t. a. m. í Helga kviðu Hundíngsbana hinni síðari. Þeir voru nær því eingaungu hafðir fram í lok elleftu aldar, og á útlendum myndum frá því seint á elleftu öld sjást optast broddsporar, en hjólsporar þó jafnframt á einstökum myndum (sjá „Bayeux"-tjaldið, er saumað var um 1066—70; á því eru einúngis broddsporar, o. fl.). Spori þessi getur því varla verið eldri en frá byrjun tólftu aldar, en kann að vera talsvert yngri.

309. S. d. Sami: Stór KJAPTAMÈL, lík því er nú tíðkast á bandbeizlum.

310. S. d. Sami: Lítil JÁRNSVIPT með hríng og keng við, eigi ólíkt því, að það hefði verið svipukengur og sviptin verið negld í ólina.

311. S. d. Sami: Oddmjór SÍVALNÍNGUR úr kopar. Annar endinn er stífður og með holu í. Óvíst er, hvað þetta muni vera.

312. S. d. Sami: Stór KOPARHRÍNGUR slèttur, $2^{1}/_{2}$ þumlúngur þvert yfir, óvíst til hvers.

313. S. d. Sami: Lítill STEINSNÚÐUR, ávalur annarsvegar en flatur hins vegar. Af því virðist líklegast, að það kunni að vera þráðarsnældusnúður. — Allir þessir hlutir (nr. 308—313) fundust í svo nefndum Smiðjuskógi, sem er fyrir framan alla bygð í Bárðardal, hèr og hvar á tvístríngi. Menn hafa það fyrir satt, að þar hafi fyrrum bær staðið, en hvenær sá bær hafi

lagzt í eyði er talið óvíst. Áður hefir þar mart fleira fundizt, helzt af kaupamönnum úr Hreppum sunnan.

314. ($^{17}/_{3}$66. Gunnar Gunnarsson (á Hálsi í Fnjóskadal) aðstoðarprestur að Sauðanesi á Lánganesi): SKAFLASKEIFA fjórboruð. Það er dragstappa fornleg. Hún fannst í jörðu í Fnjóskadal.

315. S. d. Sami: KÍNGA úr eiri. Hún er fóðruð utan með þunnu bronzi eða látuni, er bendir á, að látún hafi þá verið talsvert dýrara en eir, og sannar þannig máltækið: „þeir verða að hafa eirinn, sem ekki hafa látúnið" (sbr. nr. 355). Á henni er að ofanverðu lítið auga, slitið, til þess að festa í að eins lítið band. Hún er öðrumegin slètt, með tveim hríngum á röndinni, en hins vegar eru tveir hríngar með rós innaní, er snúníngur gengur þvert yfir, og eru þær í fjórtándu eða fimtándu aldar stíl. Hún hefir verið gyllt. Menn hafa nú fundið svo margar kíngur hèr á landi, að þar af má með vísu ráða, að þetta skraut fornaldarinnar hafi tíðkazt hèr á fjórtándu öld, eða fram á fimtándu öld, er hálspeníngar („*medaillons*") tóku algjörlega við, sem enn í dag tíðkast meðal meirihàttar kvenna, og eru þeir þannig bæði hið elzta og yngsta skraut (sbr. ritgjörð mína um kvennbúnínga í Nýjum Fèlagsritum, seytjánda árs bls. 26—27).

316. S. d. Sami: KOPARVALTA silfruð, með tveim götum, og hefir því verið negld ofaná eitthvað. Hún er einföld, en vel gjör. Eigi er hægt að segja, til hvers hún hafi höfð verið.

317. S. d. Sami: KOPARPÖR, krækt og gagnskorin.

318. S. d. Sami: Lítill SVUNTUKNAPPUR úr kopar, allur gagnboraður með götum. Hann er ásamt öðru vottur um, að fátækt kvennfólk hefir ávallt reynt að tolla í tízkunni, en orðið að nota ódýrara málm til að skarta með, heldur en auðkvendin.

319. S. d. Sami: LAUFAMYLNA úr kopar[1].

320. S. d. Sami: SÍÐHEMPUPÖR, er svo eru almennt kölluð, úr kopar. Öðru parinu er rennt frá hliðinni eða röndinni inn í hitt. þesskonar pör sá eg á yngri árum mínum á síðhempu, sem maður var í.

321. S. d. Sami: Rauð bót úr HÖKULKROSSI(?) útsaumuð, með snotrum rósum.

322. S. d. Sami: Krínglóttur HRÍNGUR slèttur, að mestu einfaldur, með litlu auga að ofan. Hann er 1 þumlúngur og $1^{1}/_{2}$ lína þvert yfir. Til hvers hann hafi verið hafður er mèr óljóst, en vel hefði mátt binda við hann lykla, helzt smáa, enda bundu menn opt lykla við sylgjur með smáu auga. Hríngur þessi á að hafa fundizt upp blásinn í Voladalshaugi á Tjörnesi.

323. S. d. Sami: TRÈMYND af manni eða engli, af kertahjálmslilju úr Háls kirkju í Fnjóskadal.

324. $^{12}/_{6}$66. Einar Einarsson bóndi á Steinum. Tinbúið BRÝNI með gati í endann. það er 5 þumlúngar og 3 línur á lengd. Búníngurinn á því sýnir, hve mikið menn hafa haft við brýni sín á fyrri öldum. það fannst þar sem Hoftorfa heitir, nálægt steini, er Hofsteinn er nefndur, á afrètt frá Steinsholti, er liggur næst við Lánganes.

325. $^{9}/_{7}$66. Guðmundur Sigurðsson í Húsagarði á Landi, yngispiltur: KNÍFSKAPT með koparkinnum, líkt og á borðkníf. þær eru negldar á með tveimur nöglum. Apturendinn er líkur og nr. 36. það fannst vorið 1866 hjá Húsagarði gamla á Landi.

---

[1]) Slíkar mylnur eru eigi (fremur enn mart annað) svo auðvirðilegar fyrir komanda tímann, sem margur kann að ætla, og mundi hver sá vinna safninu þægt verk og þarft verk, er vildi senda því þær, annaðhvort eina af hverju móti eða fleiri samskonar, svo það fengi nokkuð margar af þeim.

326. (9/7 66. Guðmundur Sigurðsson í Húsagarði á Landi, ýngispiltur): Grænn STEINN með gati á. Hann fannst nálægt Hrólfstaðahelli gamla.

327. S. d. Sigurður Ólafsson, bóndi í Húsagarði: STEINSNÚÐUR, sívalur annarsvegar, en hinsvegar flatur, með hríng í kríngum augað. það mun vera þráðarsnældusnúður (sbr. nr. 313). Hann fann Sigurður hjá uppblásnum skálatóptum úti í hrauni, skamt frá Húsagarði gamla.

328. S. d. Sami: Slípuð TALA úr kristalli(?), eða öðrum líkum steini. Hún er hnöttótt og með sex lautum, er allar gánga sama veg, og er að líkindum úr steinasörvi. Hana fann Sigurður árið 1852 á sama stað og nr. 327.

329. 10/7 66. Guðmundur Pètursson, bóndi á Hofi á Rángárvöllum: BEINHÓLKUR, 1½ þumlúngur á vídd og 1 þumlúngur á breidd. Öðrumegin á hólkinum eru tveir hirtir, og er annar með hálsbandi. þeir eru auðsjáanlega grafnir í flýti, en þó vel og liðlega. þeir toga á milli sín þrjú bönd eða þrjá orma, sem festir eru utan um trè(?) með hríngum. Hins vegar er knútur, er samsettur er af tveimur eða þremur ormum, í sama anda og tíðkaðist á elleftu öld, en bæði vantar nokkuð af knútnum og eins fæturna á hirtina, því að í fornöld hefir verið sagaður meira en þriðjúngur neðan af hólkinum. Báðumegin milli hjartanna og knútanna eru tveir tvöfaldir hríngar sirklaðir. Hólkur þessi hefir eflaust verið af einhverju vopni, líklega aptan á axarskapti. þessi litli, en merki gripur fannst í dysi við Rángá, mitt á milli Keldna og Árbæjar. Dysið var hlaðið upp af steinum, eða steinum hlaðið umhverfis. Steinarnir voru vatnslitnir og ólíkir hraungrjóti því, sem þar er í kríng, og eru því auðsjáanlega teknir úr Rángá. Engi sáust þar manna bein, enda var þeirra eigi leitað. Dys þetta var uppi í brún eða barði, hèrumbil 10 faðma frá öðrum 4

eða 5 dysjum, sem þar eru. það er almenníngs sögn, að þeir sè hèr grafnir er fèllu með Hirti, bróður Gunnars á Hlíðarenda (um 987), er Gunnar barðist við Starkað undan þríhyrníngi í nesinu við Rángá, nálægt Knafahólum (Njála, kap. 63). Ef svo er, þá höfum vèr hèr ágætan hlut, svo að segja með ártali, er miða má við marga aðra hluti bæði erlendis og hèr á landi, því lèttvægar líkur munu verða dregnar til þess, að þetta sè annara manna dys, þvert ofan í Njálu og gamla sögusögn manna. það er valt að segja með vissu, hvað hjartamyndirnar og ormamyndirnar eigi að merkja. Mönnum gæti komið til hugar askur Yggdrasils, er hjörtur beit ofan, en Níðhöggur og ormar úr Niflheimi gnöguðu neðan. Eigi er heldur óhugsanda, að Hjörtur bróðir Gunnars hafi átt vopn það, sem þessi hólkur er af, og eigi þeir nafnar hans (hirtirnir) á hólkinum að merkja nafn hans, svo sem títt var á innsiglum á miðöldunum (sbr. innsigli Rafns Sveinbjarnarsonar, Hauks Erlendssonar og Bjarnar þorleifssonar). Gæti þá vel verið, að hólkur þessi hefði orðið eptir á vígvellinum, er Hjörtur fèll, því að varla mun Gunnar hafa verið í því skapi, að hann hefði farið að smala saman slíkum smámunum, er hann reiddi bróður sinn heim dauðan.

330. S. d. Sami: Ferhyrnd HRÍNGJA, þornlaus, með ill-læsilegum miðaldar-rúnaleturs blendíng. Hún fannst á þórsmörk.

331. S. d. Sami: KOPARINNSIGLI. það er aflángt og gengur lítið eitt í odd til beggja enda. það hefir að eins lítinn fót með auga að ofan. Allt í kríng á því stendur með engilsaxnesku latínuletri:

„S(igillum). ÞORLAKI. PS. SVEINI."

Á því miðju er kaleikur með dúk yfir, og kross þar yfir. það er eigi yngra en frá fimtándu öld, en getur verið töluvert eldra það fannst, er verið var að taka grundvöll fyrir heygarði á Hofi á Rángárvöllum (sbr. nr. 351).

332. $^{10}/_{7}$66. Sæmundur Guðmundsson á Hrólfstaðahelli: BRONZI-ÍSTAÐ mjög fornlegt. það er 3 þumlúngar og 7 línur á breidd yfir um skóinn, og með spaða að ofan, sem er 1 þumlúngur og 6 línur á breidd. Við hann hefir verið negld ólin með 4 nöglum. Skórinn er beinn og sléttur. Niður úr ístaðinu gánga tveir spaðar, sem eru framhald af hliðum ístaðsins, og út úr því neðanverðu eru tveir hnöttóttir agnúar. Á ístaði þessu eru tvær ormamyndir, og rísa ormarnir hver gegn öðrum með gapandi hausa, en eru bundnir saman á sporðunum. Líkar myndir eru á nr. 481 í „Worsaae's: Nordiske Oldsager 1859", sem og er með föstum spaða sem þessi; nr. 480 s. st. er og mjög líkt, en á því er laus spaði, er leikur í höldu. Nr. 482 s. st. er og líkt að gjörð, en hefir engan spaða, heldur höldu eða hald, sem nú er títt. Safn vort hefir og fengið annað mjög líkt ístað (sjá nr. 381). Öll þessi istöð eru furðanlega smá, og öll eru þau auðsjáanlega frá sama tíma. Ístað þetta fannst 1866 í rústum af eyðijörðinni Merkihvoli, sem er fyrir innan Galtalæk, efsta bæ á Landi.

333. S. d. Sami: Lítið BRÝNI með gati í enda, er fannst hjá Hrólfstaðahelli gamla.

334. S. d. Sami: BELTISPARASTOKKUR úr kopar, með rósum í gotneskum anda og engils mynd í miðju.

335. S. d. Sami: KNAPPUR eða ÁDRÁTTUR með fornlegri ljónsmynd á, líkt og tíðkaðist á skjöldum, og með laufum allt í kríng. Hann fannst hjá Hrólfstaðahelli niður við á.

336. $^{9}/_{7}$66. Guðmundur Sigurðsson í Húsagarði, ýngispiltur: Lítil KOPARPLATA með rós. Hún fannst á eyðijörðinni Arlaugstöðum, skammt frá Húsagarði (sbr. nr. 157).

337. $^{16}/_{7}$66. Augusta Svendsen húsfrú á Ísafirði: Marglitur REKKJUREFILL. Hann hefir eigi hríngi, svo sem tíðast er, heldur er honum skipt í fimm sexhyrn-

ínga. Í hinum fyrsta sexhyrníngi er hrísla, sem dúfa situr uppi á, í öðrum hjörtur, með nafni hjartarins í, í hinum þriðja riddari með hauk, í hinum fjórða kórónaður leon, í hinum fimmta hrísla eða trè, sem tvær dúfur sitja í. Ofan til og neðan til á því er vers þetta með bandaletri:

„VERTV IFER OG ALLT VM KRING.
MED EILIFER (= eilifre) TILSION ÞINNE.
SITE GVDS EINGLAR SAMAN I HRING.
SÆNGINNE IFER MINN(e)."

Áður átti tjald þetta Þórdís Árna dóttir prófasts á Kirkjubæ í Hróarstúngu, og hafði það áður verið lengi í ætt Bjargar, móður hennar. Það á að hafa verið saumað af nunnum á Skriðuklaustri[1].

338. S. d. Anika Jensdóttir, húsfrú á Ísafirði: DRENGJAHÚFA. Hún er úr vönduðu efni, með silfurlögðum rauðum silkikrossi yfir um kollinn og svörtum skúf í miðju. Að neðan er svart flaugelsuppbrot með gylltum vírborðum. Slíkar húfur tíðkuðust á næstliðinni öld. Húfu þessa fèkk húsfrú Anika eptir Sigríði Ásgeirsdóttur, sem lengi hafði verið á Efstabóli í Önundarfirði og nú er eigi-alls fyrir laungu dáin.

339. 1/8 66. Gunnar Gunnarsson aðstoðarprestur á Sauðanesi: TRAFAKEFLI málað með rauðum, grænum og blám litum. Á það eru skornir mjög forneskjulegir knútar, sem væri það gjört eptir einhverju afargömlu. Á það er skorið með rúnum:

---

[1]) sögusögn þessi gæti verið sprottin af því, ef á reflinum væri svo kallaður nunnusaumur, annars hefir hún engan stað, því á Skriðu var múnka klaustur en ekki nunnu klaustur (stofnað 1493—1500) og versið er úr kvöldsálminum: „Ó herra guð, sem húm og dag" (prent. í Höfuðgreinabók. á Hólum 1772. II, 478), sem mun vera ortur á seytjándu öld.

J. S.

„A. G. D. A. K(eflið). ANNO. 1710.”
Enn fremur er skorið á það líkt letur og á nr. 164, en er illt aflestrar. Menn ætla, að Hallgrímur faðir Þorláks á Skriðu hafi smíðað kefliðið(?).

340. (1/8 66. Gunnar Gunnarsson aðstoðarprestur á Sauðanesi): Gamalt ÍSTAÐ, snúið á hliðunum og einkennilegt. Það fannst í fjalli vestanvert við Bárðardal fyrir 10—20 árum.

341. 18/8 66. Helgi Sigurðsson á Jörva, kandidat: LÁTÚNSKROSS, með því lagi, er „heraldikin” eða skjaldarmerkja-fræðin kallar liljukross. Hann er með ferhyrníng í miðju, og þar innan í er „I H S”.

342. 19/8 66. Erfíngjar Eyjólfs Einarssonar í Svefneyjum, dannebrogsmanns: Stór SKÁPUR úr eik. Hann hefir verið um 3 álnir á hæð, allur strikaður og skorinn, með fjórum hurðum. Á tveim hinum efri hurðunum er skorinn riddari og riddarafrú. Riddarinn er herklæddur, með kollótta stálhúfu dreglaða á höfði, og er geislakóróna umhverfis stálhúfuna neðanverða. Hann er alskeggjaður. Frúin hefir bert hár, nema hvað hún hefir einskonar blómgjörð um ennið, með knút eða rós framan á. Hún hefir einskonar lín-pípnakraga um hálsinn og víðar klæðafellíngar um öxlina („púff”), sem endar neðan við öxlina. Það er einskonar spánskur búníngur. Hvortveggja myndin er brjóstmynd. Á miðhurðina er myndaður skjöldur þverskiptur. Á efra hluta hans er smára-blað, rós og sóley(?) fimmblöðuð, en að neðan stórt blað, og beggja vegna við það fángamarkið „P. I.” Bæði fángamarkið og annað verk á skápnum sannar þá sögusögn manna, að Staðarhóls-Páll hafi átt skápinn. Sú almenna sögusögn, að brjóstmyndirnar sè af Páli sjálfum og Helgu konu hans, virðist eigi geta staðizt sökum búnínganna, því eg þekki þess engi dæmi, að konur hèr hafi haft útlendan búníng, allt fram undir 1800. Bak hefir síðar verið sett í skápinn, því hið eldra, sem var úr „mahogni-”viði, var orðið fúið, og sömuleiðis hefir út-

skotin stètt, sem nú vantar, verið neðan á skápnum. Einar Sveinbjarnarson í Svefneyjum, faðir Eyjólfs, átti skápinn á undan honum, og hefir hann verið 90 ár í Svefneyjum.

343. 22/8 66. Sömu: Stór BAUKUR eggmyndaður. Hann er gjör úr „kókos"-hnot og látúnsbúinn. Hann hefir verið hafður fyrir tóbaksbauk eða tóbakspontu, en mun upprunalega hafa verið hafður fyrir púðurhorn, því að púðurhorn voru á fyrri öldum mjög áþekk hinum fornu tóbakspontum, einkanlega hinum kringlóttu. Á undan Eyjólfi í Svefneyjum átti Einar faðir hans(?) baukinn. Þegar kona Eyjólfs var að alast upp með föður sínum, sira Jóhanni Bergsveinssyni, um næstliðin aldamót, sá hún slíka bauka, og báru menn þá í rauðum lausa(?)-vasa ofan á lærinu, eða ofanhalt á mjöðminni.

344. 26/8 66. Geir Bachmann, prestur í Miklaholti: Stór TALA svört. Hún er öll mjög einkennilega skorin. Yfir um hana liggur tenninga gjörð í þremur bogum. Niðri í sumum skurðunum sèst votta fyrir gyllíng. Töluna fann húsfrú Guðrún Magnúsdóttir, kona sira Geirs, fyrir nær 50 árum síðan, í moldarhrúgu fyrir vestan Gjábakka í Vestmannaeyjum.

345. S. d. Sami: Önnur TALA lík, en minni. Á hana er á þrem stöðum grafin mynd, sem líkist helzt hörpudiski eða báruskel. Hana fann Sigríður, dóttir sira Geirs, í Grindavík. — Það er erfitt að segja, hve gamlar þessar tölur (nr. 344—345) eru, eða til hvers þær hafi verið hafðar. Helzt er til getanda, að þær sè tilbúnar á „paternoster"-band eða talnaband handa pílagrímum, eins og hörpudisklagið bendir á, því að hörpuskelin er alþekkt pílagrímseinkenni, er þeir báru á höttum sínum og klæðum, og má því ætla, að þær sè úr pápisku, eða frá pápiskum löndum komnar.

346. 6/9 66. Guðrún Hansdóttir í Reykjavík, ýngisstúlka: PRJÓNASTOKKUR með rós á hliðum og ártalinu „1791".

347. 15/9 66. Katrín þorvaldsdóttir, húsfrú, í Reykjavík: SPAÐAHÚFA, öll baldíruð að framan með hvítum og gylltum silfurvír, og alla vega litum silkitvinna. Hún er frá Hrappsey, en er gjör af dætrum Skúla Magnússonar landfógeta. Slíkar húfur voru mjög tíðkaðar á stúlkubörnum á síðara hluta átjándu aldar, en þó varla fyrr, því að spaðafaldurinn eða breiði faldurinn, sem þá var kallaður svo, gagnstætt þeim sívala trafafaldi, er áður hafði tíðkazt, var eigi þekktur fyr en um 1765, en spaðinn á húfum þessum er auðsjáanlega í líkíngu þess falds. Áður höfðu stúlkubörn skarðhúfur, sem voru eins, nema hvað þær höfðu knapp (opt stóran silfurknapp) í kollinum. þessar húfur eru þó fráleitt eldri en frá því seint (?) á sextándu öld, því að þá hafði fullorðið kvennfólk mjög líkar húfur og í útlöndum.

348. S. d. Sama: Vandaður PRJÓNAKODDI úr silki, með tveim nálapípum innan í. Hann er saumaður með smágjörvum rósum, gulum og grænum. Sumstaðar er hann saumaður með gylltum vír. Á honum er ártalið „1776" og stafirnir „H. S. (d.)", sem er fángamark Halldóru Skúladóttur[1] landfógeta.

349. S. d. Sama: KVENNVASI, allur saumaður með skatteruðum(?) rósum marglitum.

350. 24/9 66. Pètur Guðmundssson bóndi á Skildínganesi: TRAFAKEFLI. það er með haglegri rós að ofan, og vargshaus að aptan, en manns hendi að framan. Á það er skorið með höfðaletri:

„ULFHILDUR IONSDOTTER A ÞESSE KIEFLE ENN EINGINN ONNUR MED RIETT(u)."

---

[1]) Halldóra Skúladóttír var gipt Hallgrími Bachmann, fjórðúngslækni, í Bjarnarhöfn; þeirra son var sira Jón Bachmann.

J. S.

Á hliðarnar er skorið með latínuletri:

VIRDA. BID. EG. VIFID. VEL.
VÖNDUD. LITID. KIEFLES. RÖND.
AD. LIKTUM. SO. ÞIG. LINDIN. FEL.
MED. LIFI. OG. ÖND. I DROTTINS. HÖND.
AN(n)O. 1735[1].

351. 29/9 66. Pétur Guðmundsson skólapiltur í Reykjavík: Stórt KLAUSTURINNSIGLI eða KIRKJUINNSIGLI(?). Það hefir annarsvegar lítinn fót og gat á. Það er aflángt, með oddi á báðum endum. Hinsvegar á það er grafin mynd af sankti Maríu, og heldur hún á barninu. Hún hefir kórónu á höfði, og er utan um hana fögur umgjörð, gjör í gotneskum anda, með tveim súlum beggja vegna, og busturlöguð að ofan. Efst á bustinni er lilja, sem myndar krossinn, og eins er ofaná báðum súlunum. Beggja vegna á bustinni eru þrjár liljur í röð. Undir þessari umgjörð er einföld bust, sem einhver helgur maður stendur innaní, hann heldur saman höndunum og horfir til himins. Allt í kríng er greinileg leturlína með sama letri og á nr. 331, en þó ellilegra. Það hefir eigi enn orðið lesið, helzt sökum þess, að það mun vera mjög skammstafað. Gripur þessi fannst í Skagafirði[2].

352. 30/9 66 Stephán Sigfússon frá Skriðuklaustri í Norður-Múla sýslu, skólapiltur: Sléttur STEINSNÚÐUR, flatur annarsvegar, samskonar og nr. 313 og 327. Það mun vera snældusnúður. Hann fannst í kálgarði.

---

1) Úlfhildur Jónsdóttir hét kona sira Stepháns Hallkelssonar, sem var prestur í Seltjarnarnes þíngum 1630—1659, og lifði hún nokkra stund eptir mann sinn andaðan. Ef þetta væri hennar nafn, þá væri ártalið og kannske vísan skorið síðar á keflið.
J. S.

2) Þetta kynni að vera innsigli nunnu-klaustursins á Stað í Reyninesi (Reynistað). J. S.

353. $^{1}/_{10}$66. Jómfrú Hólmfríður Bjarnardóttir í Reykjavík: Rósóttur PELI með tinstút.

354. S. d. Sama: TRAFAKEFLI, einkar haglega skorið. Á því stendur með höfðaletri:

„GUD. RVN. EI. ELLS. DOTT. ER. A. CIELF. ENN."[1] Kefli þetta er mjög haglega gjört, með snúníngum og fléttíngum. það er með rósum yfirum til endanna, í hreinum býsönzkum stíl. Skaptið er snúið, með tölu yfir. Að framan er drekahöfuð, er hefir mann í kjaptinum upp fyrir mitti, en hann lætur sèr eigi bylt við verða, en rekur hendurnar gegnum nasir drekans, og spennir greipum yfir um trýnið. Maðurinn hefir breiðan línkraga um hálsinn, breiðar axlaleggíngar, og leggíng á miðju baki, sem er seytjándu aldar búníngur (sbr. ritgjörð mína um kvennbúnínga í Nýjum fèlagsritum, 17. árs bls. 32—33).

355. $^{2}/_{10}$66. Guðmundur Sigurðsson, prestur að Gufudal: Leifar af STOKKABELTI. það eru 6 stokkar stimplaðir, úr eiri, en fóðraðir með látúni (sbr. nr. 315) og þar til heyrandi pör, með gagnskornum 4 hríngum á hverjum stokk, og samkynja skjöldur með 4 hríngum. Belti þetta kom upp úr Staðar kirkjugarði í Steingrímsfirði, er verið var að taka þar gröf árið 1865. þar af má ráða, að konur hafi hèr fyrrum verið grafnar í skautbúnaði.

356. S. d. Sami: NÁLHÚS, rennt af beini, og allt með kríngló̈ttum gata-hríngum.

357. $^{10}/_{10}$66. Gísli Eyvindarson á Munaðarnesi: Brotin LYKLASYLGJA með „I H S", eins og nr. 27 og 210.

358. $^{6}/_{12}$66. Hermannius Elías Jónsson á Velli á Rángárvöllum, sýslumaður: Forn SYLGJA úr kopar með þorni. Hún er 1 þumlúngur og 6 línur þvert yfir, með opi á hliðinni, líkt og á nr. 97, en í staðinn fyrir

[1]) þ. e. „Guðrún Egilsdóttir á keflin".

hnúða þá eru á báðum endum hríngsins tvö drekahöfuð eða ormahöfuð, sem horfa saman. Hríngurinn er digrastur í miðju, en mjókkar til beggja enda, og er allur með þverliðum. Hríngurinn er mjög slitinn. þornið hefir eflaust upphaflega verið með drekahöfði, en þornið, sem nú fylgir, er auðsjáanlega talsvert yngra en hríngurinn, og er lítið sem ekkert slitið, enda er það úr öðrum málmi. Sylgja þessi fannst í rústunum á Gunnarsholti gamla, í Rángárvalla sýslu. Hún er eflaust mjög gömul, einkum hríngurinn.

359. $^{23}/_{12}$66. **Árni Halldór Hannesson** á Litlu-þúfu, ýngismaður: HÚFA af einhverju úr hvítu postulíni, óvíst af hverju. þar á er krosslagt blys, vel málað, og örvamælir „Amors" með blómhríng utanum. Á henni stendur einnig: „ANNO 1786."



# YFIRLIT.

Tölurnar þýða nr. gripanna.

---



## Efni gripanna (víða ekki herlega tilgreint):

## Óvissir hlutir:



## Kirkjur, kirkna skrúði og gripir.

sbr. Myndir.

## Búníngur kvenna og gripir.

sbr. Myndir.

## Búníngur karlmanna og gripir:

sbr. Hirzlur, myndir.



## Búníngur kvenna eða karla:



## Húsbúnaður:

## Borðbúnaður:



## Hirzlur eða ílát og gerfar:



## Vopn, knífar og verjur:

## Verkfæri m. fl.



## Reiðtygi og búnaður hesta:

## Tafl:



## Leturmyndir:

## Handrit og bækur:



## Myndir:



---

[1]) sbr. Skýrslur og reikn. Bókmentafèl. 1857, bls. IX.

## Listasmíði, sbr. Myndir:



## Stíll:



## Leifar af lifandi skepnum:

## PRENTVILLUR.

**Bls. 94[1]: nr. 60, les: 160.**
**— 95[8]: l. skemmu.**

---

# SKÝRSLA

UM

# FORNGRIPASAFN ÍSLANDS

Í REYKJAVÍK.

II.

1867—1870.

---

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

---

KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU *S. L. MÖLLERS*.

# SKÝRSLA

UM

# FORNGRIPASAFN ÍSLANDS

Í REYKJAVÍK.

II.

1867—1870.

---

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

---

KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.

1874.

SKÝRSLA

UM

# FORNGRIPASAFN ÍSLANDS Í REYKJAVÍK.

1867 1869.

SIGURÐUR GUÐMUNDSSON

SAMDI.

---

## 1867.

360[1]. 28/1 67. Friðrik Thorarensen, prestaskólalærisveinn í Reykjavík: PENÍNGABUDDA, saumuð með gulum hríng úr gulu silki á báðum hliðum, og þar innan í W. Th. með latínuletri og kórónu yfir, og þar undir ártal 1788. Buddan er úr rauðu silki með rauðum tiglum og grænni bryddíng; hana átti fyrst Vigfús Thorarensen á Hlíðarenda, sýslumaður.

361. 16/2 67. Björn Halldórsson, prófastur í Laufási: HORNSPÓNN með ártali 1772 eða 1712, fenginn frá Garðsá í Eyjafirði, og er hann úr eigu forfeðra Árna bónda Hallgrímssonar, sem þar er nú.

362. S. d. Hannes Torfason, bóndi á Grafarbakka í Ytrahrepp: Annar hluti af PARI eða SPENNU úr kopar, hefir hjartamyndaðan enda og 20 smágöt á hliðunum og auga að framan, sem krókurinn á parinu, er

---

[1]) Lýsíng á nr. 1—359 sjá Skýrslu um forngripasafn Islands í Reykjavík. I. 1863 1866. Kph. 1868. 8vo.

hefir verið á móti, virðist að hafa gripið í. Parið er allt grafið með smágjörfum rósum, þó eigi gamallegum; það fannst þar í hól eða öskuhaug rètt hjá bænum.

363. $^{26}/_{2}$ 67. Úngfrú Margrèt Jónsdóttir á Hróðnýjarstöðum í Laxárdalshrepp: HNÍFSKAPT úr kopar með nokkru af blaðinu. Á það er myndaður veiðimaður með hund, sem heldur á byssu, alveg sama mót og nr. 168., en á hvorugu skaptinu er gat að aptan, sem á nr. 34. Eg hefi hèr að auki heyrt getið um þrjá líka hnífa, og sýnir það, að þeir hafa verið hèr töluvert almennir, og hafa það að öllum líkindum verið kvennhnífar, því að konur virðast að hafa borið hnífa við belti sín ásamt skærum í skeiðum og brauðstíl, og ef til vill púng[1], fram yfir 1760[2]. Þessi hnífur er fundinn í vegg á sama bæ fyrir nálægt 13—14 árum.

---

[1]) Sjá „Ýngismeyja hrósun um vinfengi og gjafir unnustanna:

Skærafóður og nálhús nýtt
nú gaf hann mèr í vetur,
glóir á það sem gullið hvítt
grafið allt með letur;
listar-púngur með tiglum títt
troðinn út með silkið svart.
*hann hefir gefið mèr svo mart.*
hann hefir þann með skrauti skrýtt,
því skulu þið sjá mig káta.
*hann hefir gefið mèr svo mart úr máta*".

Listar-púngur mun vera = púngur sem er borðalagður, sjá máldaga Jóns biskups Vigfússonar um Einarstaði: „altarisdúkur af lèrepti með list" = brún eða borða.

[2]) Sjá myndir af konum í ferðabók Eggerts Ólafssonar; sbr. skiptabrèf eptir Kristínu Guðbrands dóttur biskups: hún segist gefa Þorláki sínum „silfurslitrið með hnífum og hlekkjum fyrir 3 hdr." — Það mun hèr eiga að merkja sama sem silfurbelti með hnífum við, hángandi í festum. Í Biskupasögum I, 341 er getið um hlekki IX marka; sbr. „2 pör silfurskeptir kvennhnífar" í skiptabrèfi frá 1755.

364. 6/8 67. **Páll Pálsson** stúdent í Reykjavík: Pólskur SILFURPENÍNGUR með ártali 1639 og mynd: Vlad(islaus) IIII.

365. 16/8 67. **Sami**: SKINNBLAÐ í arkarbroti, ritað með stóru latínuletri og nótum og latínusaung.

366. S. d. **Sami**: SKINNBLAÐ í qvarto úr vulgata. Davíðssálm. 41, 8. — 43, 3. það er gamallegt handrit, vel ritað.

367. 17/8 67 **Hallgrímur Tómasson**, bóndi á Grund í Eyjafirði: Stór HNAPPUR eða hempuskjöldur úr silfri, gylltur, vegur 3 lóð. Hann er flatur og búnguvaxinn að ofan, með velgjörðu loptverki og laufi í miðju, sem mest líkist fornu M. Lítið barð hefir (seinna?) verið neglt með þremur nöglum utan á röndina annarsvegar, og er það með fimm götum. þar á móti í hina röndina er stórt gat ferhyrnt, og er það líkast því, að það væri eptir lás. Mèr er alveg óljóst, til hvers þessi hnappur hefir verið hafður fyr eða síðar. Eg hefi sèð tvo líka hnappa, og höfðu þeir göt í röndina, annar fjögur en hinn fleiri, og bendir það á, að slíkir hnappar hafi upprunalega verið hafðir annaðhvort fyrir hempuskildi eða möttulskildi, eða að þeir hafi verið hafðir í skarðhúfukolli eða höttkolli (sjá nr. 560 hèr á eptir og nr. 652).

368. 3/4 67. **Svend Tærgesen**, ýngispiltur í Reykjavík: SKÁKTAFLSRIDDARI, renndur úr tönn. Hann er með hesthöfði með makka að ofan og stóru gati neðan (sjá nr. 1). Hann er töluvert slitinn og gamallegur. Hann fannst í kálgarði vestanvert við tjörnina í Reykjavík.

369. 4/4 67. **Guðmundur Thorgrimsen**, kaupmaður á Eyrarbakka: Fjórir HNAPPAR úr kopar, krotaðir, að engu leyti einkennilegir nè merkilegir, nema að því leyti, að þeir eru úr skólapilta mussu úr Skálholts skóla, og sýnir það hverskonar hnappa sá piltur hefir haft í sinni mussu[1].

---

[1]) Að bera látúnshnappa í klæðum hefir snemma verið siður skóla-

370a. 11/5 67. Páll Th. Johnsen, kaupmaður á Akureyri: JÁRNRÓS af kirkjuhurð(?). það er ferhyrnd plata, með ferhyrndu gati í miðju, sem mun vera fyrir hurðarhrínginn, og mun rósin hafa verið höfð utan um hrínginn. Út úr hverju horni plötunnar eru rósir eða greinar með 6 laufum, sem helzt virðast að vera í gotneskum stíl.

370b. S. d. Sami: SKRÁARLAUF af sömu hurð, sem er ferhyrnd plata kríngum skráargatið, með laufum út úr hverju horni, nema eitt vantar. þau eru gjörð í sama anda. Á þessu hurðarskrauti hefir verið mjög vandað verk, en mig vantar því miður skýrslu um, hvaðan þessir hlutir eru.

371. 11/5. 67. Daníel Thorlacius í Stykkishólmi: Fornt MÖTTULSNISTI úr bronzi. Aðalmótið á því er mjög líkt nr. 290 og nr. 96, en þó er það eigi steypt í sama móti og þàu, og víkur það frá þeim í ymsu smáflúri. Á því neðanverðu allt í kríng eru 8 drekamyndir, eigi vel gerðar, og 8 ferhyrndir kaflar á milli hvers dreka, með óreglulegu kroti á, sem á tveim stöðum líkist latínu X. Engin eru göt í randirnar á þessu nisti, og eigi sèst votta fyrir gyllíng á því. Á baka til hefir verið þorn úr járni, sem hefir leikið á járnþolinmóð, eins og virðist að hafa verið á nr. 96 og nr. 245, en á 290 sèst það eigi, því að allan neðri hlutann vantar. Öll þessi nisti eða dálkar munu vera frá sama tímabili. það á að hafa fundizt fyrir hèrumbil 20 árum í Vatnsdal fyrir norðan, og var

---

pilta og stúdenta, sjá „Stúdentaspegil" (orktan af J. B. S.) 4. vísu:

„Og í kjól þótt vilír vappa
vel þètta með látúnshnappa,
líka kallast skálkaskjól".

Þetta er búníngur, sem stúdentar tíðkuðu á dögum Ólafs biskups, því að skáldið segist hafa verið í skóla, þegar hann var biskup, en hvaða Ólafur biskup þetta var sèst ekki af kvæðinu, samt er það líklega Ólafur Gíslason í Skálholti (1747—1753) heldur en Ólafur Hjaltason á Hólum (1552—1569).

blásið upp úr holti, líklega í fornmannahaug; en við hvern sá haugur var kenndur og hvar hann var, þar um hefi eg því miður enn enga skýrslu fengið. Nistin voru tvö í fyrstu, en annað var gefið eða týndist.

372. 15/5 67. Jón Jónsson, bóndi á Hrafntóptum í Holtum: LÁTÚNSSKJÖLDUR í líkíngu af sól, úr kopar með uppbleyptu verki.

373. 29/5. 67. Keypt: þrír samkynja LAUFAPRJÓNSHNAPPAR eða laufaprjónar. Tveir af þeim eru með Maríumynd á laufinu. Laufin eru steypt og að mestu af sömu gerð og nr. 224; niður úr laufinu á öðrum hnappnum eru aptur þrjú smálauf, gerð í gotneskum anda. Á þriðja hnappnum er hinn helgi Georg á hesti, líkt og á nr. 53. Af tveimur hnöppunum eru smálaufin brotin burt, en hafa þó auðsjáanlega upphaflega verið í þeim öllum. Öllum hnöppunum fylgir hèrumbil hálfur prjónninn, sem hefir verið klipptur sundur og beygður klaufalega til að gjöra úr honum hnappfót, því að prjónarnir hafa síðast verið hafðir fyrir svuntuhnappa, enda hafa flestir laufaprjónar átt þeim forlögum að sæta. Þeir eru keyptir fyrir þrettán mörk, eins og þeir vega.

374. S. d. Keypt: SILFURMYLNA steypt, keypt fyrir eitt mark, eins og hún vegur.

375. 15/6 67. Árni Halldór Hannesson,ýngismaður á Litlu-Þúfu: Fjögur VARNAR eður TÖFRA INNSIGLI á einu pappírsblaði. Á eitt er ritað: *insigle Paule* og á annað *insigle Davids*. Hið þriðja er ferhyrnt og er ritað á þrjár hliðarnar á því *Jehova sebaotu salvatovem;* ein hliðin er rotin af. Á fjórða innsiglinu sèst ekkert nafn, en á því er níu sinnum I H S.

376. 20/6 67. Íngibjörg Tómasdóttir, húsfreyja á Akurhúsum í Garði: INNSIGLISHRÍNGUR úr kopar með átthyrndri stètt að ofan, og anno 1676 utan á rönd stèttarinnar. Ofan á stèttina er grafið með latínuletri: G. I. S.

377. S. d. Stefán Þorvaldsson Stephensen

ýngispiltur í Reykjavík: STEINSNÚÐUR ávalur beggjamegin, úr flekkóttu grjóti, og rúmur einn þumlúngur þvert yfir. Hann er grafinn úr jörð í Reykjavík 1867. þessi snúður er eins og nr. 304, 305 og 306 hèr á undan, og er alveg óvíst til hvers þeir hafa verið hafðir, því að þráðarsnældu snúðar geta það varla verið, þareð þeir eru búnguvaxnir báðum megin. Líka snúða höfðu-og menn til að láta leika á bandinu, þegar að menn tvinnuðu með snældu, til að varna að snurður kæmi á bandið, en til þess geta þeir heldur eigi hafa verið hafðir, því að á engum þeirra sèst votta fyrir skorum eptir bandið innan í auganu.

378. 28/6 67. Nikulás Jafetsson, verzlunarmaður í Reykjavík: EIRPENÍNGUR sænskur stór, með ártali 1652, og nafni Kristínar drottníngar Gústafs dóttur Adólfs.

379. S. d. Sami: SILFURPENÍNGUR lítill með riddaramynd á og engu ártali; töluvert gamallegur.

380. 29/6 67. Jón Sigurðsson á Gautlöndum, alþíngismaður: DRYKKJARHORN með tinstút annars vegar. Á það er grafin einskonar akkerismynd, og slær sèr fiskur í tvær bugður utan um legginn á því. Hinsvegar er grafinn á það ofanvert einskonar nafnhnútur *(monogram)*: þ. M. S. eða M. þ. S. með latínuletri. þar fyrir neðan sjást myndaðir tveir menn, og er annar þeirra með stóran barðahatt á höfði, þraungva peisu að ofan, sem virðist að vera girt ofan í brækurnar. Eitthvert útflúr sèst og að utanverðu á peisu-ermunum, og er bryddíng sýnd framan á þeim. Hann ber stuttvíðar brækur með fjórum hnöppum utan á lærinu. Hann hefir eins og belti um sig, eða það er brókastrengurinn eða haldið. Á fótum hefir hann stígvèl eða reiðsokka; staf í hendi, stuttan með hún á, og litla tóbakspípu í munni sèr. Hinn maðurinn hefir húfu á höfði, eins og með uppbroti, og með eins og uppbrettu deri aptan og framan[1]. Hann hefir síða

[1]) það mun öllu fremur eiga að vera uppbrotin stafnahetta,

yfirböfn, hnepta að framan. Ermarnar eru þraungvar og virðast að vera með fimm hnöppum að utanverðu og bryddíng að framan. Hann hefir stígvèl eða reiðsokka á fótum, og sýpur á mjórri endanum á horni, sem hann heldur á í vinstri hendi, en í hægri hendi heldur hann á poka eða skinnsál, þó með einum botni, að neðanverðu við botninn er grafið allt í kríng með latínuletri: „*anno, ultimi, seculi, 1706, 17 cal. julij*". Það hefir ávallt verið drukkið úr mjórra enda þessa horns.[1] Það er mjög einkennilegt og bendir á ymsa háttu og klæðabúnað manna um 1700, sem menn annars þekkja miður en skyldi, og væri mjög fróðlegt að fá margar slíkar myndir, enda þótt þær í fyrsta áliti sýnist opt illa gjörðar; þær geta samt opt verið merkilegri en margar myndir, sem eru betur gjörðar.

381. S. d. Sami: Fornt ÍSTAÐ úr bronzi; það er $3^3/_4$ þumlúngs að innanmáli yfir skóinn og 3 þumlúngar að hæð innanmáls. Það er því hèrumbil alveg af sömu stærð og nr. 332, og af mjög líkri gerð, með spöðum

---

sem mjög tíðkaðist fyrrum í Þíngeyjarsýslu; þær gengu í odd niður á brjóstið og herðarnar, en þegar þær voru brotnar upp, voru þær með hvössum oddum aptan og framan, líkustum stöfnum á húsi. Um þær er víða getið, og helzt í kvæðum, sjá „Eitt kvæði, hvernig ýngismenn hrósa sèr fyrir stúlkum:

Hettu á eg hèr með bláa,
heldur víða og stafnaháa;
ymsir borðar á henni gljáa
allt er það til þíngað.
*því kom eg hingað.*
góðan hlut af glitinu smáa
gaf mèr faðir minn eptir sig.
*Heiðurs. víf*ið*, hvernig lízt þèr á mig?*"

[1]) Í Biskupasögum I, 877 er getið um „drykkjarstúta tvo búna" 1331, og getur vel verið að það sè horn, sem drukkið var úr mjórra endanum á; sbr. orðatiltækið: að stúta sig.

niður úr og hnöttóttum agnúum út úr að neðan, beinum skó og slèttum, nema hvað lítil bryggja gengur niður úr skónum með litlum laufum niður úr. Sú bryggja er einúngis annarsvegar, og hefir hún verið höfð á þeirri hliðinni ístaðsins, sem snýr út, þegar ístöðin lafa laus niður með hesthliðinni. Sama bryggja er og á nr. 332, en með engum laufum. Spaðinn er að ofan 1½ þumlúngur á breidd, og er gróp í hann fyrir ístaðs ólina á gagnstæða hlið og bryggjan er niður úr ístaðinu, eins og er á nr. 332, og sýnir það, að hliðin, sem bryggjan er á, hefir snúið út. Grópið fyrir ólinni er einn þumlúngur á þessu ístaði, en rúmur 1½ á nr. 332, og hefir það verið breidd ólanna. Ólin hefir á þessu ístaði verið negld með þremur járnnöglum. Spaðinn hefir verið uppmjór, og meitlaður (en eigi grafinn) á hann tvíhöfðaður ormur með gapanda gini, snýr lykkjan niður og hausarnir upp, og eru þeir bundnir saman skammt fyrir neðan eyrun og beygjast hausarnir hver út frá öðrum, í staðinn fyrir að ormarnir á hinu ístaðinu eru bundnir saman á sporðunum að ofan. Líka virðist að hafa verið smelt einhverjum öðrum málmi ofan í gröftinn á því ístaði. Mèr þykir undarlegt hvað bæði þessi ístöð eru lítil, enda gætu það hafa verið kvenn-ístöð. Þau eru bæði auðsjáanlega frá voru elzta tímabili, og gjörð í hinum gamla norræna heiðna stíl. Ístaðið fannst uppblásið úr melbarði í eða við Viðarfell, sem er efst í Reykjadal í Þíngeyjar sýslu.

382. S. d. Stefán Jónsson á Steinstöðum, alþíngismaður: Lítil REIZLA úr kopar (kölluð silfurvog). Hún er með einskonar klíputaung að framan, sem klípur um silfrið, þá vegið er, ístaðinn fyrir krók. Annars vegar á henni eru tölurnar 6, 12, 24, 31, 48, 60 aptast, og á því marki tekur hún 2 lóð (silfurvigt). Hinsvegar eru tölurnar 7, 14, 25, 28, 50, 63. Eptir hvaða reglum þetta þýngdarmál er sett, er mèr óljóst; það virðist helzt að vera líkast fiskatali.

383. S. d. Ólafur Sigurðsson í Ási í Hegranesi, alþíngismaður: SKERBORÐ rennt úr beikitrè. það er rúmlega 7 þumlúngar þvert yfir. Yzta röndin er lítið eitt þykkri en í miðju. Tveir hríngar eru renndir á það báðum megin. Annarsvegar í miðjuna er skorið latínu-E. þessi skerborð höfðu menn að nokkru leyti í stað diska, og voru þau títt skorin með höfðaletri. Sumir lögðu þau ofan á tindiskana, að þeir eigi skyldi rispast, þegar skorið var á þeim. þeirra er víða getið í skiptabrèfum, að þau voru bæði úr leir og trè og tini (sjá skiptabrèf sira Jóns Jónssonar í Stafholti 1740) og í máldögum, t. d. í Sigurðar registri bl. 33. *a*: „skerborð" ný XIIII, en forn XIII; bl. 33. *b*: skerborð útlend XIII; íslenzk skerborð XIX; „skerdiskar" bl. 7. *a*: sem munu hafa verið líkrar tegundar, en meira hvolft úr þeim; sbr. „IX tin-skerborð grunn". — „VI djúp skerborð af tini" í skiptabrèfi frá 1780 (uppskript á sterfbúi eptir Guðfinnu Torfadóttur, konu síra Halldórs Finnssonar í Hítardal 1780). Almenníngur þekkir og skerborð úr hinum ágæta mansaung fyrir Tímarímu[1]. Nú eru þau orðin mjög sjaldgæf.

384. S. d. Sigurður Guðmundsson málari í Reykjavík: TINDISKUR. Hann er sagður úr eigum Jóhanns Gottrups († 1754), en virðist að vera með nafndrætti Lárusar Christjánssonar Gottrups (L. C. G.), sem dó 1721, og máðu ártali 167(8?). Hann er mèr gefinn af frú Sigþrúði Friðriksdóttur í Reykjavík.

385. 30/6. 67. Páll Eyjúlfsson, gullsmiður í Reykjavík: LILJA af kertahjálmi úr kopar, brotin í tvennt, gagnskorin með allgóðu verki. Hún fannst uppblásin á hól á Akranesi.

---

[1]) Þar er þessi vísa:

„Kalla eg hræri kroppinn önd,
kortur er máti settur:
eins og skerborð, reist á rönd,
rambar þartil dettur".

386. S. d. Sami: HÓFHRÍNGJA,' einföld, brotin, fannst á sama stað.

387. S. d. Guðmundur Einarsson, fyrrum prestur á Kvennabrekku: LAUFAPRJÓNSHNAPPUR úr silfri gylltur, með góðu víravirki, vegur 1¹/₈ lóðs. Hann er með steyptu laufi með Maríumynd í, líku og nr. 224, nema hvað María virðist hèr að standa á mána í staðinn fyrir að hún virðist heldur að krjúpa á hinu, og eins á nr. 373. Hèr hefir hún og geisla út frá sèr allri, sem líka er sýnt á hinum. Fyrst er menn hafa sögur af þessum hnöppum, þá báru konur þá þrjá í faldinum, sjá Vikivaka kvæði: „laufa prjóna ber hún þrjá"; sbr. skiptabrèf Kristínar Guðbrands dóttur biskups; en á 18. öld báru konur opt 5—7 laufaprjóna; en mig undrar mest hvað þeir eru stórir og þúngir; í skiptabrèfi frá 1726 segir: 3 laufaprjóns hnappar forgylltir með 4 laufum hver, vega 3 lóð og „3 qvintin".

388. ⁵/₇ 67. Hjálmur Pètursson í Norðtúngu, alþíngismaður: BEINSPJALD, skorið með rós, og sèst spansgræna á hliðunum, eins og það hafi haft málm-umgjörð; líklega dósalok.

389. S. d. Sami: Stór BRÓKAHALDSHNAPPUR úr klukkukopar, grafinn með laufaviðarhríng.

390. S. d. Sami: BÓKARSPENSL úr kopar í renaissansestíl með mannshöfði og rósum.

391. ¹⁰/₇ 67. Bárður Sigurðsson, bóndi á Kollabæ: Forn GJARÐAHRÍNGJA úr kopar, stór, 3 þumlúngar þvert yfir, með snúníng allt í kríng að framan og á hliðunum, og liljulöguðu þorni, og tveim ferstrendum typpum uppúr að ofanverðu. Hún er of ferhyrnd til þess að geta kallazt hófhríngja, þó hefir hún helzt það lag, og er hún að því lík hinni fornu járnhríngju úr Hafurbjarnarstaða-fundinum, sjá nr. 566 hèr á eptir. Nær því alveg eins hríngja er til í safninu í Kaupmannahöfn: *Worsaa'es nordiske Oldsager 1859, nr. 485.* Þær eru báðar eflaust

mjög gamlar og varla ýngri en frá 12. til 13. öld. Hún fannst á víðavángi fyrir innan Kollabæ í Fljótshlíð.

392. 14/7 67. Magnús Hákonarson, prestur að Vík í Mýrdal: ELDFÆRI úr kopar. Eldstálið er efst. það er brotið í miðju. þar undir er pípukrassi, og neðst taung með fjöður (brotinni) til að halda eldsveppnum. það fannst undir Launguhlíð.

393. 18/7 67. Regína Möller á Læk í Melasveit: SKARÐHÚFA úr svörtu silki, með grænu og hvítu vír- og silkiknipli, rauðri bryddíng og kverkbandi með silfurkrók og lykkju. Hún er úr Borgarfirði. þessar húfur báru stúlkubörn almennt á höfði á 18. öld, og var skautað ýmist yfir eða undir þær að neðan með litlu trafi, og silfurhnappar í kollinum, einn eða þrír, sem vantar á þessa, sjá nr. 560 hèr á eptir. þær eru eldri en spaðahúfurnar, sjá nr. 347. Í ferðabók Eggerts Ólafssonar er myndað barn með skarðhúfu, og leiðir kona barnið. Á 18. öld voru stúlkubörn alveg eins klædd og fullorðið kvennfólk, í hempu og öllum öðrum búníngi, eins með kraga, hálsklút, ermahnöppum og hempuspennum eða pörum; en búníngurinn var í því eina frábrugðinn, að börnin höfðu skarðhúfu um 1760, og síðan eptir 1770 spaðahúfu á höfði, í staðinn fyrir að þær fullorðnu báru ávallt fald, bæði til spari og hversdagslega. Ef maður nú gæti fengið fullkomið sýnishorn af þeim búníngi, sem fullorðnar konur báru á næstliðinni öld, þá hefir maður nú um leið barnabúnínginn fullkominn, fyrst þessar húfur eru fengnar, og vantar þá einúngis karlmannsbúnínginn, til þess það sè öldúngis fullkomið.

394. 20/7 67. Björn Árnason, bóndi á Torfastöðum: DÓSIR úr kopar. þær eru átthyrndar, þó aflángar. Á botninum er leon, sem heldur á sverði í hægri klónni, og fjórum örvum í vinstri, og hefir kórónu á höfði; það er merki Hollands. Allt í kríngum það eru rósir. Á lokið er myndaður riddari, með herstjórnarstaf í vinstri hendi, og

rósir allt í kring. Á röndina er grafið með vönduðu höfðaletri: HANNES GUNNLAUGSON EIGA(ndi?) 1667 GOTT, HÓF, HLÍÐER, HVORUM H. L. (hlut?) — Dósirnar virðast að vera hollenzkar, en letur grafið á þær síðar á Íslandi.

395. [22]/7 67. Björn Halldórsson, prófastur í Laufási: Tvær fornar KIRKJUSTOÐIR úr furu eða rekavið úr Laufáskirkju, sem stóðu þar síðast sem dyrastafir við útidyr kirkjunnar, og allt frá því að torfkirkja var bygð 1744, sem var rifin 1864. þær eru 4 álnir og 3 þumlúngar á hæð, en rúmir 12 þumlúngar á breidd. þeim hefir báðum verið flett að endilaungu framar en í miðju, og er auðsèð, að menn hafa sem lengst viljað vernda framhliðina vegna útskurðarins, því að einúngis framhliðin virðist að hafa verið skorin. Stoðirnar eru ávalar eða hálfsívalar að framan, og hafa að öllum líkindum upprunalega verið hèrumbil jafnþykkar á alla vegu. Utan í röndina á annari stoðinni annarsvegar sèst tveggja þumlúnga djúpt gróp frá efst til neðst, sem að líkindum er eptir þilið, sem hefir verið greypt inn í hana annarsvegar, en hinsvegar sèst ekkert votta fyrir grópi. Á hinni stoðinni sèst ekkert votta fyrir grópi, því að henni hefir til allrar ógæfu verið flett svo nærri skurðinum, að allt þilgrópið er farið af, samt getur það hafa verið eins á henni. það, að grópið er annars vegar, sýnir helzt, að stoðirnar muni hafa staðið beggjamegin við dyr eða inngáng, eins og þær gjörðu 1637[1], því að annars hefði grópið verið báðum megin eða ekkert. Neðan í þær báðar eru lèifar af 7 þumlúnga lángri klauf, og hefir sú klauf

---

[1]) það ár var Laufás staður tekinn út í hendur Jóni presti Magnússyni af erfíngjum sira Magnúsar Ólafssonar, og voru þá stoðirnar innan við dyr hákirkjunnar og þar fram af forkirkja. Sú kirkja var alveg timburkirkja. Enn fremur er sagt um hina fyrri timburkirkju 1631, að hún var þá að falli komin og stólpar allir neðan fúnir, hún var og öll af trè og stórt hús.

verið sett ofan á undirstokkinn, eða sem ýmist hèt AURSTOKKUR eða AURSILLA (sjá máldaga Jóns Vigfússonar um Stað í Kinn og Múla) og neglt síðan í gegnum með tveim stórum trènöglum. Af þessu má helzt ráða, að lítið muni vanta neðan á þær, samt er það eigi með öllu víst, því að klofan gat síðar hafa verið færð upp eptir þeim, hafi fúnað neðan af þeim eins og öðrum stoðum kirkjunnar. Á efri endanum er og eins og leifar af klauf, og tvö stórnaglagöt til að negla stoðina við silluna, sem hefir verið SLAGSILLA[1] síðast, en getur vel hafa verið DRAGSILLA[2] upphaflega. Um það er eigi hægt neitt að ákveða. Allt bendir samt heldur á það, að lítið vanti ofan og neðan á stoðirnar, enda stendur mjög vel á rósum bæði ofan og neðan, til þess að þær hefði hina upprunalegu lengd að mestu leyti, en þó er það eigi alveg víst, því að klaufin, sem hefir verið í þær ofanverðar, og sem sjást leifar af, gat hafa verið færð ofan í þær síðar, og naglagötin ýngri, enda vita menn, að sumar þess kyns stoðir hafa verið með höfði (*caput*) að ofan, sem alveg vantar á þessar. En hitt er eigi þarmeð sannað, að allar skála- eða kirkjustoðir hafi haft höfuð, eða hvernig um þær hafi verið búið að ofan. Þær stoðir og stoðapartar

---

[1]) Slagsillu hefi eg heyrt gamla menn kalla sillur þær, sem liggja á haki á stoðinni, eða stalli, og er þá stoðin negld eða slegin fast við silluna, svo hún eigi gángi fram.

[2]) Dragsillur hefi eg heyrt kallaðar sillur þær, sem gánga ofan í klauf eða klofu á efri enda stoðanna, sem mun heita drag; sbr. fjalladrag = lítill dalur, og draglaut neðan í skeifum, þaraf nafnið dragstappa, sjá máldaga Jóns Vigfússonar um Stað í Kinn og Múla. Það er og víða getið um dragsillur og höfuðsillur, sem ef til vill gjörir eins líklegt, að dragsillur sè með grópi neðan í fyrir þilið, sem var yzt í kirkjunum, en innri sillurnar eða höfuðsillurnar á útbrota-kirkjum hafa ekkert þilgróp haft, því þar var ekkert þil.

úr Hrafnagils-skálanum, er eg hefi sèð, fimm að tölu, munu hafa haft sama lag, og líka þykkt og breidd upprunalega; en flestar höfðu þilgrópið báðum megin, ef eg man rètt, og eins minnir mig að væri á þeim 4—5 stoðum og stoðapörtum, er eg sá 1856, úr Mælifells-skálanum. þær voru líka að öðru leyti eins í laginu, og ef eg man rètt negldar utan á silluna, en ekki með dragi. Tvær af þeim eru nú í safninu í Kaupmannahöfn: *Worsaae's nordiske Oldsager* 1859. nr. 508. Upp eptir allri annari stoðinni gánga mjög haglega skornar hríngrósir, sem hríngast í 8 bugum, en innan í hverjum bug, nema tveim hinum efstu, er ferfættur vargur eða dýr, með stórum klóm og gapanda gini. þetta dýr hefir stóran og lángan hala með stórum lagði á endanum. Á nr. 189 eru lík dýr, með hinum sömu einkennilegu lángrákum á hálsinum. Allar rósirnar eru í heiðínglegum býsönskum stíl, sem helzt sèst af blöðunum og blómum, en skurðurinn á þessari stoð virðist að hafa það úr heiðna andanum, að víða þar, sem hafa átt að verða blöð eða blóm, hafa óvart læðzt inn drekasporðar í staðinn fyrir blöð og blóm, af gömlum vana. það, að tómar rósir eru í tveimur efstu bugunum, en engin dýr, bendir og á, að lítið muni vanta ofan á stoðirnar, og bendir lag rósanna til þess. Bæði rósirnar og dýrin á þessari stoð er alveg gjört í sama anda og á þeim tveimur stoðapörtum úr Mælifells-skálanum, er eg gat um áður, svo að næst mèr er að halda, að það sè eptir sama manninn. Hin stoðin er mjög frábrugðin hvað skurðina snertir, en þó lýsir sèr í henni sami andi. þar eru engin dýr, og rósirnar miklu smærri, gánga þær allar út frá einskonar miðlegg, og hríngast svo og hríslast til beggja hliða upp eptir stoðinni með blöðum í býsönskum stíl, og drekasporðablöðum í hálfheiðnum stíl. það, að þessar tvær stoðir hafa svo ósamkynja útskurð, bendir á, að þær hafi eigi staðið saman upphaflega eða hvor á móti annari við dyr,

heldur bendir það á, að stoðirnar hafi upprunalega verið margar, eða að minnsta kosti fjórar, og tvær af þeim jafnan nokkurnveginn samkynja; enda sèst, að kirkjan hafði marga stólpa 1631, sem voru þá orðnir fúnir, eins og áður er sagt. Um aldur þessara merku stoða er eigi hægt að svo stöddu að ákveða með vissu. það er alþýðu munnmæli, að þær sè handaverk þórðar hreðu.

396. 22/7 67. (Björn próf. Halldórsson). GRAFLETURSSPJALD, skorið úr furutrè, úr Laufáskirkju. Hefir verið með strikaðri umgjörð allt í kríng, málað með ymsum litum. Til beggja hliða við grafletrið er skorinn laufaviðarbekkur með vínberjum, eða berjakerfum og blómum efst. Fyrir ofan grafletrið er engilsmynd með kríngióttri rós fyrir ofan. Fyrir neðan engilinn eru tvær ferhyrndar rósir og þar á milli liljukross. Grafletrið er skorið. Upphafið með latínuletri:

*Ego servus dei marcus gerhardi.*
*anno. salutis. 1682 ætatis. vero me. æ. 51.*
*in domino, morien.* (moriens) *expecto.*
*hic resurrectionem carnis. et. vitam.*
*æternam.*

Fyrir neðan er skorin hríngrós í *renaissance*-stíl, og þar innaní bundið saman M. G. með einskonar skrifletri, fángamark Markúsar Geirssonar prests að Laufási † 1682; þar fyrir neðan eru tvær rósir, gjörðar í hreinum býzönskum stíl, og neðst bókahnútur vel gjörður í líkum anda.

397. S. d. Sami: GRAFLETURSSPJALD, skorið úr furutrè, úr sömu (Laufás) kirkju. það er ferhyrnt í laginu, en lángt og mjótt með strikaðri umgjörð allt í kríng. Á það er skorinn sporbaugur, og þar innan í tveir englar, sem halda blómgrein í annari hendinni, en með hinni halda þeir grafleturstöflu sporöskjulagaðri, sem ritað er á með gotnesku letri:

HIER HVYLER SA IPPARLEGE ASTVIN
DROTTENS SEERA THORSTEIRN GEIRSON
I I' CHISTO BURTSOFNADVR 1689.

398. 22/7 67. (Björn próf. Halldórsson): GRAFLETURS-UMGJÖRÐ eða líklegra andlitsmyndar umgjörð, skorin úr trè og máluð, úr sömu (Laufás) kirkju. Hún er skorin með þremur englamyndum, og hálda tveir af þeim á blómgreinum. Neðarlega á umgjörðinni er skorinn skjöldur í *renaissance* eða *rococo*-stíl [1] með fángamarki G. M. S. með latínuletri, fángamarki Geirs Markússonar prófasts í Laufási († 1737) og anno 1700. Neðst er bundið saman H. S. eða I. H. S. með latínuletri.

399. S. d. Sami: Stóls- eða sætis-BRÍK úr sömu kirkju, skorin með manns eða engilshöfði að ofan og rósum þar út frá, í *renaissance*-stíl, og fángamarki M. J. S. D., fángamark Jórunnar Steinsdóttur biskups anno 1719. Hún giptist fyrst Hannesi Scheving á Múnkaþverá 1717, en síðan Stefáni Einarssyni, er fyrst var prestur þar á sama stað, og síðan að Laufási 1739.

400. S. d. Sami: Litið mannlíkan eða engils mynd, skorin úr trè og máluð, sem heldur á kertapípu úr

---

[1]) *Renaissance* er upprunalega nýupptekinn eða endurfæddur sá griski og rómverski stíll; en almennast kalla menn því nafni þann stíl, sem á 15. og 16. öld mest kom frá Frakklandi, og sem smátt og smátt hratt (þó um tíma) úr gildi hinum gotneska stíl.

*Rococo*-stíllinn er líka frakkneskur, frá 18. öld, og dregur nafn sitt af hörpuskel (*rocaille*), sem opt sèst mynduð í honum, ásamt öðru margbrotnu skrauti. Þessir ofhlöðnu stílar hafa aldrei náð hèr fótfestu, nè getað orðið þjóðlegir, samt sjást þeir á einstöku kirknaskrauti eptir innlenda, og einkum töluvert á kvennsilfri, og þó einkum sá fyrri, en sá síðarnefndi er hèr mjög sjaldgæfur.

járni í vinstri hendi, og rauðu klæði bláfóðruðu í hægri, sem kastað er á ská upp um vinstri öxlina. Fæturna vantar, og virðast þeir helzt síðar að hafa verið sagaðir af um hnèn (?). — þessi mynd var negld upp hjá prèdikunarstól í sömu kirkju, og er líklega hin sama og þorleifur prófastur Skaptason nefnir 1738: „gamalt mannlíkan hjá prèdikunarstól, með einni ljósapípu af járni". þesskyns englamyndir, sem halda á kertastikum, hafa eflaust tíðkazt laungu fyr í kirkjum[1].

401. 22/7 67. (Björn prófastur Halldórsson): DÚFA, skorin úr trè, hvítmáluð, er táknar heilagan anda. Hún var fest neðan á trèhimin, er var yfir prèdikunarstól í Laufáskirkju, sem er með ártali 1698, og mun hún vera jafngömul og stóllinn.

402. S. d. Sami: MYND Hólmfríðar Sigurðardóttur, konu Jóns Arasonar prófasts í Vatnsfirði. Hún dó á árunum 1682—1689; myndin er máluð með olíulitum á skinn eða pergament. Hún er klædd í svarta hempu, og sèst ekkert votta fyrir borðum nè flosi, eða nokkru skrauti framan á hempunni. Engar sjást heldur leggíngar um öxlina, nè um handveginn, en þar á móti sýnast að vera stór uppslög á hempu-ermunum (?), og eru lítil lauf fremst á þeim, sem snúa upp oddunum. Hún hefir lítinn stinnan svartan kraga um hálsinn, lagðan að ofan með hvítu líni, eða hvítan línkraga með svörtum kraga undir, til þess að línkraginn geti staðið beint út. Hvort heldur er, sèst ekki með vissu. Hún hefir á höfði yfir faldinum svartan hatt, barðastóran, með breiðu svörtu bandi með tveimur eða þremur krákustígum á. Bandið er fest saman á vinstri hliðinni með hnút, eða lagt í lykkjur eða pípur. þar niður undan sèst faldurinn, sem er alhvítur niður í gegn, en neðan um hann er einskonar ennisband (koffur) eða djásn, sem er sýnt eins

[1]) Sigurðar-registur 6. b: „Einglar 11 með gyltum stikum".

og heill hríngur, með tveimur laufa- eða oddaröðum, hvorri upp af annari allt í kríng, og standa oddarnir upp, líkt og liljur á kórónu eða díadema[1]. Hún ber þríbrotinn hríng á vinstri handar baugfíngri. Enga hefir hún hálsfesti nè hempupör, nè hempuskildi (sjá nr. 62). Utan um myndina er ferhyrnd umgjörð, og þar utan á er neglt óreglulega lagað skraut í *renaissance*-stíl. Utan um sjálfa myndina að ofanverðu er málaður heiðursbogi. Á honum ofanverðum standa tveir englar, sem halda á laufgjörð (kransi) í milli sín, með stjörnu innan í. Neðan við myndina er málað með latínuletri:

*Hólmfridæ vúltús si vis vidisse decoros;*
*effegies oculis sistitur hæcce tuis.*
*Orta fuit magnis, pater hoc notulib(us)*[2] *at non*
*Est minor hic radix semine, trede*[3], *suo.*
*Non ignóta loqvor: casta pietáte coëgit*
*in laudes omnes candida qvippe suas.*
*Addita cælicolis ánima ē*[4] *hec corpura poscūt*[5]
*justa sibi tumúli nota pereñis erunt.*

Þegar maður ber þessa mynd saman við mynd Helgu Jónsdóttur, konu Þorsteins Geirssonar, sem fyr var-um getið, og sem fyrir skömmu hèkk í Laufáskirkju, þá sèr maður, að faldurinn er alveg eins á báðum, og höfuðbandið líka eins, með tvísettri laufaröð allt í kríng að neðan, en á þeirri mynd var hinn sami galli og á hinni er, að bandið var sýnt öldúngis hvítt, og skuggalaust að

---

[1]) sbr. skiptabréf eptir sira Jón Jónsson prófast í Stafholti 1740 (daterað) „koppur gylltar settar á svart pluss, item gyllt silfurbryggja með laufum". Í brúðkaupssiðabók Eggerts Ólafssonar er og getið um bæði brúðardjásn og ennispaung og koppur. sbr. kvæði Hugsjón, þar er talað um brúðar djásn, og í Háttalykli Lopts ríka: „gull-verpt enni", og „gullspöng um enni" í vikivakakvæði eða þulu.

[2]) patribus nobilibus? [3]) crede. [4]) = est. [5]) þ. e. corpora poscunt.

mestu, svo eigi er hægt að sjá, úr hverju efni það héfir verið gjört. Hatturinn var og svartur, og hèrumbil eins og með eins krókabandi um miðju, með hnút eða lykkju hægra megin, og annað mjórra band virtist að vera þar-fyrir neðan. Hálskraginn var eins hvítur og slèttur, og virtist helzt að liggja ofaná svörtum kraga stinnum; ekki sást neinn hálsklútur; hempan leit út fyrir að vera alveg eins, en var töluvert betur máluð, og sýndist víðari, af því að á henni voru betur sýnd fellíngaskil. Hempan sást töluvert niður fyrir mitti, og voru sýndar á henni 5—6 fellíngar fyrir neðan mittið[1] og voru þær mjög greinilegar, en sjálft mittið sást ekki. Hempan gapti að framan, og sást fyrir innan gulgræn svunta, einlit. Engir sáust borðar eða flos framan á hempunni, nema mjó bryddíng var sýnd á börmunum. Engar sáust heldur handvegs- nè axla-leggíngar. Hempan hafði og mjög víðar ermar að ofan, og sáust fimm stórar hrukkur eða fellíngar, sem lágu niður frá öxlinni. Ermarnar voru nærskornar að framan[2], og sást hèr ekkert votta fyrir uppslagi, og því

---

1) Því að hempurnar voru þá allt öðruvísi, en þær urðu síðar, og með fellingum allt í kríng, sem segir í vikivakakvæðinu:

„Hèr með á hún hempu blá,
hefir á ferðir tíu",

og til hins sama lýtur og vísa, sem eignuð er Stefáni Ólafssyni í Vallanesi:

„Sagt er af seima-þöllum
þær semja sinn stakk með föllum
(og hún bannar öllum)."

Hèr er varla meint nærstakkur, og því síður „höttstakkur", sem varla mun þá hafa verið orðinn til, sjá nr. 652 hèr á eptir.

2) Sbr. mynd Arnfríðar Benediktsdóttur á Skarði († 1647). Þar er hempan alveg eins, en hefir 3 pör eða spennur efst; svuntan er og gul, einlit, pilsið rautt; pípnakragi hvítur um hálsinn; strompur á höfði alhvítur og enginn hattur,

tel eg óvíst, að það eigi að vera uppslög, sem sýnt er á mynd Hólmfríðar, heldur mun það eiga að merkja þverbrukkur, en sem eru klaufalega sýndar. Í skiptabrèfi frá 1715 hefi eg sèð getið um hempu-uppslög, en ekki hefi eg sèð fyr getið um þau (eptir Gísla Jónsson í Máfahlíð 1715). Hempan var víð um brjóstið, og sáust þar fyrir víst á henni sex stórar ferðir eða fellíngar, sem lágu upp undir hálsmálið. Engin sáust hempupör nè hempuskildir, hálsfesti, fíngurgull nè eyrnagull[1].

---

[1]) Þetta er öldúngis sami búníngur og lýst er í kvæði, sem reyndar er „um óþrif kvenna" með viðlag:

„Sokkaböndin liggja niðr um hæla,
*þó fara skórnir hálfu ver,*
*það þarf engan ýngismanninn tæla.*

Trafið er blakkt á heilahúsi,
hatturinn trúi'eg ofan á dúsi,
álits er sem blakkur brúsi,
bera þær flestallt dökkt á sèr.
*þó fara skórnir hálfu ver*". o. s. frv.

eða sem segir í „ýngismeyja hrósun":

„hatt gaf hann mèr og herlegt skaut,
hvað rètt var í hæfi".

sbr. vísu eignaða Hallgrími Pèturssyni „um eina kerlíngu":

„sá eg gánga seima skorð,
sú bar hatt í vánga,
þuldi nokkur þó fram orð,
þar nam kjálkinn gánga."

Og mun það flest vera frá þessu tímabili. Í öðru erindi kvæðisins um óþrif kvenna sèst, að þá hafa tíðkazt hvítir hálskragar á konum:

„Hálsflíkan (hálstrefjan) er blökk sem bikið,
burt úr lörfunum fýkur (dustast) rykið" o. s. frv.

Eða sem segir í „ýngismeyja hrósun um vinfengi og gjafir unnustanna":

„Niðurhlut með fóðrið frítt,
frábær eru þau gæði,

þó þessar myndir megi heldur heita illa gerðar, en hitt, þá eru þær samt eigi að síður merkar mjög, því að þær geta, betur en öll rit, skorið úr þeirri þrætu, hvaða búníng konur hafi haft hèr á landi á þeim öldum, og fylla þær því stórt skarð í sögu landsins, sem annars væri autt. Það er því til mikils gagns, þó menn hafi eigi annað en nákvæma lýsíngu af þessum myndum[1].

403. ²²/₇ 67. (Björn prófastur Halldórsson): ANDLITSMYND máluð á lèrept, sem sagt er, að gamalla og margminnugra manna sögn, að sè mynd Markúsar Geirssonar, prests í Laufási (1676—1682). Hann er í svartri hempu með rósuðum stálum eða brúnum að framan[2], og hvítum pípukraga um hálsinn. Hann hefir höfðínglegan og stillilegan svip, sköllóttur, ljósjarpur á hár og skegg, með síðukampa og lángt klofið hökuskegg[3].

---

garpurinn þetta gaf mèr nýtt
og geðlegt hempuklæði,
lausakraga með lèrept hvítt,
leiðist upp að telja snart.
*Hann hefir gefið mèr svo mart*".

¹) í visitaziu Bjarnar biskups Þorleifssonar 1701 segir svo: „skilderí með úthöggnum ramma uppfest í kirkjunne kvennamegin, til ei all litlrar prýðe, eptir ósk æruverðugrar Matronæ Helgu Jónsdóttur tekið bland ornamenta kirkjunnar". Þetta sannar, að þetta sè mynd þeirrar sömu Hólmfríðar, sem áður er nefnd.

²) Eins og var á stálunum á kápu Gísla lögmanns Hákonarsonar, á mynd hans í Hólakirkju.

³) sbr. kvæði, sem eignað er sira Stefáni Ólafssyni:
„með skúfana lánga þeir laga sitt skegg,
og láta það hánga þó úti sè hregg". —
Guðbrandur biskup Þorláksson hefir og skeggið með líku lagi, og sýnir þetta, að það hefir þá verið aldar móður; sbr. Oflátúnga kvæði sira Hallgríms Pèturssonar:
„Hárið ofan á herðar bustar
hèr með kampa og skeggið sitt."

404. $^{22}/_{7}$ 67. (Björn prófastur Halldórsson): ALTARISKLÆÐI úr sömu (Laufás) kirkju til að hengja framan á altarið, saumað með marglitum þræði á hvítt hörlèrept með tómum átta blaða rósum í miðju, en til beggja hliða er breiður bekkur með dúfnamyndum, og aptur þar utan um báðum megin eru mjóar ræmur með hnúta uppdrátt og eins að neðan, en þar fyrir neðan er saumað með mjög haglegu bandaletri, og er sitt orðið með hverjum lit:

ÞETTA ALTARISKLÆDE GIEFUR RAGNEIÐUR
IONS DOTTER KIRKIUNNE AD LAUFASE
FYRER LEGSTAD SINNAR SÆLU HJARTANS
MODUR HOLMFRIDAR SIGURDAR DOTTUR 1694[1].

405. S. d. Sami: ALTARISDÚKUR frá sömu kirkju til að breiða ofan á altarið, saumað með marglitum þræði á hvítt hörlèrept. Á miðjuna er saumað á skjöld I. h. S.; en til beggja hliða eru saumaðir rósabekkir og yzt rósabekkir; en í þann hluta, sem hefir lagzt út af hliðabrúnunum á altarinu, er saumað með bandaletri:

ÞENNANN ALTARISDÚK GIEFUR ARE
IONSSON KIRKIUNNE AD LAUFASE
FIRER LEGSTAD SINNAR BLESSUDU
MÓDUR HOLMFRIDAR SIGURDAR
DOTTUR SÆLLRAR MINNINGAR.

---

1) Hólmfríður sú, sem hèr er nefnd, var kona Jóns Arasonar í Vatnsfirði, prófasts, en dóttir Sigurðar í Oddgeirshólum, Oddssonar biskups Einarssonar. Eptir lát manns síns flutti hún sig norður að Hólum til Gísla biskups Þorlákssonar, er átti Ragnheiði dóttur hennar; en nokkru síðar, eður á árunum 1682—1689, andaðist hún á kynnisferð í Laufási hjá dóttur sinni Helgu, er sira Þorsteinn Geirsson átti þá, en áður hafði átt Teitur Torfason Skálholts ráðsmaður. Enn átti Hólmfriður dóttur, þá er einnig hèt Ragneiður, og giptist Torfa, syni Jóns í Flatey, verður því eigi sagt með vissu, hvor þeirra systra hafi

Á hinni hliðinni er: anno 1694.

Á þeim hluta dúksins, sem sneri fram á altarinu, er áföst altarisbrún, sem er mjög smágjör rósabekkur, breiður. Í efri röndina á brúninni er saumað með bandaletri:

ÞINNE KIRKIU OG KRISTNUM LYD
KIÆRE FADER HLYF ALLAN TID
HALLT ÞU OSS FAST I HREINNE TRU
HERNAD OVINA FRA OSS SNU

GIEF[1] ÞINNE KRISTNE GODANN FRID
GUDS SON UM VORAR TYDER
ÞVI EKKIERT HÖFUM VIER ANNAD LID
ENN ÞU FIRER OSS STRYDER. S.G.U.S.F.[2]

Það er athugavert, að bæði altarisklæðið og altarisdúkurinn segir sjálft frá, hvað menn þá kölluðu þeim nöfnum; en það er allt fyrir það, enn sem komið er, mjög vafasamt, hvort það, sem heitir sömu nöfnum í máldögunum, er þó alveg hið sama. Mèr skilst svo af máldögunum, að menn kalli það þó opt einnig altarisdúka, sem hángir framan á altarinu niður frá brúninni, og eins ef til vill það, sem hángir niður til hliðanna á altarinu, sem títt var að hafa, því að þeir hafa auðsjáanlega opt verið fleiri en einn, eða þó skipt sundur í lengjur upp og ofan. Einnig hafa sumir dúkarnir hángið framan á bryggjunni, sem var aptast, ofan á altarinu undir krossunum, sjá Ólafs máldaga um Möðruvelli í Eyjafirði: „dúkur fyrir krossinn á háaltarið" (Gottskalk 1500). Þetta yrði þá

---

gefið altarisklæðið, en líklega hefir það verið biskupsfrúin. Þau Jón prófastur og Hólmfríður áttu og son, þann er Ari hèt, sbr. Árbækur Espólíns VI, 76; hann er sá sami, sem hefir gefið altarisdúkinn Nr. 45.

1) Þetta er á neðri röndinni.

2) Þ. e. s(jálfur) g(uð) u(or) s(annur) f(aðir).

líkt og tjaldadúkar, sem máldagarnir geta opt um, og sem mèr skilst að hafi hángið niður frá lángtjöldunum eða reflunum, sem líka kallast brúnir og borðar, þegar þeir voru mjóir (þar af danska orðið *Bort*)[1]. það er og þessu til styrkíngar, að máldagarnir telja saurdúkana einsog fasta við dúkana; en saurdúkur mun vera dúkur, sem breiddur var á gólfið innan í grádunum við altarið[2]. þó má skilja „saurdúk" á þann hátt, að það hafi verið sama sem hlífðar-dúkur ofan á altarinu, sbr. Sigurðar registur 32 b.: „saurdúkur á altari", en nafnið bendir þó heldur til hins fyrra. það er því nokkuð vafasamt, hvort það heitir altarisklæði eða dúkur í máldögunum, sem hèkk framan á altarinu niður frá brúninni, eða þá hitt, að menn hafa kallað það altarisklæði, sem breitt var ofan á altarið með brúninni sem menn nú kalla dúk, og sem máldagarnir stundum kalla dúk, því að máldagarnir geta líka um dúka með brúnum, og eins altarisklæði með brúnum;

---

[1]) Máldagi Auðunnar rauða um Hof í Skagafjarðardölum: „þrír reflar í saunghúsi skammir, og góðir dúkar undir". Pèturs máldagi: „Borði um kór með dúkum slitnum". Á Bakka í Öxnadal og á Grund: „Tjöld um alla kirkju dúkalaus"; og á Gnúpufelli: „Brúnir tvær um kór með dúkum".

[2]) Sigurðarregistur 2. a.: „VII háaltarisklæði með hversdagslegum föstuskrúða; enn hèrmeð dúkar svo margir IIII nýir með saurdúkum". Sjá ennfremur máldaga Pèturs biskups Níkulássonar um Grýtubakka: „Altarisklæði þrjú með fordúkum fetalögðum". — Á Möðruvöllum í Eyjafirði er talað um tvo yfirdúka í Ólafs máldaga, sem líka gæti skilizt að væri sama sem hlífðar-dúkar fyrir altarisklæðið. — Máldagi Ólafs biskups getur og um: „Brún með vígsludúk og saurdúk" á Víðimýri. Sambr. um Vesturhópshóla. Þar er og getið um einn dúk: antependium; og sami máldagi segir um Grýtubakka: „Altarisbrún með dúkum og einum ábreiðsludúki".

enda gat brúnin, hvort sem maður vildi, hafa fylgt því, sem maður breiddi ofan á eða framan á altarið[1].

406. $^{22}/_{7}$ 67. (Björn prófastur Halldórsson) Stórar JÁRNSPÁNGIR af hurðinni á sömu (Laufás) kirkju, með 12 kollóttum járnnöglum eða bólum. Spángirnar eru 1 al. og 9½ þumlúngur á lengd. Á þeim eru þrír hryggir með lautum í milli, með 21 naglagati í lautunum, og hafa naglarnir legið í þeim í tveim röðum.

407. S. d. Sami: JÁRNRÓS af sömu kirkjuhurð með 12 blöðum útúr, ásamt hurðarhríng úr kopar sléttum og sívölum.

408. S. d. Sami: SKRÁARLAUF af sömu kirkjuhurð, úr járni, með fimmblöðuðum laufum útúr á fjóra vegu.

409. S. d. Sami: Fjögur SMÁLAUF af sömu hurð. Þau eru sjöblöðuð. Það er óvíst, hvar þau hafa verið sett á hurðina, en þó er líklegast að þau hafi verið sett út úr fjórum laufunum á skráargatinu[2].

410. $^{28}/_{7}$ 67. Sigurður Ísleifsson, bóndi á Barkarstöðum í Fljótshlíð: Gamalt VÍRKÖGUR af altarisklæði úr Dalskirkju; hefir verið gyllt og hvítt.

411. S. d. Sami: Stór BRÓKARHALDSHNAPPUR úr kopar, sem á er grafin fimmblaðarós.

412. $^{1}/_{8}$ 67. Hans Vingaard Einarsson, smiður í Reykjavík: VEFJARSKEIÐ úr hinum gamla íslenzka vefstað, úr hvalbeini. Hún er 20 þumlúngar á lengd, öldúngis slétt, en mjög vönduð. Það er hið eina, sem eg hefi

---

[1]) Í visitazíu Bjarnar biskups Þorleifssonar 1701 er getið bæði um altarisdúkinn og klæðið, og farið um það þessum orðum: „altarisdúkur brúnsaumaður með refelsaum og glit, eirnenn altaressklæðe út saumað með skackag lit, hvorttveggja tilsamans skatterað tvö hundruð".

[2]) í úttekt Skúla prófasts Þorlákssonar 1684 er járnverkinu á kirkjuhurðinni svo lýst, að það hefir auðsjáanlega verið hið sama og hèr er skýrt frá, sbr. visitazíur biskupanna Einars Þorsteinssonar 1694 og Bjarnar Þorleifssonar 1701.

enn getað fengið úr hinum forna vefstað, og er það skaði, því að fleira hlýtur þó að vera til af pörtum úr honum víðsvegar um landið.

413. 6/8 67. **Kristján Magnussen** á Skarði, kammerráð og sýslumaður: Ferða-ALTARISTAFLA (?) úr kopar, emaleruð. Hún er 2 7/8 þumlúngs á hæð og 2 3/4 þuml. á breidd, með tveim vængjahurðum fyrir, sem leggjast þó á misvíxl, líkt og títt er á gömlum altaristöflum. Þegar henni er lokið upp, er hún 7 1/2 þuml. á lengd. Í miðjunni er Kristur myndaður, með hrínglagaðri gloria, með krossi í miðju um höfuð. Hann blessar með hægri hendi, en heldur á opinni bók í vinstri með slafnesku letri á. Beggja vegna við höfuðið virðist að vera skammstafað Jesú nafn með sama letri. Utan um alla myndina eru emaleraðar með bláu þríblaðaðar rósir. Á innanverðri hurðinni hægra megin frá Kristi er mynduð jómfrú María. Hún hefir einfalda gloríu um höfuð með engum krossi innan í, höfuðdúk á höfði perlusettan á röndum, og með stjörnu á enni, sem mun eiga að tákna, að hún sè drottníng himinsins. Líkt því sèst opt á gömlum íslenzkum Maríu-myndum. Hún hefir möttul eða skikkju, perlu- eða steinsetta allt í kríng, og eins er framan um kyrtil-ermarnar. Út frá höfðinu beggja vegna sèst skammstafað nafn Maríu með slafnesku letri. Hún heldur á rollu í vinstri hendi með sama letri. Á innanverðri hurðinni vinstra megin er myndaður Jóhannes skírari. Hann er í loðinni kápu með einfalda gloríu um höfuð. Hann er myndaður með vængjum, og heldur á skírnarskál eða sá í vinstri hendi með nöktu úngbarni í, sem hann er að skíra. Báðum megin við höfuð hans má lesa *cti ioann b*? (sancti io. baptiste?) með slafnesku letri. Hann hefir og rollu á belti sèr með sama letri. Utan um allar myndirnar er emalerað með bláu kríngum þríblaðaðar rósir. Þegar maður leggur töfluna saman líkt og bók, þá er hún að utan annarsvegar slètt,

en hins vegar emaleruð með rósasporbaug og rósum í öllum hornum. Innan í baugnum er sýndur patríarkakross, og uppreist kesja og staung með njarðarvetti (sjá nr. 182). Á baka til sjást borgarveggir með vígskörðum og turnum, ýmislegt slafneskt letur allt í kríng, skammstafað Jesú nafn (?) o. fl. Upp úr töflunni eru tvö kopartyppi, líklega til að binda um, ef maður vill hengja hana upp. Myndirnar eru vel gjörðar, og þó að öllu lagi gamallegar, ef þær eru bornar saman við gamlar norrænar myndir þesskyns. En af því að oss er ókunnugt um mentun og siðu slafnesku þjóðanna, þá er erfitt að ákveða aldur þessa grips.

þessi gripur fannst í búi Ebenezers þorsteinssonar, sýslumanns í Ísafjarðarsýslu, tengdaföður Kristjáns kammerráðs á Skarði, en hvaðan og hvernig þessi gripur er kominn í hans eigu, eða híngað til lands, vita menn ekki. Á 16. og 17. öld höfðu menn í útlöndum líkar töflur við bænagjörðir í tjöldum og á ferðalögum. Eg man eptir líkri töflu, skorinni í bein, sem er í safninu í Kaupmannahöfn, og Kristján konúngur IV. hafði átt (ef eg man rètt). Eg held því, að þessi tafla sè enganveginn yngri en frá því fyrir siðaskiptin, því að mèr er lítt skiljanlegt, hvernig hún hefði síðan átt að geta komizt híngað til lands.

414. 15/8 67. Jón Jónsson verzlunarþjónn í Reykjavík: Lítill SILFURPENÍNGUR með mynd Friðriks III. Danakonúngs og ártali 1665, 1/16 dals.

415. 18/8 67. Bent Jónsson, kaupmaður í Flatey: FÓTUR AF MONSTRANSI úr bronzi. það hefir verið um 14½ þuml. á hæð, en pípuna fyrir neðan hnúðinn, sem hefir verið á miðjum fætinum, eins og títt er á kaleiksfótum, vantar. Hnúðurinn er með 6 stýfðum broddum út úr sèr. Pípan, sem upp hefir snúið, er öll grafin á þann hátt, eins og böndum væri brugðið utan um hana.

Stèttin er að ofan með 13 liljum uppúr sèr, gjörðum í gotneskum anda. Hún er búnguvaxin og hefir sex einskonar blöð eða beygjur út úr sèr að neðan. Fóturinn hefir allur verið gylltur frá efst til neðst. Allt í kríng á stèttina er grafið með gotnesku múkaletri: IħC. *nazarenus rex iudeorum*. þessi áskript sýnir beinlínis, að þetta getur ekki hafa verið fótur af kertastiku upprunalega, og ekki heldur fótur undan krossmarki, sem opt voru með undirstöðum undir eða stètt (Sigurðar registur 32 b. og víðar); en þau hafa ætíð sömu yfirskrift fyrir ofan, skammstafaða, en ekki fyrir neðan. það getur því einúngis verið umtalsmál, að þessi áskrift gæti átt við, ef þetta hefði upprunalega verið fótur undan kaleik, en það hefir heldur ekki það lag, að það geti verið og er líka allt of lángt til þess. Hèr er því varla nokkur efi á, að þetta er fótur af monstransi, og styrkist þetta einnig af því, að hann er mjög líkur fætinum á einu monstransi, sem er í safninu í Kaupmannahöfn (*Worsaaes nordiske Oldsager 1859, nr. 612*), einkanlega hnúðurinn. Ofan á monstransið vantar allan efra partinn, sem var optast í líkíng af kirkjum eða turnum í gotneskum eða býzönskum stíl. þau voru optast gjörð úr gylltu silfri eða gulli. Monstransið var haft til að geyma í helgað brauð, eða kristslíkama, og stóð það á altarinu við hliðina á kaleiknum á altarissteininum. Líka mun presturinn hafa haldið á því, þegar hann „hèlt upp kristslíkama í messunni", sem getið er um í fornum bókum (Biskupasögur 684). Af þessu sjá menn, að þessi áskript á mjög vel við, þegar menn íhuga til hvers monstransið var haft. þeirra er getið í kirkjumáldögum vorum: Sigurðar-registur 6. b. 14. a. þessi gripur er frá einhverri kirkju á Barðaströnd eða þar í nánd, líklega frá Skálmarnesmúla, eptir því sem þorvald Stephensen, verzlunarstjóra í Reykjavík, helzt minnti, er var milligaungumaður til að fá þessa hluti.

416. $^{18}/_{8}$ 67. (Bent Jónsson): LYKLASYLGJA úr kopar, með krossi í miðju og krákustíg allt í kríng[1].

417. S. d. Sami: Tvær SKÓSPENNUR úr kopar; þær eru bognar eptir ristinni og $1^{3}/_{4}$ þuml., og nærri 3 þumlúngar þá hríngjan liggur þvert yfir fótinn[2].

418. S. d. A. H. Hannesson á Litlu-þúfu, ýngismaður: RÚMFJÖL skorin úr eik, og er I. H. S. í miðju innan í hríng. Annarsvegar er hríngrós með kríngióttri rós í miðju, gjörð í býzönskum stíl. Hinsvegar er skorinn brugðinn hnútur. Á annan endann er skorið tölu-

---

[1]) þessar sylgjur voru húsfreyju einkenni, sem áður er um getið, og sem líka sèst af „Ráðskonukvæði":

þú skalt matseld mæta
fyrst ment sú er þèr kríng,
bezt að búrinu gæta
og bera minn lyklahríng:
taktu það verk af mèr,
eg treysti þartil þèr
eldastörf og annað hèr,
sem oss til konunum ber;
hún fettir upp faldinn stóra
og fíngur í heyrnar ljóra.

Eða sem segir í „Ýngismeyja hrósun", þegar piltar gáfu unnustum sínum lyklasylgjur, sem tilvonandi húsfreyjum:

Geðuga sylgju gaf hann mèr
grafna með hjálma böndum . . .
tampèl sín hann til mín ber,
trefla og svo skartið bjart.
*hann hefir gefið mèr svo mart.*
silfurhnappa og sjónargler
sannlega eg það játa.
*hann hefir gefið mèr svo mart úr máta.*

„sjónargler", þ. e. spegill.

[2]) þeirra er víða getið í skiptabrèfum, og kostuðu 3—4 rd. eða meira; hnèspennur 1 rd., sjá nr. 236. Í uppskript yfir dánarbú kansellíráðs Steindórs Finnssonar að Oddgeirshólum, 1819, eru taldar þesskonar spennur.

vert af bandrúnum, og á hinn ártalið 1680. Að ofan og neðan er skorið í randirnar með höfða- og latínuletri framan af versinu: „Vertu nú minni hvílu hjá", stafrètt eins og á nr. 161.

419. 18/8 67. Gunnlaugur Blöndal sýslumaður, á Litlu-Eyri í Bíldudal: SIGNET rennt úr beini. Á það er grafið S. H. með latínuletri og hinsvegar latínu-S. dregið yfir um H., grafið á skjöld, með skörðóttum eða vöfðum röndum. Það fannst í jörð á Ytra-Hólmi á Akranesi, þá verið var að grafa brunn.

420. 21/8 67. Árni Thorlacius umboðsmaður í Stykkishólmi: MYND af jómfrú María, skorin í tönn. María situr á stóli, og heldur á barninu í vinstri hendi. Hún virðist að hafa kórónu á höfði og slegið hár. Stóllinn skýtur sèr út að ofan og neðan, og er með bandi yfirum miðju. Utan um myndina er tálguð umgjörð, eins og port með súlum til beggja hliða, slèttum með höfðum, og eru sýnd fjögur vígskörð á súluhöfðunum. Þar upp af er býzanskur bogi, með laufum upp úr, og þar upp af stöpull með þremur vígskörðum og bust upp af, með gati þvert í gegnum fyrir band, því að menn hafa líklega bundið myndina við sig. Á baka til, allt í kríngum myndina, er þelaður grunnur, og er skipt í tóma smáa ferhyrnínga með fjögrablaða rós innan í hverjum. Líkir stólar sjást víða myndaðir á handritum frá 14. öld, og boginn er með líkum oddum upp úr í handriti af Egilssögu, frá hèrumbil 1300. Klæðafellíngarnar benda og á hið sama á nr. 81. Þessi gripur fannst í Laugarbrekku kirkjugarði á dögum Ásgríms Vigfússonar, prests í Hellnaþíngum, og hann gaf hann Sigurði Breiðfjörð, en hann aptur Árna Thorlacius.

421. 23/9 67. Eigendur Skálholts kirkju Bjarni Thorsteinson konferenzráð og Hannes Johnsen, kaupmaður, báðir í Reykjavík: KORPÓRALL, eða patínudúkur sem nú er kallað, frá Skálholtskirkju. Hann er um

10 þumlúnga á hvern veg, úr rauðu silkiflaugeli og með búnguvöxnum silfurskjöldum í hverju horni, nema einn vantar. Þeir eru gjörðir í gotneskum stíl. Á öllum röndum dúksins eru silfursnúníngar úr hvítu og gylltu silfri. Á miðjuna er saumuð boðan Maríu. María krýpur á knèbeð, sem er rauður og gylltur, með skúfum í hornum. Fyrir framan hana stendur bókaformi með bók á. Hún hefir gloríu um höfuð, gjörða úr gylltu silfri; slegið hár, sem er saumað úr gulu silki; gylltan tiglamöttul á herðum, sem hefir verið alsettur með ektaperlum í skaut niður. Þetta táknar steina-búnað. Möttuls-tigillinn er röð af sjö ektaperlum. Hún hefir og talnaband við belti sèr, gjört af ektaperlum, og hafa þær upprunalega verið um 24, en 16 eru eptir. Engillinn krýpur á vinstra hnè. Hans hár er saumað með gulu silki. Vængirnir eru saumaðir að ofan, einkanlega dúnfjaðrirnar, með gylltu, rauðu, grænu og bláu, en stærstu flugfjaðrirnar hafa verið alsettar með ektaperlum. Hann er í stórri kápu gylltri með bláu fóðri, sem hefir breiðan búnað í skaut niður á báðum hliðum, settan á báðum röndum með röðum af ektaperlum. Einnig eru raðir af perlum lagðar yfir þveran búnaðinn í 8 stöðum, og eru víðast 4 í röð, og eru 7 krínglóttar bláar og rauðar doppur saumaðar á milli hverrar perluraðar, sem ávallt skiptast á, og sem eiga að tákna steinabúnað [1]. Alls eru 35 perlur á þessum möttulsbúnaði, og eru þær allar enn við lýði í röndunum; en víða annarstaðar er mikið af þeim dottið burt. Kápan hefir og

---

[1]) lík kápa steinsett var á biskupsmynd, sem var í Reykja kirkju í Túngusveit, og sem nú er í safninu í Kaupmannahöfn. Þegar við berum þetta saman við okkar sögur, þá sèst fyrst, að það hefir verið töluvert almennt að hafa steinbúnað á skykkjum, sjá búníng Þorbjargar völvu (sem lifði um 1000) í sögu Þorfinns karlsefnis, Karlamagnúsar sögu bls. 302. Um það eru fimm dæmi alls til.

blöðku ofan á herðarnar eða kaprún, með röndum, gulum og grænum skaf niður úr miðju. Jörðin er alsett sóleyjum og blómum. Milli engilsins og Maríu stendur urtapottur, sem lilja vex upp úr, og eru randirnar á henni saumaðar með gyltum vír, og alsett þar á milli með ektaperlum. Ofan við báðar myndirnar eru einskonar tvær hangandi rósir, sem hafa verið perlusettar í randirnar, og með letri á, sem er orðið öldungis ólæsilegt. Þessi merki gripur hefir verið mjög dýr á sínum tíma, og er hann vottur um nær því ótrúlegt skraut fyrri alda manna. Þetta eru heldur ekki eins dæmi, því að hökull var til fyrir skömmu við Reykja kirkju í Túngusveit í Skagafirði, með þverálmu af krossinum alveg af sömu gjörð og með sömu myndum á, og mun þó Reykja kirkja aldrei hafa verið talin rík. Sá hökull er nú í safninu í Kaupmannahöfn. Kápan, sem engillinn ber, hefir alveg sama lag og vígslukápan í Reykjavík, sem sagt er að sè kápa Jóns Arasonar biskups, og er þó þessi korpórall töluvert eldri [1]; en hvað hètu hèr á landi þær kápur, sem höfðu það lag? — Það er ekki alveg víst. Kórkápurnar vita menn að voru í útlöndum með einskonar herðablöðkum, eða líking af hettum (kaprúni) [2] áföstum við, sem hèngu niður frá hálsmálinu, líkt og sèst á þessari mynd og á vígslukápunni; eg ætla því, að það sè kórkápur. Sigurðar registur 32 a. getur að sönnu um „engladálmadiku", og á öðrum stað í sama máldaga, en dálmadika getur það ekki verið, nema því að eins, að þær hefði verið hafðar allt öðruvísi hèr en annarstaðar, sem varla getur þó verið,

---

[1]) dúkurinn er lauslega myndaður í ferðabók *Gaimards*.

[2]) Kórkápurnar voru upprunalega hafðar til að skýla prestum við processíur utankirkju, því voru þær með áfastri hettu, og þannig voru þær hèr á landi á dögum Guðmundar biskups Arasonar (Biskupa sögur I, 623), en síðar urðu þær ein hin mesta skraut- og tignar-yfirhöfn presta og biskupa.

því að eg hefi séð hana myndaða á helgum manni, sem myndaður var á patínudúk, sem leit út fyrir að vera gjörður á Íslandi. Hún er hérumbil eins og hökull, en með hálfermum; sbr. máldaga Ólafs Rögnvaldssonar um Laufáskirkju: „dálmadika ermalaus". Hèr er það tekið fram, sem galli eða óvanalegt, að hún var ermalaus. Annars voru dálmadikur mjög ýmislega lagaðar; vanalega voru þær klofnar á hliðunum, á sumum mjókkuðu blöðin lítið eitt að neðan, framan og aptan; á sumum voru þau útskorin til hliðanna og stýft af að neðan; sumar höfðu breiðar klofur á báðum hliðum, en sumar mjóar, og þannig voru þær algéngastar hèr á landi á fjórtándu öld. Sumar voru ekkert klofnar á hliðunum, eins og tíðkaðist hjá Engilsöxum á tíundu öld; þær voru eins og víð *tunica* með hálfermum; sumar voru alveg klofnar uppúr á báðum hliðum, og ermarnar opnar að neðan og lagðar yfir axlirnar eins og hökull, og blöðin mestmegnis kringlótt neðan fyrir, og allar útsaumaðar. Þannig er dálmadika Leo páfa hins þriðja, sem til er nákvæm mynd af. — Af dálmadikum eru til margar íslenzkar myndir frá fjórtándu öld, og vil eg að eins til færa myndir af Guðmundi biskupi og Jóni helga. Biskupar höfðu dálmadikuna undir höklinum, og yfir messuserknum eða sloppnum (*alba*). Stundum eru þær nefndar í djáknabúníngi (Biskupasögur I, 847, sbr. Sigurðar reg. 1. b. „item í djáknakistu X paur dálmadikur og ein stök"), en þó tíðast í biskupabúníngi, svosem að Sigurður biskup hefir dálmadiku (Fornm. s. III, 167—67; sbr. Finns kirkjusögu Íslands II, 148). Það getur varla staðizt, að þetta sè *corporalia* í sömu merkíng og katólsku máldagarnir geta um, því rómversku kirkjulögin skipa, að hafa korpóralinn skrautlausan úr hvítu líni, af því að Krists líkami var sveiptur í lín, enda hafa katólskir korpóralinn úr hvítu líni, nærri eins stóran og lítinn borðdúk, og breiða hann á altarið undir patínuna eða brauðið og

kaleikinn, líkt og borðdúk, en halda aldrei á honum í messunni. þar af hygg eg komi, að korpórallinn er jafnan í katólskum máldögum talinn með altarisdúkum og altarisklæðum. Pèturs máldagi um Hof á Skagaströnd: „altarisdúk einn ok corporale", sbr. Biskupasögur I, 169: „þá tók hann (Jón biskup) þetta heilaga bein ok lagði á altarit undir corporalia hjá kaleiknum, ok saung síðan messuna þar til lokit var". Hèr er korpórallinn ekkert hreyfður fyr en messan er búin; hann liggur og undir kaleiknum, en eigi ofaná honum, en það sem við nú köllum korpóral eða korpóraldúk mun vera hið sama, sem katólska kirkjan kallar *palla*, það er lítill ferhyrndur dúkur, optast með einhverju stinnu innaní, til að leggja yfir kaleikinn; sjá nr. 331. þar er myndaður á kaleikur með *palla* yfir; íslenzkt nafn á *palla* þekki eg ekki, nema ef það er patínu-dúkr (Sigurðar registur 14 a) og mun það vera hið sama, en allt annað en corporalia, sem líka er þar nefnt við sömu kirkju. þessum tveimur nöfnum hefir verið blandað saman eptir siðabótina.

Pèturs máldagi getur og um „corporale með húsi silkisaumuðu" á Bæsá, en það á ekki að skiljast á þann hátt, að hús hafi verið saumað á hann, heldur fylgdi korpóralnum jafnan hús eða hulstur, sem hann var geymdur í, eins og alþekkt er enn hjá katólskum mönnum, sbr. Vilkinsmáldaga, og Sigurðar registur 1. b.: „eitt corporalhús með XX corporalum".

422. $^{23}/_{9}$67. (Bjarni Thorsteinson og Hannes Johnsen): ALTARISSTEINN frá sömu (Skálholts) kirkju úr hvítum marmara með gulri og rauðri trèumgjörð allt í kríng. Hann er öldúngis slèttur og einfaldur, og eins umgjörðin. Hann er nær því 18 þumlúngar á lengd og $10^{1}/_{2}$ á breidd. Um þessa steina er mjög víða getið í máldögum[1], en það mun vera rángt

[1]) í máldaga Auðunnar rauða er talað um: „altarisstein búinn

sem margir halda, að þessir steinar muni hafa verið hafðir til að brenna á reykelsi[1], heldur mun sá upprunalegi tilgángur vera svo undir kominn: að það voru lög í hinni rómversku kirkju, að öll ölturu skyldu vera byggð úr steini, því að altarið átti að tákna Krist, sem hyrníngarstein kirkjunnar, eða þann stein, sem himneskt vatn rennur út frá, til svölunar öllum kristnum lýð; sbr. 48. passíusálm Hallgríms Pèturssonar 6. og 15. vers, og 1. Kor. 10, 4. En það var ekki ætíð hægt að koma þessu við, að hafa ölturu úr steini. þessvegna var það lögboðið, að hafa á hverju altari einn stein, helzt svo stóran að minnsta kosti, að brauðið eða monstransið og kaleikurinn gæti staðið á honum. Ennfremur voru optast helgir dómar greyptir neðan í eða utan í hliðarnar á þessum steinum, helzt af þeim mönnum, sem ölturun voru helguð, eða kirkjurnar. Hið eina altari alveg byggt úr steini, sem nú mun vera til á Íslandi, er altarið í Hóla dómkirkju, sem er alveg eins og Laurentíussaga lýsir því í 32. kap., og mun vera hið sama óbreytt; að minnsta kosti er það úr eins rauðu grjóti og sagan getur um, og holt innan með járnhurð fyrir.

423. $^{23}/_{9}$ 67. (Bjarni Thorsteinson og Hannes Johnsen): Tvær STÓLUR úr hvítu silki með gulri bryddíng allt í kríng, fóðraðar með hvítu hörlèrepti og með fjórum litlum sexblöðuðum gylltum silfurskjöldum á, með upphleyptu verki og laufum á, gjörðum í gotneskum stíl, allir með eins og latínu-S í miðju. Á stólunum eru og brot af 4 öðrum skjöldum, en upp-

---

með silfur" í Grundarkirkju, og einn búinn í Miklagarði, sex altarissteina í Hrafnagilskirkju, og í Grímsey „einn altarissteinn laus", einnig tveir á Grenjaðarstað lausir; sýnir það orðatiltæki, að þeir muni optast hafa verið hafðir fastir í altarinu.

[1]) Í Biskupasögum II, 248 er þó sagt frá, að pálminn hafi verið brendur á altarissteininum á pálmasunnudag.

runalega hafa verið 9 skildir alls á hverri stólu. þær eru rúm alin á lengd, 3½ þuml. á breidd og með spöðum neðan á, sem eru 6½ þuml. á breidd, og með silkikögri í endanum, hvítu, rauðu og fjólubláu. Að ofanverðu á stólunum eru tvær lykkjur, og hefir þeim lykkjum verið krækt á krókana, sem eru á altarisklæðinu (næsta nr. hèr á eptir). það er því efasamt, hvort þær upprunalega hafi heyrt til altarisklæðinu, heldur er hitt líklegra, að þær hafi við siðaskiptin verið teknar af biskupsskrúðanum, því að alveg eins silkistólur heyrðu til biskupsbúníngnum; en það vantar að eins á þær kaflann, sem lá yfir um hálsinn, sem líklega hefir verið klipptur í sundur, til þess að menn því heldur gæti notað þær til einhvers, úr því það var ekki lengur orðinn siður, að hafa þær við biskupsbúnínginn[1]. Biskupar og prestar og djáknar[2] báru stólurnar, voru þær hengdar um hálsinn, og hèngu svo endarnir niður beggja vegna; lögðu biskupar og prestar þær í kross á brjóstinu, en djáknar ekki. þær táknuðu vald og tign prestsins. Upphaflega var *stola* rómversk kvenna-yfirhöfn, heil að framan með breiðu blaði eða röndum frá efsta til neðsta til beggja hliða að framan. þannig randir höfðu og karlmenn á túnikum sínum. Síðan tóku menn upp lausar stólur, sem menn lögðu yfir messuserkinn, svo það leit þá út eins og þeir bæri stólu.

---

[1]) sbr. visitazíubók Jóns Vigfússonar frá hèrumbil 1686 um Reynistað: „Tveir altarisdúkar saumaðir, annar af hvítu lèrepti með baldíradri brún og tveim *stólum þar niður af". Í máldaga Ólafs Rögnvaldssonar um Grýtubakka segir: „Altarisklæði með fjórum lausum dreglum". Þetta sýnir, ef til vill, að eitthvað líkt stólum hafi hángið á altarisklæðunum í pápisku, en hèr heita það samt ekki stólur, og það hefi eg ekki sèð í bókum frá pápiskri öld, að eg man.

[2]) Biskupa sögur I, 871 getur um stólu á djákna.

424. $^{28}/_{9}$67. (Bjarni Thorsteinson og Hannes Johnsen): ALTARISKLÆÐI úr sömu (Skálholts) kirkju, úr gylltu spansleðri. Það er allt með rósum, og orma og smáfugla og apa myndum, sem sitja á blaðagreinunum. Milli rósanna er grænn grunnur. Beggja vegna á klæðinu eru tveir krókar, sem hinum fyrnefndu stólum hefir verið krækt á.

425. S. d. Sömu: ALTARISBRÚN frá sömu kirkju samkynja, úr sama efni, með rósabekk og jaðri ofan og neðan, sem bendir á, að þetta sè upprunalega gjört til hins sama. Niður úr brúninni er gult kögur.

426. S. d. Sömu: HÖKULL frá sömu kirkju með grænum krossi, og úr röndóttu plussi, með gulum, rauðum, bláum og hvítum röndum, ekki gamall.

427. $^{7}/_{10}$67. Sigurður Sivertsen frá Útskálum, prestaskólakandídat († 1868): Stórt TAFLBORÐ úr trè með 24—26 kotrutöflum samkynja, þremur grænum, sem óvíst er hvort eru samkynja hinum, og tveim hvítum, ósamkynja hinum, sinni úr hverju tafli. Því fylgir einn teníngur úr tönn, lítill, en hinn er glataður. Á borðinu er skáktaflsborð og mylnuborð, sitt hvorum megin.

428. S. d. Sami: SKÁKTAFLSPED rennt úr trè, gjört í sömu mynd og peðin í skáktaflinu, sem líka fylgði þessu borði,. sem gjört var úr rostúngstönn og sem prins Napóleon fèkk árið 1856. Þetta tafl átti fyrst, er menn vita, Sigurður Björnsson lögmaður í Saurbæ, og hefir síðan gengið í ætt mann fram af manni.

429. S. d. Sami: Nokkur PAPPÍRSBLÖÐ. Þar á: þrjú villuletur, tvíhleypur, ramvillíngar, þrjú klapprúnaletur, sex málrúnaletur, Nóaletur, Adamsletur, málrúnir öðruvísi, kerlíngarletur, tvær þrídeilur, rúnir nokkrar, torkenníngar, enn eitt letur, alfærur, rúnir fundnar á gömlum legstein (stafrof), stansrúnir, hólbúaletur,

Óðinsletur, stafkarlaletur og aðeins fyrirsögn af álfkonuletri, almennar rúnir og bandrúnir, eptir því, sem á steinum hefir fundizt eptir forna menn.

430. 15/10 67. Úngfrú Hólmfríður Björnsdóttir í Reykjavík: MÁLLINDI flosaður með rauðu og grænu bandaletri á svörtu. Á honum er nafnið: „Þórþdís Einarsdóttir á lindann". Hann er úr Rángárvallasýslu. Mállinda hafði helzt fátækt fólk, og voru þeir opt með kopar og prinsmetalspörum, og tilheyrandi hnöppum úr sama efni. Væri því gott, ef safnið fengi þesskyns hnappa og pör. Um mállinda er getið í kvæðum[1].

431. 29/10 67. Sigurður Gunnarsson, prestur á Hallormstað: Kringlóttur SKJÖLDUR úr kopar með upphafinni bólu í miðju, og allt í kríng höfðaleturs stafrof (a—p). Hún er 1¼ þuml. þvert yfir. Neðan á skjöldinn hefir verið negld þykk eirplata með fjórum koparnöglum, og er líkt og eyra eða fótur í aðra röndina á plötunni, sem lítur út fyrir að nál eða þorn hafi verið fest í; en í hina röndina er ferhyrnt gat, einsog eptir krókinn, sem þorn-odduriun hefir verið settur undir, eins og á brjóstnál. Eg held því, að þetta hafi verið nál til að halda saman með klæðum. Hún fannst í skriðu, nálægt Hallormstað.

432. 9/11 67. Keyptur gripur: Stór SVUNTUHNAPPUR úr silfri gylltur, með góðu víravirki. Laufið er gjört í *renaissance*-stíl með nafndrætti innan í: S. M. D., nærri því eins og er á myndinni nr. 553 hér á eptir,

---

[1]) Vísa kveðin á kvonbæna ferð til baka, eignuð Jóni Sigurðssyni (Dalaskáldi):

Skuli ei mýkjast málin vönd
munu þær ekki elska hann,
seint er nok(kuð?) að sjá um hönd
ef setja þarf í mállindann.

og er því þessi hnappur líklega úr eigum Sigríðar Magnúsdóttur í Viðey (?) — Hann er norðan úr Skagafirði, og var keyptur eins og hann vegur fyrir 3 rdl. og 5 mörk.

433. 14/11 67. Einar Bjarnason bóndi á Brimilsvöllum: TRAFAKEFLI ágætlega skorið með smágjörvum laufavið á báðum röndum í býsönzkum stíl, og breiðum hríngrósabekk í miðju, og snúinni höldu til að halda í, og strikuðum hliðum. Á keflið aptanvert er skorið með höfðaletri:

ÞURRIDUR ÓLAFSDOTTIR Á ÞETTA KIEFLI MED RI(ETTU) ANNO 1696.

434. S. d. Sami: LYKLAHRÍNGUR eða sylgja úr kopar, gamallegur. Á hann er grafin vísa með gamallegu latínuletri:

HLIOTE SV HIN HIRA FRV
SEM HRINGINN BER Á SIDV
EILIPT LID AF EINGLA SMID
OG ÆFINLEGA G(ledi)?[1].

Sumir stafirnir eru einskonar blendíngur af múka- og bandaletri, t. d. A. Æ. F. D. — Fjórir stafir eru og báðum megin á haldinu, lítt læsir.

435. 14/11 67. Sigurður Helgason á Setbergi, dannebrogsmaður: LYKLAHRÍNGUR eða sylgja úr kopar. Hann er með einsog fjórum smátöppum inn úr, og tveimur götum að ofan, og snúníngurinn á röndunum eins og lyklahríngurinn nr. 72, en munurinn er sá, að hann hefir þrjú göt að ofan. — Hann var eitt sinn hafður í sænghúss hurð, sem hurðarhríngur.

436. 21/12 67. Hjálmar Helgason, bóndi á Vogum við Mývatn: Tvær litlar GJARÐAHRÍNGJUR úr kopar

---

1) sbr. nr. 646 hèr á eptir, þar endar sama vísan með „blíðu".

með eirþorni. Þær hafa einkennilegt lag og eru grafnar með rósum og [a]NN[o] 1676. Þær eru hófhríngjur, en mynda þó að framan hvassan odd.

437. $^{21}/_{12}$67. Björn Þorláksson á Skútustöðum, skólapiltur: HRÍNGUR eða neðri hluti af bólu (?) úr járni, með barði allt í kríng, sem er $^{1}/_{8}$ þuml. á breidd, allt grafið og sorfið með laufum og krákustígum allt í kríng. Hríngurinn er og með laufum upp úr röndinni $^{1}/_{2}$ þuml. á breidd, og hefir verið lóðaður við barðið með tini. Þessi hlutur er alls $3^{6}/_{8}$ þuml. að þvermáli og hefir verið vel gjörður. Hvað þessi hlutur hefir verið, skal eg láta ósagt.

## 1868.

Af því að þessi skýrsla hlýtur að verða bæði einskonar fornfræðislegur annáll, og um leið safn til þjóðhátta eða kúltúr-sögu Íslands, þá virðist hvergi eiga betur við en hèr, að geta þeirra helztu fornfræðislegu uppgötvana, er gerðar hafa verið hèr á landi, síðan síðasta skýrsla var samin; þær eru fáar, og sumar að eins hálfþekktar og þessvegna alveg ónógar, um sumar hefi eg líklega enga vitneskju fengið, en það verður að taka svo ár sem gár, og tjalda því, sem til er:

Stutt lýsíng á haugi Skalla-Gríms. — Í hauginn var farið 1866, og var Andrès bóndi Fjeldsteð á Hvítárvöllum formaður fyrir því; hann hefir sent mèr eptirfylgjandi skýrslu:

„Haugur Skalla-Gríms stendur í neðanverðu Borgarnesi (Digranesi, sjá Egils sögu bls. 140). Dæld ein liggur þvert um fyrgreint nes, hèrumbil 30—40 faðmar á breidd, öll með fínum, dökkum sandi, og er hvergi í henni neinn stein að finna; beggja megin við tèða dæld eru hæðir, sem eins liggja þvert um nesið; í þeim báðum er grjót mikið, og er það bæði stuðlaberg og blágrýti (einnig er þar víða járngrjót).

Í áður umgetinni lægð (dæld) stendur haugur Skalla-Gríms, sem mest megnis hefir gjörður verið úr grjóti og sandi eður mold (en varla munu hafa verið viðir í þessum haugi); hann er nær kringlóttur, en lítið eitt lengri til suðurs og norðurs; í þær áttir er hann hèrum-

bil 8—8¼ al. Efst á haugnum hefir verið lagður steinn (hellumyndaður), hèrumbil tvær ál. á lengd og 14—16" á þykkt (við hvern samtíða menn að sögn hafa hætt grepti); þar undir var kringlótt hleðsla, sem flestir steinar lágu út og inn í, og flestir svo stórir, að varla má ímynda sèr, að þeir hafi verið færðir án verkfæra, svo sem sleða eður annara þvílíkra áhalda; neðst í haugnum var stór hella, sem auðsjáanlega hefir verið lögð yfir þann eða þá, sem þar hafa verið lagðir (sjá Egils sögu bls. 195), en sem brotin var sundur annaðhvort af þýngd eður manna völdum, sem þá öllu heldur má ímynda sèr, því á einni hlið haugsins var öðruvísi lagt grjótið, og sumir steinar utar, sem ei sjálfkrafa gátu fremur þar en annarstaðar fallið út; má því ímynda sèr, að í hauginn hafi verið farið, enda þótt sögur ekki geti um það. Undir þessari hellu var eitt steinalag fyrir ofan móhellu þá, er þar er undir allri áður greindri lægð; á tèðu svæði er talsvert vatnsrennsli, og víða sáust þar smásteinar niðri, grænir að lit, eins og þeir væri litaðir af eiri, einnig sást þar líkt gjalli, og má það víða finna ofan jarðar.

Þegar maður stendur á miðjum haugnum við jafnslèttu, þarf nokkra hækkun til að sjá svokallaða Borgar borg, sem bærinn að Borg stendur undir; af þessu gætu menn ímyndað sèr, að haugurinn hafi verið svo hár, að af honum hafi mátt sjá fyrnefnda borg; líka er það víst af fornsögum, að þar hafa menn helzt hauglagðir verið, hvaðan sjá mátti til heimkynna þess, sem heygður var".

Sumarið 1868 var dys grafið upp í Húnavatns sýslu; það var við Gljúfrá, skamt frá þar sem hún rennur í Hópið, neðan í hól; þar fannst ekkert nema hrossbein og manns bein, hesturinn var til fóta og lagður á hrygginn, og sneru bæði mannsbeinin og hestbeinin frá landsuðri til útnorðurs. Dysið var aflángt og hlaðið að grjóti á báða vegu óreglulega, og getur verið að áin hafi eitt-

hvað skekkt það, því annar endinn, sem sneri undan brekkunni, var allur hruninn, en hinn var ekki grafinn upp, og má ef til vill sjá enn lag á honum, ef hann væri grafinn upp. Þetta hefir eflaust verið fornt dys, en engar sögur held eg bendi á, að neitt merkilegt hafi skeð þar nálægt.

Þessa skýrslu gef eg eptir munnlegri frásögn þeirra Students Björns Magnússonar (Olsens) á Stóru-Borg og hèraðslæknis Ólafs Sigvaldasonar á Hrísbóli, sem báðir voru við staddir, þá er dysið var grafið upp.

Einnig hefir nýlega verið grafið í haug Arnkels goða; þar fannst ekkert. Allt fyrirkomulag á þeim haugi var mjög líkt og á haugi Skalla-Gríms; mèr er sagt, að þar hafi sèzt lík kringlótt hleðsla; eg hefi enga skýrslu fengið um þann haug.

Óskandi væri, að allir þeir, sem grafa í forna hauga eða dys, vildu gera svo vel og senda mèr sem fyrst skýrslu um, hvað í þeim hafi fundizt, smátt og stórt, og lýsa um leið nákvæmlega haugunum eða dysjunum, stærð á innanmáli á hleðslunni í þeim á alla vegu, lagi á hleðslunni, og hvernig hún snýr, og eins í hvaða átt öll beinin liggja, og hvar við beinin hver hlutur liggur, sem finnst; það ríður á að vera aðgætinn, og grafa varlega, svo ekkert brotni.

---

438. $^{10}/_{1}$68. Kristjan Gynther Schram, timburmaður í Reykjavík: TRAFAKEFLI, á það er skorið með höfðaletri:

JEG MÁ VELLTA TIL OG FRÁ ÞAÐ ER DAGLEG IÐJA.

E. G. S. HEVUR (skorið) ANO 1764.

Ofan á það er skorið með fraktúruletri G. Þ. D.

439. $^{24}/_{2}$68. Keyptur gripur: SILFURHRÍNGJA af fótabandi með fílagrani, sjá nr. 686.

440. $^7/_8$68. Magnús Guðmundsson í Félagsgarðinum: KISTILL skorinn með rós á loki og með höfðaletri á hliðum:

MARGRIET IÓNS DÓTTIR Á KISTUNA.

441. $^8/_8$68. Keyptur gripur: Blá KLÆÐISSAMFELLA með svuntu; neðan á henni er marglitur blómstursaumur; samfellan er saumuð af Halldóru Skúladóttur fógeta, og gaf hún hana Valgerði Jónsdóttur, konu Sigmundar bónda Magnússonar í Akureyjum fyrir brúðarbúníng 1790—98. Blómstursaumur neðan á fötum tíðkaðist mest um síðari hluta átjándu aldar, sem einnig sèst í Hofróðulýsíng, 9. erindi:

„Soddan frúm ei sómir minna
en svunta felld af damaski,
settir knappar svæði linna,
og silfurlindinn forgylltí,
á skarlatinu skraut má finna
skarta blómstursaumarnir.
*falska mynt slær frægtin ber.*
birt er og um búníng stinna
sig borði danskur teygi.
*mart hugsar maðurinn þó hann þeigi.*

sbr. í skiptabrèfi frá 1740: „klæðis niðurhlutur blár með blómstursaum".

442. $^{14}/_8$68. Ásgeir Einarsson alþíngismaður á Þíngeyrum: Lítill HNÍFUR, sprettihnífur eða pennahnífur (?), með silfurhólk og silfurhúfu aptan á skaptinu[1].

---

[1]) Í töxtum frá 17. öld sèst ekki, hvort það eru heldur sjálfskeiðíngar eða hnífar með skeiðum, sem þar eru nefndir, en af Oflátúnga kvæði Hallgríms Pèturssonar sèst, að þá hafa sjálfskeiðíngar verið orðnir til hèr á landi, þar sem svo stendur:

443. 15/3 68. Tryggvi Gunnarsson timburmaður, á Hallgilsstöðum: Gamall STÓLL, er eitt sinn var í Draflastaða kirkju; hann er allur útskorinn, fæturnir eru telgdir í líkíng sem brugðinn starkóngur; að framanverðu er útskorin fjöl með einskonar brugðnu hnútaverki í býzönskum stíl, með snúníng fyrir ofan, en þar fyrir ofan er röð af hríngum, sem gánga hver í annan, þar innan í er skorið með sèrstaklegu höfðaletri: GUÐ IHS CHS DROTTINN. Á hliða-bríkunum er og hnútaverk, í sama stíl og IHS og CHS. Á aptari uppstöndurunum er laufaviður í býzönskum stíl. Neðst á þverfjölinni, sem liggur við herðarnar, þegar setið er á stólnum, er bekkur með útskornum dýrum, og laufaviður fyrir ofan; þar eru mynduð tvö ferfætt dýr, sem eru að berjast, og liggur annað undir, þau bíta hvort í rófuna á öðru; þar næst er dreki eða gammur að berjast við ljón, og í miðju IHS, þarnæst hestur og síðast maður með öxi að berjast við ferfætt kvikindi. Efst á þverfjölina er skorið með samskonar höfða-letri:

IÓN IÓNS SON Á MIG SEIG ER STÓLL IN
GVD IESVS CHS SE MED OS

ofarlega á öllum fjórum uppstöndurum eru telgdir eins og brugðnir valhnútar, en þar ofan á fjórir riddarar, sem ríða við beizli með snoppuól og í söðlum með háum kerlíngum að framan, kríngióttum að ofan, einsog á gömlum kvennsöðlum. Riddararnir hafa spánskan búníng, sem þá tíðkaðist mjög hèr á landi á karlmönnum (sjá nr. 800 hèr á eptir). Þeir hafa húfu (*baret*) á höfði, með litlu niðurbroti á hnakkanum, og eru tveir af þeim

---

„Í báðum vösum glymur gjaldið,
gylltir hnífar og tóbaksdós";
en hnífar í skeiðum virðast þó að hafa tíðkazt töluvert lengur hèr á landi.

með einföldu bandi yfir um, en einn virðist að bera lágan hatt á höfði með litlu barði og snúnu skrautbandi um, líkt og sèst á Nr. 800, stutta treyju slètta með standkraga eða heldur línkraga hálf-uppstandandi. Ermarnar á þeim öllum eru slèttar og uppvíðar; treyjurnar slá sèr allar út fyrir neðan mittið, og eru slèttar á tveimur, en með fellíngum fyrir neðan mittið á tveimur, eins og sèst á mörgum myndum frá 16. öld; stuttvíðar spánskar brækur með úrskornum 4—5 geirum á lærunum. Stóllinn er yfirhöfuð mjög líkur þeim alþekktu Grundarstólum, sem eru í safninu í Kaupmannahöfn, sjá „*Antiquarisk Tidsskr.* 1843—45", og líklega frá sama tíma. Eg held, að þessi stóll sè ekki eldri, en frá fyrra hluta 16. aldar, þegar gætt er að búníngunum, og ekki get eg af neinu sèð, að hinir fyrgreindu stólar sè neitt ellilegri, nema að því leyti þeir hafa gapandi drekahöfuð á uppstöndurunum. Það, að eigandi stólsins er nafngreindur, bendir á, að stóll þessi hafi eigi upprunalega verið gerður til að vera kirkjustóll.

## Prentáhöld

afhent af forstöðumanni prentsmiðju Íslands 6. dag Aprilmánaðar 1868, eptir gefnu leyfi yfirstjórnenda prentsmiðjunnar, Nr. 444—552:

A. Hólaprentsmiðjan fyrri, flest frá dögum Guðbrands biskups 1574—1627.

444. PRENTMYND, skorin í trè; með þessari mynd er prentuð mynd sú, sem er í Guðbrands biblíu, Hólum 1584, framanvið St. Páls pistil til Rómverja; fángamark Guðbrands biskups G. T. er brotið af, sem var á öðru neðra horninu, og, sem bendir á, að Guðbrandur hafi sjálfur skorið þessa mynd og þær, sem eru við pistlana, því þær eru allar af sömu gerð.

445. FLATTUR ÞORSKUR með kórónu yfir, skorinn í trè; hann er prentaður í *Enchiridion*, Hólum 1600

*Anatome Blefkeniana*, Hólum 1612, og Landnámu, Skálholti 1688.

446. MYND GUÐBRANDS BISKUPS Þorlákssonar, skorin í trè; hann er í kápu með loðnu fóðri og kraga, og hefir bók í hendi, á myndinni er og ártalið *1623 aetat*(is) *83* og G. T. bundið saman.

447. Lítil MYND AF GUÐBRANDI biskupi, skorin í trè; hann ber kniplis kraga um hálsinn, utan um myndina er kríngióttur hríngur; á myndinni er G. T. bundið saman.

448. Lángur HNÚTAFLÈTTÍNGUR, skorinn í málm: á Barnaprèdikunum, Hólum 1603.

449. MYND AF BOÐUN MARÍU, grafin í málm: á Postillu Pangratii, Hólum 1611 og 1649, á Postillu frá Hólum 1676, á Passional, Hólum 1598, á *Passionale vetus*, Skálholti 1695, á Harmoníu, Skálholti 1687, 9. bls. og Hólum 1749, á *Mysterium Magnum*, Hólum 1727; aptan á myndina er skorin talan (Nr.) *33*.

450. MYND AF VITRÍNGUNUM ÚR AUSTURVEGI, skorin í málm, á Harmoníu, Skálholti 1687, 19. bls., og á Hólum 1749; aptan á myndina er skorin talan (Nr.) *14*, sem sannar, að Guðbrandur biskup hefir haft margar þesskonar myndir[1], og munu allar þessar myndir eflaust

---

1) Í Stóra *Catechismus*, Hólum 1610, eru margar af þeim stóru og litlu myndum, sem eru í Harmoníu og *Passionale vetus*; t. d. guð að skapa Evu, heilagur andi kemur yfir postulana, Jóhannes að skíra Krist, kvöldmáltíðin, krossmarkið, sem líka er í sálmabók frá Hólum 1619. Allar þessar myndir eru jafnlángar þeim tveimur myndum, sem safnið á, Nr. 449 og 450, líka er gerðin sú sama, og sama er að segja um myndina: Abraham að offra Ísak, á Þorláksbiblíu, sbr. Ódauðleik sálarinnar, Hólum 1601 og 1610, Kristur í skýjum himins, sama mynd og á Harmoníu. En sumar af þeim fyrgreindu myndum eru að eins lítið eitt mjórri, og eru þær því líklega allar gerðar á sama tíma og stað.

hafa verið sumpart gerðar, sumpart útvegaðar af honum.

451. Lángur FLÈTTÍNGUR, skorinn í málm: á kirkjusiða-bók, Hólum 1636, á Ólafs sögu Tryggvasonar, Skálholti 1689, II., 36. bls. í viðbæti.

452. HNÚTALENGJA, skorin í málm: á *Graduale*, Hólum 1649, og á *Thomas à Kjempis*, Hólum 1676.

453. Tvö brot af myndum, gröfnum í málm, af sömu gerð og Nr. 449 og 450.

454. MYND AF FLÖTTUM ÞORSKI, skorin í trè, með kórónu yfir: á Lassenii bænum, Hólum 1681, á Lögþíngisbókum, Skálholti 1696 og Hólum 1743—44 og 1747.

454 *a*. Stór eikarplata, opin í miðju; hún virðist helzt að vera undan myndunum á titilblaðinu á Þorláks biblíu, Hólum 1644 og Steins biblíu, Hólum 1728; samt getur sama plata hafa verið höfð undir myndunum á titilblaðinu á Guðbrands biblíu, því stærðin á þar svo að kalla eins vel við, og kemur, hvað innanmálið snertir, ekkert í bága við málið, sem þar er fyrir innan myndaumgjörðina. Nokkrir lágir eirnaglar standa enn eptir í trènu, sem hafa haldið málmplötunni ofan á því, og má því læra af þessum hlut, að þessar myndir hafa verið skornar í málm, en ekki í trè, sem flestir hafa haldið.

455. RÓSAFERHYRNÍNGUR opinn í miðju, skorinn í trè, aptast á Landnámu í Skálholti 1688, utan um litla þorskinn Nr. 454, og er ferhyrnt gat í miðju, sem hann fellur í; er því ætlan mín, að þessi ferhyrníngur sè jafngamall þorskmyndinni og upprunalega úr Hólaprentverkinu, þó eg hafi ekki enn fundið hann í bókum frá Hólum.

B. Skálholtsprentverkið, frá dögum Þórðar biskups Þorlákssonar, 1685—1697.

456. Lengja með þremur tiglum og rósum innan í og utanum, skorin í málm, lík því að hún væri úr fyrra Hóla prentverkinu (?): á *Medulla epistolica*, Skálholti

1687, aptan við formálann; Upprisusálmar, Hólum 1703, Hugvekjusálmar, Hólum 1703, Bænakver, Hólum 1780, Bænakver sira þorláks þórarinssonar, Hólum 1780.

457. Ferhyrnd trèplata undan mynd Íngólfs Arnarsonar: á Landnámu, Skálholti 1688.

457 *a*. Ferhyrnd trèplata undan mynd Ólafs Tryggvasonar, á sögu hans, Skálholti 1689.

458. Ferhyrnd trèplata undan mynd Eiríks rauða á Grænlands sögu, Skálholti 1688. Af því, hvað naglarnir eru lágir í öllum þessum plötum, má sjá, að allar þessar myndir hafa verið grafnar í málm, en ekki í trè; 7—8 litlir látúnsnaglar standa eptir í trèplötunum, sem hafa haldið málmplötunum ofan á þeim. Til er og ferhyrnd trèplata með smánöglum í, sem mun vera undan mynd Ólafs helga á Jónsbók, Skálholti (?)[1]; stærð hennar er alveg samsvarandi myndinni.

459. MYND AF ROSTÚNG, skorin í trè, sem er aptan á Grænlands sögu, Skálholti 1688.

460. þrír stórir margbrotnir stafir *F. K. H.* þeir eru eflaust af sama upphafsstafrófi, og er í byrjun á hverjum fjórðúngi í Landnámu, Skálholti 1688, einnig víða í Skálholts útgáfu af Ólafs sögu Tryggvasonar, Kristnisögu og Grænlandssögu.

461. Samföst BÓKSTAFALÍNA („Landnáma"), skorin í trè, titillinn af Landnámu, Skálholti 1688.

462. MÁLMPLATA með hríng og ferhyrníng þar innan í, með *A. Ω.* aptur þar innan í; þar út frá eru geislar og rósir: af Paradísarlykli, Skálholti 1686, Harmonia, Skálholti 1687 fremst, Píslarsálmar Hallgríms Pèturssonar,

---

[1]) eða á Hólum 1707 og 1709, því Jónsbók var aldrei prentuð í Skálholti, svo getið sè. Í útgáfu Jónsbókar á Hólum 1578 (og 1582?) er önnur mynd af Ólafi konúngi helga, með ártali 1539.

*J. S.*

Hólum 1704 fremst. Æruminníng. Guðrúnar Einarsdóttur, Hólum 1778.

463. ENGILSMYND, skorin í málm með rósum til endanna: af Landnámu, Skálholti 1688, Kristnisögu og Grænlandssögu, Skálholti 1688. Verk og laun Jóns biskups Teitssonar, Hólum 1782 aptast.

464. SÓLA, skorin í málm, sem er til hliða á titilblaðinu á Landnámu og Kristnisögu, Skálholti 1688 og Ólafs sögu Tryggvasonar, Skálholti 1689.

465. STJÖRNUFRÆÐISMYND, skorin í málm, úr *Calendarium perpetuum*, Skálholti 1692, 21. bls.

466. STJÖRNUFRÆÐISMYND, skorin í málm, úr sömu bók, 32. bls.

467. KOMPÁSMYND, skorin í málm, úr sömu bók, 97. bls.

468. STJÖRNUFRÆÐISMYND (?) skorin í trè, úr sömu bók, 111. bls.

469. *L. S.* innan í einföldum hríng, skorið í trè. Ólafs saga Tryggvasonar, Skálholti 1689, framan við formálann. Steins biblía, Hólum 1728; á fororðningum: um altarisgaungu (1746 og 1749) — um húsvitjanir, Hólum 1746 — um húsagann, Hólum 1749 — um hospítöl, Hólum 1746 — um confirmation — um catechisation — um helgihald — um hjónaband — um tóbak og brennivín — um stiptprófasta (1746) — um húsvitjanir presta, allt á Hólum 1749.

470. MYND AF HANA, skorin í trè, á Stafrófskveri, Skálholti 1695.

### C. Hóla prentverkið síðara, 1703—1799.

471. LÍNA með latínuletri: „*Gislavi Magnæi*", skorin í trè, af Útfararminníng sýslumanns Gísla Magnússonar, Hólum 1704.

472. MYND AF MARTEINI LÚTHER, skorin í málm innan í hríng; hún er framan á *Viaticum*, Hólum 1706. Þessi mynd er alveg af sömu stærð og mynd sú, sem

er framan á *Summariu*, sem er prentuð í Núpufelli 1589, 1591 og á Hólum 1602 og Leikmanna biblíunni, sem er prentuð á Hólum 1599, Sálmabók, Hólum 1619. það er því líklegt, að þessi mynd sè upprunalega sú hin sama og úr Núpufells prentverkinu, en ef svo er, þá hefir henni samt töluvert verið breytt, um leið og hún hefir verið skírð upp hèrumbil 1706, þegar hún var notuð til að hafa hana framan á *Viaticum*.

473. LENGJA af HNÚTUM OG RÓSUM, skorin í málm: á *Dominicale*, Hólum 1725, framan við.

474. NAFNDRÁTTUR FRIÐRIKS IV. Danakonúngs, skorinn í málm: af *Dominicale*, Hólum 1725 og Stóradómi, Hólum 1746.

475. BÓKAHNÚTUR, skorinn í trè: á Upprisusálmum, Hólum 1703, á Lögþíngisbókum, Hólum 1713—14, 1722, 1744, 1772 og 1773, Stóradómi, Hólum (1743?), aptast á flestum fororðníngunum, sem nefndar eru í Nr. 469, á Vídalíns postillu, Hólum 1718 og 1767, og 1724 aptast, og 1750, 429. bls. — Graduale, Hólum 1779. — Æfiminníng Sigurðar lögmanns Björnssonar († 1723), Hólum 1726. — Sálmabók, Hólum 1780. — Steins biblía, Hólum 1728, 843. bls.

476. LÍNA með latínuletri: „*Catechisation*", skorin í málm: á fororðníng, Hólum 1744 og 1749.

477. NAFNDRÁTTUR KRISTJÁNS KONÚNGS VII, skorinn í málm, á Lögþíngisbók, Hólum 1766.

478. Bókstafalína: „HÚSSPOSTILLA", með hnútadráttum yfir, skorin í trè, af titilblaði á Vídalíns postillu, Hólum 1767 og 1776.

479. Lítill MÁLMSTÍLL ferhyrndur; úr mörgum þess kyns stílum voru myndaðir rósabekkir í bókum til prýðis. Hann er á Sannleika guðhræðslunnar, Hólum 1781, 1. og 190. bls. yfir málinu; Æfiminníng Gísla biskups Magnússonar, Hólum 1779, 6. bls. kríngum upphafsstafinn; Stutt ágrip um iktsýki, Hólum 1782, 3. bls. Stafrófs-

kver, Hólum 1782, 25. bls. Vídalíns postillu, Hólum 1798. Skýríngar yfir Balles lærdómsbók, (Hólum?) . . . 1. bls. Acta yfirrèttarins, Leirárgörðum 1801. Sálmabók, Leirárgörðum 1801, fremst yfir málinu. Erfiljóð Sigríðar Stefánsdóttur, Viðey 1828, 49. bls.

480. MYND AF LÍKKISTU, skorin í trè, til endanna standa sex ljósastikur og yfir lokinu er engill, sem heldur á laufgjörð. Við kistuna standa tvær grátkonur: á Útfararminníng Jóns biskups Teitssonar, Hólum 1782.

481. Bókstafalína: „HÚSPOSTILLA" með dráttum yfir, skorin í trè, á Vídalíns postillu, Hólum 1798.

Eptirfylgjandi ellefu Nr. eru líklega flest úr Hólaprentverkinu síðara.

482. Krínglótt MYND úr málmi, á henni er þríhyrníngur með nafninu Jehóva á Hebresku innan í.

483. Smágjör RÓS aflaung, skorin í trè.

484. Stór RÓS af grafletri eða útfararminníng, í miðju er líkkista með fimm ljósum allt um kríng, fyrir ofan er einskonar himinn, sem dregli er knýtt utan um, og ritað á með latínuletri: „*Memento Mori*".

485. Stór ferhyrnd TRÈMYND með BLÓMUM allt um kríng, þar innan í standa brúðhjón í útlendum búníngi, og er prestur að gefa þau saman; fyrir aptan þau standa tvær brúðkonur, í gólfinu eru sýndir mislitir ferhyrndir steinar.

486. Stór samföst LÍNA með skrautstöfum og hnútadráttum yfir, skorin í trè: „*Rijm-Tabla*"; línan er alls 10 þumlúngar og 8 línur á lengd. Í Finns kirkjusögu III, 678. bls. er talin „*Rím-tabla in patente*" (= á einu blaði), prentuð í Skálholti 1695, og er þetta titillínan af þeirri sömu töblu. Rímtabla þessi er til enn, í bókasafni konúngs í Kaupmannahöfn.

487. Stutt LÍNA samföst: „*Skripter*", skorin í trè, og eru drættir utan um fyrsta stafinn.

488. LÍNA samföst, skorin í trè: „*Predík*", og eru dræltir utanum fyrsta stafinn.

488a. *P* eins að gerð og upphafsstafurinn í Nr. 488.

489. Tvær SKIPAMYNDIR, skornar í málm, líklega af þakklætisminníng um korngjafir, (Hólum . . .?)

490. Lítil LENGJA ÚR MÁLMI með rósum.

491. Stór SÍFFRUTÖLU-LÍNA, skorin í trè, með öllum einföldu tölustöfunum, 12 þuml. og 2 lín. á lengd.

D. Hrappseyjar prentsmiðjan, 1773—1794.

492. Lítil RÓS, skorin í trè, til að hafa utan um upphafsstafi, og er gat í miðjuna til að smeygja í málmstaf; ljón klifrast upp með rósinni annars vegar; á Lögþíngisbók, Hrappsey 1773, fremst.

493. Stór RÓS, skorin í trè: Norsku lög, Hrappsey 1779, Egils saga Skallagrímssonar, Hrappsey 1782.

494. HRÍNGRÓS, skorin í trè, ferhyrnd að utan, með urtapotti í miðju: Búalög, Hrappsey 1775; Atli, Hrappsey, 1777. Sumargjöf handa börnum, Leirárgörðum, 1795. Píslar minníng, Viðey 1824.

495. *L. S.*, skorið í trè, með geislum allt í kríng: á Lögþíngisbókum, Hrappsey 1781, 43. bls. 1774 og 1778.

496. Lítil RÓS, skorin í trè, til að hafa utan um stafi; upp við rósina stendur maður með hjálm á höfði og spjót í hendi: í Lögþíngisbók. Hrappsey 1774, fremst.

497. RÍKISSKJÖLDUR DANAVELDIS með kórónu yfir, skorinn úr trè: á Fororðníngasafni Magnúsar Ketilssonar, Hrappsey 1776, aptast.

498. Lítil FERHYRND MYND, skorin í trè, opin í miðju, til að hafa utan um upphafsstafi: Búalög, Hrappsey 1775.

499. FERHYRND MYND eða súlufótur, skorinn í trè, þar innan í er myndaður drengur, sem er að blása sápubólur: Stöfunarbarn, Hrappsey 1782, 63. bls. Heiðnir

eða hrossakjöt, Hrappsey 1776, 22. bls. — Nr. 534 virðist að vera samkynja þessari mynd, og jafnvel Nr. 530.

500. Lítil SPORÖSKJULÖGUÐ MYND, skorin í trè, með grafarmarki (eða obelisk) í miðju og tveim trjám til beggja hliða: á Atla, Hrappsey 1777, aptast, sjá Nr. 531.

501. RÍKISSKJÖLDUR DANAVELDIS með skjaldarmerkjum ríkislandanna allt í kríng, skorinn í trè: Norsku lög, Hrappsey 1779. Acta yfirrèttarins á Íslandi, Leirárgörðum 1797—1802.

502. AFLAUNG MYND, skorin í trè, með rósum og tveimur englum innan í, og innst hríng með auga innan í með geislum út í frá: Heimskríngla, Hrappsey 1779 fremst. Norsku lög, Hrappsey 1779.

503. KÓRÓNA, skorin í trè: Norsku lög, Hrappsey 1779, 157. bls.

504. Lítil RÓS til að hafa utan um upphafsstafi, með engilshöfði að ofan: Nokkrar tilraunir gjörðar með nokkrar sáðtegundir, Hrappsey 1779, 1. bls.

505. Eitt *Þ*, skorið í trè: á Lögþíngisbókum, Hrappsey 1773—1790, á titilblaðinu í línunni Lögþíngisbók; Norsku lög, Hrappsey 1779, 158. bls.

506. Stór RÓS, skorin í trè, með tveimur mannamyndum til beggja hliða, hefir verið sett saman í miðju, og vantar hálfan fjórða partinn, sjá Nr. 523: á Tímatalsregistri, Hrappsey 1781; Norsku lögum, Hrappsey 1779 (aptarlega).

507. Stór RÓSARUNNUR, sem vex upp úr urtapotti, skorinn í trè: Tímatalsregistur, Hrappsey 1781; *Diarium*, Hrappsey 1783, aptast.

508. Aflaung RÓS, skorin í trè: Tímatalsregistur, Hrappsey 1781.

509. Mynd af HERBERGI, skorið í trè, með tveim gluggum og einum spegli og gólfi með mislitum ferhyrníngum; allt í kríng eru 8 börn að lesa í bók og 1 kennari: Tímatalsregistur, Hrappsey 1781 aptast.

510. Upphafs-*Þ*, skorið í trè: Heimskríngla, Hrappsey 1779, 299. bls. Norsku lög, Hrappsey 1779, 418 bls. Náttúruskoðarinn, Leirárgörðum 1798 (fremst). Píslarminníng, Viðey 1824 (fremst).

511. Mynd af DAUÐANUM með sigð og stundaglas, skorin í trè: Ármanns saga, Hrappsey 1782 (aptast).

512. Tvær ferstrendar uppmjóar SÚLUR (obeliskar), skornar í trè, standandi á þremur fótum: aptast á Ármanns sögu, Hrappsey 1782.

573. Lítil RÓS til að hafa utan um upphafsstafi, skorin í trè: *Diarium*, Hrappsey 1783.

514. Stórt upphafs-*Þ*, skorið í trè, á Missiraskiptaprèdikunum, Hrappsey 1783.

514 a. *Þ* af sömu stærð og gerð.

515. Tveir litlir MÁLMSTÍLAR með mynd af eikarhnotum, sem var haft til að mynda úr rósabekki til prýðis, og voru þá margir af þeim settir saman: *Diarium*, Hrappsey 1783, 1. bls. Acta yfirrèttarins á Íslandi, Leirárgörðum 1797—1802, allstaðar fyrir ofan málið; — Athugaverdt við sættastiptanir &c., Viðey 1819, fremst yfir málinu.

516. Lítil RÓS, skorin í trè, til að hafa utan um upphafsstafi: Lögþíngisbók, Hrappsey 1784; Minnisverð tíðindi, Leirárgörðum 1799—1806, 476 bls.

517. Önnur lítil RÓS sömu tegundar, úr trè, með málmstíl innan í: Sjö sendibrèf Jesú Krists til safnaðanna í Asia &c. Hrappsey 1782; Minnisverð tíðindi, Leirárgörðum 1799—1806, aptan við formálann; Ræður eptir Vigfús Scheving, Beitistöðum 1819 (aptast). Æfiminníng Ólafs Stephensens, Viðey 1820, 63. bls.

518. NAFNDRÁTTUR FRIÐRIKS KONÚNGS V., skorinn í trè, þar á „*prudentia et constantia*": á Lögþíngisbók, Hrappsey 1781, 36. bls.

519. Stórt STAFRÓF, skorið í trè, með rósum allt í kríng um stafina og innan í þeim, *W* er á Norsku

lögum, Hrappsey 1779 og á Lögþíngisbók, Hrappsey 1786, 21. bls. og 1781, 36. bls. og E. J. D. er á Norsku lögum, Hrappsey 1779, 754. bls.; í stafrófið vantar P. Þ. Ó.

Stílar og prentmyndir, sem flestallar munu vera frá Hrappsey (?); þær eru enn ófundnar í bókum.

520. RÓS til að hafa utan um upphafsstafi, skorin í trè[1], með gati í miðju fyrir málmstíl.

521. RÓS brotin.

522. RÓS stór.

523. RÓS með rós annars vegar, nokkuð af því, sem vantar á Nr. 506, og geislabaug hins vegar; hefir verið brotin í sundur, til að gjöra úr henni þessa mynd.

524. RÓS með rós og mannsmynd, sem heldur á staung eða spjóti.

525. RÓS.

526. RÓS með mannlíkan-súlum (*carryatides*) sem bera himin.

527. Stór RÓS með guðslambi (*agnus dei*) í miðju.

Stórar myndir, ætlaðar á grafskripta blöð og útfararminníngar.

528. Stór RÓS með líkkistu í miðju, á lokinu er stundaglas og ljós til beggja enda á kistunni; efst á myndinni er höfuðskel, og þar undir með latínuletri: „*Memento Mori*".

529. Stór mynd af LÍKKISTU (*sarkophag*); á kistunni eru blómkerfi, stundaglös og höfuðskelja myndir, tvö ljós eru við báða enda kistunnar.

530. Mynd af DAUÐANUM, sem heldur á ör í hægri hendi, en stundaglasi í vinstri, sjá Nr. 499.

---

[1]) Allar eptirfylgjandi myndir eru skornar í trè.

531. Stór RÓS með sporöskjulagaðri mynd innan í, jafnstórri og Nr. 500, og er hún því auðsjáanlega frá sama tíma; þær eru báðar ætlaðar til að setjast inn í þessa rós til skiptis, hin táknar grafarmark, en þessi táknar líkkistu, sem stendur á tigla-gólfi, og er mynd af höfuðskel á lokinu; tvö ljós standa til beggja hliða og sorgartjald í kríng.

532. Tvær stórar uppmjóar SÚLUR, vafðar með blómkerfum, standandi á fótstalli; á miðjum fótstöllunum eru skjaldarmerki með kórónuðum hjálmi yfir; á öðrum skildinum er flattur örn, og á hinum fugl, báðir fuglarnir halda á einhverju í klónum.

533. Tvær SÚLUR, sem utan um er vafið blómkerfum, standandi á fótstöllum.

534. Tvær uppmjóar SÚLUR með kórónu á toppnum og allar vafðar með rósakerfum.

535. Ein uppmjó SÚLA, vafin með pálmavið og þremur höfuðskeljum upp eptir miðju.

536. Laus FÓTSTALLI líklega af sömu súlu, með pálmaviðar gjörð með blómum og sex höfuðskeljamyndum; dauðinn stendur í miðju, haldandi á ör í hægri hendi, en treður ríkisepli undir fótum.

537. Fjórir margbrotnir stafir (skornir í trè) með dráttum innan í og utan um: *1 A, 2 P, 1 Ö.*

538. Tveir stafir *A* og *Æ*, líkir að gerð, en minni.

539. Eitt *P*, skorið í trè, með dráttum í kríng, stórt.

Eptirfylgjandi myndir munu flestar vera frá Leirárgarða, Beitistaða og Viðeyjar prentsmiðjunum.

540. Stórt LATÍNUSTAFRÓF, skorið í trè, með dráttum innan í stöfunum og allt í kríng um þá; vantar 6—7 stafi: *C. K. N. P. Þ. Ö. U.*?

541. Annað upphafs-LATÍNUSTAFRÓF, líkt að gerð, en smærra: vantar: *U*? *Þ. Ö.*

542. Upphafs-LATÍNUSTAFRÓF einfalt, skorið í trè, vantar *Y*. *Þ*. *Ö*. það eru 3—4 af sumum stöfunum.

543. ANNAÐ minna líkt, vantar: *S*. *X*. *Þ*. *Ö*. *U*.? það eru 2—3 af sumum stöfum. Ekkert af þessum letrum er í því prentaða „Sýnishorni af þeim letrum, sem voru við prentverk Íslands konúnglega landsuppfræðíngar fèlags þann 1. Januar 1828", alls 25 stafróf. það er því líklegt að þessi letur sè flest töluvert eldri.

544. Mynd af MANNI, skorin í trè; hann stendur við húsdyr, og rèttir upp staup með vinstri hendi, og leiðir tvö börn.

545. Mynd af KONÚNGSHÖLL eða KIRKJU (?) skorin í trè, á baka til er hásæti (eða *tribunal*) sem maður situr á, hjá honum er ljós, til beggja hliða er mannþyrpíng.

546. Mynd, skorin í trè, af MANNI og KONU, sem ber körfu; þau eru úti á víðavángi.

547. Stórt snarhandar *F*, skorið í trè.

548. STÆRÐAFRÆÐISLEG mynd, skorin í trè.

549. Stórt *A*, skorið í trè, með dráttum í kríng, líklega af stafrófskveri.

550. Fjögur SAMTENGÍNGARMERKI úr trè.

550a. Tvær KOMMUR úr trè.

550b. Einn PÚNKTUR úr trè.

551. Fjögur *Þ*, skorin í trè,

552. Eitt *Þ*, skorið í trè.

---

553. 6/4 68. Frú Kristín Ólína Þorvaldsdóttir á Leirá: Gömul MYND AF LEIRÁRBÆ, máluð á pappír með litum. Þó að þessi mynd megi heita illa gerð, skoðuð frá íþróttarlegu sjónarmiði, þá er hún samt mjög merk, því hún skýrir áreiðanlega mart það, sem fræðimönnum hefir gleymzt að rita um. Hèr sèst gamla

þverbyggíngin, sem er eldgömul hèr á landi, með einu þili í miðju með aðal-bæjardyrum; annars vegar að vestan er skáli með þeim algenga veggstalli, með tveimur fjögra rúða gluggum fyrir ofan á þynnri vegg; þessi stallur er eflaust leifar af því forna skálaskoti (eða útbroti). Hins vegar dyra að austan er stofa með 6 sex-rúða gluggum, þar fyrir ofan á þakinu er fjögra-rúða gluggi, dyraloptsgluggi með fjórum rúðum, og fjórar rúður um þvert yfir bæjardyra-hurðinni. Fyrir aptan þetta hús eru tvær þverbyggíngar, hèrumbil jafnlángar þeirri fremstu, sem eflaust er búr og eldhús, og líkast til baðstofa handa vinnufólki, með fjögra-rúða glugga efst á gaflþili, og tveimur sexrúða gluggum þar fyrir neðan. Þar eru og sýndar fjórar skemmur og ýmisleg útihús, vatnspóstur á hlaðinu til hliðar við bæinn, og kirkjan, eins og hún mun hafa verið þá. Á hlaðinu stendur prestur í hempu og annar maður í ljósum hjúp, eins og rykkilíni, líklega djákni (?). Fyrir honum hneigir sig einhver aðkomandi höfðíngi, sem er að taka ofan þríspertan hatt; hann er í hálfkjól einhneptum með stórum uppslögum og stórum hneptum vasalokum, með reiðstígvel á fótum; hann hefir sítt vesti og fellíngalín (*Kalvekryds*). Á eptir honum ríður þènari í frakka eða úlpu, og þar á eptir höfðíngi í sama búníngi og sá fyrstnefndi. Austan til við bæinn er stúlka að pósta vatn í fötu, hún hefir háfan krókfald á höfði, sem bundið er um svörtum klút að neðan; hún hefir ljósan kraga um hálsinn, svarta skauttreyju, rautt pils og rauða svuntu, hvorttveggja ólagt, hvíta sokka; hjá henni stendur kerlíng eða griðka, sem ber tvær vatnsfötur, með mjög háfan krókfald á höfði, hálfa þriðju andlitslengd á hæð, sem bundið er mjófum ljósleitum klút neðan um; hún hefir rautt pils og rauða svuntu, hvorttveggja ólagt, hvíta sokka; hún virðist að vera í karlmannspeisu, sem slær sèr mikið út um mjaðmirnar. Hèr sèr maður fyrstu rót til húfubúníngsins, því kvennpeisan var fyrst hèrumbil

alveg eins og karlmannspeisan, og opt með grænni eða rauðri brydding og með grænum eða rauðum hneppslum (hnappagötum), og hneppt, eptir því sem eg kemst næst, og eins var kvennhúfan fyrst alveg eins og karlmanns skotthúfan; með öðrum orðum: fyrsti uppruni til húfubúníngsins virðist að vera sá, að griðkonur tóku á sig karlmannspeisu og karlmannshúfu[1], er þær gengu í skarnverk, því það var hentugra og skjólbetra en skautið og búníngur sá, sem því fylgdi; þess vegna má telja, að sá fyrsti uppruni til húfubúníngsins byrji 1770 og þar á eptir[2]. Í túninu bak við kirkjuna eru tveir menn á gángi, báðir á mussum eða peisum, í stuttbrókum svörtum, með svarta sokka og lága íslenzka skó; annar þeirra hefir hatt á höfði, en hinn húfu með uppbroti (?), sá heldur á reku; milli þeirra gánga tveir kvennmenn, önnur þeirra ber háfan skautafald alhvítan niður ígegn og engan klút um faldinn að neðan (eða skýlu), ljósan kraga um hálsinn, þykkan (ef til vill línkraga), rauða treyju ólagða, rautt pils ólagt (?), græna svuntu tvílagða[3].

---

[1]) Skotthúfur einlitar báru þá einkum skólapiltar á Hólum og eins í Skálholti, þær voru bláar með bláum eða grænum silkiskúf með vírborða um, hvítum; af þeim mun kvennhúfan hafa sinn uppruna.

[2]) Þó er mér ekki kunnugt, að konur hafi borið peisu né húfu, sem stöðugan hversdagsbúníng, fyr en um 1790, og mun Frú Valgerður Jónsdóttir í Skálholti hafa verið sú fyrsta, svo hafa þær sagt Ragnhildur og Guðríður Magnúsdætur lögmanns frá Meðalfelli.

[3]) Konur virðast þá opt að hafa haft ólagðar hversdagstreyjur, en lagðar spari, sbr. „Marklýsing á óþrifnum vinnudrósum", 9. er.:

„Búast þær borðatreyju,
borgar það skyrtu korgur
feld und messufaldi
fljóð særir mörg óværan.

Sumir eigna kvæðið séra Þorláki Þórarinssyni, en aðrir Þ. J. S. (sira Þorsteini Jónssyni á Dvergasteini?).

Hin ber háfan krókfald með svörtum klút, mjófum, neðan um, svarta treyju ólagða, rautt pils einlagt, græna svuntu tvílagða, pípnakraga hvítan um hálsinn. Báðar hafa svarta sokka og lága íslenzka skó þvengjalausa; skautafaldarnir hafa allir mjög líkt lag og líka hæð, og sýnt er í ferðabók Eggerts Ólafssonar fra árunum 1755—57. Hèr eru og tveir menn, sem eru að saga með tvískeptu, í sama mussubúníngi og áður er um getið, og maður á hesti og annar á gángi með staf, líklega stafkarl. Á miðri myndinni ofanverðri er nafndráttur: *O. S. S. S. M. D.* (Ólafur Stephánsson — síðar stiptamtmaður — Sigríður Magnúsdóttir); hèr af má ráða aldur myndarinnar, að hún er gjörð eptir dauða Magnúsar lögmanns Gíslasonar, tengdaföður Ólafs, † 1766, en áður en norðlenzki eða breiði faldurinn fór almennt að tíðkast á Suðurlandi, sem hvergi sèst á myndinni; hann kom fyrst í Borgarfjörð á árunum 1766—1770. Sem sönnun fyrir því, að breiði faldurinn komst fyrst á Suðurland þau ár, verð eg að segja dálitla sögu: Sigríður Stephánsdóttir prests á Höskuldstöðum, systir Ólafs stiptamtmanns, kona sira Kristjáns Jóhannssonar skálds í Stafholti, kom fyrst að norðan með breiða faldinn 1764—66. Kristján prestur varð kapellán 1764, og mun hafa gipzt 1766, sama ár og hann fèkk Stafholt; þá var Jón Sigurðsson frá Hvítárvöllum prestur í Hvammi í Norðurárdal. Eitt sinn var Jón prestur að prèdika í Hvamms kirkju, og lagði mikið út af stærilæti heimsins og sagði meðal annars: „Skautið ekki hátt í henni veröld; einu gildir, þó hann sè breiður". Almenníngur skildi þessi orð hans á þann hátt, að þau hefði átt að vera skens til prestkonunnar í Stafholti fyrir það, að hún um þær mundir innleiddi þar í sveit breiða faldinn. Þetta er sögn Þorvalds Böðvarssonar prófasts, síðast í Holti undir Eyjafjöllum, er á þeim árum 1768—1770 var að læra undir skóla í Reykholti, en hans fyrsta lærdómsár var árið eptir að Eggert Ólafsson kvæntist,

það var 1767. Um 1800 kom fyrst breiði faldurinn austur í Arnessýslu, en varð þó fyrst algengur um 1810—20[1]. Af þessum ástæðum er mjög líklegt, að myndin sè gjörð á árunum 1766—69, áður en allur bærinn brann á Leirá 1769; því varla hefir svo skrautleg bygging verið reist þar um lángan tíma þar eptir, þótt Ólafur stiptamtmaður hefði þar einskonar útibú 1782—89 með 11 verkahjúum, sem húsvitjunarbók Mela prestakalls vottar; en hvergi hefi eg fundið, að hann hafi búið þar. Hinsvegar sèst á nafndrættinum á myndinni, að hún getur ekki hafa verið fyr gjörð, en Ólafur varð eigandi jarðarinnar 1766. Guðrún, kona Einars bónda á Læk, átti mynd þessa á undan Jóni sýslumanni Thoroddsen, en Einar var ráðsmaður hjá Jónasi Scheving kansellíráði, er bjó á Leirá 1802—27.

554. 7/4 68. Guðríður Einarsdóttir í Reykjavík: svartir SAUMBORÐAR af hempu, saumaðir úr togi með skinnsaum, mjög vel gjörðir; þeir eru austan úr Skaptafellssýslu[2].

555. 22/4 68. Þorvarður Ólafsson, hreppstjóri á Kalastöðum († 1873): Gamall HEFILSTOKKUR með útskornu drekahöfði að framan. Þetta sýnir, hvað Íslend-

---

[1]) Eg get ímyndað mèr, að margir haldi þrátt fyrir þetta, að breiði faldurinn sè eldgamall, og að allt annað lag á faldi sè einúngis mín ímyndan; en það dugir ekki að þræta þvert ofan í söguna, sízt til lengdar.

[2]) Þessir skinnsaums borðar eru eiginlega eldri að uppruna en flosborðarnir; á undan flosborðunum höfðu konur einnig lissur, og vírverk eða rokkverk (þó voru búnir til saumborðar fram á þessa öld). Þetta sagði mèr frú Sigríður Gísladóttir, kona Ísleifs etazráðs Einarssonar, 1858; sbr. skiptabrèf frá 1780: „grænn klæðis niðurhlutur tvílagður með vírverki af tveimur böndum;" — „vaðmálshempa með verki framaná", skiptabrèf frá 1740.

íngum hefir verið innrætt allt frá fornöld að skera dreka-höfuð á flesta hluti[1].

556. $^{10}/_{5}$ 68. Kristján Eldjárn Þórarinsson, skólasveinn frá Reykholti: Tveir BRÓKARHALDSHNAPPAR með laufavið í kríng, í býzönskum stíl.

## Hafurbjarnarstaða fundurinn.

### Dysið Nr. I.

557. $^{17}/_{5}$ 68. Sira Sigurður Brynjúlfsson Sivertsen, prestur á Útskálum: Stór FJAÐRASPJÓTS-ODDUR, fjöðrin er $12^2/_8$ þumlúng. á lengd og tveir þumlúngar á breidd; efst á henni er skarpur hryggur í miðju báðum megin; falurinn er $3^3/_8$ þumlúng. á lengd, skaptholið er að mestu ryðgað af.

558. S. d. Sami: KJAPTAMÈL úr járni, eins og einfalt hríngabeizli, eða bandbeizli almennast tíðkast nú; á þeim eru járnsviptir, sem spaðar hafa verið á, til að festa með mèlin við kinnleðrin eða taumana; þeir eru nú að mestu ryðgaðir af, hríngarnir eru $2^7/_8$ þuml. þvert yfir, en mèlin eru $3^1/_2$ þuml. milli hrínganna.

559. S. d. Sami: SVERÐ silfursmelt með dögg-skó úr bronzi gylltum; hjöltin eru $4^2/_8$''[2] á lengd og breiðka lítið eitt til endanna, svo endarnir eru rúmur 1'', en miðjan $^5/_8$''. Svo að segja öll hjöltin hafa verið þakin með silfri, slèttu um miðjuna, en í brúnirnar hafa verið smeltir ofan í járnið breiðir tvöfaldir snúníngar (eða flèttíngar?), sem liggja í beinni línu, en um miðjuna eptir endilaungu hjaltinu eru snúníngarnir lagðir í einskonar krákustíg ofan í járnið, en slètt silfur á milli snúníng-

---

[1]) í Snorra eddu er talað um lokarspánu ( = hefilspánu), sem sýnir að heflar eru gamlir; sbr. það sem stendur í gamalli vísu:

„Þèr mun þykja lokar minn
rista drjúga spánu".

[2]) Merkið '' ofan og aptan til við tölustafi merkir þumlúng.

anna; meðalkaflinn er $5^{1}/_{2}''$ á lengd og rúmir $^{6}/_{8}''$ á breidd um miðjuna, en nokkuð breiðari til endanna, þar utan á hafa verið lagðar einskonar trèkinnar, með tveimur rákum að endilaungu, og síðan er þar utan að allt vafið með snúnum og slèttum silfurþræði (vír), sem skiptist á í breiðum köflum. Efra hjaltið er eins lagað og hitt, en allt minna; það er 3″ á lengd; aptan á því er stór hnappur, samsettur af samhliða þremur hnöppum, og er sá í miðjunni stærstur; allt efra hjaltið með hnöppunum hefir verið að mestu leyti hulið með slèttu silfri, og er víða þar á milli smelt inn í flèttíngum eða snúníngum úr silfri, er mynda einskonar hnúta-uppdrátt; á báða vegu, þar sem hnapparnir mætast, eru tveir silfursnúníngar. Brandurinn er $2^{2}/_{8}''$ á breidd upp við hjöltin, og tvíeggjaður, hann virðist að hafa verið alveg slèttur og rákalaus, en þykkvastur í miðju, og þynnist jafnt út til beggja eggjanna. Döggskórinn er úr bronzi og hefir allur verið gylltur; hann er með gegnumhöggnu verki, á hann er myndaður ormur eða dreki, sem vindur sig í tvær bugður, að aptan hefir hann fót með kló og skrúflínu (*spiral*) á lærinu, og halann lagðan fram á milli fótanna. Utan um drekann vefja sig aptur tveir ormar, miklu minni og mjórri; allt þetta er mjög vel gjört. Sverðslíðrin hafa verið innst úr trè, síðan virðist hafa verið sett þar utan um gróft lèrept eða strigi, með einskeptu vígindum (vend) og síðast leður? — Mikið vantar af fremra hluta brandsins, en sjálfur blóðrefillinn er innan í döggskónum, því sverðið hefir legið í slíðrunum.

560. ($^{17}/_{5}$ 68. Síra Sigurður Brynjúlfsson Sivertsen, prestur á Útskálum): Þrjú brot af HJÁLMI, eða stálhúfu; þau fundust loðandi utan á brotunum á höfuðskelinni, höfuðskelin var einnig með stórum ryðblettum. Minnsta brotið er með barði út úr röndinni með nagla í; ekki get eg neitt ráðið af þessum brotum um það lag, sem hefir verið á hjálminum.

560b. 15/7 68. Sami: þrjú hvolfd JÁRNBROT, sem fundust síðar, og eru þau því annaðhvort af sama hjálmi, eða öllu heldur af skjaldarbólu; þau eru alls 4 með barði; mèr virðast þau of kröpp til að vera af hjálmi, enda gat skjöldurinn hafa verið lagður ofan á höfuð mannsins, líkt og títt var, er menn huldu hræ manna; einnig höfðu menn skildina yfir höfði sèr, er menn sváfu, og mun því það sama opt hafa verið tíðkað, er menn voru heygðir.

561. 11/5 68. Sami: HÁRGREIÐA úr smágjörvu beini, hún er húnguvaxin í bakkann og með tönnum annars vegar, tennurnar eru smáar, og styztar í miðju. Utan á hárgreiðuna ofanverða hafa báðum megin verið negldir ávalir okar, eða kinnar úr beini, með gegnumskornum mörgum aflaungum götum, negldir með fjórum járnnöglum, en undir okana báðum megin hefir verið lögð þunn og mjög jöfn málmplata líka til styrktar; upprunalega hefir þessi hárgreiða verið 3" á lengd og 1 3/8" á breidd; hún er nú komin í parta.

562. S. d. Sami: Tvær hálfsívalar KINNAR eða lengjur úr beini 4 2/8" á lengd og 1/2" á breidd, á ávalanum allar grafnar með einkennilegum hnútauppdrætti vel gjörðum, hafa verið negldar á með tveimur járnnöglum.

563. S. d. Sami: Tvær aðrar KINNAR alveg eins, nema hvað naglarnir eru innar eða fjær endunum, og eru þær því naumast samkynja hinum; samt geta þær hafa verið upprunalega jafnlángar hinum, því þar vantar af báðum endum á þeim, en naglarnir hafa ekki getað staðizt á; það er því líklegt að þetta sè kinnar af tveimur tigilknífum, en naumast af einum, því þá hefði naglagötin átt að hafa staðizt á.

564. 15/7 68. Sami: HEINBRÝNI; það hefir verið með gati í endanum, og er brotið um mitt gatið, það

er 3" að miðju gatinu á lengd og $^1/_2$" á breidd, sjá Nr. 9 og 87.

565. ($^{11}/_5$ 68. Sira Sigurður Brynjúlfsson Sivertsen, prestur á Útskálum): AXARBLAÐ úr járni, mjög einfalt en járnmikið, það er $7^2/_8$" frá egg upp á brúnina á skallanum, en $3^3/_8$" fyrir eggina, og $1^2/_8$" á þykkt neðan við augað; skallinn er ferhyrndur, eins og hamarskalli; tveir oddar gánga fram og aptur úr auganu, eins og opt tíðkast enn á axarblöðum.

566. S. d. Sami: HÓFHRÍNGJA úr járni; hún er fyrst slegin í krappan boga og báðir endarnir gjörðir flatir, síðan er ásinn hnoðaður gegnum báða endana; hún er $1^7/_8$" á breidd yfir um ásinn; hún má heita heldur efnislítil; það mun eflaust vera gjarðarhríngja, og sýnir það, þegar maður ber þessa hríngju saman við Nr. 11 og Nr. 809, að það er mjög raung hugsun, að ímynda sèr öll áhöld fornmanna mjög stór, eða stærri en seinna tíðkaðist; það er optast gagnstætt.

567. $^{17}/_5$ 68. Sami: KETILL úr járni í mörgum brotum; botninn er $7^1/_8$" þvert yfir og er negldur á með 14—15 nöglum, og standa höfuðin niður og eru kollótt, en að innanverðu sèst ekkert votta fyrir nöglunum; á katlinum hefir verið breið og þykk hadda, sem er brotin sundur í miðju, hún er hèrumbil 14" milli endabeygínganna, það er vídd ketilsins að ofan; af því sèst og, að barmarnir hafa fláð mjög mikið. Dýpt ketilsins er nokkuð óviss, hann virðist samt að hafa verið heldur grunnur; barmarnir hafa verið öldúngis slèttir. Líka fundust tvöföld brot með hnoðnöglum í, rúmur þumlúngur á breidd; ekki er ólíklegt, að það sè sá hluti af eyrunum, sem hefir verið negldur í ketilbarminn, til að festa þau; þar fundust og fleiri brot, en eg er ekki viss um, hvort þau eru af sama katli, eða þá af öðrum katli?

568. $^{15}/_{7}$68. Sami:

*a*) Fjórir RÓNAGLAR úr járni, þeir lengstu eru 1" milli rónna.

*b*) Stór REKNAGLI úr járni, $2^1/_2$" á lengd.

*c*) þrír litlir JÁRNNAGLAR holir, eða vafðir pípunaglar.

*d*) KENGUR úr járni, $1^6/_8$" á lengd.

*e*) þrír JÁRNNAGLAR með trè utan um og einn hnykktur þar að auki.

*f*) Margir stórir TRÈBÚTAR, sem hafa drukkið í sig ryð, í einum bútnum sjást þrjár beintönnur digrar, líklega úr hárgreiðu, þar sèst og far eptir þrjá, sem hafa dottið burt, um leið og hlutirnir hafa verið teknir upp. Bútarnir eru tæpur þumlúngur á þykkt alls, og virðist að hafa verið neglt þunnt tvöfalt járn, til samans $^1/_4$" á þykkt, með einhverju á milli, utan á þá alla annars vegar, sem sèst greinilegast, þegar maður brýtur af þeim; nagli stendur og í gegnum einn bútinn og bæði járnin. það er valt að ákveða með vissu, af hverju þessir bútar eru, en þó þykir mèr líklegast, að þeir sè leifar af skildi, sem hafi verið „tvíbyrður" með þunnu járni, og að þeir fjórir naglar með rónum sè úr mundriðanum, eða skjaldarfetlinum? Lengd þeirra samsvarar þykkt trèbútanna. Mèr þykja þeir að eins of óvandaðir, sem eg síðar skal tala um.

569. $^{15}/_{7}$68. Sami: FULLORÐINS MANNS BEIN:

*a*) Sjö brot af höfuðskel úr fullorðnum manni.

*b*) Kjálkarnir heilir með öllum tönnum og jöxlum.

*c*) Mjaðmarbein.

*d*) Viðbein.

*e*) Leggur úr upphandlegg 14" lángur.

*f*) Radius $10^1/_4$ } úr framhandlegg.

*g*) Ulna . . . . . } úr framhandlegg.

*h*) Lærleggur 18" lángur að *spina trochanter major*, en 18 1/2" alls[1].

570. 15/7 68. (Sira Sigurður Brynjúlfsson Sivertsen, prestur á Útskálum): BEIN ÚR 10—12 VETRA GÖMLU BARNI:

*a*) Radius.

*b*) Sami úr hinum handleggnum, 7 1/4" á lengd.

571. S. d. Sami: LEIFAR AF HROSSBEINUM:

*a*) Partur af hausnum með 4 jöxlum.

*b*) Sperruleggur, 12".

*c*) Mjaðmarleggur, 10 1/2".

*d*) Framfótar leggur, 8 1/4".

572. S. d. Sami: LEIFAR AF HUNDSBEINUM:

*a*) Aptari hluti af hausbeini.

*b*) Brot af kjálkanum með 4 jöxlum.

*c*) Lærleggur 7 3/4".

*d*) Bógleggur 7 1/2". — Hundurinn hefir verið stór.

## Dysið Nr. II.

573. 17/5 68. Sami: ODDUR AF STÓRU FJAÐRASPJÓTI, eða að eins fremri hluti af fjöðrinni; það hefir verið mjög mikið spjót og tegund af brynþvara; brotið er 7" á lengd og 1 5/8" á breidd efst, það er báðum megin ávalt, en með engum hrygg í miðju, eins og tíðast er á spjótum, en oddurinn er sleginn ferstrendur rúman þumlúng upp eptir, hann er og þykkri en fjöðrin.

574. 15/7 68. Sami: Heil HÖFUÐSKEL af manni, 19 6/8" að hríngmáli yfir um mitt ennið og hnakkann.

## Dysið Nr. III.

575. 11/5 68. Sami: FJAÐRASPJÓTSODDUR brotinn; fjöðrin er 5 3/8" á lengd, þá brotið af oddinum er lagt

---

[1]) Röðlar þeir á beinunum, sem vöðvarnir og sinarnar festast á, eru stórir, og sýnir það, að maður þessi hefir verið vöðva[mikill], hann hefir og verið í stærra lagi.

við, og $1^1/_8$" á breidd, falurinn 5" á lengd og $^7/_8$" á digurð; ryðgað er mikið aptan af falnum, og sjást leifar af skaptinu innan í honum; þetta spjót er einnig ávalt í miðju, og sèst ekkert votta fyrir skörpum brygg á fjöðrinni á því.

576. $^{15}/_7$68. Sami: Lítið brot af KAMBI úr beini, með leifum af tönnum báðum megin; þær eru annars vegar stórgerðar, en hins vegar svo smáar, að 6 af þeim taka yfir $^1/_4$ þumlúngs; ávalir beinokar með skoru í miðju hafa báðum megin verið negldir á miðjan kambinn, með kopar eða bronzinöglum, til styrktar. Óvíst er í hverju dysinu þetta brot fannst.

Öll þessi dys, sem eru alls sjö að tölu, eru fyrir norðan garð á Hafurbjarnarstöðum, sem er fyrir norðan Kirkjuból hið forna, og hafa þau verið sandkafin, en þó hafa þar opt sèst fáein mannabein blásin upp úr sandinum. Eptir útsynníngsveðrin veturinn 1868 blèsu upp þessi dys, og fór þá búandinn á Hafurbjarnarstöðum, Ólafur Sveinsson, að gefa þeim nákvæmari gaum, eptir tilmælum Sira Sigurðar á Útskálum; hann hefir og útvegað mèr hjá fyrnefndum bónda nákvæmari skýrslu um dysin, sem eptir fylgir; eg reyndi að eins að komast eptir því, sem mèr þókti mestu varða, en það var ekki hægt að fá eins ítarlega skýrslu um þessi merku dys, eins og þörf hefði verið á, nema maður hefði verið aðvaraður í tíma.

Stærsta dysið Nr. I, sem flest fannst í, var 7 álnir á lengd og 2 álnir á breidd, og sneri austur og vestur; beinin af manninum og únglíngnum sneru eins og dysið, og lágu í vesturendanum á því (með höfuðin í vestur); hundsbeinin voru við fæturna á þeim, og hestbeinin í austurendanum. Vopnin lágu öll til hægri handar hvert ofan á öðru (þar mun stóra spjótið hafa legið, Nr. 557): sverðið lá næst manninum og öxin þar ofaná, og svo aptur þar ofaná kjaptamèlin og járnhríngjan; af

því sèst, að reiðtygin muni hafa verið lögð eins og til hlífðar ofan á vopnin; ketillinn lá fjærst; þar fundust og 4 hnífkinnar, brot af hjálmi og skjaldarbólu? Leifar af tveimur hárgreiðum, brýni, ókend tönn Nr. 642 og hríngjustokkur,* Nr. 641, og ýmislegt af nöglum, sem áður er um getið; hèr og hvar allt í kríngum beinin var mikið af ryðögnum og ryðugum trèbútum, Nr. 568 (*f*), sem eðlilegt er að hafi hrunið niður allt í kríng um líkin; sè það leifar af skildinum, og hann hafi verið lagður ofan á líkin, eins og eg áður gat til, þá hefir hann smásaman fúnað, og svo hrunið út fyrir beinin, einkum skjaldarröndin, sem var þýngst og járnmest og með flestum nöglum í. Það getur ekki komið til greina, að nein af þeim ryðögnum, eða ryðbútum, sem mèr hafa komið fyrir sjónir, sè leifar af hríngabrynju, því í þeim sè eg hvergi votta fyrir neinum hríng. Aptur á móti er sú tilgáta Ólafs bónda mjög sennileg, að þessi lík hafi verið lögð í skip eða bát, vegna þeirra mörgu ryðagna og rónaglabrota, er þar fundust allt í kríng. Mèr virðast líka rónaglarnir of digrir, og of hroðalega smíðaðir, til þess að þeir sè úr skildi, og þeir eru mátulega lángir til þess að vera úr bát; stóri reknaglinn, kengurinn og hnykkti naglinn geta varla verið úr hlífum, heldur er líklegt, að þeir sè úr bát. Þessi meiníng Ólafs styrkist og af því, að hann fullyrðir, að þetta leiði, eða það stærsta, hafi verið oddmyndað til beggja enda. Hèr verður samt að athuga, að leiðið var að eins 7 álnir á lengd og 2 á breidd; innan þeirra takmarka mundi varla sá minnsti bátur með því lagi, sem nú er haft, geta rúmazt, en þess ber um leið að gæta, að fornir bátar höfðu opt miklu lengri kjöl og styttri lot, en nú er haft; hafi stefnin staðið nærri beint upp, eins og mèr er sagt að hafi áður tíðkazt á bátum Hafnamanna, þá er stærð dyssins að eg held nóg fyrir lítinn bát.

Dysið Nr. II. Það var skammt frá hinu og sneri í landsuður; þar var öllu eins til hagað, maðurinn fyrst, hundurinn til fóta og hesturinn svo í hinn endann; þar fannst heila höfuðskelin Nr. 574 og spjótsoddurinn Nr. 573.

Dysið Nr. III. Það sneri hèrumbil eins og það fyrnefnda; þar var að sögn Ólafs bónda hausinn af manninum settur milli þjóa; þar var og hundur, en enginn hestur; þar fannst spjótið Nr. 575. Dysið var 4 álnir á lengd og 2 álnir á breidd; en hvernig endarnir á þessum 6 dysjum voru lagaðir, er því miður ekki skýrt tekið fram. Líklegt er, að þetta hafi verið verkmannsdys.

Dysið Nr. IV. Það var og með mannsbeinum og hestbeinum, og ef til vill með hundsbeinum (?), en þar fannst ekkert annað.

Dysið Nr. V—VII. Þau voru eins, og með samskonar beinum og beinabrotum, fáeinum, en engar höfuðskeljar sáust í þeim, og í þeim fannst ekki heldur neitt af vopnum eða járni. — Dysið Nr. I var það einasta, sem sneri rètt austur og vestur; utan um hvert dys var hlaðið grjóti og hellublöð lögð ofan á, og mun svo hafa verið mokað að sandi eða þakið grassverði. Öll dysin voru svo að kalla alveg ofanjarðar og uppblásin úr sandinum. Ólafur bóndi segist hafa leitað svo á þessu svæði, að þar muni varla geta dulizt fleiri dys[1].

Mèr virðist alveg óþarft, að fara mörgum orðum um aldur þessara hluta, og vil að mestu láta mèr nægja að vísa mönnum á það, sem eg hefi áður sagt í fyrri skýrslunni minni um þau helztu einkenni á fornum dysjum, sjá 27. og 49.—50. bls. Hver sá, sem hefir

---

[1]) Sá gyllti silfur-handhríngur, sem getið er um í Baldri 1. ári Nr. 6, að fundizt hafi fyrir mörgum árum síðan á þessu svæði, og sem var með upphleyptu krossmarki, er eflaust af allt annari rót og miklu ýngri.

sèð sverð og vopn frá 10. öld og byrjun 11. aldar, og ber þau saman við hjöltin og knappinn aptan á þessu sverði, sem hèr fannst, og ormamyndirnar á döggskónum á því, hann getur gengið úr skugga um það, að þessir hlutir sè að minnsta kosti svo gamlir; sama er og að segja um hárgreiðurnar og hnútagröptinn á hnífskinnunum, það getur því ekki komið til nokkurra mála, að þetta sè dys þeirra Kristjáns skrifara og hans fylgjara. Það liggur í augum uppi, að ef þessi maður, sem hèr var grafinn, hefði verið haldinn óbóta eða sakamaður, þá hefði menn ekki lagt í gröf með honum slíkt dýrindis sverð, því sverð voru hèr á landi allt of dýr og heldur sjaldgæf, þó minna væri skreytt, en þetta er; menn hefði varla heldur tímt að leggja í gröf hjá óbótamanni meira en alvepni hans, en hèr faunst auk sverðsins: spjót, hjálmur, leifar af tveimur hnífum, leifar af skildi (?) og þar að auki öxi, sem líklega hefir verið vopn únglíngsins, því axir voru einkum þeirra vopn. Einnig eru hèr hárgreiðurnar of vandaðar, til þess að menn hefði lagt þær í gröf með óbótamanni; brýni, ketil, hund og hest með öllum reiðtýgjum hefði menn aldrei heldur lagt í gröf hjá manni, sem menn hefði viljað fara með eins og einskonar óbótamann, allra sízt á 16. öld, og naumast í fornöld eptir 1000. Hefði hèr verið grafnir óbótamenn, og hundar og hestar lagðir í gröf með þeim til háðúngar, þá hefði þeir naumast verið lagðir með svo fastri reglu við fætur líkanna, eins í öllum dysjunum, heldur mundi þeim hafa verið fleygt reglulaust einhverstaðar hjá þeim, eða helzt ofan á þau. Allt fyrirkomulag stóra dyssins og lag vopnanna ber það með sèr, að hèr hefir verið grafinn einhver höfðíngi með syni sínum, og líkast til einhver af landnámsmönnum[1]. Vopnin sýna, að það hefir

[1]) Nafn bæjarins, sem dysin eru hjá, bendir til, að hèr hafi verið grafinn Hafur-Björn Molda-Gnúpsson, sem skygnir menn sáu,

verið heldri maður; hefði hann verið kristinn og dáið meir en fám árum eptir 1000, þá hefði engum liðizt að grafa hann svo hroðalega eptir heiðnum sið, með hesti og hundi, kambi og katli, og öllum þeim verkfærum og einkennum, sem heiðnir hermenn áttu jafnan að hafa með sèr til Valhallar, og sem nauðsynlegast þókti að hafa með sèr í lífinu; því einmitt þessir hlutir benda á þau fornu hermanna heilræði, sem talin eru í Sigurðarkviðu II., 25.:

Kemðr ok þveginn
skal kœnna hverr,
ok at morgni mettr;
þvíat ósýnt er
hvar at apni kemr
illt er fyr heill að hrapa.

og í Hávamálum 38:

Vápnum sínum
skala maðr velli á
feti gánga framar;
þvíat óvíst er at vita,
nær verðr á vegum úti
geirs um þörf guma.

sbr. Sigrdrífumál, 34. Þessum heilræðum fylgdu fornmenn í lífinu, og eins vildu þeir fylgja þeim dauðir á helveg og í Valhöll; þángað átti að hafa allt með sèr, sem hafa þurfti. Að leggja menn dauða í skip með hundi og hesti, eins og hèr virðist að hafa verið gjört, var og mjög eðlilegur heiðinn siður; því sjálfur guðinn Baldur var brendur í skipi og með honum hestur hans, og þaðan mun sá siður hafa uppruna sinn, enda segir í Gylfaginníng, að Einherjar riðu dag hvern frá Valhöll

---

að allar landvættir fylgðu til þíngs, en bræðrum hans til veiða og fiskjar, sbr. Landnámu 271. bls. Þó er þetta að eins laus tilgáta.

til víga, og svo heim aptur, sbr. Vafþrúðnism. 41. og formála Heimskrínglu. Líklegt er, að menn hafi víða í Norvegi verið lagðir í skip, einkum þar sem lítið var um hesta, en aptur á móti mun hestur hafa verið lagður í haug með flestum frjálsum mönnum hèr á landi, því hèr var meira til af hestum. En ríkir menn munu opt hafa verið heygðir bæði með skipum og hesti, að þeir gæti hvort þeir heldur vildi, siglt eða riðið til Valhallar. Hèr virðist að hafa verið forn grafreitur, líkur þeim hjá Kálfborgará.

577. 15/5 68. Lárus Benediktsson prestur í Selárdal: Gylltur SILFUR-FÍNGURHRÍNGUR með drifnu verki og kornsettur, brotinn, fannst í Selárdals kirkjugarði 1867.

578. 25/5 68. Húsfrú Hólmfríður Þorvaldsdóttir í Reykjavík: KVENNLÖF blá með svörtum, gylltum, rauðum og hvítum líberíborðum; það eru lausir boðúngar, fastir saman aptan á hálsinum, en bundnir að neðan aptan á bakinu, og kræktir að framan; þeir voru optast með áföstum kraganum við. Þessi löf báru konur undir hempunni á næstliðinni öld og fram yfir aldamót, af því þeim þókti of heitt og óþarfi að bera treyju heila í bakið undir hempunni, enda leit þetta út öldúngis eins og treyja, þegar þær voru í hempu. Það mun lúta til þessara lafa, sem segir í „Hofróðulýsíng", ortri af Sira Þorsteini Jónssyni á Dvergasteini, sem var þar prestur 1769—1800. Í 11. vísu segir svo:

Vírgrindurnar klæða kraga,
klárt af gulli verk er það,
*glæsibríngur* líka laga,
lenda þær í mittis stað,
ermaknappar utan baga
á örmum hánga stássleger;
*falska mynt slær fræktin ber.*
Flosborðarnir hempum haga,

þó hundrað kosta eigi;
*mart hugsar maðurinn, þó hann þegi.*
Líberíborðarnir munu vera komnir upp á dögum Loðvíks 14., sem ríkti 1643—1715; því þá kom fyrst upp *Líberí* (einkennisföt þjónustusveina hjá stórmennum). Líberíborða er ekki getið í elztu töxtum, frá 1619, 1684 og 1702.

579. S. d. Sama: Svört HÖTTKÁPA mjög einkennileg, sjá Nr. 652 hèr á eptir.

580. 9/6 68. Bjarni E. Magnússon sýslumaður í Vestmannaeyjum: MYND AF einhverjum HELGUM KONÚNGI, sem ber kórónu á höfði, og er í kyrtli með hálfermum víðum að framan, og opnum að framan nærri niður að belti; kórónan virðist upprunalega að hafa verið öll gyllt, og eins er sýnt gullhlað allt í kríng um hálsinn, og niður með klaufinni á brjóstinu og framan um hálfermarnar, og allt í kríng að neðan. Myndin er skorin úr eik.

581. S. d. Sami: MYND AF óþekktum HELGUM MANNI, skorin í eik; hann er berhöfðaður, með sítt hrokkið hár og lángt skegg, í síðum kyrtli heilum á brjóstinu með víðri höfuðsmátt, með gylltu hlaði kríngum. Kyrtillinn er að neðan klofinn á vinstri hlið upp á mitt lær, og er gylltur knappur efst í klaufinni, og gyllt hlað virðist að hafa verið allt í kríng á kyrtlinum að neðan og upp með klaufinni; á fótunum ber hann víðar ökulbrækur, sem ná niður á mjóalegg, með gylltu hlaði að neðan, þær eru styttar upp um miðjan kálfann með bandi, sem bundið er utan um þær; hann er berfættur; yzt ber hann stóra og víða kápu (*toga*); á seinni tímum hafa þessar myndir verið mjög illa málaðar með olíulit, og er því mjög örðugt að sjá, hver litur hafi verið á klæðunum upphaflega, þó held eg helzt hann hafi verið enginn annar en sjálfur eikarliturinn, nema gyllíngin á hlöðunum. Báðar myndirnar eru stórum brotnar. Þær

eru báðar úr Landakirkju í Vestmannaeyjum, sjálfsagt frá katólska tímabilinu.

582. $^{28}/_{6}$68. **Þorsteinn Jónsson**, læknir í Vestmannaeyjum: GAGNSKORIN FJÖL með hnútaverki, olíumáluð, mjög haglega gjörð; hún er líklega úr milligjörð milli kórs og kirkju, og virðist að hafa legið þversum ofan á pílárunum; því þrjár aflángar holur eru neðan í hana fyrir efri endann á þeim. Hún er úr sömu kirkju.

583. S. d. **Sami**: Gagnskorinn PÍLÁR úr sömu kirkju, olíumálaður.

584. S. d. **Sami**: 5" breiður STEINBOLLI, fundinn í Vestmannaeyjum í hól við bæjarbygging fyrir c. 33 árum. Þegar hann fannst, var hann með áföstu steinskapti með krók á endanum, er síðan brotnaði af. Til hvers þessi hlutur hafi verið hafður, er mèr óljóst, mèr hefir dottið í hug, að það hefði getað verið ljósakola, eða deigla (?); önnur lík fannst nýlega fyrir austan.

585. $^{6}/_{7}$68. **Jón Árnason** bóndi á Víðimýri: ATGEIR; á honum hefir upphaflega verið falur, líkt og á spjóti, sem skaptið hefir verið rekið inní, og þar utan á negldar tvær spángir, sem hafa gengið lángt upp á skaptið; um spángirnar hefir atgeirinn brotnað, þegar hann hefir týnzt; hann er 13" alls upp að skapti, spjótið fram úr honum er 9", það er flatt efst, en 4" fremst er ferstrendur broddur. Öxin var að mestu brotin af, því hún hefir verið þunn. Á móti henni, í staðinn fyrir skalla, er boginn broddur 3" lángur með tveimur stuttum oddum eða agnúum fyrir aptan. Alveg eins lagaðir atgeirar sjást myndaðir á íslenzkum myndum frá 15. öld, og mun hann því vera frá þeim tíma. Hann fannst í slèttu mýrarsundi á Vatnsskarði, sem er milli Skagafjarðar og Húnavatnssýslu, um 10" niðri í jörðu af gefandanum og tveimur öðrum mönnum, er verið var að gjöra brú á veginum yfir skarðið, vestan megin mels þess, sem er efst á svo kallaðri Kirkjubrekku.

586. $^{8}/_{7}$68. Haraldur Briem, bóndi á Rannveigarstöðum í Álptafirði: VOPNHNÍFUR eða STIKKHNÍFUR tvíeggjaður; blaðið er 6 þuml. og $^{1}/_{8}$ á lengd, öldúngis slètt annars vegar, en með hrygg annars vegar; hann er með krínglóttri plötu $1^{1}/_{4}$ þuml. breiðri fyrir hjölt, sem er beygð framávið þeim megin, sem að manni snýr, ef hnífurinn er hengdur við beltið. Skaptið er slètt úr járni og sívalt, 4 þuml. lángt og með eins járnplötu að aptan (sjá nr. 180). þessi hnífur virðist vera frá sama tíma, en þó getur hann verið nokkuð eldri; hann fannst ofanjarðar í svo nefndum Tyndíngshól í Hálsum á Hofs-afrètt í Álptafirði vorið 1864.

587. S. d. Sami: HNÍFSBLAÐ eineggjað, með koparöxlum að ofan og tánga, hefir verið vandað, fannst 1865 í moldbakka við lækjarfarveg; þegar það fannst, var á því sívalt skapt, fúið, og sást á því lítill vottur af ryðguðum járnhólk að framan.

588. S. d. Hallur Ásgrímsson nýlendustjóri við Friðriksvon á Grænlandi: GRÆNLENZKUR GAMMI, með flestum þeim áhöldum, sem Grænlands saga Sigurðar Breiðfjörðs getur um að í þeim sè.

589. S. d. Sami: GRÆNLENZKUR HÚÐKEIPUR (konubátur) með öllum áhöldum, 4 árum og 4 brúðum af grænlenzkum konum í grænlenzka þjóðbúníngnum, með öllum þeim breytíngum sem sama saga getur um á konum, stúlkum og ekkjum.

590. S. d. Sami: GRÆNLENZKUR KAJAK (nefnilega karlmanns húðkeipur) með einni tvíblaðaðri ár, eins manns far með öllum veiðarfærum og áhöldum, eins og Sigurður lýsir honum í sömu sögu; í húðkeipnum situr Grænlendíngur skinnklæddur. — Í fljótu áliti kann mörgum að virðast, eins og það eigi ekki við, að hafa slíkt í íslenzku forngripasafni; en við verðum að gæta þess, að fornsögur vorar lýsa þessari þjóð fyrir því nær 1000 árum, með sömu áhöldum og líkum búníngum, og hèr

eru sýndir, sjá Eiríks sögu rauða, þorfinns sögu karlsefnis, Flóamanna sögu o. fl., og virðist því beinlínis eiga við, að hafa lítið sýnishorn af búníngum, bátum, húsum og helztu verkfærum þeirra eptir þá sjálfa, til leiðbeiníngar þeim, sem lesa þær sögur.

591. 9/7 68. Guðmundur Pètursson bókbindari á Minna-Hofi á Rángárvöllum: Gamall REIÐABÚNÍNGUR úr kopar frá karlmanns söðli; í miðju er stór kringlóttur skjöldur, allur útgrafinn með hríngrósum með hálf býzönskum blöðum og dýrahöfðum, mjög vel gjört. Allt í kríng er grafið með latínuletri: *Ellendvr, ásmvnds, son*[1], *á, þennann, reiða, enn, einginn, annar*, *1639*. þar út frá hafa gengið tvær ólar með tveimur koparlaufum eða spælum á endanum, á öðrum eru tvö dýr, sem smjúga gegnum rósir, í sama stíl og á skildinum, á hinum eru tvö ljón, bæði með sama höfði (flatt ljón) og samslags rósir; stokkarnir, sem halda hríngjunum í báðum endum á volkanum, eru gjörðir alveg í hreinum býzönskum stíl, annar með hríngrósum, en hinn með hestmynd, er smýgur gegnum rósir; hann virðist eldri en hinn. Auk þessa eru 9 ferhyrndar doppur, allar útgrafnar, sem hafa verið 3 fyrir framan skjöldinn, en 6 fyrir aptan. Rósirnar á þeim sumum eru í gotneskum stíl, sem bendir á, að allur reiðabúníngurinn sè ekki jafngamall, sem líka sèst af því, að á öðrum sprota-endanum, sem hefir verið að aptan, er ártalið 1620. Allt leðrið er fúið undan reiðanum. Hann fannst fyrir neðan svo kallaðan Hásand, milli Hofs og Reyðarvatns á Rángárvöllum. Af þessu má sjá, að reiðar á karlmanns söðlum hafa verið í þá daga nærri því eins og kvennreiðar, og hèrumbil eins

---

[1]) Þetta mun eflaust vera nafn Erlendar Ásmundssonar sýslumanns, er bjó á Stórólfshvoli, † 1640; hann var faðir Katrínar ríku á Hvoli.

stórir og viðhafnar-miklir. Reiðinn nr. 285 virðist líka að vera karlmannsreiði.

592. S. d. Sami: KJÁLKAKÚLA af beizlisstaung úr kopar, með nafndrætti Friðriks konúngs 5.; frá Vomúlastöðum í Landeyjum.

593. S. d. Sami: MELLULÁS-LYKILL (?) úr bronzi; hann er með ferstrendu gati fremst á pípunni, til að þrýsta saman mellunum á standinum, og 4 skörðum, hèrumbil jafnstórum, utan í randirnar að framan, sem aptur virðist vera gjört til að þrýsta sundur öðrum mellum innan í lásnum. Eg hefi sèð annað verkfæri mjög líkt, en margbrotnara, og get eg ekki heldur skilið að það geti verið annað en lykill. Þessi lykill fannst á söndunum vestanvert við Grafarnes, eyðijörð á Rángárvöllum.

594. S. d. Sami: Lítill PARASTOKKUR, skorinn með höfðaletri.

595. S. d. Sami: BELTISPÖR úr prinsmetal, grafin, sem fátækar konur báru á næstliðinni öld og framan af þessari, ásamt svuntuhnöppum úr sama efni, sjá nr. 733 hèr á eptir.

596. 11/7 68. Sæmundur Guðmundsson í Hrólfstaðahelli: Forn BRODDSPORI eða oddur úr járni; hann er öldúngis beinn, með sívölum broddi aptur úr, sem verður digrari, og ferstrendur aptast, líkt og stafbroddur. Ofan á öllum boganum, sem leggst aptan á hælinn, og eins að utanverðu, eru lóðaðir látúns-snúníngar, sem enda í koparspaða, sem hafa verið á báðum endum, þeir hafa verið með tveim götum með járnnöglum í, sem hafa verið hnoðaðir gegnum ólina, sem gekk yfir um ristina og undir ilina, þegar menn spentu sporann á sig; annar spaðinn er nú dottinn af. Hèr geta menn nú sèð báðar hinar elztu sporategundir, sjá nr. 308. Þegar menn íhuga lag þessara spora, þá geta menn vel skilið, að hægt var að gefa stóran áverka með

þeim, eins og t. d þegar Oddkell reið upp á Gunnar á Hlíðarenda, og eins þegar Vilhjálmur Bastarður rak frú sína í gegn með sporanum, sem eflaust hafa verið broddsporar. Sporinn fannst fyrir sunnan þingskála ofanjarðar á moldum 1867, broddurinn lá kvartilsbil þar frá.

597. (11/7 68. Sæmundur Guðmundsson í Hrólfstaðahelli): METASKÁLALÓÐ (?) fornt úr kopar, líklega fyllt með blýi; það er hnöttótt með flatveg ofan og neðan, og eru 12 krínglótt augu allt í kríng á flatvegnum, en eitt í miðju; það vegur rètt 1$^3/_4$ lóð eptir silfurvigt; það fannst nálægt sama stað og sporinn, á sama ári.

598. S. d. Sami: Lítil MYND AF HELGUM MANNI úr kopar, óvíst af hverjum, með silfurnagla á baka til; hún hefir líklega verið negld á eitthvert kvennsilfur.

599. S. d. Sami: Lítill SVUNTUHNAPPUR úr prinsmetal, grafinn með laufavið.

600. 13/7 68. Keyptur gripur: SKARÐHÚFUHNAPPUR gylltur úr silfri, að austan, hann er með einskonar loptverki með upphleyptu blómi í miðju, fjórblöðuðu; þar innan í eru aptur 8 smáblöð og fræknappur, utan um hnappinn er ferhyrndur snúníngur; hnappurinn er mjög vel gjörður. Það er áreiðanlegt, að þessi hnappur var síðast hafður í skarðhúfu, sem var til fyrir skömmu með hnappnum í; en óvíst er, að þessi hnappur eða skjöldur hafi upprunalega verið gjörður til þess, að hafa hann í skarðhúfu; því hann er líklega frá 16. öld, og gat því eins vel hafa verið t. d. möttulskjöldur. Á skarðhúfu þeirri, sem sýnd er í ferðabók Eggerts Ólafssonar, eru þrír laufaprjónar á framanverðri húfunni, nældir á sama hátt og þeim var opt nælt í faldinn á fullorðnum konum, til að festa hann.

601. 8/7 68. Sira Sveinbjörn Guðmundsson á Krossi: Lítil SYLGJA (?) úr bronzi, þornlaus, fannst nokkuð djúpt í jörðu austur í Landeyjum, sjá nr. 246 og 803 hèr á eptir.

602. 24/7 68. Sigurður Guðmundsson málari í Reykjavík: TRAFAKEFLI, og er skorið með höfðaletri og latínuletri á það: *kvenn*, *maður*, *þetta*, *kèlf*, *eð* (= kefleð) *a*, *kæz* (= kærst) *miez*, (= mjer) *allt i af* (= allt af)[1] *þotte*, *Solveig*, *góð*, *eg*, *so*, *skal*, *tia*, *su*, *er*, *runolfs*, *dotter* *16901* (= 1691).

603. S. d. Sami: PRJÓNASTOKKUR áttstrendur, allur útskorinn, með ártali 1793.

604. 29/7 68. Páll Pálsson stúdent í Reykjavík: Gömul SPJÖLD AF ÞORLÁKSBIBLÍU, látúnsbúin á hornum og miðju.

605. S. d. Sami: MALARI (*Löber*) til að melja liti; þann hefir átt lærði Bjarni eða Bjarni djöflabani á Knerri í Breiðuvík.

606. 3/8 68. Björn Halldórsson prófastur í Laufási: RÚMSTOKKUR með útskornum bríkum. Á höfðabríkinni er útskorinn maður, sem miðar til hæfis á fugl með byssu; hann er í einhneptum rauðum *rokk* (eða frakka)[2] kragalausum, með eugum uppslögum, hvítt parruk á höfði, hann er í hvítum sokkum með svarta skó á fótum, háhælaða; í kríngum manninn er rós, og situr fuglinn á einni grein rósarinnar. Á fótabríkinni er rós, með *IhS* innan í. Á stuðlunum er laufaviður og efst haglega skorin höfuð. Ófaná fótabríkarstuðlinum er mannslíkneski, í líkum búníng og hinn, nema hvað hann

---

¹) Sbr. *voniar* (= vonar) á rúnasteini á Grenjaðarstað.

²) Sbr. kvæðabók Eggerts Ólafssonar 124. bls.:

„bissa skrýll á *rauða rokkinn*
rekur augun bæði".

sbr. i Grímseyjar vísum sira Guðmundar Erlendssonar á Felli 1634—1670:

„*rokkfreðinn* og rennvindandi
reikaði' eg fyrstur heim frá sæ",

[Þar mun þó rèttara að lesa *rígfreðinn*, eins og kvæðabók sira Guðmundar hefir, sem kölluð er Gígja. *J. S.*]; sjá Nr. 666.

hefir uppslög á ermum, vasalok að framan og þverspennur frá efst til neðst að framan á frakkanum, og fjórar að aptan; á höfðinu ber hann eins og teníng, sem sparlakssláin og þversláin hefir verið negld í; á hlið teníngsins, sem snýr að höfðagaflinum yfir enni þessa líkneskis, er skorið *ano 1746*, og er rúmstokkurinn með öllu tilheyrandi líklega frá þeim tíma; að líkindum hefir líkt líkneski verið við höfðagaflinn, og hefi eg að minnsta kosti heyrt getið um fleiri rúm á Norðurlandi, þar sem manns líkneski stóðu undir sparlaksslánni á báðum endum; er ekki ólíklegt, að sum rúm hafi haft fjögur líkneski, sitt á hverju horni, eins og tíðkaðist í útlöndum. Vanalega hafa rúm hèr á landi á 17. og 18. öld staðið upp að þiljum, sem bezt sèst af rekkjureflunum, sem eru venjulega 6 álnir á lengd, en 1 al. til 1 al. og 5 þuml. á breidd, af þeim hefi eg alls sèð 7, eru þá ætlaðar 3 fyrir frambliðina, en $1^1/_2$ fyrir gaflana, en ekkert fyrir upphliðina; líka benda sparlökin eða *ársalirnir*, sem þar hèngu niður frá, á líkt fyrirkomulag, þeir voru opt í fernu lagi, tveir að framan, til að draga sundur, og einn fyrir hvorn enda, en ekkert er ætlað fyrir upphliðina. Slíkan ársal hefi eg sèð, sem mun hafa verið frá 15. öld. Í Karlamagnúsar sögu kap. 542 er getið um pílár á sæng, sem bendir á, að líkt fyrirkomulag hafi þá verið haft á sængum, er sagan var rituð. Hæð rúmsins upp að sparlakksslá er 2 ál. 13 þuml., en frá rúmbrík 1 al. 5 þuml., en hornstuðlarnir eða sængur-pílárarnir þar fyrir ofan, sem rekkjurefillinn var beygður utan um, hafa verið frá 1 al. til 1 al. 5 þuml. Eptir því verður rúmhæðin alls eptir breiddinni á þeim rekkjureflum, sem safnið á, 3 al. og 13 þuml. til 3 al. 18 þuml. alls; eg get ímyndað mèr, að sumir menn vili segja, að þessi rúmtjöld, sem eg kalla hèr rekkjurefla, sè sparlök, en ekki rekkjureflar, og að þau hafi verið hengd allt í kríng um rúmin rètt fyrir neðan sparlaksslána, en ekki fyrir

ofan, því breiddin er nóg til þess, en þess ber að gæta, að það fyrirkomulag yrði mjög óhentugt, að draga allt sparlàkið, $4^{1}/_{2}$ alin, nærri því frá enda til enda, til að komast upp í rúmið, í staðinn fyrir einúngis að draga það í sundur frá miðju út að báðum endum. Eins er það lítt hugsandi, að þessir reflar hafi verið hafðir innan á báðum göflum rúmsins og á baka til. Í skiptabrèfum er jafnan gjörður munur á rúmtjöldum, sparlökum, sparlaksbrúnum og gardínum; því það er allt sitt hvað, sbr. skiptabrèf gjört að Máfahlíð 1726 á dánarbúi Margrètar Sæmundardóttur. Fyrst eru talin 3 sparlök, þar næst eru talin 5 rúmtjöld af glitsaum og 5 öðruvísi, þar næst er talin „sparlaksbrún af flamskum vefnaði, 6 álnir með fölum silfurkögri". Hèr er sparlaksbrúnin jafnlaung og rúmtjöldin eru vanalega, og bendir það á, að þau hafi verið höfð á sama hátt og brúnirnar, sbr. skiptabrèf yfir dánarbú Gísla Jónssonar í Máfahlíð 1715: „gardínur og vængjasparlök ... rúmtjald af glitsaum, 7 álnir að lengd". Þetta gat allt hafa verið á sama rúmi, með gardínunum beggja megin til hliðanna að framan. Þetta lítilræði sýnir, hversu aum söguþekkíng vor Íslendínga er um vort eigið land, að maður skuli ekki með vissu geta vitað, hvernig fyrirkomulag á rúmum hefir verið á næstliðinni öld; hvað mundi þá verða, ef ætti að lýsa siðum manna á fyrstu öldum?

607. ($^{3}/_{8}$ 68. Björn Halldórsson prófastur í Laufási): Tvö LJÓN skorin í eik, mjög haglega gjörð; þau halda á milli sín í báðum framklónum skildi; á skjöldinn er markaður sívalur turn úr steini, með tveimur gluggum krínglóttum að ofan, sem tvö ljón hlaupa út um. Turninn hefir keilumyndað spónþak og lítinn varðturn með glugga út úr annari hliðinni ofar en á miðju. Ekki hefi eg fundið þetta skjaldarmerki í útlendum skjaldarmerkjafræðisbókum; myndin er alls 1 al. 22 þuml. á breidd, hún hefir verið frá ómunatíð yfir bæjardyrum í Laufási.

Eptir lagi skjaldarins að dæma, þá mun hún vera frá 16. öld, heldur en frá 15. þess má geta um leið, að á Skarði á Skarðsströnd var eigi alls fyrir laungu, eða eptir 1800, að margra áreiðanlegra manna sögn, skjaldarmerki Bjarnar ríka yfir bæjardyrum. þetta mun þá hafa verið alltítt hèr á landi.

608. $^{3}/_{8}$68. Halldór prófastur Bjarnarson á Sauðanesi († 1869): DRYKKJARSTÚTUR (eða brennivínshorn) með silfurstút, haglega skorið með hnútarósum og fuglamyndum í hálf-býzönskum stíl; þessi gripur var fyrst, er menn vita, í eigu Nicolásar Bucks, er bjó á Laxamýri og lifði eitthvað lítið fram á þessa öld, en það er mælt að tengdafaðir hans, Björn kaupmaður Thorlacius í Húsavík, muni þar á undan hafa átt hornið.

609. S. d. Björn prófastur Halldórsson í Laufási: LYKLAHRÍNGUR mjög einfaldur, sem maður getur lokið upp; hann er með innsigli með stöfunum *R. B. D.* og rós fyrir ofan og neðan fángamark Ragneiðar Bjarnardóttur frá Lómatjörn, sem var fertug um næstliðin aldamót.

610. S. d. Sami: SKINNBLAÐ í *folio* með latínu: Lucas 8, 4 o. s. frv.

611. S. d. Sami: SKINNBLAÐ fornt, sem vantar á að ofan og annars vegar, með nótum og latínusaung.

612. S. d. Sami: SKINNBLAÐ í *folio* fornt með nótum og latínusaung.

613. S. d. Sami: KIRKJULUKT (ljósberi) úr trè, með glerrúðum á hverri af 4 hliðum og snúnum súlum á hverju horni í býzönskum stíl; upp af luktinni er gagnskorinn snúinn toppur, sem endar í hnúð, sem kengur úr járni er rekinn ofan í með hríng úr járni. Luktin er Laufáss kirkju eign, og er hennar getið frá því á ofanverðri 17. öld, eða fyrst í úttekt 1676, en í visitazíu sinni 1701 kallar Björn biskup hana gamla.

614. S. d. Sami: TRAFAKEFLI skorið úr birkitrè;

það er með gagnskorinni bryggju að ofan, rósum og drekahaus, á það er skorið með höfðaletri: *gleðie*, *iðvr*, *gvð*, *dóms*, *friðrv*, (= friður) *gleðie*, *mál*, *og*, *sinn*, *gledie*, *brióst*, *leint*, *og*, *lióst*, *lifan*(d)*i*, *g*(uð), *f*(aðir?), *I. H. S.*

615. S. d. Halldór Bjarnarson prófastur á Sauðanesi: REKKJUREFILL með marglitum ísaum á hvítt hörlèrept; á honum eru 8 sexhyrníngar tengdir saman með smærri ferhyrníngum; innan í öllum sexhyrníngunum eru sýnd trè, sem tvær dúfur sitja á og snúa flestar saman nefjum, eins eru víðast á milli sexhyrnínganna að neðan tvær dúfur, sem báðar halda með nefinu í sama blóm. Þetta er mjög skáldlegt, því dúfan er ástar og sakleysis einkenni, og trèð og blómið, sem hèr er sýnt, mun eiga að tákna lífstrè eða lífsblóm, sem báðar dúfurnar njóta sameiginlega. Þetta bendir á, að refillinn sè ætlaður um hjónarúm, að ofan og neðan er saumað með bandaletri: *standið*, *upp*, *Kristii*, *börninn*, *bliið*, *birter*, *sig*, *morgun*, *stiarnann*, *friið*, *listileg*, *ástar*, *liós*, *hvn*, *er*, *lioma*, *vmm*, *allann*, *heiminn*, *ber*, *Klár*, *morgvn*, *stiarna*, *kom*, *þú*, *sæl*,. Á endanum er laufaviður með þremur blöðum í hverjum bug, líkustum smáralaufum, Nr. 160 og 161 er líka með 9 og 8 hríngum og rósum eða trjám innan í með dúfum; það fyrra hefir þriggja þuml. breiðan bekk ósaumaðan að neðan, en það síðara 6 þuml., en Nr. 615 og Nr. 337 hefir ekkert ósaumað að neðan. Til hvers sá bekkur hafi verið hafður, er óvíst, allrahelzt vegna þess, að hann er líka hafður á kirkjureflunum. Varla gátu neðri tjöldin hafa gengið að utanverðu upp á reflana, því þá yrðu að sjást göt í þá neðanverða fyrir tjaldsnaglana, enda munu neðri tjöldin ætíð hafa gengið upp undir reflana, eins og altarisklæðin jafnan gánga upp undir altarisbrúnirnar, og hafa þau því tíðum ósaumaðan bekk að ofan, eins og Nr. 404; eg held því, að þessi bekkur hafi einúngis verið hafður til skilmerkilegrar aðgreiníngar milli refilsins

og tjaldanna eða dúkanna[1], sem voru þar fyrir neðan, hvort heldur sem var á veggjum eða rekkjum.

616. $^{3}/_{8}$ 68. Keyptur gripur: LAUFAPRJÓNSHNAPPUR(?) með víravirki, vel gjörður; á honum er krossmark með Jóhannes og Maríu fyrir lauf, og standa þau á bust, sem er gjörð í gotneskum stíl; þar niður af eru þrjú lauf; prjónninn virðist að hafa verið klipptur sundur í miðju, og síðan beygður fótur á hnappinn úr því, sem eptir var, til að nota hann fyrir svuntuhnapp.

617. S. d. Keyptur gripur: Ein TALA úr hálsfesti, hnöttótt með víravirki úr silfri.

618. $^{9}/_{8}$ 68. Guðríður Einarsdóttir í Reykjavík: Tveir HEMPUBORÐAR flosaðir með hjartarstreng, vandaðir.

619. $^{12}/_{9}$ 68. Jómfrú Anna Maria Jónsdóttir („Danielsen") í Reykjavík: Fjögur KÁLFSKINNSBLÖÐ í 8 blaða broti, á einni spázíu er ritað með fljótaskript: „1537 mínum góðum vin Jóni Illuga svnj kiærliga tilskrifað". Blöðin eru því eflaust töluvert eldri en þetta ártal og líklega frá 15. öld eða byrjun 16. aldar, sem höndin bendir á. Þar er á: *„ein játning"* eða skriptainngángur, *„ein góð bæn"*, sakramentisbæn eða því um líkt, sem vantar aptan við; allar bænirnar eru á íslenzku, og sýnir það, að ekki voru þá allar bænir á Latínu.

620. S. d. Sama: BIBLÍUKJARNI. Hólum 1744.

621. S. d. Jón Hjörtsson prestur á Gilsbakka: Lítil SALTSKEIÐ eða teskeið úr silfri með snúnu skapti og slèttum hnappi aptan á.

622. $^{9}/_{8}$ 68. Þorsteinn Þorsteinsson snikkari á Upsum: Tvö SKINNBLÖÐ í tvíblöðuðu broti (*folio*) með tveim dálkum, með ágætri hendi frá 13. öld. Skorið

---

[1]) orðið tjald hefir almenna merking, en aptur á móti eru orðin: reflar, borðar, brúnir og dúkar einskorðaðrar merkingar, sjá Nr. 405.

er ofan af báðum blöðunum, upphafsstafirnir eru rauðir og grænir; á blöðunum er sumpart latínskur nótnasaungur, sumpart dæmisögur úr Nýja Testamentinu, á 1. bls. Matth. 25, 14, nær aptur í 23. vers, á síðustu bls. Matth. 13, 44—52.

623. S. d. Sami: Tvö SKINNBLÖÐ í áttblöðuðu broti (*octav*) frá 14. öld; annað blaðið er heilt, en skorinn nær því helmíngur utan af hinu; fyrri síðan af heila blaðinu byrjar á „*Vulgata*", Reg. III, 17, 8.; í síðustu útg. íslenzku biblíunnar fyrri Konúnganna bók 17. kap. 8. v., á aptari síðunni er haldið áfram til enda 16. vers, þá kemur Matth. 23. kap. 1. v., blaðið endar í 8. versi.

624. S. d. Sami: Tvö SKINNBLÖÐ í litlu fjórblöðuðu broti, frá 14. öld; þau eru úr Davíðs sálmum, „Vulgata psalm." 104, 10; í ísl. biblíunni 105, 10. Síðari síðan endar á „Vulgata ps." 104, 46.; ísl. biblía sálm. 105, 45. Fyrri síða hins síðara blaðs byrjar á „Vulgata ps." 106, 16.; ísl. bibl. sálm. 107, 16.; síðari blaðsíðan endar á „Vulgata ps." 107, 11; ísl. bibl. sálm. 108, 10.

625. S. d. Sami: PARTUR AF SKINNBLAÐI frá 13. öld, fyrri blaðsíðan er mjög máð, og verður eigi lesið nema sumt á henni; neðarlega á henni er úr „Vulgata" Reg. 111, 17, 17.; ísl. biblí. fyrri Konúnganna bók, 17, 17, neðst á síðunni er úr 19. versi, þá er skorið af það sem eptir er af 19. versi, svo og 20. og 21. vers. Síðari síðan byrjar á 22. versi og heldur áfram til enda kapítulans, svo byrjar 11. kap. í Jóhannesar guðspjalli, blaðið endar á 5. versi.

626. S. d. Sami: Tvö SKINNBLÖÐ í litlu fjórblöðuðu broti eða stóru áttblöðuðu broti frá síðara hluta 14. aldar, það er úr Davíðssálmum „Vulgata ps." 140, 5.; ísl. bibl. 141, 5.; neðsta línan á síðari bls. er úr „Vulgata ps." 142, 2.; ísl. bibl. 143, 2, þá vanta líklega 2 blöð, síðara blaðið byrjar með „Vulgata ps." 144, 5.; ísl.

bibl. 145, 5.; en síðari endar með „Vulgata ps." 145, 2.; ísl. bibl. 146, 2.

627. ($^{9}/_{8}$ 68. Þorsteinn Þorsteinsson, snikkari á Upsum): Eitt BLAÐ í stóru tvíblöðuðu broti frá 14. öld; á því er latínskur nótnasaungur.

628. S. d. Sami: Lítill DRYKKJARSTÚTUR með trèbotni og járnhríng í mjórri endanum; annars vegar er grafin á drykkjarhorn þetta rós, en hins vegar er grafið stórt mannshöfuð, en þar yfir er grafið „*Þór*" með einskonar settletri.

629. S. d. Sami: KNIPLI NEÐAN AF SAMFELLU gult, rautt og hvítt, kniplað úr íslenzkum þræði, krónumunstur[1]. Knipli neðan af svuntu, eins að gjörð, en breiðara.

630. S. d. Sami: SÖÐULSKJÖLDUR kringlóttur úr látúni, af fremri kerlíng á kvennsöðli(?) með nafndrætti: *S.? T. I. S.*

---

[1]) Knipli höfðu konur mikið neðan á fötum á 18. öld, á skiptabrèfum og uppskriptum frá 1738 er talað um þau græn á rauðu, en seinni hluta aldarinnar, 1770, eru þau opt úr svörtu silki á rauðum eða háraúðum fötum, eins 1780, aptur eru þau græn á bláum fötum 1782, en eg sè ekki getið um knipli á fötum fyrir 1730; þau hafa þá ekki verið orðin almenn að minnsta kosti. En aptur á móti sè eg getið um hvít línknipli rètt eptir 1625, sjá kvæði af einu barni, sem fæddist vanskapað í þeim stað, sem nefnist Arnfiolld, 28. April 1625:

„Hèr með og kraga krúsaðan
kynja stóran út vèsaðan
fagur blám einn með öllu.
Kniplíngsins fragtin furðu há
fyrðar mega á öðrum sjá,
bjarta sem brygði á mjöllu".

sbr. knipli á kraga á mynd, eða á tveimur myndum, af Guðbrandi biskupi frá því um sama leyti.

631. S. d. Sami: STYTTUBAND spjaldofið, á það er ofið með bandaletri vísa þessi:

HVÖR, SEM, BAND, IÐ, BIND, UR, IAÐ (=AÐ), SIER,
BID, EG, Æ, SIE, ÞIST, VR,
Ó, MINN, IESV, EPTIR, ÞIER,
EDLA, DAVIDS, KVISTVR, GUÐRÚN, H. D.

stafirnir eru svartbláir á grænu.

632. S. d. Sami: Tveir DÓMSDAGSENGLAR olíumálaðir, líklega úr kirkju, þeir eru naktir og hafa sveiflað laungu rauðu klæði um annan handlegg sèr, annar um hægri, hinn um vinstri handlegg; þeir halda á básúnu.

633. S. d. Sami: ENGILSHÖFUÐ með vængjum, olíumálað, og er skorið *Þ. J.* á vængina.

634. S. d. Sami: KÓRÓNA olíumáluð. Allir þessir hlutir eru skornir í trè af Gunnlaugi Briem á Grund, kammerráði og sýslumanni í Eyjafjarðar sýslu.

635. 22/8 68. Húsfrú Katrín Þorvaldsdóttir í Reykjavík: LANGSPIL vandað, það er að vestan.

636. S. d. Sama: Knipliskrín málað, með tilheyrandi 47 stokkum og 2 skúffum.

637. 25/8 68. Keyptur gripur: þrír LAUFAPRJÓNSHNAPPAR úr silfri, allir samkynja, allir með víravirki og kornsettir. Á þeim eru 9 slètt lauf út úr miðjunni allt í kríng, á laufinu niður úr er blómhríngur allt í kríng, og þar innan í er hinn helgi Georg á hestbaki að berjast við drekann; niður úr því laufi eru aptur þrjú smá lauf með gotnesku lagi. Þetta eru áreiðanlega laufaprjónshnappar, því það sagði mèr frú Sigríður (sem þá átti hnappana), dóttir Gísla Þórarinssonar prófasts í Odda og Jórunnar Sigurðardóttur landskrifara á Hlíðarenda; hún sagði, að þessir hnappar væri komnir frá Hlíðarenda, frá forfeðrum sínum, þ. e. frá Sigurði landskrifara og Helgu Brynjólfsdóttur (konu hans), en Brynjólfur var sonur Þórðar biskups Þorlákssonar í Skálholti. Þessir hnappar munu vera gamlir.

638. $^{25}/_{8}$ 68. Keyptur gripur: KÍNGA ÚR SILFRI, gyllt, með hríng uppúr, til að bera um hálsinn. Annars vegar á henni stendur hinn helgi Markús guðspjallamaður með ríkisepli í vinstri hendi með kross uppúr (verndari bæjarins Venedig); allt í kríng er með latínu letri:

AVG. R(B?) ARRADICO.

S. MARCVS. VENET.

Hins vegar stendur hann og heldur á merki; frammi fyrir honum krýpur hertoginn í Venedig og heldur um merkisstaungina; hann hefir hertogahúfuna á höfði. Á fótstallinum eru stafirnir *M. D.* (1500) með latínustöfum, og allt í kríng utan með eru orðin *tibi soli gloria* með sama letri; kíngan er því auðsjáanlega slegin í Venedig, hún er úr sömu ætt og Nr. næsta hèr á undan.

639. S. d. Keyptur gripur: Einn ERMAHNAPPUR úr silfri, gylltur með víravirki; hann er og úr sömu ætt sem Nr. 637—38.

640. $^{29}/_{8}$ 68. Árni Gíslason, sýslumaður í Kirkjubæ á Síðu: Eitt SKINNBLAÐ, sem skorið er neðan af.

641. $^{2}/_{9}$ 68. Sigurður Brynjólfsson Sivertsen prestur á Útskálum: Tvær LENGJUR ÚR KOPAR eða bronzi, önnur þeirra er slètt með fjórum götum með járnryði í, en hin er með 6 upphleyptum bólum í einni röð, en aptast hafa verið 4 bólur samhliða; á hinum endanum að framan hefir verið klauf, $^{1}/_{8}$ úr þuml. á lengd, og eins hefir verið á hinni lengjunni; lítur svo út, sem báðar lengjurnar hafi verið samfastar, og beygðar saman að framan utan um ólar-enda, og síðan hnoðaðir í gegnum allt saman 4 járnnaglar, til að halda öllu saman; líka sèst járnryð innan í beygíngunni báðum megin við klofana, og hygg eg því, að framan við ólina í beygíngunni á báðum lengjunum hafi verið lítil járnhríngja, sem sè ryðgnð burt, og hafi þornið staðið fram í gegnum klaufina. Lengjurnar eru 3 þuml. á lengd og

rúmlega hálfur á breidd. Ekki er ólíklegt, að þetta sè eitthvað af sverðfetlunum.

642. S. d. Sami: Stór KINNTÖNN, 1 þuml. á breidd um ræturnar; að laginu til er hún líkust því, að hún væri úr einhverju stóru selakyni, máske rostúngi(?) heldur en bjarndýri(?). Hèr er mest undir því komið, að vita, hvort tönn þessi hefir verið látin í dysið með manninum með vilja, eða hvort hún hefir fallið þar í óvart; þar um er ekkert hægt að segja með nokkurri vissu. Eg vil að eins benda mönnum á, að það er þó undarlegt, ef það er einúngis tilviljun, að allar þessar tennur finnast svo opt í fornum dysjum hèr á landi og eins í Danmörk, sbr. Nr. 715 hèr á eptir. Mèr kemur til hugar, að fornmenn hafi, ef til vill, bæði geymt tennur úr dýrum og mönnum, til minníngar um að þeir höfðu sigrað menn eða hættuleg dýr, því hvorttveggja töldu menn sèr jafnan til gildis; þetta kemur vel heim við það, þegar Skarphèðinn hjó tennur úr Þráni og geymdi í pússi sínum; og eins þegar Þorbjörn Þjóðreksson hjó tennur úr Ólafi Hávarðssyni og batt í skauta og geymdi; þetta er líkt og þegar sumar hálfviltar þjóðir skera hártopp með skinninu úr hvirflinum á öllum þeim mönnum, er þeir sigra, og geyma þá sem sigurmark. — Þessir hlutir eru fundnir í stóra dysinu hjá Hafurbjarnarstöðum, þar sem silfurbúna sverðið fannst.

643. S. d. Sami: BRÓKARHALDS-HNAPPUR slèttur úr kopar.

644. S. d. Sami: Kollótt BÓLA gagnskorin með einum blekk við, óvíst af hverju; báðir þessir hlutir eru fundnir af sama manni í söndunum á gamla Kirkjubóli.

645. $^{8}/_{9}$ 68. Húsfrú Sigríður Möller í Reykjavík: HOLLENZKUR PELI með kvennmanns mynd á, sbr. Nr. 59.

646. $^{10}/_{9}$ 68. Húsfrú Ólína Þorsteinsdóttir á Laugum í Lángadal: LYKLAHRÍNGUR úr kopar, eða sylgja;

allt í kríng á honum er grafið með höfðaletri og latínuletri samblönduðu:

HIÓTE (hljóti), SV, HIN, HÍRA, FRV, SEM, HRÍNGINN, BER, VIÐ, SIDU, EILÍFT, LIÐ, AF, EINGLA, CMIÐ (= smið), OG, ÆFINLEGA, BLIÐU,

þar á eptir eru 9 stafir eitthvað rángt grafnir, og *anno 1759*, sbr. Nr. 434.

647. (10/9 68. Húsfrú Ólina Þorsteinsdóttir á Laugum í Lángadal): Partur af REKKJUREFIL útsaumuðum með marglitu á hvítt lèrept; á honum eru þrír hríngar, samtengdir með smátiglum: fyrsti hríngurinn er hálfur, þar innan í er myndaður Kristur, að rísa upp, og tveir varðmenn, annar standandi, en hinn sofandi, sbr. Matth. 28, 4. og 13., þar hjá eru þessi orð: *í, dag, oss, guð, upp, rise*, saumað með bandaletri; í næsta hríng er myndaður Kristur, að stíga til himna, og þar fyrir neðan tveir englar og 5 lærisveinar; þar hjá eru þessi orð: *uppstihen, til, himna*; í þriðja hríngnum er myndað, þegar heilagur andi kemur yfir postulana og þar hjá þessi orð: *heilagur, andi*. milli tveggja hinna síðastnefndu hrínga að ofanverðu er myndaður fljúgandi engill, sem blæs í básúnu, þar hjá þessi orð: *michael eing*(ill). Þessi refils-partur var síðast hafður fyrir altarisklæði í bænhúsi (sem nú er niður lagt) í Gröf við Þorskafjörð; eptir myndunum að dæma skyldi maður ætla, að þetta væri kirkjutjald, en það mun þó vera heldur af rekkjurefil; því að ofan og neðan hefir verið saumað kvöldversið: „Vertu nú minni hvílu hjá", og má lesa: „*alla frá, en, mig, heilan*" . . . og (til s)„*ión, taka draum, óra, ógn*", sjá Nr. 161 og Nr. 418.

648. 15/9 68. Hafliði Eyjólfsson, bóndi í Svefneyjum: Stórar GJARÐARHRÍNGJUR úr kopar, það eru hófhríngjur þriggja þumlúnga breiðar, slèttar og einfaldar,

þornlausar; alþýða hefir eignað þær Þórði hreðu, en ekki sè eg þær hafi nein sèrlega gömul einkenni.

649. $^{15}/_{9}$ 68. Ólafur Teitsson, bóndi í Sviðnum: KOPARPLATA gagnskorin, líklega partur af söðulskildi, með rósum í býzönskum stíl og letri, líku og á Nr. 164.

650. $^{26}/_{9}$ 68. Páll Þorláksson, skólapiltur í Reykjavík: KJAFTAMÈL snúin úr járni, vantar annan hrínginn, lík að gjörð og Nr. 48, en miklu minni; þau fundust á söndunum fram af Bárðardal.

651. S. d. Anna María Jónsdóttir í Reykjavík: Átta PAPPÍRS BLÖÐ, skrifuð með hendi Sæmundar Hólms, og eru þar á lánglokur eptir hann sjálfan, þær eru 15—28, vantar eina línu aptan á þá síðustu, líka vanta 8 blöð framan við, því blöðin byrja á 17. bls.

652. $^{28}/_{9}$ 68. Ástríður Hannesdóttir, húsfreyja á Vilmundarstöðum: REIÐHÖTTUR, (eða kvennhöttur) með tilheyrandi höttkápu, eða hettu niður af; hann er úr svörtu klæði með stinnum kolli upp af úr sama efni, 7 þuml. háfum, og $3^2/_3$ þuml. í þvermál; upp eptir kollinum á fjóra vegu er svartur borði, sem gengur í kross yfir um kollinn að ofan, fram úr kollinum að neðan er oddmyndað skygni, sem brettist upp, fóðrað með svörtu flöjeli að neðan, lagt að ofan með flöjelsborðum svörtum og brydt með flöjeli; innan í kollinum að neðan eru tvær stórar hnezlur (*stroffur*) sem höttdragið var dregið í; það er þriggja álna lángt silkiband með kögri að neðan, sem haft var til að binda ofan á sig höttinn. Höttkápan er að framan brydd með svörtu flöjeli og lögð með svörtum flöjelsborða, og eins ofan eptir miðjunni að aptan; kápan gengur í odd bæði aptan og framan; að framan er hún krækt með 4 látúns krókapörum. Kápan er 19 þumlúngar á sídd í allt, en 10 þuml. hefir hún náð ofan á brjóstið, ef mælt er frá efsta pari; á heldri konum voru þær opt síðari og með kögri að neðan, kollurinn öðruvísi vafinn með borða, og opt miklu hærri, silfurhnappur í kollinum með

smálaufum út úr, með 6—9 skrautlegum silfurpörum að framan; yfir um ennið er höttkápan krækt með svörtu flöjelsbandi; niður úr báðum hornunum að framan eru tvær hörflèttíngar, til að bregða undir beltið, svo að kápan ekki skyldi blása upp, þá riðið var með höttinn; í endunum á þessum flèttíngum höfðu heldri konur opt silfurnálar. Hötturinn var mest tíðkaður frá því um 1720, sjá Nr. 774 hèr á eptir, til þess fram yfir aldamót 1800[1], og höfðu konur hann mest fyrir hlífðarfat á ferðum (reiðhettu), en báru hann sjaldan í kirkjum nema sem sorgarbúníng, t. d. á föstudaginn lánga, og við greptranir; þær skautuðu undir hann með trafa-faldinum og stúngu honum upp í höttkollinn þegar þær riðu[2], og opt eingaungu með einu trafi, „reiðtrafi"; þess er getið í skiptabrèfi frá 1715; hötturinn fór því að missa sína verulegustu þýðíngu eptir 1769, þá trafa-faldurinn fór að leggjast af, en breiði faldurinn fór að tíðkast, því þá var hann ekki lengur hentugur. Um höttinn er víða getið í skiptabrèfum og kvæðum, t. d. í „Þagnarmálum", sem eru ort 1728:

Hendur breiðast hálfermum,
hettir reiðar prúnka,
gota skreiða glitsöðlum,
girnast veiða júnka.

Þá virðist hötturinn að vera orðinn nokkuð almennur.

---

[1]) Eg hefi sèð hans fyrst getið í skiptabrèfi frá 1738, en þar eptir er hans almennt getið í skiptabrèfum og uppskriptum á búum.

[2]) Sjá „Skautaljóð" 8. vísu; þar segir:

„Hengir þú þar höttinn á,
heiðarlega hann skartar þá,
eins og hángi á uglu sá,
ofan á nefið beygjast má".

Hèr er misritað hött fyrir hatt, sbr. sum handrit af Skautaljóðum, sem rita „hatt"; því eg held, að sá eiginlegi höttur hafi þá ekki verið orðinn til.

653. ($^{28}/_{9}$ 68. Ástríður Hannesdóttir, húsfreyja á Vilmundarstöðum): SPAÐAHÚFA svört úr damaski, lögð með gylltum spónaborða.

654. S. d. Helga Jónsdóttir, húsfreyja á Steindórstöðum: REKKJUREFILL; hann er með engum hríngum á, heldur með svörtum hnúta-ferhyrníngum með marglitum áttablaða-rósum innan í; að ofan og neðan eru saumaðar línur með bandaletri á, þannig hljóðandi:

(i) *svefne, og, vökv, sannlega, vie?*
*sialfvm, gvde, til* (he) *irvm*
*hvort, oss, dauda, eda* (li)*f, þv, lier*;

refillinn er mjög slitinn.

655. S. d. Björn Stephánsson skólasveinn frá Árnanesi: Tvö LJÓNSHÖFUÐ úr silfri með lausum hríng í munninum, annaðhvort af belti eða koffri, óvíst hvort heldur. Eg hefi sèð belti, sem allt var sett með slíkum höfðum (það er nú selt útlendum), en hvort það hefir upprunalega verið belti eða koffur, er aptur óvíst.

656. $^{29}/_{9}$ 68. Hallgrímur Melsteð skólasveinn í Reykjavík: DESHÚS rennt úr fílabeini(?) með 4 hólfum, sem öll má skrúfa sundur; innan í því er ártalið *1691*; það er úr eigum Sigurðar landskrifara.

657. S. d. Sami: Reyktóbaks-DÓSIR úr eir með inngreyptum biblíumyndum úr látúni ofan og neðan, og letri; á aðra hliðina er grafið með latínuletri: „*Nout, vool, makt.* Dósirnar eru líklega hollenzkar; þær eru úr eigum Jóns Vídalíns skipstjóra.

658. S. d. Sami: Tann-SIGNET með nafndrátt ógreinilegum, fundið í Hornafirði.

659. $^{30}/_{9}$ 68. Sæmundur Guðmundsson í Hrólfstaðahelli: GLERTALA gul úr steinaseyrvi, fannst 1868 á hraunhól, skammt frá sama bæ.

660. S. d. Sami: Lítill SILFURSNÚNÍNGUR, fannst nálægt sama bæ.

661. ($^{30}/_{9}$ 68. Sæmundur Guðmundsson í Hrólfstaðahelli:) Lítill KOPARKENGUR, fannst þar nálægt.

662. S. d. Sami: Lítil LENGJA úr bronzi(?) með tveimur götum og gröfnum á eins og flètting, mjó í annan enda, gamalleg, óvíst af hverju hún er, ef til vill af ólarenda(?); hún fannst og þar nálægt.

663. $^{4}/_{10}$ 68. Björn Stephánsson frá Árnanesi skólasveinn: Stór BRÓKARHALDS-HNAPPUR úr kopar, holur, grafinn með rós.

664. S. d. Keyptir gripir: Tveir ERMAHNAPPAR úr silfri eggmyndaðir, mjóir í annan enda með laufum, og mjög haglegu víravirki.

665. S. d. Keyptur gripur: Einn ERMAHNAPPUR úr silfri, kollóttur með víravirki, vel gjörður.

666. $^{10}/_{10}$ 68. Bjarni Jónsson skóari í Reykjavík: Lítill TREFLASTOKKUR loklaus; þrjár hliðarnar eru úr brenni (beykivið), hann er geirnegldur, á einni hlið stokksins er skorin mjög merkileg mynd úr daglega lífinu: annars vegar situr stúlka á stól (líklega brúður), sem kona er að skauta, hún styður annari hendi aptan á faldinn á hnakkanum, en hinni framan á faldinn á enninu, eins og konur gera, þegar verið er að skauta þeim, hún hefir háfan krókfald á höfði, alhvítan niður í gegn, koffurlausan, hann er fullar tvær andlits-lengdir upp af höfðinu, samsvarandi 14 þumlúnga hæð; hann beygist snögglega fram á við, rètt fyrir ofan hnakkann, svo þar verður einskonar stallur á faldinum; síðan beygist hann á ská fram og upp á við, og verður síðan fjarskalega mjór efst og myndar þar snarpan og mjóan krók. Hún er berhálsuð, og í stuttri, ólagðri treyju, sem ekki nær alveg niður að mitti; hún er í þèttfelldu pilsi ólögðu, með svuntu ólagðri, og lága skó á fótum þvengjalausa. Konan hefir eins fald, og er líka berhálsuð, hún er í hempu ólagðri og uppslagalausri, með mörgum og stórum fellingum eða ferðum allt í kríng, sem ná upp fyri

mitti, sjá Nr. 402; hún hefir lága skó á fótum þvengjalausa. Þar hjá er prestur að gánga um gólf, hann virðist vera vel ánægður með sjálfan sig; hann er með hatt á höfði, með þykkt og lángt hár eða parruk, í hempu með uppslögum og þèttum fellíngum á herðunum, útlenda skó á fótum, háfa á ristinni; hann heldur á tóbakspípu (úr leir) í vinstri hendi og er að reykja, en í hægri hendi heldur hann á stórum snýtuklút. Þar hjá stendur bóndamaður (brúðguminn?) berhöfðaður, hann er þunnhærður, gleiður og íbygginn að hella á staup úr kjallaraflösku, hann er í einhneptu vesti, peisu og stuttbrókum með loku og vasagötum á hliðum, rykktum að hnè, með lága skó á fótum, einúngis með hælþvengjum.[1] Hjá honum stendur sýslumaður, eða einhver merkisbóndi, með kollóttan barðahatt á höfði, með þykkt og lángt hár eða parruk, í síðum frakka, er menn kölluðu þá kjól eða rokk, einhneptum með uppslögum og vasalokum að framan, og borðabúnaði yfir um fyrir neðan mittið, líkt og tíðkaðist mest um 1690—1700,[2] og stígvel á fótum; hann stendur fattur, og er með mesta drildnissvip að hrista tóbak úr bauk á handarbakið. Á öðrum gaflinum er sami maður, eða annar líkt búinn, sýndur á hestbaki; á beizlinu er snoppuól. Á hinum gaflinum er sýnd sama stúlka, og áður er

[1]) Þessi búníngur er mest samkynja við húfubúnínginn kvennfólksins, sem von er, því húfubúníngurinn er kominn af þessum karlmannsbúníngi, sem þess vegna væri óskandi að aldrei hefði lagzt niður.

[2]) Þessir „siðkjólar" komu upp á dögum Loðvíks fjórtánda, en híngað til lands 1670—80 að sögn Páls Vidalíns (Fornyrði Lögbókar bls. 555), en samt er líklegt að kjólarnir hafi verið þekktir hèr á landi fyrir 1670, því Hallgrímur Pètursson, sem dó 1674, talar um þá í „Oflátúngalýsíng" 5. vísu, og í kvæðinu um „hversu fánýt sè fordildin", 8. vísu:

„Silfurþör og dýrir dúkar,
danskur kjóll og treyjur mjúkar", o. s. fr.

um getið, alveg í sama búníngi og áður, nema hvað hún stendur hèr og hefir handlín á höndum sèr, eins og hún ætli í kirkju; hún bíður eptir hinum fyrnefnda bóndamanni, sem stendur hèr berhöfðaður með þrísperțan hatt í vinstri hendi, en með hægri tekur hann á móti staupi, sem hinn fyrgreindi höfðíngsmaður (eða ef til vill kirkjubóndi) rèttir að honum, áður en þau gánga í kirkju. Allur svipurinn á myndunum og limaburður er óvanalega vel sýndur eptir hvers eins stöðu, og hefir sá haft góða hæfilegleika, sem þetta hefir gjört. Hin hliðin er úr eik, skorin með rós, og er líklega eins gömul og hin fyrri (?). Á lokinu hefir verið tappalæsíng, sem sèst af grópi því og holu, sem er innan í báðum göflunum, á lokinu munu því varla hafa verið myndir. Mèr finnst allt benda á, að þessi stokkur sè gjörður nálægt 1700. Það er kunnugt, að þrísperti hatturinn, sem hèr er sýndur, kom upp á dögum Loðvíks 14. Frakkakonúngs, sem ríkti 1643—1715, og tók ríki barn að aldri. Stokkurinn getur því ekki verið eldri, en seint frá 17. öld; lagið á földunum, sú hin mikla hæð þeirra og mjódd að ofan og s t a l l u r i n n á h n a k k a n u m bendir og til þess sama. Það er að öllu hið sama lag, og lýst er í Skautaljóðum Guðmundar Bergþórssonar († 1705), sem mest rimman varð útúr, eins og ekki var að undra, því það hafði aldrei heyrzt, frá því fyrst að sögur hófust, að nokkur hefði leyft sèr að gjöra gys að földum kvenna, sem voru orðnir, eptir óteljandi alda hefð, einskonar þjóðhelgidómur (*palladium*). Það er því all-líklegt, að það sè satt, sem sagt er, að Guðmundi sè ekki að kenna fyrstu upptök Skautaljóða, heldur hafi drengir nokkrir byrjað á því, og hafi Guðmundur síðan í einskonar hugsunarleysi leiðzt út í það. Í Skautaljóðum lýsir sèr töluverð keskni, sem virðist meira samboðin únglíngum, en öldruðum manni; en hvernig sem nú þessu er varið, þá er það víst, að Guðmundur kvað þau hin fyrstu alþekktu Skautaljóð í þeirri mynd, sem þau nú finnast rituð, sem bezt sèst

af því, að hann einn tekur upp þykkjuna fyrir þau, og svarar einn öllum þeim, sem kveða á móti; allir þessir beinast að honum einum, og ymsir af þeim, sem kveða á móti, nefna hann beinlínis höfund þeirra. Eg þekki að eins 13 skautaljóð í allt, sumir segja þau sè 18 alls[1]. Beri maður saman við Skautaljóð myndir þær af földunum, sem eru á kistlinum, þá fær maður ljósa hugmynd um, hvað það er, sem Guðmundur helzt hæðist að. Hvorttveggja lýsir ekki einúngis því lagi, sem þá tíðkaðist á faldinum, heldur sjá menn einnig, hvernig farið var að vefja hann upp háfan og mjófan að ofan, og þannig að hann skagaði fram, með því að brjóta innri og neðri vafníngana ofan á hvirfilinn að aptanverðu og vefja síðan þar ofan á og utanum efra og mjósta hluta faldsins, við það kom og stallurinn á hnakkann, sem sèst á þessum myndum, sbr. 4—7. vísu Skautaljóða:

1. (4) Kaup þú traflð hvítt og hreint,
hirtu' ei um, þó það sè steint,
svo sterturinn geti staðið beint
*sem stikill fram*, þá til er reynt.

2. (5) *Innra* brotið, auðargátt,
ekki skaltu *vefja hátt*,
hertu vel á handar mátt,
hinu þegar þú gegna átt.

---

[1]) Í handritasafni Rasks, sem er í bókasafni háskólans í Kaupmannahöfn, eru rituð Skautaljóð, og kveðlíngar þeir, sem útaf þeim risu, með hendi Eiríks Loptssonar 1787 (Nr. 39. 4to). Þar eru 18 ljóðmæli alls, og eru 6 þeirra eptir Guðmund Bergþórsson en 12 eptir aðra. Gísli Konráðsson hefir eitt að auki, eptir Árna nokkurn Eyjólfsson: „Margur hefir þorna þór", o. s. frv. 50 erindi, en hann vantar aptur fjögur af þeim 18, og hið fimta er hjá honum brot eitt, svo hann hefir einúngis 14 heil og 1 brot. — Í „Fróðlegu ljóðasafni", sem Grímur Laxdal gaf út (Akureyri 1856—57. II, 109—149) eru prentuð Skautaljóð, og kvæðadeila sú, sem útaf þeim reis, en þar vantar 7 af kvæðunum allskostar, og hin eru víða bjöguð. *J. S.*

3\. (6) Hugsaðu' um, að hvirfillinn
að hálfu leyti ber sè þinn
*byrgður í innra brotið inn,*
*svo beygist áfram sterturinn.*

4\. (7) Aptur úr hnakka, *eins og stall,*
á að vera reikarfjall;
það er næsta kýminn kall,
sem *klúkir framaná* einsamall.

Sbr. faldabögur síra Benedikts Jónssonar í Bjarnanesi:

Stillíng, gætni stúlku (ei) fèll,
stall ef [smíðar eins og fjall[1],
hyllu með við hnakka fell,
og hallíst út á valafjall.

Á hinn bóginn getur maður ekki kastað þúngum steini á Guðmund, þó hann talaði með kesknisorðum um þessa falda, eins og þeir voru þá opt. Það er hægt að ímynda sèr þá eptir myndunum: 14 þumlúnga á hæð eða meir upp af höfðinu, með fjarska klaufalegri beygíng, sem skagaði fram og upp á við, og endaði í örmjófum krók, sem Guðmundur kallar „*mjófa krókinn*", „*dent*" (sem sumir skilja að sè =trýni), „*stert*", „*stikil*", „*uglu*", „*hrútshorn*", „*kálfsrófu*", eða að þær vili líkjast „einhyrníngum", af því faldurinn var þá svo snarbeygður fram og upp á við, eða „*sem stikill fram*", eins og Guðmundur kemst að orði. Allt þetta gjörði faldana þá næsta óeðlilega og ljóta. Öllu má spilla með smekkleysum og hófleysi, hvað fagurt sem það annars er í sjálfu sèr, og þess dæmi sjást meira eða minna á öllum öldum.

Eins og kunnugt er af sögunum, þá báru konur í fornöld *krókfald*, sem öðru nafni hèt *sveigur*, samhliða beina faldinum (stromp), og alveg sami siður virðist að hafa tíðkazt þángað til um 1400, en þar á eptir er

---

[1]) frá [hafa aðrir svo: „smíða á ennis hjall".

eins og krókfaldurinn verði sjaldgæfari, eptir myndum að dæma, á 15. og 16. öld, og einkum á 17. öld öndverðri; en hann fer að tíðkast aptur, að minnsta kosti sumstaðar á landinu, um 1650, og sèst á myndum frá 1680 og 1688, en þá er hann að eins ein andlits-lengd á hæð, eða 7—8 þuml., eins og hann er nú, og annaðhvort einúngis úr trafi, eða með mjófu höfuðbandi að neðan. Þetta er orsökin til þess, að Guðmundur ræðst einkum á krókfaldinn, af því hann heldur að hann sè nýbreytíng, eða þá uppfundinn, einkum af því að hann tíðkaðist lítið um öndverða 17. öld vestanlands, eða „*í hans sveitum*" (sbr. 1. vísu Skautaljóða), þess vegna kallar Guðmundur krókfaldinn „krókfalds tetrið ljóta", „nýjúng, sem guðs orði sè ósamboðin, sem áður hafi ei haft menn nè mær" „og sem frá því um miðja 17. öld kátir menn hafi kallað dent[1]". Hann kallar og „bognu skautin": „þíng húsgángs greyja", eða „húsgángs ýngismeyja[2]". Þetta kann að því leyti að vera rètt, að fátækar konur hafi þá borið krókfald af eldri landsvana, en minna hirt um að fylgja nýrri landssiðum. Hann kallar og krókfaldinn „fáheyrð smíði", og segir enn fremur, að hann hafi „ekki þekkt þann landsvana, að beygja skautin, í æsku sinni". Hèr verður hann reyndar tvísaga, því áður er hann búinn að segja, að menn hafi um 1650 kallað krókfaldinn dent, það gátu menn þó ekki, hefði hann þá ekki verið til, hann gat því engan veginn kallazt „nýjúng" um 1700, nè „fáheyrð smíði". Það er auðsèð, að Guðmundur hefir hugsað sèr, þegar hann orti Skautaljóð, að hann mundi sem frægt skáld hafa

---

[1]) Eða um það leyti síra Jón Grímsson á Hjaltabakka fæddist, hann vígðist 1675, andaðist 1724.

[2]) Skautaljóðin eru víða svo fjarskalega afbökuð, að þótt maður hafi mörg handrit af þeim til samanburðar, þá gefa sumar vísur í þeim allt fyrir það enga meiníng; því þau eru auðsjáanlega flest skrifuð upp eptir minni alþýðu.

allan strauminn með sèr, en það brást; straumurinn varð allur á móti honum, svo hann varð tvísaga, og varð að sjá, að hann hafði jafnvel talað ósatt, þvert á móti sögu landsins; því báðir þeir Steinn Jónsson, þá prestur á Hítarnesi og síðan biskup, og Sigurður Pálsson sanna honum, að konur í fornöld hafi borið krókfald, og verður hann að samsinna því, og fer þá útúr vandræðum að slá úr og í, og vill friða þá með því að segja, að „það sè dæmafátt að finna ljóta faldinn (dentinn), sem hann hafi kveðið um, og sem hann viti, að engin ærleg heiðurskvinna muni eigna sèr", og eins viti hann, að „þótt hann hafi hædt krókfaldana, uppáhald húsgángs-ýngismeyja, þá hafi hann ekki þar með lastað neinn af þeim heldri"; — það átti svosem ekki að gjöra mikið til, þótt þær fátækari reiddist(!). — Síðast vill hann leiða rök að því, að konum í fornöld hafi þókt fegri *moturinn* en *krókfaldurinn*, en gleymir því, að þar getur ekki verið neinn samanburður í milli, því það er ekkert líkt eða skylt: motur er sama sem *höfuðdúkur* (*slör*), sem var hafður bæði við beinan fald og krókfald.

Eins og áður er drepið á, þá var það ekki einúngis beygíngin á faldinum, sem Guðmundur hæðist að, heldur er það *sú þá ný-uppfundna of-mjódd* að ofan og hóflausa hæð á faldinum, sem hann líkir við Fróðárrófu eða kattarrófu (og var of mikil ástæða til þess). Sira Benedikt Jónsson grípur í þann strenginn með honum í sínum faldabögum, samt með hógværum orðum, og mælist til, að konur leggi af „skrúfuvafið" á faldinum, sem þá tíðkaðist, og var til þess eðlileg orsök, af því að faldurinn var svo ákaflega hár og mjór, því annars hefði ekkert traf hrokkið til að vefja hann upp úr, allt að álnar háfan, enda höfðu þær opt þrjú tröf í faldinn, eða jafnvel fleiri; sbr. þessar vísur:

*Skrúfuvaf* og *skaut um of*
skrafa eg fólkið leggi af;

dúfa hlaðs með dygða lof
drafi engu saurgi traf.

*Hrokafaldar* hafa ei rök;
hrakið þetta burtu tak!
okið guðs fyrir eina sök
aka kann þeim snöggt á bak.

Hann vill fara meðalveginn, og ekki hafa faldinn of lágan, heldur ekki of háfan, heldur þar á milli, mátulega digran, og að hann samsvari sèr eptir hæðinni og eptir hæð þeirrar, sem ber hann (eins og áður hefði tíðkazt), og að hann sè vel hvítur, sem hèr segir:

Strýtu *blakka* og *lága* eg leit
ljóta mjög við krúnu mót;
*hvítan* fald í hófi veit
hljóta skyldir geðug snót.

Flýðu *víðan* fald, eg ræð,
flúðu móðinn, skortir dáð;
síðan *þýður svari að hæð*
sáða rjóðri Kraka láð.

Hann vill enn fremur, að faldurinn sè „hlykkjalaus" og vel beygður, en helzt vill hann, að faldurinn sè beinn. Árni Egilsson (Eyjólfsson?) hefir og mjög líka skoðun, er mun vera einn með þeim fyrstu, sem kvað móti Guðmundi, sbr. 18. vísu. Hann tekur það fram, að „sumar" konur beri „lágan fald", en aðrar „hærri", og hvorttveggja megi vera; honum þykir og sóma dável, þegar stærð faldsins samsvarar vexti konunnar; hann segir og, að „nokkrar" beri „mjófa falda," og það sè bezt þær ráði því; enn fremur segir hann, að „margar" beri „þrekinn fald", og þess kyns falda hafi konur borið í „fyrri daga", og sá þyki sèr sóma bezt, þegar hann sè vel vafinn.

Guðmundur dó 1705, en faldarimman hætti ekki fyrir það, því faldarnir urðu allt af meir óeðlilega háfir, svo það keyrði síðast fram úr öllu hófi, einkum um miðja 18. öld; það virðist vera nær því ótrúlegt, að nokkur faldur hafi verið íslenzk alin eða 21 þumlúngur á

hæð upp af höfðinu, tvisvar sinnum hærri, en hann er nú, en maður verður að trúa myndunum og skáldunum, sem segja það beinlínis; yms skáld á 18. öld skeyta skapi sínu á þessum föld um, t. d. Þorlákur Þórarinsson 1728:

Stífan teygja stikufald
stóran spegil viður, o. s. frv.

Síra Þorsteinn Jónsson á Dvergasteini, 1769—1800, gjörir þó mesta árás þessum föld um í „Hofróðulýsing"; hún er bæði klúr og kesknisfull, og lýsir þó vel tímanum; en fýsir eyrun illt að heyra:

Sèð hef eg nokkrar gullhlaðs grundir
gantalegan þann með keim,
að þær núna státa um stundir
stærra heldr en sómir þeim,
út sig brjóta á allar lundir
eptir því, sem glyslegt er.
*Falska mynt slær fræktin ber.*
Krókfaldinum ætla eg undir
að þær hálsinn reigi.
*Margt hugsar maðrinn, þó hann þegi.*

2. Kartúns trafi bezt tilbúnu
binda þær um svarðar höll;
það er nú ei með bragði brúnu,
blánkandi sem hvíta mjöll;
sumar hafa sèzt með krúnu
sèr í enni, ef mjótt það er.
*Falska mynt slær fræktin ber.*
Svoddan blína á silkirúnu,
sízt þó skarta megi.
*Margt hugsar maðrinn, þó hann þegi.*

3. Fram þær teygja faldinn hvíta,
frekrar verður álnar hár,
silkidúk um höfuðið hnýta,

hann er rauður, grænn og blár;
ekki smátt þær á sig líta,
opnir standa speglarner.[1]
*Falska mynt slær fræktin ber.*
Á frönskum klút sèr snúðugt snýta,
að snoppan klínist eigi.
*Margt hugsar maðrinn, þó hann þegi.*

4. Kvendin nær í kirkju spránga,
kann eg ei við þann heilsubrest,
út þær verða opt að gánga,
orsökin þá gjörla sèst;
að strjúka faldinn stiku-lánga,
strax upp taka spegilgler.
*Falska mynt slær fræktin ber.*
Sinn þær fyrir sèr virða vánga
vel á þessum degi.
*Margt hugsar maðrinn, þó hann þegi.*

Svo eg hverfi aptur að myndunum á kistlinum, þá er það aðgæzluvert við þær, að enginn *klútur* sèst á þeim *neðan um faldinn*, nè *um hálsinn*, og munu þeir siðir (að hafa klút um faldinn og um hálsinn) fyrst hafa almennt byrjað um og eptir 1720—28, sem bent er á í „þagnarmálum":

Sveipa stundum silkin *þrjú*
svo við grundir blánkar
*hálsinn*, mundir, *heilabú*,
hvað sem undir vánkar.
*Raddar gaungin reyra þètt*,
róm og saunginn tæmir, o. s. frv.

667. $^{20}/_{11}$ 68. Sigurður Helgason Dbrm. á Setbergi: Lítil KOPARBJALLA með höfðaletri máðu og *W. G.* með latínuletri; hún er fundin í jörðu í Beruvík og var með járnryði innan í, þegar hún fannst, leifum af járnhnettinum; sjá Nr. 254.

668. $^{20}/_{11}$68. Helgi Sigurðsson prestur á Setbergi: BRAUÐSTÍLL úr kopar með hríng í og grafinn með höfðaletri: RAGNEIÐUR, ÞORGRÍMS, DÓTTIR, Á, ÞENNANN, ST(Í)L, ÞÓ, EI, SIE, VEL, GRAFIN. Hann er fundinn í jörðu í Haukatúngu, er verið var að búa þar til kálgarð 1865-66.

669. S. d. Sami: Lítið KROSSMARK úr kopar, slitið; yfirskriptin *I. N. R. I.* er með latínuletri, fannst í eða við Grjótá í Eyrarsveit.

670. $^{6}/_{12}$ 68. Haraldur Ólafsson Briem bóndi á Rannveigarstöðum: ÞÓFAGJARÐAR-HRÍNGJA slètt úr járni.

671. $^{11}/_{12}$ 68. Bjarni Sveinsson prestur á Stafafelli í Lóni: Stór HURÐARHRÍNGUR úr járni, flatur, var þar í kirkjuhurð; inn í hann allt í kríng er smelt eða greypt með silfri tvísettur laufaviður í býzönskum stíl. Þar með fylgir ferhyrnd plata úr járni með gati í hverju horni og einu stóru gati í miðju fyrir hríngkenginn; hún var undir hríngnum. Þessi plata er og öll smelt með silfurstriki utanum, og þar innaní mjög haglega gjörðum hríngrósum úr silfri í sama stíl. Líka fylgdi þar með ferhyrníngur úr járni, sem er sex þumlúnga á breidd á báða vegu, og er autt bil þar innan í 3 þuml. og $^{3}/_{4}$ á hvern veg, ferhyrnt; bilið er líklega fyrir skráarlaufið, en þessi ferhyrníngur hefir líklega verið þar utanum til skrauts. Í innri brún ferhyrníngsins hafa verið smelt tvö strik úr silfri, með krákustíg úr silfri á milli, en á ytri brúninni eru tvö strik saman; eptir allri miðjunni eru mjög smágjörvar hríngrósir og laufaviðir í býzönskum stíl, sumar líkar og á hríngnum frá Hofi í Vopnafirði, sjá Nr. 39, en sumar eru líkar og aðal-uppdrátturinn á stoðunum frá Laufási og Mælifelli, sjá Nr. 395 (en dýramyndirnar vanta), og sami eða líkur uppdráttur er í „*Bestiarius*" bls. VIII og XIII, sem er myndabók frá því um miðja 13. öld; beri maður aptur saman lagið á klónum og hölunum á dýrunum í „*Bestiarius*" við klærnar og halana á dýrunum á sömu stöðum, sèr mað-

ur, að það er líkt eða eins, og sama er að segja um blöðin á rósunum eða trjánum, sem mynduð eru í „*Bestiarius*" bls. I., VII., XI., þau eru mjög lík og á stoðunum, eða þó, ef til vill, öllu ellilegri á stoðunum og líkari blöðunum á hurðinni frá Valþjófstað[1]; þau blöð eru algeng á 13. öld, en seinna þekki eg þau ekki; ég held því, að allir þessir þrír hríngar og þessi önnur hurðarjárn, sem hèr er um getið, sè frá því um miðja 13. öld, fráleitt ýngri, og eins held eg, að allar þær fyrgreindu stoðir sè frá sama tíma, og mèr er til efs, að hurðin frá Valþjófstað sè eldri en stoðirnar frá Laufási, einkum önnur þeirra. Þess kyns hurðarjárn hafa verið almenn hèr á landi, því fleiri líkir hríngir eru hèr enn til, og eins lamir af hurðum fjarska skrautlegar, þó ei silfursmeltar, enda munu þær allar vera talsvert ýngri en hríngarnir[2].

[1]) Eg skil ekki í, hvernig á því stendur, að hvar sem eg sè í dönskum blöðum og ritum getið um þessa hurð, þá er hún alltjafnt kölluð „*kirkjuhurð*", en það er þó áreiðanlegt og marg-vottfast, að hún er „*skálahurð*", úr skálanum mikla, er stóð á Valþjófstað fram á 18. öld, og sem var allur útskorinn, eflaust í líkum smekk og hurðin. Þetta hefir þegar gjört töluverðan misskilníng um uppruna hurðarinnar. Sama er að segja um stoðirnar frá Mælifelli, þær eru ekki *dyrastafir*, heldur stoðir úr skála, sem þar var, og sá eg fleiri af þeim standandi í skálanum 1856, en þær voru allar meira skemdar.

[2]) á hofum og öðrum skrautbyggíngum fornmanna virðast hurðarjárnin hafa verið smelt ekki einúngis með silfri, heldur jafnvel með gulli; Flateyjarb. I., 144. bls. segir um hof Hákonar jarls, að „gulli og silfri var rent í skurðina" á því; líklega þó helzt á hurðar-járnunum, sbr. Flateyjarb. I, 370; þar er og talað um gullhríng þann hinn mikla, er Ólafur Tryggvason tók úr hofhurðinni á Hlöðum, og gaf Sigríði stórráðu. Eins hafa menn hugsað sèr hurðirnar á Valhöll gullbúnar, sbr. Sigurðar kviðu III, 69. (66);

„hrynja honum þá
á hæl þeygi
hlunnblik hallar
hríngi litkuð".

Í ferðabók Eggerts Ólafssonar II, 847. bls. er getið um stóra skrá (*Laas*) í kirkjunni á Stafafelli, með tveimur meinum, sem tvisvar þarf að ljúka upp, og sem sè smelt með fögrum laufavið (*Lövverk*) úr bezta silfri; hún á að hafa fundizt við fjallsrætur skammt þar frá um 1662, og átti álfafólk að hafa týnt henni. Það er ekki efunarmál, að þessi hurðarjárn, sem hèr er lýst, eru þau hin sömu, sem hèr er um getið, og munu þau aldrei hafa fundizt. Maður verður að eins að íhuga, að *Laas* á dönsku máli merkir sama sem bæði *lás* og *skrá*, sem vèr nú köllum; og má því kalla skráarlaufið part af *lásnum* eða *skránni*, en það gat ekki kallazt svo, hefði hèr verið að ræða um *hengilás*. Í fornmálinu höfðum vèr og sama orð yfir hvorttveggja, eins og Danir, þar af er komið að *skella í lás*. Það er mynduð heil þjóðsaga um þenna hríng, hvernig hann hafi fundizt í peninga-kistugafli í moldbakka, sjá enn fremur Ísl. þjóðsögur II, 66. bls.

672. 12/12 68. Úngfrú Hólmfríður Björnsdóttir í Reykjavík: ÞRÁÐARKEFLI úr tönn.

673. S. d. Sama: BRAUÐMÓT skorið með letri: *Guð blessi brauðið vr* (= vort) *gie*(f oss í d)*ag vort daglegt brvð* (=brauð).

674. 13/12 68. Magnús Jónsson prestur á Grenjaðarstað: Stórar LAMIR af kirkjuhurð á Grenjaðarstað, slegnar úr járni; nálægt miðjunni á þeim er gagnskorinn tígull með rósatoppum út úr á báða vegu, mest í býzönskum stíl. Báðum megin út úr hverri löm eru þrír hríngbugir með margbrotnu blaði á endanum, sem virðist vera fremur gjört í gotneskum stíl en býzönskum. — Þetta sambland stílanna bendir á, að þessar lamir muni vera frá 15. öld, og það því heldur af þeirri ástæðu, að lamirnar eiga að vera gjörðar af útlendum. Hvor löm er á lengd 1 alin og hálfur 16. þuml., en á breidd 1 al. 11 þuml. Maður getur með öðrum orðum

sagt, að lamirnar sè nærfelt ein járn-rósabreiða, sem að mestu þekur alla hurðina. Allt verkið á þessum lömum er mjög vandað og fagurt. Þetta bendir oss á meðal annars nær því ótrúlegt skraut forfeðra vorra, og það eptir að allt var svo farið að spillast; hvað mun þá hafa verið á gullöldinni? — Í visitazíubók Jóns biskups Vigfússonar 1688 segir um þessa sömu hurð: „gömul hurð á járnum með skrá, hurðarjárnum með mjög merkilegu og skjaldsènu hèr á Íslandi norsku verki, þó gömlu". Í máldagabók Gísla biskups Þorlákssonar 1659 segir um sömu hurð: „hurð fyrir kirkjunni með norskum merkilegum járnum slegin"; víðar í máldögum er getið um þess kyns lamir hèr á landi, þær hafa verið hèr almennar.

675. $^{31}/_{12}$ 68. Keyptur gripur: SILFURPÖR með vönduðu steyptu víravirki og alls þremur mannshöfðum á, og einskonar sporðum út úr endunum, í Renaissance-stíl.

## 1869.

676. $^{9}/_{4}$ 69. Jörundur Þorsteinsson á Smiðjuvöllum á Skipaskaga: TRAFAKEFLI skorið með hnútum og rósum og höfðaletri: HALLBERA ÞORARINS DÓTTER Á ANNO 1641 IHS.

677. $^{6}/_{5}$ 69. Keyptur gripur: Fimm HÖTTPÖR úr silfri með víravirki, krækt, fest á Nr. 652; þau eru frá Meðalfelli.

678. S. d. Þórarinn Kristjánsson prófastur í Reykholti: GAGNSKORIN FJÖL, sem hefir legið þversum, líklega úr milligerð milli kórs og kirkju, því neðan í fjölina eru fimm aflaung gróp, eða holur, sem efri endarnir á pílárunum hafa verið reknir upp í, sbr. Nr. 582. Á fjölina eru skornar hríngrósir með blómum, t. d. fjögra laufa smára, og maður, sem er að berjast við dreka, er hefir manns höfuð í kjaptinum; annar ormur kemur aptan að honum og gín yfir höfði honum, sèst af honum að eins ein bugða, en hitt er brotið af, og mun því vanta allt að helmíng á fjölina; því maðurinn hefir líklega verið á miðjunni, en ormarnir til beggja handa. Búníngur mannsins sèst lítt, því hann stendur bakvið rósina, hann hefir háhæluð stígvèl á fótum, og kyrtil með uppslögum á ermum, er berhöfðaður, með lángt og mjótt sverð í hendi, sem hann rekur í gin drekans. Hèr er eflaust sýndur einhver viðburður úr riddarasögu, ef til vill sá sami, sem sýndur er í A. M. Nr. 62 folio.

679. S. d. Sami: ÚTSKORIN FJÖL, sem hefir staðið upp og ofan(?). Á miðja fjölina er skorin margýgur, sem er að ofan, niður að mjöðmum, nakin kona með slegið hár, en þar fyrir neðan fiskur (sbr. mynd í Flateyjarbók, Ólafs sögu helga); hún heldur á manni milli brjósta sèr. Að ofanverðu er skorinn rostúngur og fugl, sem bítur í rós, sem mun eiga að merkja sjávar- plöntu; að neðanverðu eru skornir tveir fuglar, annar með fisk í nefinu, og þar fyrir neðan sèst stafn af skipi (sem hún mun eiga að hafa grandað), það er með litlu bugspjóti og tveim stagseglum; það sýnir, að myndin er ekki gömul. þessi mynd mun vera gjörð eptir sögunni af Flóres konúngi og sonum hans, þar sem segir í 10. rímu:

Datt eg ofan í djúpa lind,
dauðinn var þar sýndur mèr;
lèt mig sú hin ljóta kind
liggja milli brjósta sèr.

það merkasta við þessar myndir er, að þær sýna, hversu heiðínglegir eða forneskjulegir Íslendíngar hafa verið í skapi fram eptir öllum öldum, sjá Nr. 52, því þessar fjalir stóðu ei allś fyrir laungu báðum megin við altarið í Árneskirkju á Ströndum.

680. S. d. Helgi þórarinsson í Reykholti: Gömul ÁBREIÐA, saumuð mest með kross-saum, nema hvað þar eru tvær bókstafalínur á endanum, saumaðar með augnasaum eða borusaum; á henni er gulur grunnur, og eru tveir bláir hríngar hvor niður af öðrum í miðju, og þar út frá til hliðanna fjórir hríngar tæplega hálfir, og hvítur laufaviður innan í hverjum hríng, gerður í býzönskum stíl. Utan um alla ábreiðuna er tvísettur laufaviður. Innan í efra hríngnum er myndaður konúngur með kórónu á höfði, og þar undir rauða hettu, sitjandi á stóli með sessu yfir; hann er í grænum kyrtli síðum, með hálfermum, og er blá bryddíng eða blað fremst á ermunum; þar framundan sjást rauðar

ermar þraungar; í hægri hendi heldur hann á sverði, reiddu um öxl, en ekki sèst, á hverju hann hefir haldið í vinstri hendi, því það er slitið burt. Hjá honum stendur maður í síðum kyrtli rauðum, með rauða hettu á höfði. Í vinstri hendi heldur hann á lángri staung með fjaðraskúf á endanum (kulveifa, *Vifte?*), sem hann veifar að andliti konúngsins, til að kæla honum. Innan við hrínginn sè eg ei betur en standi nafnið: *P. f. a. r. a. ó.* (= Faraó). Innan í neðri hríngnum er myndaður maður í grænum kyrtli, síðum og víðum, heilum um brjóstið og með belti um sig; hann reiðir sverð um öxl; hjá honum stendur únglíngur eða barn berhöfðað í blám kyrtli, þar hjá má lesa stafina *a. . . . a. m.* og mun það eiga að vera Abraham að offra Ísak. Innan í báðum efri hálfhríngunum til hliðanna eru mynduð blóm með gotneskum laufum, sem tvær dúfur sitja á; innan í báðum neðri hálfhríngunum eru myndaðir drekar með gapanda gini, sem slá lykkju bæði á svírann og sporðinn; milli hrínganna eru og 6 rósa-tiglar, gerðir í líkum stíl og kirkjuhurðar-lamirnar Nr. 674. Allt í kríng á ábreiðunni eru línur saumaðar með bandaletri, sem illt er að lesa, því bæði vantar nokkuð í miðjuna og víða er saumurinn orðinn slitinn. Þó hefi eg getað lesið þetta: LATTV, OSS, SOFNA, SÆTT, MEÐ, FRI(Ð sæ?) LV, Ý, FÖGNUÐIN, LEIÐ, APTVR, AÐ VACKNA, EILIFVR, GVÐ, ÞÁ, ANNAR DA(gvr?)IN. SKIN. Hálfan þriðja staf vantar í miðjuna hvorum megin, tvo rauða og tvo brúna, einn grænan og hálfan rauðan; því víðast eru þrír stafir saman með sama lit. Eg skal láta ósagt, hvað þessi ábreiða er gömul, en hitt er víst, að hún er einhver sú elzta og merkasta, sem eg hefi sèð, og er hún auðsjáanlega að minnsta kosti saumuð eptir ábreiðu eða tjaldi frá 14. öld eða byrjun 15. aldar; það sýna búníngarnir, lag sverðanna og einkum lagið á stólnum, sem eru hèr myndaðir eins og í handritunum frá 14. öld, og á stólum, sem Ólafur helgi situr

á, í handritum frá sama tíma, sbr. Nr. 420; rósirnar benda og á það sama. Þó oss vanti niðurhángandi *veggjatjöld* eða *dúkana*, þá sjáum vèr að þau muni hafa verið gerð í sama anda og þessi ábreiða, með hríngum hverjum niður af öðrum, og eins hverjum út frá öðrum, til þess að tjöldin samsvari reflunum, sem líka eru jafnan með sinni hríngaröð að endilaungu með myndum innan í; eins eru ábreiðurnar, og eins hafa líka hurðirnar verið með tveimur hríngum, hvorum upp af öðrum, með tigli á milli, sem sameinaði báða hríngana, eins og optast er á reflunum og ábreiðunum; í þann tígul var hurðarhríngurinn rekinn (sjá hurðina frá Valþjófstað). Þegar nú þar við bætist, að maður hefir nú lamir og hurðarjárn, stoðir og stóla o. s. frv., sem allt er gjört í sama anda, og svo ágætlega samsvarandi, þá sèr maður, að forfeður vorir hafa ekki verið án allrar fegurðar-tilfinníngar. Menn geta og sèð, að safnið hefir þegar bjargað svo miklu af mörgu því, sem heyrir til því hinu einstaka af fornum húsbúnaði, að maður getur nú gjört sèr all-ljósa hugmynd um, hvernig hús fornmanna litu út, jafnvel bæði utan og innan.

681. $^{26}/_{5}$ 69. Ólafur bóndi Steingrímsson á Seli við Reykjavík: Lítill VAÐSTEINN með rúna *g* á og ártali „*6811*" (= 1682?). Steinninn fannst í maga á þorski, sem kom í lóð gefandans hálfa þriðju mílu frá landi vestur á Sviði 22. Mai 1869.

682. $^{6}/_{6}$ 69. Sigurður Guðmundsson málari í Reykjavík: KVENNKRAGI við skautföt, baldýraður á rautt flaugel, festur á löfin á Nr. 578.

683. S. d. Sami: SKARÐHÚFA lögð með hvítu knipli eða spónaborða; á hana er festur hnappurinn Nr. 600.

684. S. d. Sami: SPAÐAHÚFA, öll út saumuð með marglitu silki af Rannveigu Grímsdóttur í Reykholti; hennar móðir var Oddný Ketilsdóttir, systir Magnúsar Ketilssonar. Húfan er mjög vönduð.

685. ($^6/_6$ 69. Sigurður Guðmundsson málari í Reykjavík): FÓTABAND ofið með krossvefnaði, þó þannig, að það er allt með smágötum aflaungum; það er allt með hjartastreng á, og hefir verið krækt.

686. S. d. Sami: FÓTABAND úr grænu klæði rauðbrytt, allt saumað með marglitum blómstursaum úr silki, hneppt að framan, með tveimur saumuðum íslenzkum hnöppum, mjög vel gjörðum; á því eru stafirnir: *h. S.* Slík bönd voru opt með silfurhríngjum, sjá Nr. 439. Þetta band er úr eigum Margrètar Jónsdóttur, systur frú Valgerðar.

687. S. d. Sami: RAUÐ BÓT stór, neðan úr ísaumsfötum frá næstliðinni öld, mest saumað með bláu og grænu, með steypilykkju og varplegg. Hún er úr Eyjafirði.

688. S. d. Sami: GRÆN BÓT stór neðan úr ísaumsfötum frá sama tíma, saumuð með marglitri steypilykkju. Uppdrættirnir á báðum þessum bótum eru mjög líkir að gerð og þeir, sem sýndir eru á myndunum í ferðabók Eggerts Ólafssonar, og munu þeir þá hafa verið mjög tíðir[1].

689. S. d. Sami: Einn HEMPUBORÐI flosaður með rós (hann er úr Eyjafirði).

690. S. d. Sami: Tveir HEMPUBORÐAR samkynja flosaðir með dúfnastreng (þeir eru úr Mosfellssveit).

691. S. d. Sami: Einn HEMPUBORÐI flosaður með hjartarstreng[2].

---

[1]) Sbr. skiptabrèf Magnúsar Einarssonar að Húsavík 1728: „svunta af bláu raski, gömul og slitin, með varpsaum neðan. Varpsaumur, eða varpleggur, og eins steypilykkja tíðkaðist þá mikið á pilsum og svuntum kvenna (frá 1680 og fram yfir 1750) áður en blómstur-saumurinn fór að tíðkast almennt, sjá Nr. 441.

[2]) Flosborðarnir tíðkuðust mest um síðara hluta 18. aldar og og voru þá dýrir, sem segir í „Hofróðulýsíng", 11. vísu:

„Flosborðarnir hempum haga,
þótt hundrað kosta eigi.
*Mart hugsar maðrinn, þó hann þegi*".

692. S. d. Sami: Hvít lengja saumuð með skinnsaum eða lèreptssaum; það er óvíst, til hvers hún hefir verið höfð.

693. S. d. Sami: Hvítur KVENNKRAGI úr hvítu hörlèrepti, og saumaður með svörtum rósum úr svörtu silki, og líka saumaður með hvítum vír; að ofanverðu á honum er líníng með tveimur hnepslum fyrir tvöfaldan hnapp, til að hneppa kraganum á sig. En að utanverðu er leynitigill innan í allri röndinni, því konur höfðu þessa kraga til að ríða með, og hneptu þeim um hálsinn ofan á baldýraða kragann, og drógu hann síðan saman að utanverðu utan um brúnirnar á honum, til að hlífa honum. Kraginn er frá Meðalfelli og áður frá Skálholti, líklega úr eigu Ragneiðar Finnsdóttur.

694. S. d. Sami: Svartur KVENNKRAGI með útkliptum svörtum flaugels-rósum á, og settur glerperlum í ytri brún á hverri rós. Það var margra heldri kvenna siður á 18. öld: að eiga einn sorgarbúníng, er þær báru við líkfylgdir, en þó einkum einn dag á árinu: föstudag hinn lánga; og höfðu þá svarta perlusetta kraga, eins og þenna, svört belti perlusett með svörtum perlum, svarta flaugels borða eða perlusetta framan á treyjunni, og svarta borða neðan á fötunum, svo ekkert var hvítt nema faldurinn og beltis-pörin.

695. S. d. Sami: KVENNKRAGI með brúnu silki, og þar á lagðar í rósir svartar stráperlur.

696. S. d. Sami: KVENNKRAGI með brúnu silki, og þar á lagðar svartar perlur í rósir, mjög vel gerður[1].

---

[1]) Þessir kragar voru ei einasta algengir á þessari öld, heldur líka á síðara hluta 18. aldar, sem segir í „Hofróðulýsing", 7. vísu:

„Húsgángs stelpan brúkar bæði
borðaföt og *perlukrans*,
uppslög fín og önnur klæði,
eins og dóttir herramanns".

Sjá Nr. 774.

697. (6/8 69. Sigurður Guðmundsson málari í Reykjavík): KVENNKRAGI með grænu silki, og þar á lagðar útklipptar svartar flaugelsrósir.

698. S. d. Sami: KVENNKRAGI með rauðu silkiflaugeli, og þar á baldýraðar rósir með hvítum og gylltum vír. Hann er úr Eyjafirði.

699. S. d. Sami: BÓT af enda á altarisbrún frá Saurbæ á Kjalarnesi; þar á er saumað með gullþræði hríngur og rósastrengir í býzönskum stíl á bláum grunni, vængjaðir hestar á rauðum og grænum grunni; litirnir halda sèr, eins og það væri nýsaumað.

700. S. d. Sami: STYTTUBAND spjaldofið, svart í miðju með grænni bandaleturslínu, er hljóðar þannig:

haldi, gvð, i, hönd, á, þier,
hier, og, veg, þinn, greiði,
enn, þegar, lifið, vti, er,
í, eilifa, sælv, leiði. *E. E. D. A B.* (andið)[1].

Bandið er úr þíngeyjar sýslu.

701. S. d. Húsfrú Katrín þorvaldsdóttir í Reykjavík: UPPHLUTUR[2] úr bláu silkiflaugeli, með gylltum borða framan á.

---

[1]) nl. E. E. dóttir á bandið.

[2]) á 17. og 18. öld höfðu konur ýmist bláa og rauða, græna eða svarta upphluti, úr klæði og flaugeli o. s. frv., sem sèst af „Hofróðulýsíng" 10. vísu:

„Í upphlutinn er óbrúkandi
utan flaugel, kalemáng,
sars eða pluss, með silkibandi,
þó svoddan kosti nóg umfáng,
silfurmylnur síglansandi
setjast framan á brjóstin þver.
*falska mynt slær fræktin ber.*
þeim hjá búníng breiður standi
borðinn prýðilegi.
*mart hugsar maðrinn, þó hann þegi.*"

Sbr. Pilsdrápu 3. og 5. vísu, sem er eignuð sira Stepháni Ólafssyni.

702. $^{13}/_{6}$ 69. Keyptur gripur: SILFURSPENNUR af belti með víravirki og gröfnum laufum.

703. S. d. Keyptur gripur: Samkynja þrír SVUNTUHNAPPAR úr silfri með víravirki, hálfir sléttir (hvorttveggja frá næstliðinni öld).

704. S. d. Keyptur gripur: KÁPUHNAPPUR úr silfri, gylltur með víravirki, í býzönskum stíl, líklega frá 17. öld.

705. S. d. Keyptur gripur: Fjögur pör af svonefndum KRÓKAMYLNUM úr silfri, líklega frá 17. öld. Þess er skylt að geta um leið, að það er ætlan mín, að engar af þessum svokölluðu krókamylnum muni upprunalega hafa verið hafðar sem mylnur á upphlutum, heldur hafa þær verið gerðar sem hempupör, sè þær frá 17. öld; en optast sem höttpör, sè þær frá 18. öld[1]; að minnsta kosti voru hempu og höttpörin öldúngis eins, sjá Nr. 708, og kræktar upphluts-mylnur virðast að vera mjög óhentugar (þó einkum á konum), því þær láta ekkert eptir, en að reima saman upphluti sína tíðkuðu konur snemma í útlöndum, að minnsta kosti á 14. öld.

706. S. d. Keyptur gripur: Eitt par af HÖTTSPENNUM úr silfri, gylltum; þær voru upprunalega 5 pör; þær eru laufalausar með grófu víravirki, í sama stíl og Nr. 704 og frá sama tíma. Það er líklegt, að þær hafi fyrst verið hafðar á hempu[2].

707. $^{14}/_{6}$ 69. Sæmundur Guðmundsson í Hrólfstaða-helli: Stór GLERTALA, svört og hvít, úr steinasörvi,

---

[1]) Þó hafa krækt pör, eða kræktar spennur, verið hafðar á upphlutum 1780, sbr. skiptabrèf eptir Guðfinnu Torfadóttur í Hítardal 1780: „upphlutsspennsli gyllt, 8 á hvorum barmi, 18 upphlutsmylnur litlar og gylltar". Þó þetta hafi verið títt, raskar það ekki því, sem eg hefi áður sagt.

[2]) í skiptabrèfum er jafnan gerður munur á *hempuspennum* og *hempupörum*.

eins að gerð og Nr. 294 og sú stærsta af 157. Hún fannst í rusli eptir karl í Rángárvalla sýslu.

708. $^{20}/_{6}$ 69. Frú Gytta Elín Thorlacius á Eskifirði: Stór OLÍUMÁLUÐ MYND af Jóni Thorlacius, sýslumanni, á Berunesi á Berufjarðarströnd, konu hans Sesselju og tveimur sonum þeirra, Þorláki og Vigfúsi. Efst á myndaspjaldinu (eins og það er nú)[1] er myndaður Jón sýslumaður; hann er með sítt og þykkt jarpt hár, klofið yfir miðju enni, sem liðast ofan að öxlum; hann hefir kamp á efri vör og klofinn topp á hökunni, sem þá var siður, svartan klút um hálsinn, hnýttan í lykkjur, sem standa út til beggja hliða[2], og þar ofan á gagnsæjan hvítan líntrefil, saumaðan með þéttum rósum, og ná endarnir niður á mitt brjóst; hann er í dökkgráum einskonar frakka kragalausum, víðum um mittið með þremur þéttum, svörtum hnapparöðum á brjóstinu upp og ofan, en á milli hnappanna þvert yfir brjóstið eru svartar hnepslur úr tvöföldum snúrum, til að hneppa með frakkanum á brjóstinu, líkt og á úngverskum riddaraliðs-einkennisbúníngi hefir tíðkazt. Hann hefir einskonar hálfermar framvíðar, sem ná nokkuð fram yfir olboga, og þar framundan einúngis hvíta rykkta línermi, með mjórri

---

[1]) Þó ljótt sè frá að segja, þá hafði einn fyrverandi eigandi þessarar merku myndar látið saga hana sundur og taka utan af henni, og alls látið skipta henni sundur í fimm parta, til að gera úr henni kistil eða skrínu; er hún því líka víða með naglagötum, svo það var varla orðið hægt að setja hana saman aptur, svo í lagi færi.

[2]) Sbr. vísu, sem eignuð er síra Stepháni Ólafssyni:

Bóndann hefir svipt sút
satt nokkuð rètt út,
hefir vænan hálsklút,
hann bindur rètt út (nefnilega klútinn).

sbr. „Oflátúnga lýsing Hallgríms Pèturss. 5. vísu: „sèst um hálsinn silkið danska".

línbrún (*Linning*) að framan; hann ber sverð við hlið með silfurvöfðum meðalkafla, með silfurhnapp aptan á og með silfurhandbjörg. Við vinstri hlið hans er mynduð kona hans; hún hefir fald á höfði, alhvítan niður í gegn með breiðu hvítu rósa-höfuðbandi (koffri) neðan um faldinn, sem virðist að vera einúngis útsaumuð lèreptsræma (eða borði), saumuð með þèttum hvítum hríngrósum í renaissance-stíl, með einsog neti á milli rósanna (en ekki málmkoffur). Ofan á faldinum ber hún svartan barðastóran hatt, með hvítum borða á röndinni og á börðunum allt í kríng, og þrjá mjófa hvíta borða neðst yfir um hattkollinn, með stórum gylltum krotuðum silfurskildi með svörtum steini í miðju á vinstri hlið; hæð hattsins er tæplega ein andlitslengd, og er kollurinn allur beygður lítið eitt fram á við, en þó snarpast efst. Af þessu sèst, að hún hefir borið krókfald undir hattinum[1] með hæfilegri hæð, því þá eru ekki farnir að koma háfu faldarnir, sem Guðmundur Bergþórsson hæðist að, sjá Nr. 666. Hún hefir lítið rautt band eða klút um hálsinn, og sjást ekki endarnir; þar utan á ber hún lítinn hvítan útáliggjandi kraga[2], alveg eins að gerð og höfuðbandið (koffrið), en mjórri. Hún er í svartri hempu ólagðri, sem fellur alveg að líkamanum, með slèttum og þraungum, laungum ermum, uppslagalausum[3]. Fremst á barminum

---

[1]) eða hatturinn er gerður til að bera hann yfir krókfaldi.

[2]) litlir útáliggjandi kragar með oddum eða knipli á röndinni sjást á fleiri myndum frá þeim tíma, t. d. í *A. M.* 738. 4to frá 1680.

[3]) Þá er aflögð víða hempan með mörgu ferðunum, sjá Nr. 402 hèr á undan, en farið að koma á þær það lag, sem tíðkaðist þar eptir alla 18. öldina, en fyrri hluta 18. aldar voru hempur annaðhvort ólagðar, eða lagðar einúngis með flaugeli, eða flaugelsborðum, opt tvísettum, eða flaugelssnúrum, það sèst af skiptabrèfum og uppskriptum á búum.

er mjó, hvít snúra, sín hvorum megin; hempan er krækt saman með 8 silfurpörum hvítum, og standa krókarnir út; hvert par er í laginu eins og laufblað. Efst á hempunni hefir hún tvo gyllta hempuskildi, eins að gerð og skjöldurinn á hattinum. Hún hefir engan handhríng, því síður eyrnagull; eg held ekki þau hafi verið til á 18. öld; þeirra sè eg hvergi getið. Báðar myndirnar sjást niður fyrir mitti; yfir hjónunum er *I. H. S.*, og hægra megin við höfuð hans má lesa *Æt. 4*, hinar tölurnar eru skornar af, það mun eiga að vera *aetatis 54*. Milli þeirra að ofan er eitthvert ártal, eða þá einúngis stafirnir *Annoo*(?) það er bæði máð og skorið af því. Vinstra megin við höfuð hennar má lesa *Æt. 46*. Hægra megin við hann að neðan virðist og að standa *Ao* (=anno), og í milli þeirra að neðan *16*, og vinstra megin við hana að neðan *88* (þ. e. ártal 1688), hèr er því sagður aldur þeirra líklega sama ár og myndin er gerð. Fyrir neðan þau er málaður aflángur blaðabaugur, sem nokkuð er skorið neðan af; þar innan í málað með latínuletri: „*effigies viri consultissimi dn. Jonae Thorlaci reg. may[t.] per provinciam. mulensem praefecti simul ac vxoris, eivs. seceliae*".

Fyrir neðan þau er mynd af tveimur sonum þeirra, í sömu stærð; sá sem er fyrir neðan hann, er með jarpt og rètt lángt hár ofan á herðar; hann hefir sama hálsbúnað og faðir hans, nema svarta klútinn vantar. Hann er í einhneptum frakka (heldur en treyju) með 10 svörtum hnöppum á barm, en engar spennur, með slèttum og einföldum hálfermum framvíðum, eins og faðir hans hefir, með þraungum ermum brúnum þar fram undan, sem að eins lítil línbrún sèst fram undan; frakkinn fellur þètt að um mittið, en gapir frá að ofan á brjóstinu, og sèst þar í brúnt einhnept vesti eða undirtreyju. — Hinn bróðirinn, sem er fyrir neðan móður sína, er hèrumbil eins klæddur. Hann líkist mest móður sinni í andliti, en

hinn föður sínum, þess vegna eru líkur til, að þessar myndir hafi verið áreiðanlega líkar, en þær eru nú mjög skemmdar. Báðar myndirnar sjást tæplega ofan að mitti. Hægra megin við þann fyrstnefnda stendur: *T. Nat: 1675.* en vinstra megin: *J (T.?) Obiit 1697.* Hægra megin við þann síðarnefnda stendur: *W. Nat. 1676*, en vinstra megin: *J (W?) Obiit 1694.* Fyrir neðan þessa mynd er málað eins og spjald með gylltu letri á, sem hljóðar þannig:

**LOFLEGRA BRÆÐRA LÝKÍNG ER,**
**LJÓST THORLAKS OG VIGFÚSA HIER,**
**JONSSONA HVÖRIER HAATT MEÐ NAFN,**
**HVIJLA NÚ SÆTT Í KAUPENHAFN,**
**I JÖRTAGARÐI HVÖR ÖÐRUM HIÄ**
**HELGRAR TRIJNITATIS KIRKJU AA.**
**HALLG: J: S:**[1]

Af þessu sèst, að þessi mynd er gerð síðar en hin, og líka af því, að bræðurnir hafa útlit til að vera nálægt tvítugu; hefir hún því ekki upphaflega heyrt til sama spjaldi, og mun hún eflaust vera gerð í Kaupmannahöfn. Upprunalega á þetta að hafa verið ein samföst mynd, þ. e. eptir að menn hafa sögur af myndinni, og hèkk hún í kirkjunni á Berunesi. — Að bera hatt ofan á faldinum, eins og Sesselja, kona Jóns sýslumanns hefir á þessari mynd, tíðkaðist mest á tímabilinu frá hèrumbil 1650 til 1720; að eins einstöku kunna að hafa

---

[1]) í stúdenta-registri háskólans í Kaupmannahöfn stendur: „Wigfusius Thorlacius Islandus" tekinn í stúdentatölu 6. Novbr. 1694 úr Skálholts skóla. Hann hefir þá andazt rètt skömmu síðar, því sama ár stendur „Vigfus Joensen" meðal stúdenta, sem eru grafnir í þrenníngar kirkju garði. —, „Thorlacus Jonæus" er tekinn í stúdenta tölu við háskólann 28. Oktobr. 1695 úr Hóla skóla; hann hefir líklega verið við háskólann þar til 1697, þá er „Torlacker Joensen" talinn meðal þeirra stúdenta, sem eru grafnir í þrenníngar kirkju garði. *J. S.*

borið þess kyns hatt fyrir og eptir þetta tímabil[1]; því höttur inn, sem þá kemur næst á eptir, hefir þurft nokkurn tíma til að ryðja sèr til rúms, sjá Nr. 652 og Nr. 774 hèr á eptir.

710. 24/6 69. Helgi Helgason, bóndi á Lambastöðum í Garði: TANNSIGNET með stöfunum *S. Þ. S. anno 1723.*

711. 6/7 69. Brynjólfur Jónsson á Minnanúpi: HVERFISTEINN (?) eða sleggjusteinn. Það er í sjálfu sèr ekkert merkilegt við hann annað en það, að hann fannst 1869 á Fjórðúngssandi upp með á, sem heitir Kisa, hèrumbil 3—4 bæjarleiðir frá alfaravegi, en vegur sá liggur inn að Sóleyjarhöfða, og þaðan norður yfir Sprengisand. Steinninn hefir líklega týnzt úr fornri lestaferð frá Eyrum norður í land; hann virðist vera úr útlendu hverfisteinsgrjóti. Gefandinn fann hann sjálfur.

712. 7/7 69. Keyptir gripir: Þrír SVUNTUHNAPPAR

---

1) Þannig er lýst alveg eins kvennhöttum í skiptabrèfum; sbr. skiptabrèf eptir sira Jón Jónsson í Stafholti 1740: „Kvennhattur með gylltum silfurskildi og laufum, kvennhöttur með virteinaborðum á". Þannig er lýst bæði hatti og hött í sama brèfi. Í skiptagjörníngi eptir Gísla Jónsson í Máfahlíð 1715 er getið um „kvennhatt með flaugelssnúru". Eggert Ólafsson telur þá hatta „fyrir laungu lagða af" 1766, sjá kvæðabók hans, 194. bls., og Nr. 774. Uppruni þessara hatta er óviss; af myndum sèr maður, að íslenzkar konur hafa á 15. (?) og 16. öld borið barðahatta, þó líkast til optast sem reið- og ferða-hatta, sbr. Espólíns Árbækur; þar segir, að Guðbrandur biskup Þorláksson gaf Halldóru Árnadóttur konu sinni 1573, er þau giptust: „kvennhatt dýran enskan og söðul útlendan; var hvorugt áður til á landi hèr, að því er gamlir menn sögðu gömlum mönnum á öndverðri 18. öld". Líklegt er, að þetta hafi einúngis verið reiðbúníngur, og mun þessi hattur vera fyrsti uppruni til hinna fyrgreindu hatta, sem þó fyrst um 1650 (?) fóru að verða nokkuð algengir.

stórir úr silfri gylltir, með óalgengu víravirki og gröfnum laufum.

713. $^{24}/_{7}$ 69. Kristján Jónsson í Geitareyjum: Stór ÁDRÁTTUR eða hríngja; hún er slètt og einföld þornlaus, með ás í miðju og $3^{1}/_{2}$ þuml. á breidd yfir ásinn, með ártali *1560*. Af þessari fjarskalegu breidd get eg ekki skilið, að þetta geti verið annað, en ádráttur framan af brjóstgjörð, sem mönnum var þá títt að hafa.

714. $^{25}/_{7}$ 69. Jón Sigurðsson alþíngismaður á Gautlöndum: Stór VÍGTÖNN úr hundi, eins og Nr. 85 og úr sama dysi.

715. S. d. Sami: TÖNN, sem eg þekki ekki; það er óvíst, hvort hún er heldur úr Gautlanda eða Baldursheims fundinum, sjá Nr. 642.

716. S. d. Guðmundur Einarsson bóndi í Garði í Þistilfirði: Stórt SKINNBLAÐ með latínskum nótnasaung.

717. S. d. Sami: Stór LÁTÚNSSKJÖLDUR krínglóttur (sylgja), sem líklega er skjöldur framan af söðli; á hana er grafið með höfðaletri: SNIÓFRIÐVR IÓNS DÓTTER, Á, SILGJVNA. Amma gefandans hafði þenna skjöld á reiða.

718. S. d. Andrès Helgason á Máná á Tjörnesi: Tveir samkynja BRÓKARHALDS-HNAPPAR úr látúni, eins og Nr. 195.

719. $^{26}/_{7}$ 69. Professor George Stephens í Kaupmannahöfn: DAGBÓK Professors Finns Magnússonar fyrir árin 1812—1813.

720. S. d. Húsfrú Guðrún Jónsdóttir í Reykjavík: RÚMSTOKKUR; hann er mjög einfaldur, strikaður og hleypt inn í hann þremur slèttum spjöldum; upprunalega hafa þau ef til vill verið fjögur. Hann var áður með bríkum, sem nú eru brotnar af, á þær var skorin skrúflína (*spiral*) með blaði innan í. Maður Guðrúnar, Jón Jónsson á Elliðavatni, sagði henni, að það væri

óyggjanda, að þetta væri rúmstokkur Jóns biskups Vídalíns, en ástæður mundi hún ekki. Páll Melsteð, málaflutníngsmaður í Reykjavík, segir svo frá, að Jón heitinn á Vatni hafi sagt sèr, að Páll klausturhaldari hefði fengið rúmstokkinn frá þíngvöllum, ásamt lögrèttuborðinu síðasta. Guðrún þorkelsdóttir, systir Jóns biskups, var gipt Árna þorvarðssyni presti á þíngvöllum og prófasti í Árnes sýslu.

721. 3/8 69. Keyptir gripir: þrír LAUFAPRJÓNSHNAPPAR(?) úr silfri gylltir (heldur en litlir svuntuhnappar), þeir eru með víravirki og krossmarkslaufum, líkir Nr. 616, en nokkuð stærri, sbr. skiptabrèf eptir Jón prófast Jónsson í Stafholti 1740: „þrír svuntuhnappar stórir með gylltu víravirki og krossmarkslaufum".

722. S. d. Keyptur gripur: Einn ERMAHNAPPUR úr silfri, gylltur með víravirki, gamallegur, með laufi, gerðu sem laufblað með skörðóttum röndum.

723. S. d. Guðmundur Bjarnason prestur á Melum: SIGNET úr kopar; það er á ás með þremur hliðum, og er *F* á einni hliðinni, en *S J S* eða *S F S* virðist að vera á hinum. Að ofanverðu vinda sig tvisvar saman tvær álmur, sem enda með ormshausum. það fannst í Norðurlandi.

724. 10/8 69. Magnús Steinsson,ýngispiltur á Kotvelli í Hvolhrepp: Fornt INNSIGLI úr bronzi; á því er skjöldur með sporði, sem markaður er á manns armleggur, sem heldur á spjóti. þar fyrir ofan er stjarna. Allt í kríng á innsiglið er grafið með hálf-engilsaxnesku latínuletri: *S*(igillum): *Thoslavi*, eða *Thoslaci*, *F*: (=filii) *Iohis* (innsigli þorleifs, eða þorláks, sonar Jóns); það er í laginu eins og Nr. 331 og Nr. 351, en krínglótt. það fannst í tóptarbroti, og mun vera frá 14. öld eða eldra, því hèr er haft *s* fyrir *r*.

725. 23/8 69. Ýngisstúlka Jakobína Jónsdóttir í Reykjavík: RÚMFJÖL skorin með hnútum og rósum,

sumum eins og sporasaum; þar er á fángamark *Wlg* (=Valgerdur) *S. D. 1701.*

726. 26/8 69. Ragnhildur Jónsdóttir, húsfreyja á Suður-Reykjum: Tveir HEMPUBORÐAR samkynja, flosaðir með rós.

727. 1/9 69. Sigurður E. Sæmundsen, nú verzlunarstjóri á Vopnafirði: TRAFAKEFLI, á það er skorið með almennum rúnum: ARNDIS ÞORSTEINSD. A. M. 1707. Það á að vera smíðað úr birki úr Grafarskógi í Eyðaþínghá í Múlasýslu, sem nú er upprættur.

728. S. d. Sami: ÁBREIÐA vönduð, saumuð öll með einskonar kross-saum; hún er með 9 litlum hríngum með átta blaða rós innan í; þar á milli eru ymsar marglitar rósir, mest í hálf-býzönskum stíl. Þar utan um allt í kríng eru breiðir laufaviðar-bekkir, margbrotnir, en þó haglega gjörðir, þar má þekkja hálf-útsprúngnar rósir, og ef til vill fleiri blóm. Á annan endann er saumað með bandaletri: ÞÓRA, STEPHÁNS, D., og á hinn: ANNO M. D. C. C. V. Þessi Þóra á að vera Þóra dóttir sira Stephâns Ólafssonar í Vallanesi. Ábreiðan hefir alltaf verið í ættinni.

729. 3/9 69. Keyptur gripur: KÍNGA ÚR SILFRI gyllt, eða peníngur annars vegar með mynd hins helga Stephâns frumvottar (*protomartiris*), og þar utan um: *S. Steph*; *proto mar.* og hins vegar: *Ein. orts. thaler. 1625.*

730. S. d. Keyptur gripur: KÁPUHNAPPUR úr silfri gylltur með víravirki, gamallegur; hann er flatur, með upphleyptri bólu í miðju, og með 4 götum utan í röndinni, og hefir hann verið auðsjáanlega saumaður á klæði, líkt og Nr. 367.

731. 9/9 69. Sigurður E. Sæmundsen, verzlunarstjóri á Vopnafirði: SILFURSKEIÐ með aflaungu blaði; á hana er grafið: SRA GUDMUNDER PAULSSEN ANNO 1717; hún vegur 3½ lóð.

732. ($^9/_9$ 69. Sigurður E. Sæmundsen á Vopnafirði) BIKAR úr silfri, með ártali 1827, vegur 4½ lóð. Af því vèr álitum það hagkvæmara fyrir safnið, seldum vèr bikarinn, og keyptum fyrir hann þrjá svuntuhnappa gyllta, með víravirki, Nr. 732, með fángamarki *Th. S. D.* — þeir vega 4 lóð og 3 kvintín.

733. $^{19}/_9$ 69. Húsfrú Sigurlaug Pètursdóttir á Íngunnarstöðum í Kjós: þrír samkynja SVUNTUHNAPPAR úr koparblendíng með víravirki.

734. $^{30}/_9$ 69. Sigurður Thorarensen skólapiltur, frá Felli: HAMÍNGJU- eða NÁTTÚRU-STEINN, brúnn að lit, einsog hann væri rendur.

735. S. d. Sami: Flekkóttur NÁTTÚRUSTEINN, óvanalega fagur. Þegar menn fundu óvanalega steina, báru menn þá á sèr, og hèldu, að þeir gæti afstýrt ymsri óhamíngju, t. d. ef smalar báru þá á sèr, hèldu þeir, að engri sauðkind gæti hlekkzt á, meðan þeir bæri þá á sèr, sjá Nr. 750—751 *a*.

736. S. d. Ólafur Björnsson skólapiltur frá Stóru-Seilu: Stór NÁL úr bronzi, hún er sívöl að ofan, en nokkuð flöt að framan, 4¾ þuml. á lengd; á endanum er orms eða drekahöfuð með eyrum, sem fitjar upp á trýnið, og hefir hríng í kjaptinum, sem er ⅓ þuml. þvert yfir. Það er nú varla efunarmál, að þessi hlutur er frá voru elzta tímabili, sjá Kálfborgarár-fundinn: 739—744 og 808—809. Þessi hlutur fannst fyrir norðan Þorljótstaði, sem er fremsti bær í Skagafjarðardölum, ásamt litlum silfurskildi smá-krotuðum (líklega möttulsnisti)[1], og sex höfuðskeljum af mönnum, en engum

---

[1]) Eg hefi ekki með neinu móti getað fengið skjöldinn, og er því ekki hægt að segja neitt um það, til hvers hann hafi verið hafður. Það er mjög óheppilegt, þegar menn á þann hátt bægja öllum frá, að geta haft þann rètta fróðleik af því litla, sem finnst af fornmenjum, og sem þó að eins er 2—3 marka virði.

öðrum mannabeinum. Þar hafði fallið skriða efst ofan úr fjallsbrún, sem um leið myndaði nýtt jarðfall, og fundust þessir hlutir ofan á skriðunni. Hvernig á þessum höfuðskelja-fjölda stendur, sem fundust hèr einsamlar án allra annara mannabeina, er valt að geta, en þó má gjöra sèr það skiljanlegt. Eins og kunnugt er, liggja forn íslenzk dys opt frá norðri til suðurs, eða frá landnorðri til útsuðurs. Hafi hèr verið forn grafreitur frá austri til vesturs, og höfuðin hafi snúið í suður eða norður, þá er mjög eðlilegt, að skriðan, sem fèll frá austri til vesturs, hafi einúngis tekið með sèr höfuðskeljarnar af dysjunum, en skilið allt hitt eptir. Þessi nál er auðsjáanlega kvennmanns gripur, sjá Nr. 808, sem er eins, og skjöldurinn bendir á það sama (það er illt að maður hefir ekki sèð hann). Það eru því allar líkur til, að hèr hafi verið forn grafreitur, og grafið saman karlar og konur, líkt og grafreiturinn hjá Kálfborgará.

737. $^{2}/_{10}$ 69. Þorvarður Kjerulf frá Melum í Norðurmúlasýslu, skólapiltur: HORNSPÓNN með ártali *1740*; vantar tigul, sem var aptan á skaptinu.

738. $^{3}/_{10}$ 69. Hallgrímur Melsteð, skólapiltur í Reykjavík: Lítið KROSSMARK eða róðukross úr kopar; krossinn er gjörður í gotneskum stíl, og hefir að neðan verið negldur á undirstöðu-stètt; á honum neðanverðum til beggja hliða eru tveir englar.

739. $^{8}/_{10}$ 69. Baldvin Jónatansson á Stóruvöllum í Bárðardal: SPJÓTSODDUR forn úr járni; það er fjaðraspjót, og er fjöðrin 6 þuml. laung, en $1^{1}/_{12}$ á breidd efst, en alls er lengd spjótsins með falnum 10 þuml. og $^{1}/_{2}$; falurinn er brotinn, og er að mestu heill endinn af spjótskaptinu, sem er inni í falnum, nema hvað það hefir dálítið flaskazt úr einni hliðinni; skaptið hefir verið úr einhverju grófþráðóttu trè, líkustu eskivið (?), og hefir það verið hálf-hroðalega tálgað, frammjótt í endann. Endinn á skaptinu, sem hefir gengið inn í falinn, er alls 2

þumlúngar og 1/6 á lengd, en digurð skaptsins, þar sem það fer inn í falinn, er 4/6 þumlúngs, og er því ekki að undra, að fornmönnum gengi opt greitt að slá í sundur spjótsköptin, er þau voru svo mjó, sjá Nr. 216. Spjótið hefir verið vandað, og er oddurinn á því enn hvass og nærri því óryðgaður, af þeirri orsök, að hann lá á ská ofan í móhellu.

740. (8/10 69. Baldvin Jónatansson á Stóruvöllum í Bárðardal): Lítið NISTI úr bronzi krínglótt, það er einn þuml. þvert yfir; að neðanverðu á því er járnnál, sem leikur á þolinmóð úr bronzi, eins og nú er haft á brjóstnálum, hún er nú meir en hálf-ryðguð burt. Að ofan eru þrjú höfuð, líkust bjarndýrshöfðum, sem snúa saman trýnunum, og í miðju er óglöggt krot, líkast ormahnút(?). — Nistið hefir allt verið gyllt.

741. S. d. Sami: Krínglótt PLATA undan öðru nisti, sem líklega hefir verið eins að gjörð og hitt, og samkynja; því platan er úr sama efni og jafnstór, með gati í miðju að neðan, og tveimur eyrum á, með götum fyrir nálar-þólinmóðinn, sem hefir verið úr járni, og hulstri fyrir nálarendann, eins og á brjóstnál; til hliðar við nálina hefir verið eins og hnappfótur, eða auga til að sauma í (nistíng), eða til að sauma nistið fast á möttulinn til frekari fullvissu um að ei týndist, sbr. Nr. 190 og 97. þessi augu sjást opt, einkum á þríblöðuðu nistunum eða dálkunum. Nú höfum vèr fundið svo mörg af þessum nistum, tvö og tvö saman með kvennmanna gripum öðrum, að vèr getum varla efazt um, að konur hafi borið þau á möttlinum, til beggja hliða á brjóstinu, þar sem tigillinn var festur við möttulinn, eins og seinna tíðkaðist[1]. Oss er því orðinn nokkurn-

---

[1]) Nr. 371, sem fannst í Vatnsdal nálægt Hofi, fannst líka ásamt öðru nisti, sem glataðist. Eigi veit eg, hvort þar var haugur eða dys, en eitthvað settu menn þessi nisti í samband við Ingimund hinn gamla á Hofi, eða hans ættmenn.

veginn ljós þessi hluti af því hinu forna kvennsilfri, og hvernig það var í hátt.

742. S. d. Sami: Tvær TÖLUR úr gleri, hnöttóttar og gular að lit.

743. S. d. Sami: Ein TALA úr gleri, blá að lit og aflaung, mjó til beggja enda.

744. S. d. Sami: Ein TALA úr gleri, hnöttótt og græn að lit, brotin. Allar tölurnar eru með litlum götum; lag þeirra, að þær eru bæði hnöttóttar og aflángar, bendir helzt á, að þær muni vera úr fornu steinasörvi; þær eru reyndar nokkuð fáar, sem fundust, en bæði er óvíst að þær hafi fundizt nærri allar, og líka gátu margar tölurnar hafa verið úr því efni, sem hæglega gat fúnað eða eyðzt. Menn gætu hugsað sèr af því, hvað lángt var á milli talnanna, þá er þær fundust, að þær hefðu verið einhverstaðar á möttlinum, en til þess eru þær líka of fáar, eða á höfuðbandi, en varla sem hnappar, því aflánga talan er að minnsta kosti óhæf til þess.

Allir þessir hlutir fundust sumarið 1869 austan megin Skjálfandafljóts, niður undan bænum Kálfborgará í Bárðardal. Þar voru fimm leiði, sem lágu öll í röð í beinni línu frá norðri til suðurs, en hvert leiði lá í stefnu milli vesturs og útsuðurs og frá austri til landnorðurs. Í syðsta dysinu fannst ekkert, nema manna bein; í næsta dysinu þar fyrir norðan, sem var 12 álnir frá hinu, fundust bæði mannabein og nistin, sem lágu ofarlega við beinin; þar fundust allar tölurnar, sem lágu ofarlega við beinin, og var hèrumbil alin á milli þeirra gulu, og eins var sú hin bláa og græna talan sèr; þar fannst og síðar stíll eða nál, sjá Nr. 808; í næsta dysi þar fyrir norðan, 12 álnir frá hinu, fundust mannabein og spjót, og lá spjótið vinstra megin við beinin. Í næsta dysi, sem var 10 álnir þar fyrir norðan, fundust tvenn hestbein og járnhríngja, sjá Nr. 809. Hestarnir höfðu legið beygðir í hríng innan í dysið, sem var kringlótt og hlaðið grjóti þar að utan með mikilli hleðslu og stóru

grjóti. 12 álnir þar norður frá fannst ennþá dys, með engu í, nema manns beinum. Öll beinin voru mjög fúin. Öll manna-dysin voru ferhyrnd og aflaung (eins og grafir nú á dögum); utan um þau öll var hlaðið steinum í ferhyrníng, en lausa-grjóti kastað ofaná dysin. þessi dys hafa lengi verið að blása upp, og hafa þar jafnan sèzt mannabein ofanjarðar; þó hafa dysin engin nöfn. Gefandinn fann sjálfur alla þessa hluti, og kvaðst hann hafa leitað vandlega og eigi fundið meira.

Eptir öllu fyrirkomulagi grafanna að dæma, þá er auðsèð, að þetta er gamall grafreitur úr heiðnum sið. Hèr virðist að vera grafin samhliða maður og kona, hún með gripum sínum og húsfreyju-áhöldum, en hann með vopnum, og þar hjá reiðskjótar þeirra beggja, er þau áttu að ríða til Valhallar, og lengst burtu verkmenn þeirra, eða þrælar eða ambáttir; vèr getum búizt við að finna marga þess kyns grafreiti hèr á landi, sjá Nr. 736 og eins Hafurbjarnarstaða fundinn.

745. 8/10 69. Guðni Guðmundsson skólapiltur frá Mýrum í Dýrafirði: SIGNET úr tönn, rennt, með stöfunum *I V? S.* og *I B* seinna grafið.

746. S. d. Keyptur gripur: BELTISPÖR gyllt úr silfri, vönduð, með þremur englamyndum á hvorum stokk og tveimur borgarhliðum eða heiðurshliðum; á skildinum er boðun Maríu, og þar yfir með latínuletri: *Maria dv. allein. solst Christi Mvtter seyn*, sem sýnir að pörin eru þýzk.

747. 20/10 69. Guðríður Einarsdóttir í Reykjavík: BELTI allt sett með marglitum perlum, sem mynda margbrotinn rósa-uppdrátt; þau voru opt höfð einúngis svört.

748. S. d. Sama: Tveir HOLLINDAR eða sessulindar, ofnir á fæti sínum.

749. S. d. Sami: Einn HOLLINDI digrari.

750. ²⁶/₁₁ 69. P. L. Petersen rennismiður, í Innri-Njarðvík: Gamall LAUSNARSTEINN.

751. S. d. Sami: LAUSNARSTEINN, sem er nýlegur.

751 a. S. d. Sami: Eins LAUSNARSTEINN. Þessir þrír steinar eru úr eigu nafnkendrar yfirsetukonu, og sýna, hvað menn kölluðu þessu nafni.

---

## 1870.

752. $^{10}/_{2}$ 70. Mensalder Raben Jónsson í Árbæ á Rángárvöllum: Gömul SYLGJA þornlaus úr kopar, stór, ofan á hana hafa verið lóðaðar 2—3 aflángar plötur með tini, líkt og á Nr. 198. Ofaná henni er og máð samskonar letur, eða líkt. Annarsvegar á hana virðast síðar að hafa verið negld tvö eyru úr látúni, en ekki er hægt að sjá, í hverjum tilgángi. Hvort þessi sylgja hafi verið höfð sem lykla-sylgja, eða til að næla með föt að sèr, er ei hægt að ákveða. Hún fannst uppblásin á sandi nálægt Árbæ sumarið 1869.

753. $^{30}/_{3}$ 70. Ebenezer Guðmundsson, silfursmiður, á Minna-Hofi á Rángárvöllum: BRÓKARHALDS-HNAPPUR úr kopar.

754. S. d. Sami: UPPHLUTSREIMAR-NÁL úr silfri, öll með rósum á tvær hliðar, óvanalega vel gjörð.

755. $^{21}/_{4}$ 70. Keyptir gripir: Tveir litlir SVUNTU-HNAPPAR gylltir, úr silfri, með mjög vönduðu víravirki og gröfnum laufum, með smáskörðóttum röndum í líkíng af laufblaði.

756. $^{21}/_{4}$ 70. Keyptur gripur: Flatur HNAPPUR gylltur, úr silfri, nokkuð lítill, líkur í laginu og þeir svo kölluðu kápuhnappar, en með sex smálaufum uppúr og útúr röndinni allt í kríng, og bendir allt á, að hann hafi upprunalega verið gjörður til að standa beint upp, en

ekki til að hánga; á honum er stórgert víravirki í býzönskum stíl, líkt og á Nr. 704, 706, 757, 781 og 792. Lauf var og upp úr honum miðjum, sem auðsjáanlega hefir verið sett seinna í, og sem var miklu ýngra. Til hvers þessi hnappur hafi verið hafður, er óljóst, þó er líklegt, að hann hafi verið hafður annaðhvort í skarðhúfukoll eða í höttkoll, því það er víst, að menn höfðu líka hnappa af líkri stærð ofaní miðjum höttkollinum; sjá Nr. 794.

757. S.d. Keyptur gripur: Stór KÁPUHNAPPUR gylltur og flatur, með fjögur göt í röndina, og alveg eins að gjörð og Nr. 704, nema hann er flatur neðan, og húfa neðan á, sem götin eru líka boruð í gegnum; hann er og frá sama tíma. Eg hafi áður við Nr. 367, sem er að öllum líkindum samskonar hnappur, getið um, að mestar líkur sè til, að þessir hnappar hafi upprunalega ekki verið hafðir sem hnappar, heldur sem möttulskildir eða hempuskildir. Þetta sanna nægilega götin, sem opt eru í randirnar á þeim, þótt seinna hafi verið opt sett húfa með fæti neðan á þá, eins og á Nr. 730. Líka hefi eg sèð þá marga laufalausa, og eg hygg, að laufin sè ætíð sett seinna í þá alla, þegar þeir hafa lauf. Nafnið á þessum hnöppum sannar og sögu mína; þeir eru allajafna kallaðir káp uhnappar, að öllum líkindum af því, að þeir hafa allir upprunalega verið hafðir á kápum eða möttlum, heldur en á hempum, því sumir af þeim virðast að vera frá 16. öld, eða eldri en hempurnar, eins og Nr. 367 og Nr. 600, sem upprunalega mun hafa verið gjörður til að vera möttulskjöldur eða nisti, þó hann væri síðast hafður í skarðhúfukolli[1].

[1]) Orðið kápa er opt í sögunum, og einkum á seinni öldum, haft í almennri merkíng, sem getur náð yfir flestallar yfirhafnir,

758. $^{21}/_{4}$ 70. Keyptur gripur: KOFFUR eða belti gyllt úr silfri, með ágætu loptverki í gotneskum stíl; stokkarnir eru 7, rúmur hálfur þumlúngur á breidd og mjög bognir; mjóddin bendir á, að þetta sè koffur (en ekki belti) frá 16. öld, svo sem stíllinn einnig vottar. Þá höfðu konur opt höfuðbönd með stokkum, sem myndir frá þeim tíma sýna, og tvö af þeim eru enn til, sem grafið er á: *ave Maria*; annað er í forngripasafninu í

---

eins og orðið yfirhöfn hjá oss nú á dögum, sem merkir ekkert sèrstakt lag á yfirfati, sbr. Kötlu-draum 23. (25 er.):

„Kastaði hún yfir mig
kápu sinni,
sem grátt var skinn undir
en guðvefr yfir,
sú var skikkja
skorin fimlega,
og búin skrautlega
af brenndu gulli".

En þó var það upprunalega, að orðið kápa hafði einskorðaða merkíng. Þess vegna er líklegt, að menn hafi opt kallað í daglegu tali þann eiginlega möttul kápu, og þessvegna möttulskildina opt kápuskildi eða kápuhnappa. — Hvenær möttullinn lagðist af, er mèr enn ekki alveg ljóst, en hann var algengur á Þýzkalandi fram yfir 1574, og mun að vísu hafa tíðkazt hèr á landi fram á 17. öld, sbr. skiptabrèf Kristínar Guðbrandsdóttur biskups: „Þorláki mínum fæ eg kápu mína fyrir 5 hdr., upp í þann 10 hundraða stakk faðir minn sál. gaf honum, og eg hafði fargað". Í Þórnaldar-þulu er og getið um kvennkápu:

„Gunnlög lætur töngla.
kápuna hefir hún fellda."

En það er ekki vel að marka, því allt er þar mælt öfugt. Eptir möttulinn kom hempan, en nær hún kom fyrst hingað til lands er mèr enn óljóst, það er eitthvað nærri 1600 (?).

Kaupmannahöfn, en hitt á Frakklandi; það var gyllt og „emalerað". Á hverjum stokki er helgur maður með „gloriu" um höfuð, einn heldur á krukku eða reykelsiskeri, annar á staf eða lurk (líklega hinn helgi Christophorus, lávarður ferðamanna), þriði á sverði (=St. Páll eða hin helga Margrèt), fjórði heldur á bók (= María Magdalena), fimti heldur á krukku, sjötti heldur á krók-ör (= St. Sebastian), sjöundi heldur á kaleik. Á stokkana vantar allt að helmíng. Þessi fjöldi af helgum mönnum, sem hèr eru sýndir, er vottur þess, að þetta koffur muni vera frá katólska tímabilinu.

759. $^{21}/_{4}$ 70. Keyptur gripur: Sex SILFURBÓLUR litlar, sem voru á sama belti og næsta Nr. á undan, þær eru með snúníngi á röndinni og að ofan með arnarmynd, með bólu á brjóstinu, líkt og tíðkaðist á fornum skjaldarmerkjum; undir sumum af þeim er ás, og á fjórum af þeim sèst votta fyrir lykkju, sem hefir verið við ásendann, en sem að mestu leyti er sorfinn af. Það er því auðsèð, að þetta hafa verið spennur upprunalega og hafa verið sorfnir af þeim krókarnir og lykkjurnar, til að gjöra þær að beltisdoppum. Samskonar spenna er Nr. 170 *a*, sem eg áður hèlt að væri hnappur, hún er af líkri stærð, rúmur $^1/_2$ þumlúngur þvert yfir, með ás undir, og er lykkjan heil; hún er og með 4 götum, til að festa spennuna á með. Rósin, sem er ofan á henni, sýnir, að hún muni vera heldur frá 16. öld, heldur en frá 15. öld. Spennuna, sem átti að vera á móti með króknum á, vantar, því spennan hefir týnzt líklega á 16. öld. Eg er á því, að allar þessar spennur sè frá 16. öld; því það er alveg víst, að þá heyrðu alsendis eins spennur til kvennbúníngnum. Sem sönnun fyrir þessu verð eg lauslega að lýsa kvennbúníngnum, eins og hann var á 16. öld, eptir þeim myndum og lýsíngum, sem til eru frá þeim tíma.

Á höfði báru þá konur beina falda (strompa), alhvíta niður í gegn, og höfuðband um ennið (koffur) með stokkum, eða þá krínglóttum doppum á, opt með stímu að ofan og neðan á röndunum; bandið undir virðist helzt að hafa verið hvítt, eptir myndunum að dæma; líka höfðu þær 3—5 litla laufaprjóna framan í faldinum, helzt ef þær höfðu mikið við; þeir sjást á myndunum. Um hálsinn báru þær hvíta kraga (spánska) litla, með óreglulegum pípum og ekki þèttum; sbr. vísu frá 1625 við Nr. 629. Þær báru slèttan og einfaldan síðan kyrtil, með sama lit frá efst til neðst[1]; hann var alveg ólagður, nema ef til vill að neðan, því á sumum myndum sèst ein rönd þvert yfir kyrtilinn að neðanverðu, líkast því þar væri lagður á borði, bilkorn fyrir ofan faldinn. Þetta gæti og hugsazt að væri undirkyrtill, sem sæist niður undan hinum. Ermarnar voru lángar og slèttar, nokkuð uppvíðar, en fram-mjófar, og sjást stundum hvít og slètt ermalín (mansèttur) fram undan þeim, en stundum engar[2], hvort

---

[1]) Þeir voru opt dökkbláir og grænir, og að öllum líkindum líka rauðir, eins og mikið tíðkaðist í fornöld, og eins á 17. og 18. öld, sbr. vikivaka-þuluna:

„bláklædd og rauðklædd
hleypur hún út um teigana,
fegnir vilja piltarnir eig'ana", o. s. frv.

sbr. „blóðrautt fatið brúðrin á", o. s. frv. — en græni liturinn virðist mikið að hafa verið tíðkaður á 16. öld, sem bæði sèst af myndum og kvæðum, t. d. vikivaka-þulunni:

„Út gekk hún grænklædd,
með gult undirfóðrið;
hún er svo dramblát:
hún vill ekki drekka
utan af silfurskálum". o. s. frv.

[2]) Líklegt er, að kraginn og ermalínin hafi verið upprunalega áföst við línskyrtu, sbr. kvæði sem kallast „Einn kveðlingur", dauðinn er þar látinn tala við konur þessum orðum:

ıyrtillinn hèfir þá verið alveg heill frá efsta til neðsta, ›ða skorinn sundur um mittið (treyja og pils), er efasamt, )ví svo greinilegar eru ekki myndirnar, en eg held helzt ıann hafi verið heill og með pils-opinu að framan, eins ›g á 14. og 15.(?) öld var altítt í útlöndum; ofan ífir pils-opið lagðist þá beltissprotinn eða lindinn, og ıkýldi því, og þess vegna munu *lindarnir* (sprotabeltin) ıafa verið þá svo altíðir; þeir voru vanalega með lopt'erki, gjörðu í gotneskum stíl, eins og Nr. 773 og Nr. l91, sem er frá sama tímabili; sbr. skiptabrèf eptir Stephın biskup 1518—19: „silfurlindi og af sprotinn". Þá ›áru konur púng við beltið, eins og á 13. öld, sem hèkk sylgju (sjá Nr. 363), og var hún opt fest við lindann ínstra megin[1] við hríngjuna í gróp, sem var til þess

„Gull og góða pellið,
gángur, hárflèttu-sprángið,
skór og *skyrtur dýrur*,
skrúðfaldarnir prúðu,
topphúfur og typpi,
tál, oflætisbrjálið,
í dauðans dimmum kviða
og dansi hljóta að stansa".

Tekið úr kvæðabók, á hverrar titilblaði er ritað: *„kostgæfilega saman hent og að dregin af virðulegum ættgöfugum herramanni Magnúsi Jónssyni á Vigur"* † c. 1590 (1705?). Þarí er líka:

„Ákaflega að sverfa og saga,
svíða kol og fella stál,
breyta um skrúð og skyrtukraga
svo skarta mætti nokkur mál,
ýldukofar að sèr draga
allt í burt frá mannsins sál.

Kvæðið heitir: „af gagnslausri heimsins áhyggju, sem óðum gleymist". 2. erindi.

[1]) Sbr. vikivaka-þuluna:

„Beltið hefir hún breitt um sig,

gjört í hríngjustokkinn, eins og sèst á Nr. 191; þau gróp hefi eg sèð á tveimur lindum frá þeim tíma, ýmist 1 eða 2, og með 4—5 smágötum í miðju, til að sauma sylgjuna eða púnginn fastan við lindann. Á sprota-endanum var opt lauf, sem sèst bæði á myndum og í kvæðum, sjá t. d. „*Íslenzk fornkvæði*", I., 14. bls.:

„Elen litla kvað svo hátt
— *laufið á þann linda*" —.

Sumar höfðu belti með pörum og krínglóttum skildi í miðju, með gegnumhöggnu verki í gotneskum stíl eða býzönskum, eins og Nr. 189, og með doppum fyrir stokka, sem líka sèst á myndunum bæði frá 15. og 16. öld. Þær hengdu mjófa og lánga hvíta líndúka (klúta) á lindann vinstra megin; þá var ekki svunta til, hún sèst að minnsta kosti ekki á myndum frá þeim tíma. Á brjóstinu var kyrtillinn kræktur saman með 3—4 og ef til vill 6 röðum (pörum) af silfurspennum, ýmist gylltum eða hvítum, eins og Nr. 759. Þessar spennur voru ýmist samsettar af 2 eða 3 bólum, eða hálfkúlum, þær voru af ymsri stærð, og af ymsu verki og ymsum fjölda, eptir því sem konurnar voru ríkar. Ef spennurnar voru stórar, þá voru þær að eins 3 raðir, en væri þær litlar, voru það 4—6 raðir. Þetta sèst allt á myndunum, sjá t. d. A. M. 345 Fol. p. 38; sbr. testamenti Daða í Snóksdal 1547; þar segir: að hann hafði áður gefið Guðrúnu

---

beltishnapprinn hángir við,
sylgjan fögur á hægri hlið
svo hofmannlega ber;
víst máttu gipta
lilju gulls mèr".

Hèr er sylgjan borin á hægri hlið. Enskar konur báru þ eins linda með púng við, stundum hægra megin; á sprota-endanum var lauf; þær höfðu slètt uppbrett ermalín. Frakkneskar konur höfðu og púng eða tösku við beltið á 14. öld.

sinni „kross oc linda oc nokkur spensl"; það hafa að líkindum verið þesskyns kyrtilspennur. Það er auðvitað, að ymsar smábreytíngar hafa getað átt sèr stað á búníngnum á 16. öld, sem eg ekki þekki, eða hefi eigi hèr tekið fram[1], en þetta, sem hèr er talið, ætla eg áreiðanlegt. — Hvað lengi þessi búníngur hefir haldizt við, er nokkuð óljóst, en það er ætlun mín, að hann hafi haldizt mikið til óbreyttur fram yfir 1600, og ef til vill fram undir 1640; um það er samt illt að ákveða enn sem komið er, því hempan skýlir optast innri búníngnum á myndum frá 17. öld. Til sönnunar fyrir þessari minni ætlun verð eg hèr að tilfæra vikivaka-þulu, sem lýsir alveg sama búníng og áður er lýst, og sem hlýtur því

---

[1]) t. d. viðvíkjandi því, hvað brúðarfaldar voru þá mismunandi frá öðrum földum, er konur báru annars. Þeir voru eins, nema hvað á þeim var bryggja að ofan, sem skaut sèr út, opt sett með silfurskjöldum, og var einn stærstur að framan. Þetta er af útlendri rót og stælt eptir húfum, er riddarafrúr báru í útlöndum (likir faldar tíðkuðust og á 15. öld, en þó skjaldalausir að ofan). Þetta mun einúngis hafa heyrt til brúðarbúníngi. Það litur helzt út fyrir, að þessar tegundir af földum hafi verið hafðar tilbúnar eins og húfur, til að setja á höfuðið, eins og faldarnir núna, og einhverir þess kyns faldar eða faldhúfur munu það vera, sem i vísunni hèr á undan er kallað „topphúfur" og „typpi" (og „skrúðfaldar", það síðastnefnda mun þó helzt lúta til brúðarfaldsins, sem eg áður gat um), sjá Espól. Árbækur III, 31; Þar segir: „Einn morgun kom Helga, móðir Ara (lögmanns), til hans, þar hann svaf, og hèlt á kvennskauti; hann spurði, hvað það skyldi? Hún kvaðst mundi skauta honum sem dóttur sinni, þar sem hann teldist undan að fylgja föður sínum til rèttra mála". Hèr virðist skautið að vera tilbúið, því annars hefði verið sagt: hún hèlt á trafi, en ekki skauti, sbr. Uppsala Eddu: þar segir, að „Nanna sendi Frigg fald", en ekki Skauta (= klút eða traf) nè efni í fald. Á 15. öld höfðu líka konur samhliða þessu alhvíta strompa, vafða upp úr tröfum, og eins á 16. öld:

að vera frá því um 1600, eða frá fyrra hluta 17. aldar:

„Stúlkurnar gánga
sunnan með sjó
með línsvuntur lángar
og lèreptin mjó.[1]

það skal vera stúlkan mín,
sem á undan gengur:
hún ber gull og festi[2],
spennur ofan á belti;
laufaprjóna ber hún þrjá[3],
fögur er hún framan á,
með gullspaung um enni
og það sómir henni
(stúlkunni minni)".

það, sem hèr er frábrugðið í búníngnum frá fyrri lýsíngunni, er það, að línsvuntan er hèr komin, en hún mun fyrst hafa komizt á hèr á landi nálægt 1600(?)[4]. — Konur virðast líka að hafa haft samkynja spennur þeim, er þær höfðu á brjóstinu, á ermunum á 16. og 17. öld, sem sèst af skiptabrèfi Kristínar Guðbrands dóttur biskups. þar er getið um „litlar ermaspennur". Samt hafa þær

---

[1]) þ. e. klúta við beltið.

[2]) fíngurgull og hálsfesti.

[3]) sbr. skiptabrèf Kristínar Guðbrands dóttur biskups.

[4]) Eg hefi fyrst sèð þær á myndum frá 1647. Þær eru þá slèttar og ólagðar, einlitar, og virðast helzt að vera úr líni, þær eru gular og grænar að lit á myndum, þeim er líka lýst rauðum í kvæðum:

„Blátt var pils á bauga lín,
blóðrauð líka svuntan fín,
lifrauð treyja, lindi grænn,
líka skautafaldur vænn".

þetta er úr þulu, sem á að vera frá dögum Brynjólfs biskups, sbr. „*Íslenzkar þjóðsögur*".

eflaust líka haft ermahnappa þá, því þeir eru altíðir á konum laungu fyr í útlöndum, og á karlmönnum sjást þeir hèr á landi um 1300. Eptir öllu þessu er og mjög líklegt, að konur á fyrri hluta 17. aldar hafi haft spennur á treyjunum á brjóstinu, eins og þær eg áður hefi lýst[1]; en þó er alllíklegt, að þær hafi opt hneppt treyjunni saman á brjóstinu með 9 smáhnöppum úr silfri, líkum að stærð og minnstu ermahnöppum; þetta sèst á mynd frá 1680, og eru þar líka ermarnar reglulega hneptar saman með fimm smáum laufalausum hnöppum. Þetta var siður laungu fyr í útlöndum.

760. $^{21}/_{4}$ 70. **Keyptur gripur**: Steyptar MYLNUR úr silfri, sex á hvern barm.

761. S. d. **Keyptur gripur**: Steyptar LAUFA-MYLNUR úr silfri, alls níu, með gegnum-höggnum krossi í miðju.

762. $^{27}/_{4}$ 70. **Keyptur gripur**: *Saga Ólafs Tryggvasonar*, prentuð í Skálholti, M.DC.LXXXIX, og vantar aptan á hana. Á sömu bók er og *Landnámabók*, prent-

---

[1]) Krókapör, eins og nú tíðkast almennt, munu eigi hafa verið orðin algeng fyr en eptir miðja 17. öld. Einhverra líkra para er að eins getið í *taxta* frá 1619: „1 *Krands Hegter* 2—3 fiska (= krókakerfi)"; verðið er líkt og til skamms tíma hefir verið á þeim. Í töxtum frá 1684 og 1702 er getið um „1 *ring hegter* á 2 fiska". Þetta eru annars slags pör. Í vikivaka-þulu er talað um ermaklæði:

„Ermaklæðin eins og blóð,
og átján hnappar í,
brúðurin er svo björt og rjóð,
hún ber af skarti því".

sem sýnir, að þá muni hafa verið komin krókapör, en búníngurinn, sem þar er lýst, er frá hèrumbil 1680. Ermaklæði eru litlar og mjófar klæðis-lengjur, sem ermahnapparnir vóru saumaðir fastir á, og var þeim krækt í klaufina á treyjuermunum, þannig, að knappur var milli hvorra tveggja paranna.

uð í Skálholti M.DC.LXXXVIII, vantar í formálann og mynd Íngólfs. *Christendomssaga*, prentuð í Skálholti sama ár, heil. *Schedae Ara* prestz fróða, prentuð í Skálholti 1688, heil. *Grænlands saga*, prentuð í Skálholti 1688. Við hana vantar titilblaðið og mynd Eiríks rauða.

763. 18/5 70. Keyptur gripur: Stór SVUNTUHNAPPUR(?) úr silfri, með vönduðu víravirki og tvöföldum snúníng um miðju. Maður getur skrúfað hann sundur í 5 parta; á laufinu er mynduð St. Maria í „gloriu", og niður úr því laufi eru aptur þrjú lítil lauf.

764. S. d. Keyptur gripur: Einn ERMAHNAPPUR úr silfri gylltur með víravirki.

765. S. d. Keyptur gripur: Einn ERMAHNAPPUR úr silfri, með víravirki, hefir og verið gylltur.

766. 11/6 70. Keyptur gripur: Níu karlmanns PEISUHNAPPAR, kollóttir að ofan og með bólu í miðju, og þar utan um fjögra blaða rós. Þeir eru flatir að neðan.

767. 13/6 70. Hjörtur Oddsson trèsmiður í Reykjavík: Lítið MANNSHÖFUÐ úr silfri, óvíst af hverju það er.

768. 20/6 70. Julia S. Engall í London: BRÈF Jóns biskups Arasonar um Draflastaða kirkju M.D.XXXVIII.—XL. skrifað á kálfskinn; undir því er stórt vaxinnsigli, með rauðu lakki innan í, hángandi, það er tveir þumlúngar þvert yfir; á það er markað krossmark, hægra megin við krossinn krýpur biskup í kórkápu og með bagal, við fætur hans liggur mítur og skjöldur með lilju á. Á innsiglinu er letur allt í kríng, mikið máð, og má lesa: *Holensis epi.* Innsiglið virðist hafa verið reglulegt listaverk sinnar tegundar.

769. 23/6 70. Páll Sigurðsson prestur í Miðdal (nú á Hjaltabakka): KIRKJUHURÐAR-HRÍNGUR, sem var þar í kirkjuhurð, á hann er grafið með latínuletri: *guð. mundvr. odd. son. á. hringenn. með. riettv. og? G. O. S.*

*Ao. 1682.* Þetta nafn bendir á, að þessi hríngur hafi ekki upprunalega verið gerður til að vera í kirkjuhurð.

770. ($^{23}/_{6}$ 70. Páll Sigurðsson prestur í Miðdal [nú á Hjaltabakka]): Kringlóttur SKJÖLDUR úr kopar, sem var undir hinum fyrnefnda hurðarhríng. Hann er allur með gegnum-höggnum hríngrósum í býzönskum stíl, sem 3 dýr smjúga í gegnum; rósirnar hafa upprunalega sameinazt í miðjunni, og þá hefir þar ekkert gat verið, en seinna hefir verið höggvið ferhyrnt gat á skjöldinn fyrir kenginn á hurðarhríngnum. Þessi skjöldur mun eflaust fyrst hafa verið gjörður til að vera framan á söðli. Eg hefi sèð þá öldúngis af sömu gjörð á söðlum.

771. $^{24}/_{6}$ 70. Jóhann Jónsson á Leysíngjastöðum: SKEIÐ úr ÍSLENZKA VEFSTAÐNUM, gjör úr hvalbeini, slitin.

772. $^{26}/_{6}$ 70. Þorleifur Hálldórsson bóndi í Bræðratúngu: Stór MELLULÁS úr járni; vantar kenginn með mellunum. Hann fannst í Bræðratúngu landi.

773. $^{27}/_{6}$ 70. Keyptur gripur: SILFURBELTI gyllt, 8 stokkar með ágætu loptverki, með blöðum gerðum í gotneskum stíl; á hverjum stokki miðjum er haukur, með útþanda vængi, og sem setur út vinstri klóna, eins og hann ætli að slá. Beltið er úr Borgarfirði; á því eru spennur settar saman af fimm bólum eða hálfkúlum með ás undir, sem er nýlega gerður. Bólurnar eru með samskonar loptverki. Þær hafa að öllum líkindum verið upprunalega hafðar á beltissprota, heldur en koffri. Eg hefi sèð líkar bólur á belti, sem var öldúngis heilt; þessar bólur voru áður á öðru belti, en eru þó einnig úr Borgarfirði. Þetta er allt gert í sama stíl og Nr. 149 og 191, sem eg áður gat um.

774. $^{29}/_{6}$ 70. Sigurður Guðmundsson málari í Reykjavík: „MÁLVERK ÍSLENZKUNNAR 1766 og þess skýríng í móðurmáli", gert til að vera framan við Friðriksdrápu, eptir Eggert Ólafsson. Þar er Ísland

myndað eins og kona með trafafald á höfði og barðastóran hatt þar ofan á með mjófum kolli[1] og skildi á hægri hlið, sem Eggert kallar í kvæðinu: „Ísland með ermahnöppum" þá fyrir laungu lagðan af. Hèr er hempan sýnd alveg ólögð að framan á börmunum, og mun það hafa mikið tíðkazt framanaf 18. öld, eins og framanaf 17. öld; þar sèst að eins lítil einskonar laufaleggíng yfir um handvegina. Hempan er og sýnd með stórum og víðum uppslögum, sem níu ermahnappar hánga í; uppslögin eru af öðrum lit en hempan, og virðast helzt að vera laus, eins og í skiptabrèfum, þar eru hempu-uppslög opt talin sèrstök, og bendir það á hið sama; þau sjást og laus á treyjum á myndum frá 1772, og er þeim þar smokkað upp á ermina, yfir ermahnappana.

775. S. d. Keyptur gripur: MÖTTULSKILDIR eða hempuskildir úr silfri, gylltir; þeir eru með gegnumhöggnum rósum og blöðum, gerðum í gotneskum stíl; þeir eru kræktir saman, og er St. María með barnið mynduð milli skjaldanna. Hugsazt gæti, að þess kyns skildir hafi verið hafðir fyrir hempupör, t. d. 3—4 á barm, á 17. öld en þó varla upprunalega, því þeir eru líklega eldri að uppruna en hempurnar? Skildir þessir eru að vestan.

776. 7/7 70. Keyptur gripur: Sex PEISUHNAPPAR úr silfri, hnöttóttir og grafin á fimm blaða rós, vel gerð.

777. S. d. Sigurður Guðmundsson málari í Reykjavík: LIBERI-BORÐI af upphlut, sama munstur og sýnt er á borða framan á treyju á konu í hversdagsbúníngi í ferðabók Eggerts Ólafssonar.

778. 8/7 70. Guðrún Grímsdóttir húsfreyja í Reykjavík: TRAFAKEFLI; það er allt skorið með laufaviðar-strengjum utan á brúnunum og eptir miðjunni í

---

[1]) Sbr. „Ofsjónir við jarðarför Lovísu drottníngar 1752" í kvæðabók Eggerts, 108. bls.

býzönskum stíl, líkt og Nr. 433. Á randirnar er skorið með höfðaletri: *Ragneiður*, *gisla*, *dótter*[1], *á*, *kieflið*, *með*, *riettv*, *en*, *eingin*, *avnnvr*, *hvor*, *sem*, [það. bannar].

779. $^{13}/_{7}$ 70. Húsfrú Hólmfríður Þorvaldsdóttir í Reykjavík: Svartur KVENNKRAGI vandaður, settur með svörtum perlum (sjá Nr. 694).

780. $^{18}/_{7}$ 70. Jón Ólafsson ritstjóri í Reykjavík: Nokkur PAPPÍRSBLÖÐ með „málrúnadeilum", nokkur rúnastafróf, „nokkur brögð þeirra gömlu kuklara", um náttúrusteina og fugla &ç.

781. $^{30}/_{7}$ 70. Keyptur gripur: Þrír SVUNTUHNAPPAR gylltir úr silfri, með mjög einföldu og einkennilegu víravirki kornsettu, gerðir í líkum stíl og Nr. 706 og Nr. 756, og munu því vera frá 17. öld. Þeir fundust í tóptunum af forna Stóra-Hofi á Rángárvöllum; eptir því hljóta hnapparnir að vera frá því tímabili, áður en bærinn var færður, sem sagt er að muni hafa verið um 1715 (?); sbr. jarðabók frá 1711; þar segir, að jörðin liggi (þá) „undir stórspjöllum, jafnvel eyðileggíngu . . . túninu hefir sandfok stórlega grandað, og helmíng af því, að menn meina, tekið um næstu 20 ár, spillir það mikið líka húsum og heyjum, og jafnvel mjólk í húsum í stórviðrum". Menn geta af þessu nokkuð sèð aldur á þessu verki.

782. $^{11}/_{8}$ 70. Ari Jónsson, bóndi á Víðigerði í Eyjafirði: Partur af STOÐ úr HRAFNAGILS-SKÁLANUM. Það er að eins lítill flèttíngur mjög skemdur, og sèst að eins lítið af skurðinum, því stoðinni hefir verið flett eptir miðju að endilaungu. En svo mikið sèr maður þó, að rósirnar á þessari stoð hafa verið miklu lakari, en á stoðunum frá Laufási og Mælifelli, sem áður er getið um; en sumar kunna að hafa verið miklu betri(?), og

---

[1]) Ragnheiður Gísladóttir hèt systir Magnúsar amtmanns; hún var húsfreyja í Stafholti um 1710.

gamlar eru þær; er það því skaði, að Eyfirðíngar skuli ekki hafa reynt til að vernda neina af þeim fyrir eyðileggíngu; því þær eru líklega enn til, ef vel er leitað. Stoðin hefir verið, eins og eg áður hefi getið um, ávöl að framan og með $2^1/_4$ þuml. breiðum, óskornum bekk yzt á röndunum. Hún virðist að hafa verið 10 þuml. til hálf alin á breidd, eins og aðrar stoðir, sem voru í þeim skála, sem eg hefi sèð og mælt (þær sömu eru nú ekki lengur til). Stoðin virðist hafa verið slètt á bakatil og hèrumbil 6 þuml. á þykkt; þilgrópið sèst í röndina, eins og vottar fyrir á Laufás-stoðunum. þessi stoð hefir öll verið skorin með þèttum hríngrósum, gerðum í býzönskum stíl(?), eptir því sem sjáanlegt er af skurðinum.

783a. S. d. Björn Halldórsson, prófastur í Laufási: ÞVERFJÖL af efri hluta af framhlið á skáp, öll haglega útskorin með hríngrósum og blómum, til beggja hliða eru hlaupandi hirtir, en í miðjunni að ofan er engils mynd með *I. H. S.* fyrir neðan, innan í blómhríng.

783b. S. d. Sami: Önnur hurðin af sama skáp, því hann hefir verið með vængjahurð, líka skorinni með blómum; að ofan er skorið með latínuletri: *Thorarin. Einarson*. þar fyrir neðan er stjarna, með krossi í miðju og ártalið 1699. þar fyrir neðan er myndaður Kristur að ríða inn til Jerusalem, og tveir menn, sem halda á klæðum og greinum, og annar á bolöxi; þar fyrir ofan er skorið á eikarstofn með latínuletri: *hos. an̄. sini. dav.* (= Hosianna syni Davíðs). þar fyrir neðan er dregið saman *T* og *E* (= þórarinn Einarsson) með hjarta, og akkeri fyrir neðan, og tveimur nautshöfðum.

784. S. d. Halldór Bjarnarson, prófastur á Sauðanesi: Stór SKÁPUR, að framan allur spónlagður (fineraður) með furu og eikarspæni, sem er lagður í rósir; á honum eru og þrjár sívalar eikarsúlur, allar út-

skornar með rósum, sem hafa allar verið með útskornum höfðum í líking af korintiskum stíl.

785. 11/8 70. Ólafur Ólafsson bóndi á Stórhóli (Espihóli): DYRA-SKÚRFJÖL(?), heldur en fjöl, sem hefir verið efst á tjölduðu pílárarúmi(?) að framan, hún er tæpar 3 álnir á lengd og skorin í Rococo-stíl. Á miðjunni er skorinn maður, sem ekur í kerru með akneyti fyrir; á nautinu er eins og hríng-ok og sèst eitt reipi(?) eða skökull(?) aptur með hliðinni á því, sem gengur aptur í kerruna. Til hliðar við manninn sèst kirkja með turni; maðurinn ber á höfði uppmjófan hatt, barðastóran, með tveim fjöðrum, lángt hár og leirpípu í munni, allt með 17. aldar lagi.

786. S. d. Páll Magnússon bóndi á Kjarna: TRAFAKEFLI með drekahöfði á öðrum enda; á það er skorið með blendíng af latínuletri og rúnaletri: *ingebiörg, halls, dótter ann. 1751.* Á það er og skorið með höfðaletri:

SV S(e)M KIEFLINN EIGNAST Á
ÆRV FÁE OG SÓMA,
EINGENN Þ(v)INGE EIMDINN HA
EIV (=eyju) r(?)INAR LIÓMA. INGEB, A. M.

787. S. d. Sami: TRAFAKEFLI skorið með snúníngum, og drekahöfði á öðrum enda, og fángamarki: *G. M. D. A. C*[1].

788. S. d. Keyptur gripur: RÓÐUKROSS EMALERAÐUR frá Draflastöðum, úr eik, allur lagður að ofan með gylltum kopar, gröfnum mest með fjögra og átta

---

[1]) Hinn sami maður gaf og tvö trafakefli skorin og eitt sívalt, ekki gömul. Einn af foríngjunum á Fyllu, sem opt hefir flutt fornmenjar fyrir oss ókeypis, mældist til að fá 1—2 af þeim, ef við hefðum mörg af þeim, og fundum vèr ei ástæðu til annars, en að láta greiða koma greiða á mót, og fèkk hann því þessi þrjú kefli.

blaða rósum, og sjást holur í koparinn eptir 34 smáa og stóra steina, sem hafa verið greyptir inn í hann og sem hafa verið viljandi teknir burt; upprunalega hafa þeir verið alls 47 að minnsta kosti. Kristsmyndin er úr kopar, gyllt, dúkurinn, sem tekur frá miðju ofan á knè, er emaleraður með bláu og hvítu, þannig, að fellíngarnar á klæðinu myndast af bláa litnum; fæturnir liggja samhliða (en eigi krosslagðir) eins og optast er títt á elztu krossmörkum eða róðukrossum. Um höfuðið er regluleg kóróna með tveim liljum til hliðanna, en kross yfir miðju enninu, sem geislastafur gengur niður frá ofan að enninu; inn í augun er greyptur blár og rauður steinn, þeir virðast að vera harðir; yfirskriptin er með latínustöfum: *Ih S*, og aptur þar fyrir neðan *IHS* öfugt, emalerað með bláu. Vinstra megin á þverálmunni krossins er mynd af helgri konu, hún er berhöfðuð með möttul, sem er emaleraður með bláu, og í kyrtli, sem er með hálfermum, og er ber framhandleggurinn og hálsmálið virðist að vera ferhyrnt. Kyrtillinn er emaleraður með grænu[1]. Á hverju hún heldur í hendinni, er

[1]) Samskonar kyrtil, með framvíðum hálfermum eða „skautermum", eins og hèr er sýndur á þessari helgu mey, báru konur hèr á landi á 13. og 14. öld, og jafnvel fyr, sem bæði sèst af sögum og myndum (sjá Nr. 680), og miklar líkur eru fyrir, að konur hafi borið þesskonar kyrtla (þó samhliða öðrum kyrtlum) á 15. öld eða jafnvel fram á 16. öld? — Það lítur svo út, sem konur hafi haft beran framhandlegg og kyrtil með hálfermum fyrir brúðar-búníng, þegar kvæðið „Hugsjón" var ort, því annars væri varla svo til orða tekið að segja, að brúðguminn lagði trúlofunarhrínginn (= armhríng) umkríng hennar ljósa arm, ɔ: beran arminn.

„Brullaupsklæði hann brúði gaf,
og bað hana vel að geyma,
sætur stóð þar ilmur af,
innsigli mitt líka haf
og mundu mig á meðan eg dvel heima.

eigi hægt að lýsa, það er aflángur ferhyrníngur með stóru skarði í annað neðra hornið. Myndina á hina þverálmuna vantar. Að ofanverðu á krossinum er mynd

Djásnið herlegt höfuðið á
hennar setja gjörði,
leipturs af því ljósi brá,
lista vænn var gripur sá,
óríkur má enginn kaupa verði[1].

Trúlofunar trygða hríng
tærði hann sinni brúði,
á ljósan arm og lagði um kríng,
líka var það stoltar þíng,
og kostulegastur kvennmanns allur skrúði".

Höfundur þessa kvæðis er mér ókunnur, og nær það er ort, en lagið er katólskt, sbr.

„Bið eg María bjargi mér
burt úr öllum nauðum".

sbr. það sem stendur í gamalli þulu, sem varla er ýngri en frá 15. öld, þegar maður íhugar þá búnínga, sem í henni eru nefndir:

„Eg vildi eg ætti
góðan [ætti eg gjarðajór][2],
sessuna búna
og söðulinn þarmeð.
beizli og brjóstgjörð,
(á)breiðuna væna,
kirtilinn rauðan
og kápuna brúna,
geðslegan borða
og gull undir ermum;

---

[1]) sjá Nr. 800 hér á eptir.

[2]) Þessi hendíng er eitthvað skökk, þar ætti að vera: „góðan, fráan gjarða mar", eða því um líkt.
[Sumir hafa svo upphafið:
„Eg vilda eg ætti mér
góðan hest að ríða,
sessuna saumaða,
söðulinn gylltan" o. s. frv. *J. S.*]

af karlmanni, sem höfuðið er brotið af, hann er og í kyrtli hálfermuðum, emaleruðum með grænu og í möttli, emaleruðum með bláu. Í hægri hendi heldur hann á einhverju, sem er líkast í laginu laungum þríhyrníngi.

Að neðanverðu hefir verið alveg eins mynd, karlmanns mynd í sama búníngi; á henni er höfuðið heilt, hann hefir lángt hár, klofið í miðju, og snöggt skegg. Sú mynd hefir síðar verið sett á hægri álmuna á krossinum. Neðan á krossinn vantar töluvert, svo eigi er hægt að sjá, hvort krossinn hefir heldur verið gerður til að hánga, eða hann hefir verið með undirstöðu (stètt), gerður til að standa á altari, eða með laungu handfángi niður af, eins og tíðkaðist á krossum þeim, sem voru bornir í processíum og fyrir líkum, „upphafkrossar" (upphaldskrossar?) og „líkakrossar". Eg ætla samt helzt hann sè af altari, af því hvað hann er skrautlegur. Hann er af líkri gerð og Nr. 396 og 397 í bók eptir *J. J. A.*

---

Skrautið og skartið
skýli það henni;
breitt var það belti,
brá hún því um sig;
settleg og siðleg
kunni hún að ríða
falda grundin fríða,
fást mun hennar blíða,
og við skulum ríða
til tíða".

Hèr er miðað til þeirra framvíðu hálferma, því gull-armhríngurinn gat vel sèzt þó hann væri að nokkru leyti undir þeim, en aptur á móti var tilgángslítið að óska sèr að eiga gull undir laungum og framþraungum ermum, því það sást ekki, og konur munu sjaldan hafa borið armhrínga undir þeim; en aptur á móti höfðu konur „stúkur", eða þraungvar lausa-ermar fram undan þeim víðu, sem þær drógu yfir beran framhandlegginn (og sjálfsagt um leið yfir armhrínginn) ef kalt var veður.

*Worsaae: „Det kongelige Museum for nordiske Oldsager i Kjöbenhavn, 1854"*. Eg ætla, að hann sè eigi ýngri en frá 13. öld[1].

789. $^{11}/_{8}$ 70. Björn Halldórsson prófastur í Laufási: Stórt GRAFLETURSPJALD yfir Stefán Einarsson prest á Múnkaþverá, skorið úr trè. Á það eru skornir fjórir guðspjallamennirnir í hvert horn, og með latínuletri: *„Jesu Redemptori sacrum hoc monumentum condit corpus humo mandatum admodum reverendi ac doc. Dñi Stephani Enari filii Ecclesiarum Munkathveraar Grund Mödruvall: primum deinde Löifausensis, per 24 annos pastoris pientissimi ac districtus Thingoensis per sexennium praepositi vigilantissimi. Qvi natus est anno X$^{ti}$ 1701 pie autem ac placide denatus. D: J. november J. 1755 aetatis V. 55 nondum ad finem producto conjugii qvi dum in vivis erat docuit qvod decuit qvod dixit fecit nunc caelestem edoctus sapientiam resurrectionem carnis ad aeternam vitam terrenae ipsius reliqviae ad vocem filii dei hic praestolan(t)ur"*.

790. S. d. Jón Halldórsson hreppstjóri á Bjarnarstöðum í Bárðardal: Stórt TVÍEGGJAÐ SVERÐ (eða korði), það er 1 al. 15$^{1}/_{2}$ þuml. á lengd brandurinn upp að hjöltum, en 1 þuml. $^{1}/_{4}$ á breidd uppvið hjöltin; fram eptir miðjum brandinum er mjó laut; hjöltin eru mjó og þunn, með gröfnum spöðum á endunum. Utan um hendina er stór handbjörg, samsett af hèrumbil 13 spaungum, 2 af þeim eru brotnar burt, á spengurnar eru grafin tvö mannshöfuð og ymsar rósir, flestar með

---

[1]) í máldögum frá 14. öld er víða talað um smelta krossa, og eins um krossa með líkneskjum á, 3—5 en ei fleiri það eg man; þeir voru 3—5 við flestar kirkjur, eða 1 á hverju altari. Þó kemur fyrir, að þeir voru 4 á einu altari. Ölturin voru tíðast 3 í hverri kirkju, og 5 í klaustur- og dómkirkjunum, eða jafnvel fleiri.

ferhyrndu og þríhyrndu lagi; að aptan er stór hnappur úr járni, sívalur og apturmjór. Meðalkaflinn er víst nýlega settur á. þess kyns sverð höfðu menn mjög í óeirðunum við siðaskiptin 1550, helzt heldri menn, og mun þetta sverð vera frá þeim tíma, en varla eldra. það fannst fyrir 29—30 árum í svonefndu „Suðurárbrauni", sem er áfast við Ódáðahraun og einn ángi af því, en hver það fann, veit eg ekki.

791. S. d. Jón Sigurðsson á Gautlöndum, alþíngismaður: Tvö JÁRN-ÍSTÖÐ, snúin og með járnsviptum, einkennileg.

792. 15/8 70. Keyptur gripur: SVUNTUHNAPPUR úr silfri, gylltur, hálfur sléttur en hálfur með víravirki, gerður í sama stíl og Nr. 706; á laufið er grafið *H.h.D.*

793. S. d. Keyptur gripur: SKÚFHÓLKUR úr silfri, hann vantar eina línu á þumlúng á lengd; hann er rendur með hjöltum.

794. S. d. Keyptur gripur: HNAPPUR gylltur úr silfri, lítill og flatbotnaður með stimplaðri grind að ofan; líklegt er, að hann hafi upprunalega verið í skarðhúfukolli, vegna lagsins, sem á honum er.

795. S. d. Keyptur gripur: HÖFUÐBAND (koffur), samsett af 14 gylltum flötum víravirkis-hnöppum með gröfnu laufi, undir hverjum hnapp er slétt plata með einsog hnappfót, til að festa hnappana á bandið, sem var undir þeim. það er einmitt þess kyns höfuðband, sem brúðurin hefir, sem er mynduð í ferðabók Eggerts Ólafssonar, Tab. V, þar sjást 10 hnappar framan á höfuðbandinu, allir með einu laufi, og munu þess kyns höfuðbönd með hnöppum hafa þá verið alltíð 1750—60 og nokkuð þar eptir.

796. S. d. Keyptur gripur: BELTISSPENNUR gylltar úr silfri með víravirki, alveg með sama verki og eins gröfnum laufum, en betur smíðaðar. Höfuðbandið var síðast haft fyrir belti, og eiga þessar spennur síðar

að hafa verið gerðar við það, til þess það yrði haft fyrir belti; þær virðast að vera töluvert ýngri.

797. 15/8 70. Keyptur gripur: Hálf BELTISSPENNA úr silfri, gyllt, með líku víravirki og tvö Nr. hin næstu hèr á undan.

798. 30/8 70. Keyptur gripur: HNAPPSKEIÐ úr silfri, með krákustíg ofan á skaptinu og gröfnum efra hluta blaðsins.

799. 27/8 70. Ýngisstúlka Hólmfríður Þorvaldsdóttir í Reykjavík: Stór LÁTÚNSHNAPPUR grafinn, hefir sumstaðar verið gylltur, en sumstaðar silfraður; hann er lauflaus; hann fannst í jörð á Meðalfelli í Kjós.

800. 00/0 70. Keyptur gripur: KROSS-SAUMS-ÁBREIÐA; hún er með gulum grunni, að ofanverðu eru margir smáhríngar með örn, hirti og dúfum innan í. Á þeim endanum, sem snýr að fótagaflinum, eru og margir hríngar með rósum, örn, dúfum og ljóni innan í; til hliðanna eru þrísettir laufaviðar-bekkir, mestmegnis gjörðir í býzönskum stíl; til beggja hliða eru og þrír hálfir áttbyrníngar með hjörtum innan í, sem standa upp við hríslur, gerðar í sama stíl. Ínnan í miðjunni eru 6 áttbyrníngar með þrennskonar manna myndum innan í, og eru tvisvar þær sömu. Innan i einum áttbyrníngnum er myndaður maður, sem situr á stóli með háfum stólbrúðum, fyrir framan hann er borð með sex fótum og dúk á. Hann hefir húfu eða hatt á höfði, uppmjófan með litlu barði, með líku lagi og á sumum riddurunum á stólnum Nr. 443. Hann hefir klofið skegg, og er í einhneptri treyju eða stakk, ermalausum(?), því ermarnar eru rauðar, en stakkurinn grænn; samt er litina lítið að marka, því hestarnir eru bæði rauðir og grænir og bláir. Þar utan yfir ber hann spánska kápu með kraga, bláa að lit. Þar fyrir neðan í næsta áttbyrníng er maður sitjandi á hesti; hann er í stuttri treyju grænni að lit einhneptri, sem nær nokkuð niður fyrir

mittið, og slær sèr þar út, ermarnar eru uppvíðar og rauðar að lit[1]. Hann hefir mjög víðar brækur, sem að

---

[1]) Það getur verið, að hèr sè sýnd einskonar ermalaus vesti, sem hètu „treyjur", og sem tíðkuðust á fyrra hluta 17. aldar, áður en frönsku síðkjólarnir komu upp (og líklega síðari hluta 16. aldar), sem bæði Björn á Skarðsá getur um sem „þriðja klæði", og eins Páll Vídalín: Fornyrði Lögb. 555 og 35—36. Þær lögðust af um 1670, en komu upp aptur líkar 1680—90, en hètu þá útlendu nafni „vesti". Orsökin til þess, að þessi ermalausu klæði hètu treyjur, er sú, að allar ermalausar kyrtils-tegundir allt frá 11. öld til 1670 hètu treyjur. Undir þessum ermalausu treyjum báru menn opt hèr á landi á 17. öld rauðar peisur, og sáust rauðar ermarnar út undan, líkt og sýnt er á þessari mynd; þær virðast opt að hafa verið reimaðar saman á brjóstinu, sbr. „eitt kvæði, hvernig ýngismenn hrósa sèr fyrir stúlkum":

„Tinhnapparnir treyju hrósa,
tapa þeir aldrei litnum ljósa,
undir peisa rauð sem rósa
reimar gegnum stinga.
*þvi kom eg hingað.*
ullar skyrta, ef allt skal glósa,
sú aldrei lætur falla á sig.
*heiðurs víf, hvernig líst þèr á mig*".

sbr. kvæði, eignað síra Steffáni Ólafssyni i Vallanesi 1640—1688 (Ljóðmæli bls. 34—46):

„Af þessu mengi
vill þegn ei lengi
sèr þèna brauð,
svo verk ei sprengi
sig gipta gengur
í grönnum auð,
með kjól og hengi (ɔ: sverðfetill)
sem bringan bauð,
i buxurnar strengist
peisan rauð".

eins ná niður að hnè („stuttvíðar"), sokka og uppháfa skó á fótum; hann hefir hatt á höfði með fjöðrum vinstra megin og með barði, sem er uppbrett allt í kríng, hattbandið er skrautlegt. Hann heldur á atgeir í vinstri hendi; á hestinum er beizli með snoppu-ól og staungum, og tvöföldum taumum(?). Á reiðanum er stór bóla með tveimur breiðum spælum út frá á hvorja hlið. Á eptir manninum flýgur haukur; ofan við vinstri öxl mannsins er eins og hjarta, með eins og krossi upp úr, sem mun eiga að tákna ást og trú? — Í næsta áttbyrníng þar fyrir neðan er og maður á hestbaki, hann hefir hatt eða húfu á höfði með fjöðrum, og skrautlegu tvílitu bandi um að neðan. Hann hefir síðan einhneptan stakk eða kápu, sem er ermalaus og með víðum handvegum[1], sokka og uppháfa skó á fótum; beizlið er eins og á hinum, en með einföldum taumum. Við söðulinn er brjóstgjörð, með þremur skúfum niður úr á hvorja hlið; reiðinn er með stórri bólu á ólinni, sem gengur aptur eptir miðri lendinni; auk þessarar ólar, þá gengur ein ól neðarlega úr söðulboganum og aptur fyrir lær hestsins, og svo í söðulbogann hinum megin. Þessar ólar sameinast og haldast uppi af 5 þverólum, sem gánga yfir þvera lendina, og sem enda allar í doppum eða skúfum, sem lafa lengst ofan á lær hestinum. Maðurinn heldur á öxi snaghyrndri í vinstri hendi, bak við hana sèst stjarna, og leggur með krókum útúr í líkíng af akkeri,

---

Nær orðið „treyja" hefir skipt um merkíng hèr á landi er enn óvíst; getið er um kvenntreyju (sem ætíð munu hafa verið með ermum) í þulu frá dögum Brynjólfs biskups († 1674) sjá Nr. 759.

[1]) Þessir stakkar sjást alveg eins á öðrum myndum frá 16. öld, og með víðum handvegum, og leggjast barmarnir útá, einkum að ofan; engin belti eru girt utan að þeim. Hvað þessar yfirhafnir hafa þá heitið, er mèr ekki ljóst.

hjarta með akkeriskrossi uppúr, og dúfu, sem mun eiga að tákna von, trú, stöðuga ást og sakleysi. þessi sami hestbúnaður, sem sèst á þessum myndum, er og sýndur á fleirum íslenzkum myndum frá 16. öld; hann tíðkaðist hèrumbil eins á 15., 14. og 13. öld hèr og í Norvegi, nema hvað ólin var opt ein þvert yfir hestlendina á 13. og 14. öld, ístaðinn fyrir að þær eru hèr fimm. Beri maður saman búníngana á þessari ábreiðu við búníngana á stólnum Nr. 443, þá sèr maður, að hvorttveggja er hèrumbil frá sama tíma; samt mun ábreiðan vera heldur ýngri. Hattarnir og húfurnar eru sýndar með snúnum og marglitum viðhafnarböndum, eða settum með silfurbúnaði, sem líka sèst á fleirum myndum og í kvæðum frá því tímabili, sbr. „Kvæði útaf einum tilburð", kveðið af síra Ólafi Jónssyni á Söndum, 1696—1627, 10. vísu, það er um barn, sem fæddist vanskapað:

„Kríngum þess höfuð sèrhver sá
sett með tindum, það líkjast má
við hofmóð og hattbönd manna,
veldur því dramb, sem veikir þá,
vols það hlýtur guð banna.

þetta lítur bæði til karlmanns-hattbandanna og djásnanna, sem konur báru á 16. og 17. öld, með tindum eða oddum upp úr[1], sjá Nr. 402 hèr á undan. Treyjurnar

---

[1]) sjá vísu úr „Hugsjón" um djásn við Nr. 788.

Að djásnin hafi verið algeng á heldri konum á 16. öld sèst ennfremur af brèfum. Kristín, dóttir Gottskálks biskups grimma, fèkk í bekkjargjöf djásn gyllt af silfri, er vóg 4 merkur, er hún giptist Þorvarði lögmanni hèrumbil 1508.

Á kertastiku á Grenjaðarstað eru grafin tvö merki á skildinum; á efra merkinu er biskupsmítur og tveir lyklar lagðir í kross, hjálm-merkið er heill björn, og tvö vísundarhorn, utan við merkið eru stafirnir *H. G. T. S.* (ɔ: herra, Gísli, Thorláks, son); — á neðra merkið er grafið djásn með sex laufum uppúr að framan, það er breiðast að framan en

eru hèrumbil eins og sjást á fleirum myndum frá 16. öld, sem eru öldúngis samsvarandi. Brækurnar eru og eins, nema á þessari ábreiðu sjást engir geirar skornir úr brókunum á lærunum allt í kríng, eins og á stólnum. Aptur á móti sèst það á öðrum myndum frá 16. öld, sem sýna berlega, að það hefir þá verið siður hèr á landi; en sumar af þeim myndum eru líka með óútskornum brókum á lærunum, eins og á þessari ábreiðu[1]. Þessi siður hefir haldizt að eins með litlum breytíngum fram undir 1640[2], og mèr virðist það vera sami búníngur, sem Hallgrímur Pètursson lýsir í Oflátúngakvæði, þar sem hann segir:

---

mjókkar aptur; ofaná því stendur einhyrníngur. Neðan við djásnið eru stafirnir *R. J. D.* (ɔ: Ragnheiður Jónsdóttir, frú Gísla biskups), og er djásnið hèr látið samsvara hjálminum með hjálmmerkinu yfir hans skjaldarmerki; sbr. Kötludraum 25. vísu:

„Mig bað hún Alvör,
að eg eiga skyldi
hnossir slíkar,
ef eg hafa girntist:
hrínginn rauða
og höfuðgull mikið,
fíngurgull fjögur
og fagran linda".

Einnig í Háttalykli Lopts ríka (frá 1410—20):

„grannur vöxtur, gullverpt enni á henni,
gult hár línar hrygðar fári sáru,
sólbjört augu svala kælu báli
á snotri reikar eik, hún er mín leika".

Orðið djásn er líklega komið af gríska orðinu *diadema.*

[1]) Á tveimur myndunum á stólnum eru að eins skornar 6—7 rákir niður eptir brókunum allt í kríng, það mun eiga að tákna borða, sem opt var haft á spánskum brókum í staðinn fyrir geirana.

[2]) sbr. mynd af Daða bónda Bjarnasyni á Skarði † 1643.

„Ber á höndum breytta hanzka,
buxur fernar klæddur á,
með knappatreyju og kjólinn franska,
klæðin trú' eg hyli sá,
sèst um hálsinn silkið danska
svarðar Heimdals lagður der.
*margur heldur mikið af sèr*"[1].

„Fernar buxur" get eg ekki skilið á annan hátt, en að fyrst sè taldar nærbrækur, síðan þraungar leistabrækur þar utan yfir, sem voru með áföstum sokkunum við, og sem heyrðu til spánska búníngnum; síðan stuttar og víðar lín- eða silki-brækur, sem náðu ofan undir knè, og allra yzt þær svörtu eða dökku spánsku brækur, með útskornum geirum allt í kríng á lærinu, sem þær hvítu stuttu lín- eða silkibrækur fylltu út í, og sem sáust í gegnum geirana, sem skornir voru úr þeim (fjórðu). Eg get eigi betur sèð, en að knappatreyjurnar[2], sem Hallgrímur talar hèr um, sè einmitt þær fyr umgetnu spánsku, eða ef til vill rèttara sagt hollenzku treyjur, sem voru opt, auk þess að þær voru einhnepptar á brjóstinu, með smáum hnapparöðum framan á endilaungum ermunum; því í olbogabótinni var opt skorinn úr þeim stór geiri, og skein þar í hvítt lín, sem mun hafa mátt hneppa saman með þessum hnöppum til

---

[1]) sbr. kvæðið Ýngismanna hrósun:

„þrennar buxur þar fyrir neðan,
þegiðu frá eg segi á meðan,
allt frá mitti og ofan hèðan
undir hverjum pýngja.
*því kom eg híngað.*
hefi eg búning hvergi lèðan,
hirði' eg ekki að dára þig.
*heiðursvífið, hvernig líst þèr á mig?*"

[2]) í útgáfunum er „knappa" og „treyju" skilið sundur, sem mèr finnst þó ólíklegt að sè rètt.

hlífðar línunu. Af þessum óþarfahnöppum munu þessar treyjur hafa fengið nafn, líkt og „hnappahjúpur" um og eptir 1700[1], og „h n a p p a f r a k k a r n i r" kvennfólksins um 1830. Lagði hatturinn eða d e r, sem Hallgrímur talar [illegible]um, mun og vera þeir fyr umgetnu hattar með skrautbó[illegible]um, eða þá hattar með borðalögðum röndum á börðunum [illegible] kríng. Þannig hefir maður aðalkarlmanns-búníngana frá [illegible]öld, saumaða, skorna og dregna á skinn.

801. 31/8 70. H a r a l d u r Ó l a f s s o n [illegible] bóndi á Rannveigarstöðum: HORN-ÍSTÖÐ; á þau er grafið [illegible] mark með höfðaletri, illt aflestrar.

802. 1/9 70. S i g u r ð u r G u n n a r s s o n, prófastur á Hallormstað: TANNDÓSIR gamlar, sem skorin er á mannsmynd.

803. 16/9 70. J ó h a n n B r i e m, prófastur í Hruna: Lítil GULLSYLGJA, vegur móti 5 Rdl. Hún er úr bezta gulli, nema þornið er úr lakara gulli, enda virðist það að vera ýngra. Sylgjan er 5/6 þuml. þvert yfir, og er samsett af tveimur drekum með vængjum, sem snúa saman höfðunum að ásnum, sem þornið leikur á, en hins vegar vinda þeir saman sporðana, sem enda með höggormshausum; eptir miðjum hryggnum á drekunum milli vængjanna er röð af eins og krínglóttum kornum; bæði í augunum á drekunum og eins á ormunum eru inngreiptir svartir steinar harðir, svo litlir, að þeir sjást naumast með beru auga; þeir eru eptir fjórir, en 4 eru dottnir burt. Eg hygg, að þessi sylgja muni vera frá 13.

---

[1]) ɔ: Franski kjóllinn eða rokkurinn með mörgu óþarfahnöppunum á brjóstinu, vasalokunum og uppslögunum; sbr. Viðurstygð drambseminnar eptir síra Þorlák Þórarinsson:

„gapandi h n a p p a h j ú p u r
hrjóstugu þènar brjósti".

sbr. vísu úr „Stúdenta-spegli" við Nr. 369, frá 1747—1753 (eða frá dögum Ólafs biskups Gíslasonar).

öld, eða eldri, þegar maður ber hana saman við myndina á „Bestiarius" bls. xij og fleira. Þessi sylgja var til lengi í eigu lángfeðga í Skipholti í Hrunamannahrepp.

804. S. d. Keyptur gripur: GULLHRÍNGUR þríbrotinn, sem má þrengja og víðka eptir vild: ...an í hann er grafið með latínuletri: *Hald...*, *jóns. dótter*; ... verið var að stækka hann fannst í jörð á sama h... maturtagarð.

805. 26/... Úngfrú Hólmfríður Björnsdóttir í R...vík: HNÍFAPÖR með sköptum úr beini, rendum; gaffallinn er tvíoddaður.

806. 30/9 70. Þorvarður Kjerulf frá Melum í Norðurmúlasýslu, skólapiltur: Lítið HEINARBRÝNI með gati í endann.

807. 1/10 70. Guðbrandur Sturlaugsson, bóndi í Hvítadal: HRÍNGUR úr prinsmetal og grafið á innsigli *A. I. S.*

808. 6/10 70. Baldvin Jónsson á Stóruvöllum í Bárðardal: STÍLL úr bronzi(?) eða nál, mjög líkur að stærð og gerð og Nr. 736, nema þessi er reglulega ferstrendur að framan upp til miðs, og eru tvö strik á hverri hlið. Að ofan er eins og ferstrendur húnn, sem hríngurinn er settur í gegnum; hann fannst í sama dysi og Nr. 740 og 741 o. s. frv., sem allt bendir á að hafi verið fornt húsfreyjudys; þess vegna mun þetta vera brauðstíll, því hann hefði naumast verið hafður ferstrendur, hefði hann verið ætlaður til að næla saman með klæði, enda virðist hann of digur til þess og of lángur (sjá Nr. 736). Báðir þessir stílar virðast að hafa verið um 5 þuml. á lengd upprunalega. Maður hefði getað ímyndað sèr, að þetta hefði verið hárnálar, ef nokkrar líkur væri fyrir, að konur á Íslandi hefði haft þær.

809. S. d. Sami: Forn GJARÐAHRÍNGJA úr járni; hún er 1½ þuml. á breidd að innanmáli, og hefir hófhríngjulag; endarnir á þornásnum eru lángir, og eru

þeir beggja vegna brettir upp í hríng (*spiral*). þessi hríngja fannst í hestadysinu, sjá Kálfborgarár fundinn Nr. 739—744.

810. 9/10 70. Jón Ólafsson ritstjóri í Reykjavík: PAPPÍRSHANDRIT af JÓNS LAGABÓK.

811. 10/10 70. Helgi Sigurðsson, prestur á Setbergi: BELTISSTOKKUR úr kopar með gegnumhöggnu verki.

812. 31/10 70. Eyjólfur Oddsson gullsmiður í Reykjavík: Lítið BRÝNI með gati í endann og á tinhnappsmót, sem var á því, er það fannst.

813. S. d. Sami: SKRÁARLAUF af gömlu altari, úr kopar, með rósum í byzönskum stíl, hefir samt ekki upprunalega verið skráarlauf, heldur verið búið til úr öðrum grip.

814. S. d. Sami: Tveir samkynja BRÓKARHALDSHNAPPAR úr kopar, grafnir.

815. S. d. Sami: Einn HNAPPUR úr kopar, einkennilegur.

816. 20/11 70. Keyptur gripur: Tólf SILFURMYLNUR steyptar.

817. S. d. Keyptur gripur: Eitt stórt HEMPUPAR úr silfri, með mannsmynd á, gert í Renaissancestíl, og snúa krókarnir út, eins og á mynd Sesselju, sjá Nr. 708; mun því þetta par vera frá 17. öld.

818. S. d. Keyptur gripur: Tvær steyptar MYLNUR úr silfri þríblaðaðar.

819. S. d. Keyptur gripur: Ein MYLNA úr silfri, steypt, með vel gjörðum gotneskum blöðum á, og mun því vera að minnsta kosti frá miðri 17. öld, eða frá því að menn fóru hèr fyrst að hafa upphluti með mylnum.

820. S. d. Keyptur gripur: Lítill SKÚFHÓLKUR, grafinn í líking af borða; hann er 5/6 úr þumlúngi á lengd, eða tæpur þriðjúngur af þeirri lengd, sem nú er á skúfhólkum; þeir eru opt yfir hálfan þriðja þumlúng á

lengd, en reikni maður digurðina með, þá yrði þessi hólkur að eins tæplega sjötti partur af þeim.

821. $^{20}/_{11}$ 70. **Keyptur** gripur: SKÚFHÓLKUR úr silfri, alveg sléttur, hann er að eins $^{4}/_{6}$ þumlúngs á lengd, eða rúmur fjórði partur af lengd þeirra hólka, sem nú tíðkast; þeir hólkar tíðkuðust mest fram til 1830, og voru enda venjulegir fram yfir 1840. Mèr er spurn: hvort mun vera eðlilegra, að hafa hólkana eins litla, og þeir voru þá, eða eins stóra, og þeir eru nú? — Vili menn vera óhlutdrægir og ekki láta blinda sig af vananum, eða öðru verra, þá mun það rètta vera nálægt mitt á milli, eða $1^{1}/_{4}$ þuml. Eg vil leyfa mèr að vara konur við, að hafa ekki hólkana og skúfana of stóra, nè húfurnar allt of litlar, svo þeim verði ekki brugðið um sama hófleysi, og tíðkaðist með faldana á dögum Guðmundar Bergþórssonar.

822. $^{19}/_{11}$ 70. Frú **Guðlaug Guttormsdóttir** í Reykjavík: Kögur af SPARLAKSBRÚN úr gulu silki, það er úr eigum Guðmundar Pèturssonar í Krossavík, sýslumanns.

823. $^{22}/_{11}$ 70. **Pètur Friðriksson Eggerz**, kaupmaður á Borðeyri: ÞÓRSHAMAR, það er lítill hamar úr bronzi, eða klukkukopar, eins lagaður og annar hamar, með stuttu trèskapti og með munna og skalla, sem bryggja hefir verið á allt í kríng; bryggja þessi er á tvo vegu alveg brotin af, en sèst á tvo vegu. Neðan á skallanum er grafinn galdrastafur með tveim hríngum í miðju, og þar út frá virðast að hafa verið 11 eða 10 álmur í allt, með eins og rúna-*m* á hverjum enda, en á 4—5 álmunum eru tvö þverstrik. Þessi stafur er því einskonar blendíngur af „**ægishjálmi**", sem hefir að eins 8 álmur og 3 þverstrik á hverri álmu, og „**staf til að sjá þjóf**", sem hefir tvo hrínga í miðju og 12 álmur með engum þverstrikum á. Þessir hamrar voru einskonar galdrahamrar, sem menn höfðu til að vita, hver hefði stolið

frá sèr; þeir áttu að vera úr klukkukopar þrístolnum, hertum í mannsblóði á hvítasunnudag milli pistils og guðspjalls. Þessum hömrum átti að fylgja einskonar plata eða steði úr kopar, sem á var grafið manns-auga, sem kallaðist Þórsauga; sumir lètu sèr nægja að draga manns-auga á pappírsblað með blóði sínu, eða þá höfuð með báðum augum; síðan tóku þeir brodd eða nagla, sem og fylgdi þessum hamri (hann átti helzt að vera gerður úr stolnum klukkukopar) og lögðu hann á augað á steðjanum og slógu svo á með hamrinum, svo mælandi:

„Rek eg í augu vígföður,
rek eg í augu valföður,
rek eg í augu Ása-Þórs", o. s. frv.,

átti þá þjófurinn að fá verk í augun, ef hann ekki skilaði aptur því stolna, sjá „Íslenzkar þjóðsögur" I, 445. Þessi hamar er úr Húnavatns sýslu; eg hefi og orðið var við þá í Skagafirði, líka að gerð.

824. S. d. Sami: Stór HALDHNAPPUR úr kopar, grafinn.

825. S. d. Sami: LYKLASYLGJA úr kopar, eins og Nr. 27.

826. S. d. Sami: SIGNET úr kopar; skaptið á því er mannsmynd úr beini.



# VIÐBÆTIR.

## Vefjarvísur

(Um „íslenzka vefstaðinn", sbr. Nr. 771 og víðar eptir handriti í safni Árna Magn. Nr. 615. *G.* í 4to, frá síðara hluta 17du aldar; þar er höfundurinn nefndur „Jón í Nesi").

1. Um varptá þráðrinn vera' á rètt
vafinn í fyrsta hapti,
bak og fyrir bittu slètt
báða' á efsta skapti.

2. Þar næst aðra taktu tvo
tygið kvenna afhald,
bak og fyrir bittu svo
báða í neðsta hafald.

3. Miðskapts jaðar mundu svo
merkiþráður kyr er,
bakþræðina bittu tvo
en bregð um enga í fyrir.

4. Hafaldið sitt á hvorju er
hærra og lægra áður,
athuga þarf, því undan fer
efsta hafalds þráður.

*Um þráðar bót:*

5. Hafðr er sá í hafald neðst,
hángir yfir skilskapt þrætt,
verður, þegar vífið gleðst,
í vinstri hönd, þá upp er bætt.

6. Undir-skilskapt ef þú spyr
að þeim þræði, sprundið mætt,
hann er í efsta hafaldi kyr
hægra megin þá upp er bætt.

7. Mið-hafaldi' og efsta í
yfirfeta finndu þráð,
til vinstri handar verður því;
vefkona fann þetta ráð.

8. Mið-skapt og hið neðsta nú
náir undir fetamót,
hægramegin hegða þú
í hafaldinu þráðarbót.

9. Fitjaðu vefinn fagrt og þètt,
fara skaltu svo að því:
fyrirþræðir falli slètt
fjórir hverja lykkju í.

10. Bakfeta svo bú þú til
breiðan vef ei skarði neitt;
hentugt vaðmál hafa eg vil,
hvorki ofmjótt nè ofbreitt.

11. Skili ráða sköptin öll,
skrjáli hræll við þræði smá,
vinndu nú, svo vefjar spjöll
virðar megi ekki sjá.

12. Vífi úngu vefjarment,
viti þjóðin það til bar,
einni hef' eg svo allvel kennt,
enginn sá mig vinna par.

---

# Króks bragur

[Um vefnað í „íslenzka vefstaðnum". — Eptir tveim handritum, og er annað í safni Bókmentafèlagsins í Kaupmannahöfn 213. 8vo., ritað á Austurlandi af Eiríki Hemíngssyni 1791 (hèr merkt *A*), en annað er kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum IV, 150—152, (hèr merkt *B*); þar er kvæðið eignað Hallgrími Jónssyni Thorlacius, sýslumanni í Múla sýslu (1714 † 1736), en sumir eigna það föður hans, Jóni sýslumanni Þorlákssyni á Berunesi (sjá Nr. 708) sem var sýslumaður í Suður-Múla sýslu 1671 † 1712].

**Viðkvæði:** Vefkonan semur
vaðmálin ný
með sköptunum þremur
og skilfjöl í;
ef að krókur kemur
kvöl er á því.

1. Á það stundum hlýdt eg hef
hvað úr minni ekki skef:
þá konurnar fara' að festa' upp vef
furðu lítt þeim semur
*áðr en krókur kemur.*
verklag það fyrir utan ef
er ei mæðu frí.
*ef að krókur kemur*
*kvöl er á því.*

2. Vefrinn hefir vandann þann,
sem veiga grundin mörg ei kann,
að festa upp í hleinar hann
hver ein ekki nemur
*áðr en krókur kemur.*

athuga hlýtur um það mann
að allt sè skorðum í.
*ef að krókur kemur*
*kvöl er á því.*

3. Fyrst er mikið fjaðra drif
á fljóðunum, og stór umsvif,
að heimta sköptin, bleinar, rif,
og hvað því verki semur.
*áðr en krókur kemur.*
svo ekki komi á bak við bif
bjálki er höggvinn í.
*ef að krókur kemur*
*kvöl er á því.*

4[1] Hrælinn þarf, sem hátt til nær,
og hvalbeins skeið, sem vefinn slær,
skilfjöl líka skaffast fær
og skapt er henni semur.
*áðr en krókur kemur.*
mátuð spjálk og meiðmar tvær,
með þeim haldind ný.
*ef að krókur kemur*
*kvöl er á því.*

5. Hafalda hripill hafast má
hentugr inn í vefjar rá,
heimtast lokuþollar þá
af þeim er smíðar semur.
*áðr en krókur kemur.*
kljágrjótið skal brúga hjá,
sem hengt er neðan í.
*ef að krókur kemur*
*kvöl er á því.*

---

[1]) Þetta erindi hefir ekki *B.*

6. Ef til eru þessi tækin stinn
tvítug slánga borin er inn
og fest við rif í farveg sinn
en fetar kljást af þremur.
*áðr en krókur kemur.*
gildur teygir grjótþúnginn
garnið snurðu-frí.
*ef að krókur kemur*
*kvöl er á því.*

7. Næsta verður nóglegt stjá,
nú skal leggja höfuldin á,
og velja sèrhveru þráðinn þá
er þessu skapti semur.
*áðr en krókur kemur.*
undan falla enginn má
og ei þar riðlast í.
*ef að krókur kemur*
*kvöl er á því.*

8[1]. Vinnan svo að verði fljót
vefnum gánga tvær á mót:
heldur önnur hnoðanu snót,
hin sitt verkið semur
*áðr en krókur kemur.*
iðin heptir yfrið skjót
aðgætíngar frí
*áður krókur kemur*
*og kvölin á því.*

9. Nálgast gleði náms um völl,
nú eru búin sköptin öll,
mælir sèrhver þráða þöll
það mætti' ekki skemur.
*nema' ef krókur kemur.*

---

[1]) Þetta erindi vantar í *A*.

hann er verri' en hamra tröll
hverjum vefnaði' í.
*ef að krókur kemur*
*kvöl er á því.*

10. Sú útlærðari auðar bil
ætlar nú að skoða til,
hvort ekki stæði víst í vil
vefrinn þráða klókur.
*og ei sè kominn krókur.*
þá var ekkert þráða skil
þær þuldu gaupnir í:
*nú er kominn krókur*
*og kvöl er á því.*

11. Önnur sagði: alla sök
áttu' um þessi raung upptök,
þú vart í því starfi stök,
stóðtu eins og hrókur.
*því er kominn krókur.*
aldrei við þig ætla' eg mök
að eiga vefnaði' í.
*nú er kominn krókur*
*kvöl er á því.*

12. Ansar hin: það ekki er satt,
allt eg rètt á sköptin batt,
en þegar á þig þögnin datt
þánkinn varð ei klókur.
*því er kominn krókur.*
þèr hefir sjálfri farið flatt
fyrirgerðum í.
*nú er kominn krókur,*
*kvöl er á því.*

13. Hvert mun vera hentast ráð? —
hringa mælti önnur láð
fyrst mig hefir þessi missjón þjáð,
eða mun hèr engin bókin.
*sem kennir að taka úr krókinn.*
um flesta hluti' er forðum skráð
fræði-kverum í.
*nú er kominn krókur*
*kvöl er á því.*

14. Hafðu' ei svoddan heimsku skraf,
hin kvað byst; en veit eg af
einni nunnu út við haf,
er sú bragða-flókin.
*og kann að taka úr krókinn.*
eg skal heldur kanna kaf
að koma þeirri' í bý.
*sem kennir að taka úr krókinn*
*svo kurt sè á því.*

15[1]. þessi fór að grunnhafs geim
og greinda nunnu sókti heim,
hin tók móti höndum tveim,
heyrði bragða flókin.
*hvað hin kvað um krókinn.*
eg skal vægja vanda þeim
vefgrund mælti frí.
*kann eg að taka úr krókinn*
*og kvíðtu ei því.*

16. Henni fylgdi heim á leið,
hin á meðan grátin beið,
síðan klíðin gjörðist greið
gekk úr allur flóki.
*sem kominn var af króki.*

---

[1]) þetta erindi er ekki í *B*.

þannig enti þeirra neyð
þessum vanda í.
*niðr var kveðinn krókur,*
*þær kættust af því.*

17[1]. Ósætt reis með auðar gnám
útaf þessum hlutum smám,
orsakaði kala kám
kýminn vonzku hrókur.
*sá sem kallast krókur.*
þó var kunnugt þetta þám
þeirra bygðum í.
*þó nú kæmi krókur*
*þær kviðu ei því.*

18. Við þó auka verður meir:
voru á bænum karlar tveir,
sèrhver var sá fífu freyr
í fornum listum klókur.
*þó kominn væri krókur.*
skeyttu lítt um þetta þeir
þagnar fylgsnum í.
*þó kominn væri krókur*
*þeir kættust af því.*

19. Verkum skiptu svo með sèr:
sá hinn eldri mælskur er,
seima skorðir sætta fer,
svo samdist þrætu flóki.
*sem kominn var af króki.*
allvel stóð sá örva grèr
embætti þar í.
*þó nú kæmi krókur*
*þeir kviðu ei því.*

---

[1]) þetta erindi hefir ekki *A*.

20. Heit sitt gjörðu hrínga gnár,
ef heptast mætti þetta fár:
að víkja að þeim venju skár,
til vitnis þess mig tóku.
*burt ef kæmist krókur.*
þeir upp risu þegar í ár
og þenktu' á heitorð ný.
*þó nú kæmi krókur*
*þeir kviðu ei því.*

21. Hinn gekk út og hèlt á bók,
hèr til fengna gáfu tók,
hann átti niðr að kveða krók
svo kæmi ei vondur slókur.
*aldrei aptur krókur.*
þetta gleði þöllum jók
þær svo urðu frí.
*niðr var kveðinn krókur,*
*þær kættust af því.*

22. Halda munu heitorð sín
hvor af þessum bauga lín,
argari verður annars pín
ef aptur gengur klókur
*sá niður kveðni krókur.*
Fjölnis þannig fengur dvín
fljóðunum skemtan ný.
*niðr er kveðinn krókur,*
*þær kvíða ei því.*



